# Saa Evangeliske Catechismus Edur Einfolld Huß- og Reisu-Postilla

Yfer øll Suñudaga og Hatijda Gudspiøll fra Trinitatis til fyrsta Sunnudags i Adventu,

Samaūtekeñ og skrifud
Af
**Mads Peturs Syne Rostok,**
Preste til St. Knuts Kyrkiu i Odense,
Eñ a Islendsku wtløgd
Af
Ehruverdugum og Vel-lærdum Keñemañe
Sr. Petre Einars Syne,
Soknar-Preste til Miklaholts i Snæfells Sijßlu.
Sijdare Partureñ.

Pryckt i Kaupmañahøfn
Af Ernst Henrich Berling, Ao. 1739.



# A Heilagrar Preñingar Dag.

Gudspialled skrifar S. Joh. 13. Cap.

I þañ Tijma, var þar eiñ Madur af Phariseunum Nicodemius ad Nafne, eiñ Høfdinge Gidinga, hañ kom til JEsu a Nattarþele, og sagde til hañs: Rabbi, vier vitum ad þu ert eiñ Lære-fader, komeñ af GUde, þvi eingeñ gietur giørt þau Teikn, sem þu giører, utañ GUd sie med hønum. JEsus svarade og sagde til hañs: Sannlega, sannlega seigi eg þier, þad eingeñ nema hañ, sa ad niju verdur endurfæddur, fær ad sia GUds Rijke. Nicodemus sagde til hañs: Hverniñ maa Madureñ endurfædast, þaa hañ er gamall? Hvørt gietur hañ horfed aptur i siñar Modur Kvid, og fædst so ad Niju? JEsus

us svarade: Sannlega, sannlega seigi eg þier, nema þad, ad einhver verde endurfæddur wt af Vatne og Anda, þaa kan han ecke in ad gaang ga i GUds Rijke. Hvad af Hollde er fædt, þad er Holld. En hvad af Andanum er fædt, þad er Ande. Undrast þu ecke, þo ad eg segda þier, ad ydur byriade ad niju ad endurfædast; Vinduren blæs hvar er han vill, og þu heyrer hans þit, en eigi veist þu, hvadan han kiemur, eda hvert han fer. So og eru aller þeir, sem wt af Andanum eru endurfædder. Nicodemus svarade og sagde til hans: Hverninn maa þetta skie? JEsus svarade hønum og sagde: Ertu einn Meistare i Jsrael, og veitst ecke þetta? Sannlega, sannlega seigi eg þier, ad vier segium þad vier vitum, og vitnum hvad vier sied høfum, og vorn Vitnisburd medtake þier ecke, fyrst þier trwid ecke, þaa eg segi ydur af jardneskum Hlutum, hvørnenn munud þier þaa meiga trwa, ef ad eg segda ydur af himneskum Hlutum? Og eingenn mun uppstijga til Himins, utan saa sem ofan

stie af Himne, Mannsens Sonur, saa sem er a Himne. Og so sem Moyses upphof Hoggormiñ a Eydemørkeñe, lijka so byriar Mannsens Syne upp ad hefiast, so ad aller þeir sem a hañ trwa, fortapest eige, helldur ad þeir hafe eilijft Lijf.

Um hvad talar þetta Gudspiall?

Fyrst; uñ Nicodemi Komu til Christum. Þar nærst; uñ eiñ Part af þvi Samtale, sem CHristur hiellt vid hañ.

Hvad seger Gudspialla-madureñ uñ þad fyrra?

Þar var eiñ Madur af Phariseunum Nicodemus ad Nafne, eiñ Høfdinge Gidinga, hañ kom til JEsu a Nættarþele.

Hverniñ verdur hier gieted Personunnar, er kom til Christum?

Hennar verdur gieted, bæde ad Nafne, sem og ad Embættes Stande og Verdugleika.

Hvad verdur talad uñ hans Nafn?

Hañ verdur nefndur, bæde med einu almennilegu Nafne, ad hañ kallast eiñ Madur, þad er, eiñ gudhræddur Madur, epter þvi sem tijdkanlegt var i þvi Ebreska

Ebreska Maale, ad nefna ypparlega og gudhrædda Men̄, hvar uppaa vier höfum Dæme til aa Johanne og Simeone. Luc. 2. So og med siijnu eigen̄legu og sierdeilis Nafne, ad han̄ kallast Nicodemus; hvert Nafn hallded verdur ad hafe sin̄ Uppruna annadhvert af þvi Ebraiska Twngumaale, og þaa merker þad saklaust Blod; Edur af þvi Griska, en̄ þad wtlegst þaa so miked, sem Folksens Yfervinnare, edur saa sem yfervinnur Folked: Epter hvertveggiu þessu, svarade han̄ merkilega til siijns Nafns, og breitte epter þvi, þar han̄ villde ecke med ödrum siijnum Medbrædrum fordæma saklaust Blod. Han̄ yfervan̄ og yfergieck Folked, jaa, siijna Embættes Brædur Phariseana, i þvi ad han̄ trwde aa Christum, og elskade han̄; þar med liet han̄ Kiærleikan̄ fullkomlegast i Liose epter hans Dauda, i þvi ad han̄ under eins med Joseph af Arimathia kom med samblandada Myrru vid Aloe nær hundrad Punda, ad smyria han̄ med, og han̄ greptrade han̄ med hönum. Joh. 19.

Hvern Lærdom kunnum vier oß hier af ad draga?

Fyrst; þennan̄, ad hvad sem ein̄ er,

þaa er hañs Nafn þo allareidu nefnt, og þad er vitanlegt, ad hañ med Nicodemo, er eiñ Madur. Eccl. 6. Þar fyrer skal eingeñ med þeim stollta Phariseara meina, ad hañ sie betre eñ annar Madur; helldur miklu framar medkienna med þeim Vijsa, og segia; eg er og so einn daudlegur Madur, lijka sem adrer, fæddur af Slekte þeß fyrst skapada Mañs. Sap. 7. hañ skal stunda epter þvi ad vera eiñ riettur Madur, jaa, eiñ Guds Madur. 1. Tim. 6. Þar næst; lærum vier þad hier, ad saa sem med Nicodemo hefur eitt gott Nafn hañ aa ad stunda epter þvi ad hans Ord og Verk sieu þvi samstemande, eñ vanvirda ecke sitt gott Nafn med vondum Gierningum, sem Absalon og Judas. J þridia maata; þaa ber einum og sierhverium Christnum Manne, ad kieppast epter, ad hañ med Nicodemo yfergaange adra i Gudhrædslu og Rettsyne: Jaa, yfergaange sig sialfañ og sijnar vondar Gyrnder. Þvi þeim sem yfervinnur, honum vill JEsus giefa ad eta af þvi folgna Manna, hann vill giefa honum Vitnisburd, og med Vitnisburdenum nytt Nafn. Apoc. 2.

Af

Af hveriu Folke var Nicodemus?

Hann var eirn af Phariseunum, hverier ad voru i Lijfernis-hættunum hiner vandlætustu i þeirra Gllds Þionustu. Act. 20. og Christi openberer Oviner.

Hvad fyrer eiñ var hañ ad Embætte og Byrdingu?

Eiñ Høfdinge a medal Gydinganna; þad er, eiñ mikilshattar Madur af þvi stora Gydinga Raade, og Synedrio i Jerusalem; sem annars kolluduſt Høfdingiar, edur Olldungar Lijdsens. Matt. 27. og almennilega i Tillite til alls Folksens, sem þeir hielldu Svørum fyrer, nefnduſt þeir Gydingar, edur Gydingar af Jerusalem. Joh. 1.

Hvad kunnum vier hier af ad siaa?

Vier siaaum þad satt ad vera, sem fyrerspaad var um Christum, ad hañ munde drottna a medal siña Ovina. Ps. 110. og jafnvel þo Phariſeararner væru þeir ørguſtu Christi Oviner, og þeir væru faair eda eingver af Høfdingiunum, sem trudu a hann. Joh. 7. Þaa var hier þo eiñ Nicodemus a medal Phariseanna, sem og var eiñ Høfdinge af Gydingunum, hver ed adhillteſt JEsum, og elskade hann og hans Kienning, og so hefur

Gllð alltijð haft og varðveitt sijna, jafn-
vel a medal þeirra ogudlegu, jaa, einn
rjettlaatann Noa i þeirre oriettlaatu Ver-
öllðu, eiñ fromann Loth i Sodoma, Jo-
seph i Egyptalande, og Daniel i Babylon.

A hverium Tijma kom Nicodemus til JEsum?

Það syner oß Evangelisteñ, þar hañ
seger: Hañ kom til JEsum a Natt-
arþele.

Þvi kom hann ecke a Degi?

Þvi i hans Tru og Þeckingu uñ
Christum, var eñ nu so sem Nott, og
Myrkur, þar med og ottadest hann, ad
ef hans Medbrædur feingiu það ad vita,
ad hann munde þaa missa sitt Embætte,
og wtrekast af Samkundunne, þvi Gyd-
ingarnir høfdu þaa þegar samanbunded
það med sier, ef nockur medkiende hann
fyrer Christum, ad hann skyllde wtrekast
af þeirra Samkundu. Joh. 9.

Hvað siaaum vier hier af?

Bæde Nicodemi, og vorn eigeñ Veik-
leika, ad vier opt skømunst vor meir
fyrer Mønnunum, enn Gllde, og marg-
er optlega hallda sig fraa hinne rettu og
sønnu Truarinnar opeñberlegre Medkien-
ingu, af Hrædslu fyrer þvi, ad þeir mu-
ne

ne missa siñ jardneskañ Heidur, og farnyta Jñkomst; sem þeir, um hveria so stendur skrifad; marger af Hofdingiunum trudu aa hann, eñ fyrer saker Phariseanna medkiendu þeir þad eige, þviad þeir villdu helldur hafa Vegsemd hiaa Monnunum, eñ Vegsemd hiaa Gude. Joh. 12. So meigum vier ei sinnader vera; helldur ef vier truum i Hiartanu, þaa skulum vier og medkienna þad med Muñinum, þeinckiande epter þvi, sem Christur seger: Hver hañ skamast mijn, edur minna Orda hiaa þessare horunarsamre og syndugre Kynslod, vid þann mun Mañsens Sonur skamast siin, þaa hann kiemur med heilogum Einglum i Dijrd siins Fodurs. Marc. 8.

Var þad þaa ecke betra, ad hañ kiæme aa Nætt-arþele, eñ hañ hefde alldrei komed?

Sañarlega; þar fyrer rak JEsus hañ ej helldur fraa sier, helldur underviissade honum vinsamlega, jaa, hañ gaf honum Naad þar til, jafnvel þo hañ være i fyrstunne veikur, þaa vard hañ þo siidar sterkare, og so diarfur, ad hañ þorde openberlega ad forsvara hañ. Joh. 7. og epter hans Dauda auglyste hann siina

Hugdyrfsku, og Elsku til hans, þvi hañ hiaalpade til þeß, ad hans Lijkame yrde heidarlega greptradur, þar aller hans Læresveinar høfdu af Otta og Hrædslu forlaated hann. Og er þad merkilegt, ad Evangelisteñ i baaduñ þessum Stødum, so sem miñer aa hans fyrre Veikleika segiande: Þetta var Nicodemus, sær ed fyrre kom uñ Nott til hañs; so sem ad benda til, hvad hugdiarfur hañ var ordeñ fyrer Guds Naad, sem aadur hafde vered so veikur og hiartg-deigur.

Hvad sagde Nicodemus til JEsum, þegar hañ þanniñ kom til hans?

Hañ sagde til hans, Rabbi, vier, (ecke alleinasta Almuga Folked, helldur og jeg, og mijner Med-Brædur Phariséarner, þeir ædstu aa medal Folksens) vitum, og þad er voruñ Hiørtum yferbevijsad, ad þu ert eiñ stor og heilagur Lærifader, komenn af GUde, sierdeiles wtsendur til vor: þvi eingeñ gietur gjørt þau miklu og undarlegu Teikn, sem þu giører, utañ GUd sie med hønum, og gefe hønum Krapt til ad giøra þau.

Hvad merkium vier hier af?

Þad ad Nicodemus, og hiner adrer Phar-

Phariſearner viſſu, og þad var þeirra Hiørtum yferbeviſſad, ad Chriſtur var eiñ Lærefader, komeñ af GUde; eñ eingeñ almeñilegur Lærefader, hvad þeir kuñu ad ælickta, af hans heilogu Kraptaverkum; med hverium hañ ſtadfeſte ſiñ Lærdom, og þo voru þeir miøg fæer, ſem villdu hann medtaka, og honum heyra, og med Nicodemo, ſem eiñ guddomlegann Lærefodur, læta hann ſier underviſſa; helldur voru þeir fleſter, ſem viſſit betur enn þeir giordu, (ſo ſem marger giøra, þvi midur, enn nu) hvad þeim mun þvi framar verda til Fordæmingar: þar fyrer ſeger Chriſtur: Hver ſæ Þion, ſem veit ſijns Herra Vilia, og giører eige eptter honum, hann mun lijda mørg Høgg. Luc. 12.

Hvert ſvar gaf JEſus Nicodemo?

Þetta; ad þegar hañ epter ſinne guddomlegre Alvitſku fornam, ad hann villde ſpyria ſig ad, hvad hañ ſkyllde giora, ſo hann kynne ad erfa eilijft Lijf, og komaſt i Guds Rijke; þa ſette hann honum fyrer Siooner, og ſvarade honum framar uppæ hans Þancka, eñ Ord, ſegiande: Sañlega, ſañlega ſeigi eg, (ſem

er

er Saũleikurenn sialfur) þier, og þad klaarlega og wtþryckilega, þad eingenn, nema hann, hver hellst sem hann er, þo þad være einn, sem med Phariseunum meinte, ad hann være miøg fromur og heilagur, saa ad nyu verdur endurfæddur, þad er hreinsadur af sijnum Syndum og Ohreinleika fyrer Vatn og heilagann Anda, fær ad siaa GUDS Rijke, edur komast i þad, helldur hlijtur hann wtelucktur ad vera fraa eilijfre Saaluhiaalp.

Hvad siaaum og lærum vier hier af?

Vier siaaum, bæde Eymd vorrar forfiarfadrar Naatturu, ad vier erum under Syndena sellder. Rom. 7. Odugaʃleger og onijter til alls hins gooda, og kunnum ecke, þad vora syndsamlegu Fædíng aahrærer, ad komast i GUds Rijke, þvi Holld og Blod gietur ei eignast Guds Rijke. 1. Cor. 15. Eiñeñ siaaum vier Endurgietningarinnar storu Naudsyn, aan hverrar vier (epter veniulegum Hætte) kunnum ecke saaluholpner ad verda. So þad være betra alldrei ad vera fæddur, eñ epter þaa fyrstu syndsamlegu Fædingu ad verda ecke endurfæddur.

Kunne Nicodemus þessa Christi Rædu ad skilia?

Nei, þad þotte hönum olldunges otrwanlegt, þvi þad Christur talade um̃ Endurfædinguna, skillde hañ um̃ þaa naatturlegu Fædingu; Og þvi sagde Nicodemus til hañs: hverneñ maa Madureñ endurfædast þaa hañ er gamall? Hvert gietur hañ horfed aptur i siñar Modur Kvid, og fædst so ad niju.

Hvad siaaum vier hier af?

Eiñrar naatturlegrar og o-endurfæddrar Manneskiu Blindne, og Faavitsku i þeim andlegu Hlutum: þad sem saa blinde dæmer um̃ Litina, þad dæmer saa oendurfædde um̃ Trwarinnar Leindadoma; þviad naatturlegur Madur skyniar eckert af Guds Anda, af þvi þad er hönum Heimska, og hañ fær þad ecke þeckt, þvi þad hlijtur andlega ad dæmast. 1.Cor.2.

Hveriu svarade JEsus Nicodemo hier uppaa?

Hañ itrekar aptur og wtleggur eñ framar sijna fyrre Rædu, segiande: Sañlega, sañlega segi eg þier: Nema þad einhver verde endurfæddur wt af Vatne, þad er, af Vatns Bade i Ordenu, þeirre heilögu Skijrn, Eph.5. og Anda; nefnilega af þeim heilaga Anda,

sem

sem fyrer Skijrnarinnar Vatn, og Ordsens Predikun, kroptuglega verkar i þeim, sem endurfædast, Syndanna Fyrergefning, Rettlæte, Endurnijun og Saaluhialp, þaa kañ hañ ecke iñ ad gaanga i GUDs Rijke, edur verda saaluholpeñ; Þvi þad af Hollde er fædt (þad eru þeir, sem eru fædder af Blodenu, Holldsens og Mannsens Villd, edur Vilia, Joh. 1. edur af syndsamlegu Sæde. Ps. 51.) þad er Holld; nefnilega holldlegt, ohreint, syndsamlegt, og vidurstyggilegt fyrer GUde, og kañ i þvi Tilstande ecke i GUds Rijke ad komast. Rom. 8. Eñ þar þvert aa mote, hvad af Andanum er fædt (þad er, fyrer hañs Krapt og Verkan i Skijrnarinnar Vatne, fyrer Orded, verdur endurfædt og endurnijad) þad er Ande, so sem eru andlega Endurfædd GUds Børn, sem lifa epter Andanum, gaanga i Andanum, stijrast og stiornast af Andanum.

Hvad seiger JEsus eñ framar til hañs?

Hañ seger: Undrast þu ecke þo ad eg segda þier, ad ydur byriade ad nyju ad endurfædast: Þad er, laattu þier ecke koma þad ovart, þvi þad er og

bliifur

bliifur Truarinnar Leindardomur, sem þu med þinne mañlegre Skynseme kant alldrei fullkomlega ad igrunda, edur griipa: Og hverneñ villtu þeinckia, ad þu kunner ad griipa og underskanda þetta? þar þu kant ecke ad griipa og undirstanda þaa jardneſku og nꜳtturlegu Hlute; So sem til Dœmis, Vinduren blæs, hvar ed hañ vill (þo alltijd epter Guds Vilia, hver ed Vindeñ lætur koma wr leindum Stødum. Jer. 10.) og þu heyrer hañs Þit, eñ eige veist þu hvadañ hañ kiemur, eda hvert hañ fer: So eru og aller þeir, sem af Andanum eru endurfædder; það er, kunner þu ecke ad vita, hvadañ Vinduren kemur, edur hvert hañ fer, sem þo er nꜳtturlegur, miklu siidur kantu ad vita og skilia, hverniñ Mannsens andleg Fæding edur Endurfæding tilgeingur.

Hvad framsetur Christur i þessum Ordum?

Eina kostulega Rædu um Endurfædinguna, þvi hañ syner

Fyrst; hverier endurfædast, edur þurfa Endurfædingareñar vid, nefnilega: Hvad af Hollde er fædt, það er, sꜳ sem fæddur er epter þeirre nꜳtturlegu og synilegu

Fæd-

Fædingu, af holldlegum og syndugum Forelldrum. Þar nærst; fyrer hvada Medal vier endurfædunst, nefnilega, fyrer Vatn og Anda, þad er fyrer Vatns-Baded i Ordenu, og þeß Heilaga Anda medverkande Krapt og Naad. J þridia Maata; hvert Gagn og Nytseme vier hofum þar af, sem er, ad vier ødlunst bæde þad andlega Liifed, verdum Ande af Anda; so og eiñeñ þad eilijfa, ad vier kom-unst i GUDs Rijke. J fioorda Maata; hvad orañsakañlegur Endurfædingarinnar Maati er, þvi þar sem vier kunnum ecke neitt ad skilia uñ þaa [illegible]dnesku og naatturlegu Hlutena, þaa kunnum vier miklu sijdur ad skilia þad sem er andlegt, og hlijtur andlega ad dæmast. 1. Cor. 2. hvar fyrer vier skulum i þessu Efni, sem i øllum ødrum Trwarinnar Articulum, taka Skilningeñ til faunga, under Hlijdni Trwarinnar.

Kuñe Nicodemus nu ad skilia þeñañ Christi Lærdom?

Nei, þar fyrer talar hañ þessum Ordum: Hverniñ maa þetta skie? So hañ helldur eñ nu vid sijna Vankunnaattu i þeim andlegu Hlutum, þo er þvi hiaa hønum ad hroosa, ad hañ geingur vid, og med-

medkienner sijna Fávitsku, og bidur eñ framar, ad honum meigi undervijsast.

Hvad seger JEsus hier til?

Hañ straffar fyrst hañs Vankuñáttu segiande: Ertu eiñ Meistare i Jsrael, og veitst ecke þetta? Þad er, ertu eiñ gamall Rabbi, sem i mörg Aar hefur kient ödrum, og hallded þig siálfañ fyrer þañ, sem være Blindra Leidtogare, Lioos þeirra i Myrkrunum eru, fávijsra Tiptunar-madur, og Lære-fadir einfalldra. Rom. 2. Og þo ertu siálfur so einfalldur, ad þu skilur ecke uñ þad fyrsta Trwarinnar Upphaf.

Þar nærst; gefur hañ honum til Eptertektar sijns Vitnisburdar, og Lærdoms Sannleika, segiande: Sannlega, sañlega segi eg þier, ad vier (ecke eg alleinasta, helldur Faderen, sá sem mig sende, Joh. 8. og Heilagur Ande. 1. Joh. 5.) segium þad vier vitum, og vitnum hvad vier sied höfum; þad er, vier tölum ecke annad eñ þad sem vijst og satt er, þvi vor Ord eru Sannleikur, Joh 17. og þier, hardhnackader Gydingar, medtaked ecke vorn Vitnisburd, helldur burtkaste þier honum,

og giöred oß so sem ad Liügurum. 1. Joh. 5.

Um hvad talar hañ framveiges vid hañ?

Um hañs Forstands Blindleika, og fœvijslegt Skilningsleise, til ad skilia þœ andlegu og himnesku Hlute, segiande: Fyrst þier truid ecke, þœ eg segi ydur epter mannlegre Vijsu i Epterlijkingu af jardneskum Hlutum, hvernen munud þier þœ meiga trwa, ef ad eg segda ydur af himneskum Hlutum? edur Diupleika Guddomsens. 1. Cor. 2.

Hver Lærdomur kañ hier af ad dragast?

Fyrst þesse; ad þad er fœvijslegt, ad vilia giefa sig til ad kienna ødrum, þegar Madur er sialfur grañvitur; Þar fyrer lær þu sialfur, adur eñ þu fer ad kienna ødrum, seger Syrach; so ad þad verde ecke sagt til þijn; þu lærer añañ, eñ sialfañ þig lærer þu eige, Rom. 2. so og Læknir, biarga sialfum sier. Luc. 4.

Þar nærst; þœ eru þriar Personur i þeirre einu guddomlegu Veru, og þær þriar eru þær, sem Vitnisburdeñ giefa a Himne (1. Joh. 5.) og þeirra Vitnisburdur er sannur og oraskanlegur: Þo eru

eru Manneskiurnar so forblindadar, ad þær opt og tijdum vilia ecke medtaka þeñañ Vitnisburd.

J þridia Maata; Þaa kañ ecke vor mannleg Skynseme fullkomlega ad skilia uñ þaa jardnesku Hlute, og hverneñ kunnum vier þaa ad meiga skilia uñ þaa andlegu og himnesku. Þviad daudlegur Lijkami þijnger Saalina, og þetta jardlegt Hreise nidurþrycker tvistrudu Hugskote; vier hittum naumlega aa þad, sem aa Jordunne er, og finnum þad varla sem mille Handanna er; hver vill þaa ransaka þad, sem er aa Himnum? Hver vill vita þitt Raad, utañ so sie ad þu giefer Spekina, og sender þiñ Heilagañ Anda af Hædenne? seiger saa Vijse i Spekeñar Bokar 9. Cap.

Hvad giefur JEsus Nicodemo ad sijdustu til Epterþeinckingar?

Fyrst; sinnar Persónu Ypparlegleika, þvi eingeñ kañ, seger hañ, uppstijga til Himins, þad er, ei alleinasta koma þadañ med þaa sonnu Þeckingu uñ þaa guddomlegu Hlute, so sem Orda Tiltæked verdur brukad i Deut.30. helldur og setia sig hiaa Fodursens hægre Hende,

 sem

sem annars kallast hægri Hønd Tignarinnar aa Hædum. Heb. 1. vijgia þañ nya og lifande Veg i þad heilaga. Heb. 10. og tilbwa sijnum Trwudum Stad i þeim lystilegu Vistarverum, hiaa sijns Fødurs hægre Hende, Joh. 14. utañ saa, sem ad uppaateknre mañdomlegre Naatturu hefur lijtelæckad sig siaalfur, og ofañstie af Himne, bwande hiaa oß Mønnunum, og er ad Hegdan fundeñ sem Madur, Mannsens Sonur, sem under eins er GUds Sonur, standande þar hiaa þier, og er þo aa Himne; þad er, saa sem er midt i siñe diwpu Niburlægingu fyrer þaa personulegu Eining Sonur þeß lifanda GUds, i hverium ad bygger øll Fylling Guddomsens lijkamlega (Col. 2.) fyrer hvers Krapt hañs himnesfur Fader mun, epter hañs afstadna Pijnu, hañ auglysa med þeirre Dijrd, er hañ hafde hiaa hønum, aadur eñ Heimureñ var. Joh. 17. Þar nærst; giefur Christur Nicodemo til Epterþeinckingar sijns Medalgøngu Embættes saaluhiaalplegañ Avøxt og Gagn med þessum Ordum: Og lijka sem Moyses upphof Høggormeñ aa Eydemørkenne, epter Guds

Be-

Befalningu, þegar Jsraels Folk var bited af breñande Hoggormum, so þeir sem hañ litu skylldu verda heilbrigder. Num. 21. Lijka so byriar Mañsens Syne, (sem og so er GUds Sonur) upp ad hefiast a þad forsmænarlega Krossens Tre, og lijda Pijnu og Dauda fyrer allar Veralldariñar Synder, so aller þeir, sem a hañ trwa (og soleides med sijnum Trwar-Augum horfa a hañ, sem siñ einasta Frelsara og Sæluhiælpara) fortapest eige, helldur ad þeir hafe eilijft Lijf.

Hvad lærum vier hier af?

Þad, ad Christur er sa einaste Veralldarinnar Frelsare, og Sæluhiælpare, sem bæde er Guds og Mañsens Sonur, Guds Sonur fra Eilijfd, eñ i Tijmans Uppfillingu ordiñ Mañsens Sonur, bwande hia oß i uppateknu Hollde og Blode, og hier synilega umgangande a Jordune i sijnu Lijtilægingar Stande; þo i ollu þessu var hañ fyrer þa personulegu Einingu a Himnum hia Gude, hañ var og er GUd, og þar med so sem sa rette Hoggormsens Sundurtrodare, vorra vegna a Krossen upphafeñ,

aan Syndar og Saurugleika, uppaa þad, ad hver saa aumur Syndare, sem finde þeß helviitska Hoggorms Diøfulsens banvænt Bit og Forgipt i siñe Saal og Samvisku, þaa skyllde hañ þo i soddañ Tilstande fyrer GUds Naad upplipta siinum Truar-Augum til hañs, sem er hañs Truar Uppbyriare og Fullkomnare, og ecke fortapast edur deya i siinum Syndum, og andlegum Siukdome, helldur hafa þad eilijfa Lijf fyrer Truna i hans Nafne. Honum, þvi sanna Guds Lambe, sem vorra vegna er slaatrad, sie Dijrd og Heidur fraa Eilijfd til Eilijfdar Amen, Amen.

# Fyrsta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar St. Lucas i 16. Cap.

Jⁿ þañ Tijma. JEſUS sagde til Phariseanna: Þar var eiñ rijkur Mann, sem klæddest Pelle og Purpura, og aat daglega skijnande Kraaser. Og þar var eiñ Þurfamadur, Lazarus ad Nafne, hver ed lꝫte laa fyrer hans Dyrum, fullur Kauna, hañ

hañ gyrntest ad sedia sig af þeim Mol-
um, sem fiellu af Borde hins Rijka.
Þo komu Hundar og sleiktu hañs Saur.
Eñ so skiede, ad hiñ volade andadest, og
vard boreñ af Einglunum i Fadm A-
brahams: Eñ hiñ Rijke andadest lijka,
og var greptradur; eñ sem hann var i
Helvijte og Kvølunum, hof hañ upp
sijn Augu, leit Abraham ææleingdar,
og Lazarum i Fadme hans. Þvi
kallade hañ og sagde. O Fader Abra-
ham, myskuna þu mier, og send Laza-
rum hingad, ad hann drepe hinu
fremsta sijns Fingurs i Vatn, og kiæ-
le Tungu mijna, þvi eg kvelst i þeß-
um Loga. Og Abraham sagde til
hañs; Sonur, hugleid þu, ad þu med-
tookst hid gooda i Lijfe þijnu, og La-
zarus lijka hid Vonda, þvi hlijtur
hañ nu ad huggast, eñ þu ad kveliast.
Og fram yfer allt þetta, er ææ millum
vor og ydar miked Diup stadfest,
so ad þeir, sem hiedañ vilia fara til yd-
ar, gieta þad ei, og eige þeir helldur
þadañ fra ydur, upp til vor komest,
og hañ sagde þa. Eg bid þig, Fader,
ad þu sender hañ i mijns Fødurs Hws,

þviad eg hefe fiῦ Brædur, þad haῦ skijre þeim fraa, so ad eige kome þeir i þennaῦ Kvalastad. Og Abraham sagde til hans, þeir hafa Moysen og Spaameῦena, heyre þeir þeim. Enn haῦ sagde. Nei, Fader Abraham, helldur ef nockur Framlideῦa fære til þeirra, þaa mundu þeir Ydran giøra. Eῦ hann svarade hønum, ef ad þeir heyra ecke Moyse og Spaamønnunum, þaa munu þeir ecke helldur trua, þo ad nockur Framlideῦ uppriise.

Hvad hefur þetta Evangelium inne ad hallda?

Fyrst; Christi Rædu um þeß rijka Mans og faatæka Lazari olijkt Tilstand bæde i Lijfenu og epter Daudann. Þar nærst; Abrahams og þeß rijka Mans Samtal. Þad fyrra kunnum vier med morgum merkelegum Læremeisturum ad taka sem eina saῦferduga Historiu. Þad annad sem eina Epterlijkingu.

Hvad talar haῦ um þeß rijka Mans Tilstand i þessu Lijfe?

Haῦ talar bæde um hans Rijkdom og luckulegt Stand, so og um hans Rijkdoms Misbrukun, bæde til Ofmetnadar i Klædnadenum, sem og til Ohofs i Mat og Dryck.

Hvad seiger hann um þad fyrra?
**Þar var eiñ rijkur Mann.**

Kañ nockur eigeñlega ad segia, hver þesse rijke Madur hafe vered?

Nei, marger hafa ad sonnu giort sier margar Meiningar hier um, eñ þo fyrer utañ nockra fullvissu, þvi hver vill tala edur segia nockud vijst um þad, hvar um GUds Ande siaalfur þeiger? Þad er ecke ad efa, ad hañ hafe vered til, og þad Nafnkunnugur fyrer Heimenum, eñ Christur vill ecke vyrda hañ þeß, ad nefna hañ med Nafne, edur taka þad sier i Munn, alleinasta nefner hañ, ad hañ hafe vered rijkur Madur, og sijdar, ad hañ hafe kallad Abraham Fodur, og Abraham aptur hañ, Son, hvar med hann syner hañ ad hafa vered komenn af Gydinga Ætt.

Var hans Rijkdomur i siaalfu sier honum til Skada og Fordiorfunar?

Ney, helldur hans Rijkdoms Vanbrukun, þvi Audæfeñ eru good, þegar meñ neita þeirra fyrer utañ Synd, jaa, ein GUds Blessan. Prov. 10. og Corona þeim Vijsu. Prov. 14. eñ fyrer Vanbrukun, nær þeim er ooleifelega samañsafnad, edur otilbærelega og onaudsynlega eydt, þar

kunna þau ad verda ad einum skadlegum Þyrne. Luc. 8. og fordiorfunarlegre Snoru. 1. Tim. 6.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þetta, ad vier hverke med olöglegum Medolum flijtum oß til Rijkdoms, nie stundum epter ad verda rijker, edur og ef Rijkdomur fellur oß til, ad vier heingium þa ecke vor Hiortu þar vid, edur treistum þar uppa, helldur skulum vier miklu framar vona uppa þañ lifanda GUD, sem oß rijkuglega giefur allshattad til Notkunar. 1. Tim. 6.

Hvar til vanbrukade sa rijke Madur sijn Audæfe?

Hañ brukade þau bæde til Ofmetnadar i Klædnadenum, þar hañ klædde sig med Pelle og Purpura, sem var konunglegur Skrude, hverium þeir ikläddust, so hañ hefur an alls Efa klædt sig fram yfer sitt Stand, og haft Ohoof i Mat og Dryck, og hallded sig daglega forkostulega og i Glede; þad er, hann hiellt daglega sem eitt konunglegt Giestabod i sijnu Huse, so sem þar stendur um Nabal. 1. Sam. 25. at þad feita og drack af þvi sæta, sem um hina adra talad verdur. Amos. 6. og liet a allar Sijdur Gledskaps

Teikneñ

Teiknen epter sig. Sap. 2. jaa, þad var hans daglegur Vane og Jdia.

Er þad þaa Synd ad klæda sig skartsamlega?

Klæden eru oß giefen af Gude til ad hilia vora Blygdun og skijla Lijkamanum, sijdan þad hrædelega Syndafall. Gen. 3. hvar fyrer þau meiga framar vera oß til Uppvakningar um vort Fall, og ein Upporfun til Audmijktar, en ad vier skulum faavijslega stæra oß af þeim, Gud bannar oß ecke ad bruka Klæden epter Þorfum, ad klæda oß med, nie Vyrdingareñar Klædum ad ifæraſt, epter voru Stande og Embætte. En þar sem vier vanbrukum vor Klæde til onaudsynlegrar Drægtar, sem þær drambsomu Zions Dætur, og stærum oß af þeim, sem Paafuglen af sijnum Fiodrum, þaa breitum vier bæde faavijslega, og mættum skammast vor þar fyrer, og drijgum þar med eina storg og vidursiyggelega Synd fyrer Gude, hveria han vill vissulega straffa.

Maa Madur þaa ei helldur giora sier til goda af GUds Gaafum?

Ad vijsu, þvi ecke neitt er betra aa medan Madur hiarer hier, en ad vera gladur, og ad giora sier til goda i Lijfe sijnu

sijnu. Eccl. 3. Eñ Madur skal vara sig fyrer þvi, ad vanbruka ecke Guds Gaafur til Ofneytslu og Ofdryckiu og adskiliañlegrar Ohofseme, hveriu eckert annad eptersylger, eñ osidsamlegt Lijferne. Eph. 5. hvar vid Gud styggest, eñ Lijkamen veikest, Hiartad þijngest, eñ Lijfed ei leingest, jaa Hiartad, seige eg, gioorest oduganlegt til ad bidia, ottast GUD, og giæta ad hans Verkum. Es. 5.

Hvad seiger JEsus um þeß faatæka Tilstand hier i Lijfe?

Hañ nefner hans Nafn, og miñest aa hans aumt Stand, so vel sem aa hans litlu Huggun, sem hañ fieck af þeim rijka Manne segiande. Og þar var eiñ Þurfa-madur, Lazarus ad Nafne, hver ed ute laa fyrer hañs Dyrum, fullur Kauna, hañ gyrntest ad sedia sig af þeim Molum, sem fiellu af Borde hins Rijka; þo komu Hundar og sleiktu hañs Saar.

Hvert var þaa þeß faatæka Nafn?

Hañ hiet Lazarus, hvert Nafn merker so miked sem Guds Hiaalp, edur þañ, sem hiaalpad er af Gude, so ad þetta er þad sama, sem þad Nafn Eliezer, edur

þad merker, epter sumra wtleggingu, þañ sem ecke fiñur Hiaalp, edur er hiaalpad.

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Þad, ad Christur nefner þeß faatæka Nafn, þar hañ þeiger um þeß Rijka. Hvar med hañ syner oß, ad Drotteñ þecker sijna, og nefner þaa med Nafne. 2. Tim. 2. i stadeñ fyrer þad, ad hañ þecker ecke þaa ogudlegu, þviad Miñing Rettlaatra bliifur i Bleßan, eñ Nafn ogudrækenna funar. Prov. 10.

Hver voru Lazari Kiør og Tilstand?

Hañs Kiør voru sorgarleg og eymdarfull, hañ var Þurfamadur, og þar med aumur og veikur, þvi hañ laa wte fyrer Dyrum þeß rijka fullur Kauna, og gyrnteſt ad sedia sig, ecke af þeim kostulegu Rettum, sem voru framborner, helldur af þeim Molum, sem fiellu af Borde hins Rijka, so hañ var ecke alleinasta faatækur og aumur, helldur og eiñeñ aanægdur med lijted i sijnu Volæde.

Hvad verdur oß hier med syndt?

Bæde Guds Barna eymdafull Kiør, og Tilstand i þeßum Heime, ad þau meiga almeñelega lijda Faatækt og Orbyrgd, Hungur og Þorsta, Siukdom og Neyd,

þaa

þar Stund Veralldarennar Børn lifa i Velstande og allskonar Nægd: og skiallðan er þeirra Kroß og Motlæte einsamallt, helldur rietter þad eina ødru Hendena, so sem hier Lazarum skiede. So og þeirra Skylldu, hverneñ þau skulu hegda sier i þeßu þeirra sorgarlegu Stande, nefnelega, ad þau skulu lááta sier sijna Lucku nægia, og bera sijna Eymd med Þolinmæde, eñ beidast ecke epter Glede og yfersliotañlegre Nægd þeirra, sem holldlega eru siñader, helldur alleinasta, ad þau mættu hafa siñ deildañ Matarverd. Prov. 30.

Hveria Huggun fieck hañ i þessare siñe Eymd?

O! ad soñu miøg litla! Hañ gyrntest einasta ad sedia sig af þeim Molum, sem fiellu af Borde hins Rijka, eñ þeß verdur ei gieted, ad honum hafe nockud giefed vered. Þo komu Hundar og sleiktu hañs Saar. Og audsyndu sem adrar skynlausar Skiepnur, ovitande sijna stora Medaumkun hønum, framar eñ þeirra Herra.

Hvad siaaum vier hier af?

Vier siaaum, hvad litla Huggun og Hiaalp þeir faatæku og naudþurftugu siña,

siña, hiaa þeim omyskunsomu Veralld- arennar Bornum, þau siaa vel daglega þeirra Eymd og Neyd, so sem saa rijke Madur saa Lazarum, eñ þau apturloka þo bæde Hond og Hiarta fyrer þeim; þeir voludu siña opt meire Huggun og Hiaalp hiaa skynlausum Skiepnum, og hiaa þeim Manneskium, sem þeir sijdst væntu sier Hiaalpar af, eñ hiaa þeim, er hellst byriade, og kunne ad hiaalpa þeim.

Hvad giorde um sijder Enda, bæde aa þeß Faatæka Eymd, so og aa þeß rijka Mans Glede og Ohoffseme i þessum Heime?

Daudeñ, þvi so seiger Frelsareñ, eñ so skiede, ad hiñ volade andadest edur do, einum godum og saaluhiaalplegum Dauda, og allur hans Faatækdomur og Eymd deyde under eins med hønum, og jafnvel þo hañ fyrer Heimenum feinge audvyrdelega Jardan (so sem Texteñ og ecki ert talar um hans Greptran) þaa samt sem aadur, var hans Saala boreñ af Einglunum i Abrahams Skaut, þad er i þaa eilijfu himnesku Glede, hvar Abraham allra Truadra Fader, og þeir sem gaanga i hans truud Fotspor, niota eilijfs Fridar og Hvijlu: Eñ hiñ Rijke and-

andadest lijka, allur hans Rijkdomur og Vellyst kunne ecke ad frelsa hañ, helldur blaut hañ ad deya og faa Enda, og kañskie þegar hönum vest giegnde, og var greptradur, seiger Textiñ, sem ecke er ad efast um, med större Vidhöfn og Skraute.

Hvad lærum vier hier af?

Fyrst, þad, ad Daudeñ er Endex aa allra MannaLijfe ogStande hier i Heime, hañ skeiter ecke meira um þeß rijka Mans Purpura eñ um Lazari Larfa, og so gledelegur Bodskapur sem Daudeñ er þeim faatæka og naudstadda, so skielfelegur er hañ andvaralausum Syndurum og Sælkierum. Þar nærst; er ein heidarleg Greptran ad sonnu eiñ aagiætur Hlutur, sem sierhvert GUds Barn maa vel oska sier, hverium Abia, sem var Sonur Jeroboams verdur heiteñ, sem eiñre sierlegre Naad. 1.Reg.14. Eñ þar þvert aa mote, var Joachim Syne Josia hotad, ad hañ skyllde jardadur verda sem añar Asne; Ecke ad sijdur kañ þad lijted ad hiaalpa, þo Lijkameñ verde boreñ heidarlega til Greptrunar, nema þvi ad eins, ad Saaleñ berest af Einglunum i Abra-

hams

hams Skaut, og verde þar huggud, so sem Barned verdur huggad i Modureñar Kiolltu.

Hvad talar Frelsareñ eñ framar uñ þeß fatæka Lazari og þesse rijka Mañs Tilstand epter Daudañ?

Hañ talar i Epterlijkingu uñ Abrahams og þeß Rijka Mañs Samtal.

Hvar fyrer kallar þu þetta eina Epterlijkingu?

Þar fyrer, ad allt þad, sem hier seigest, kañ omogulega epter Bokstafnum ad skiliast; Hver vill þeinkia, ad þeir Utvolldu at Himnum, og þeir Fordæmdu i Helvijte hallde þañeñ Samtal hverier vid adra; og hverneñ kunne uñ þañ rijka Mañ, sem var so miked sem Saalena aphrærde allareidu i Helvijte, eigeñlega ad segiast, ad hañ hafe haft sijna Twngu med sier, sem leid Pijnu, og þurfte med Svølunar: Alleinasta þar vill Frelsareñ med þessare sinne Rædu wtmaala bæde þaa stooru Eymd þeirra Fordæmdu, so og þeirra sætlegä i burtsofnudu Glede og Dijrd; þetta hvertveggia er o-endañlegt og o-umbreitañlegt.

Hverneñ verda þaa framfærd þesse rijka Mans Ord til Abrahams?

Med þessum Hætte: Sem hañ var nu i Helviite og Kvølunum, jaa, i so storre Pijnu, sem Spillvyrkiar kunna i ad vera, þegar þeir eru plaagader, og þo laangtum stærre, hoof hañ upp siin Augu, og saa (þar hañ i siinu lifanda Lijfe villde ecke saa þad, sem heyrde til hañs Fridar) Abraham aaleingdar, og Lazarum i Fadme hañs, þvi kallade hañ og sagde: O Fader Abraham, (af hvers Ætt eg er fæddur epter Holldenu) myskuna þu mier, og send Lazarum hingad, ad hañ drepe hinu fremsta siins Fingurs i Vatn, og kiæle Twngu mijna, þvi eg kvelst i þessum breñande helviitska Loga.

Fær saa Rijke Madur nockud gott Svar uppaa þessa siina Beidne?

Nei, Abraham afsseiger hønum hana, so sem þañ Hlut, er eingvañveigeñ kan ad skie. Fyrst þeßvegna, ad þad var riettferdugt fyrer Gude, ad hañ skyllde so pijnast, þegar Lazarus skyllde huggast, og þvi seger Abraham: Sonur, hugleid þu. Jaa þu, sem ad sonnu ert fæddur af mijnu Sæde epter Holldenu, eñ hefur ecke haft mijna Trw, edur giört epter

epter mijnum Verkum, ad þu medtookst hid Gooda i Lijfe þijnu, og Lazarus lijka hid Vonda, þvi hlijtur hañ nu ad huggast, eñ þu ad kveliast. J annañ Maata; þar fyrer, ad þad var omøgulegt, ad þar ꝍ kynne ad skie nockur Umbreiting, hverke ꝍ þeirra Gudhræddu Glede, nie ꝍ Kvøl þeirra Fordæmdu. Og frañ yfer allt þetta, er ꝍ millum vor og ydar miked Diup stadfest, so ad þeir, sem hiedañ vilia fara til ydar, hvad þo eingeñ vill, gieta þad ei, og eige þeir helldur þadañ fraa ydur, hvad fegner sem þeir villdu, upp til vor komest.

Hvad wtmaalar Christur i þessum Ordum?

Fyrst; bæde Eymdar Tilstand þeirra Fordæmdu, ad fyrer þad þeir hafa haft sitt gooda Hlutskipte i þeirra Lijfe hier i Heime. Ps. 17. Þaa skulu þeir þar pijnast og plaagast til eilijfrar Tijdar, so ad þeirra Kvøl mun verda stoor, hvar fyrer henne verdur lijkt vid þaa harmkvælamestu Hlute i þessare Verølldu, nefnilega vid Pijnu eins Spillvyrkia og eiñrar jodsiwkrar Kvinnu, og þo er þetta eige noog til ad wtmaala hana med; so og

mun hun hier að ofañ verda eilif, þvi
þeir munu i þeim eilijfa Ellde alltijd
brenna, eñ þo alldrei uppbreña: þaa
mun þyrsta, eñ faa þo alldrei Þorstañ
ad sløkva, þeir munu af Pijnu sijnar
Tungur bijta, og Reikur þeirra Kvala
mun ad eilijfu uppstijga, jaa, þad mun
þeim ei alllitla Pijnu auka, ad þeir vita
þaa GUds Børn, sem þeir hafa hier for-
aktad, vera i Dijrd og Glede. Sap. 5.

J annañ Maata; wtmaalar hier Herr-
añ Christur þeirra Gudhræddu Saalu-
hiaalp og eilijfa Velferd, þvi þo þeir
hafe medteked þad vonda um̃ sijna Lijfs-
tijd, og o-teliañleg Kvalræde hafe um-
kringt þaa, so þeir hafe ei kunnad þau
ad telia. Psl. 40. Þaa munu þeir þar
huggader verda, miklu framar eñ nockur
Modur huggar einhvern. Es. 66. Hvar
fyrer þeir forgleima allre siñe Eymd.

J þridia Maata; syner Christur oß
hier lioslega, hvad o-umskiptelegt, og o-
umbreitañlegt ad beggia þeirra Tilstand
mune verda, þviad JEsu Saude skal
eingeñ kunna ad slijta wr hañs Hende,
Joh. 10. edur þeirra Fögnud fraa þeim
ad taka Joh. 16. Eñ þeir Ogudlegu og
For-

Fordæmdu skulu ecke wtfara af þvi eilijf-
sa helviijska Fangelse, þar til þeir hafa
borgad hiñ sijdasta Pening: Matt. 5. þad
er alldrei uñ alla Eilijfd.

Talade saa rijke Madur nockud framar?

Jaa, hañ sagde þaa: Eg bid þig,
Fader, med þvi þad er eingrar Naadar
fyrer mig ad vænta, ad þu sender, ed-
ur vilier senda hañ, nefnilega Lazarum,
i mijns Fødurs Hws, þvi eg hefe
fiñ Brædur, sem ei alleinasta eru mijn-
er Brædur epter Holldenu, helldur og i
þvi ad lifa i Synd og Athugaleise, þad
hañ skiire þeim fraa, bæde hveria Gle-
de hañ hefur, so og hveria Kvøl eg lijd,
ad þeir mættu i Tijma ydrast, so þeir
kiæme ecke i þennañ Kvala-stad.

Hvert Svar gaf Abraham honum hier uppaa?

Hañ afneitade honum olldunges þeß-
are hañs Bon, og vijsade honum til
Gllds Ords. Abraham sagde til hañs:
Þeir hafa Moysen og Spaamennena,
(þad er, þaa heilogu Skript) i hverre
ad bæde þeirra Synder verda straffadar,
so og verdur þeim þar so vel synd og fyr-
ersogd Helvijtes Pijna sem Himna-
rijkes Glede, heyre þeir þeim, og riette
sig þar epter.

Hañ

Var hañ ænægdur med þetta Svar?

Eingvañveigeñ; helldur sagde hañ, nei, Fader Abraham, helldur ef nockur Frañlideña fære til þeirra, og segde þeim, hvørneñ tilgeinge epter þetta Lijf, þaa mundu þeir Yðran giøra.

Hveriu svarade Abraham ad sijdustu hier til?

Hañ svarade hønum þessu: Ef þeir heyra ecke Moyse og Spaamønnunum, þaa munu þeir ecke helldur trua, þo ad nockur Frañlideña uppriise.

Hvern Lærdom kunnum vier ad sijdustu oß hier af ad draga?

Fyrst; Saa rijke Madur hafde fim Brædur, hverier eñ nu ecke eru aller dauder, þvi þeir eru so marger til af þeßslags Folke, sem lifa, lijka sem þeir hefdu giort Sattmaala vid Daudañ, og Samtøk haft vid Helvijte. Es. 28. Hverra Maaltak er: Etum vær og dreckum, þvi aa Morgun erum vier dauder. 1. Cor. 15. Og aa medañ (þeir lifa) vilia þeir hverke heyra Moysi nie Spaamønnunum, það er, þeir vilia hverke skeita um GUd edur hañs Ord.

J añañ Maata; eru Mañneskiurnar so faavijsar, ad þær forakta Moysen og

Spaamennena, og vilia ecke hafa gaat
aa þvi ofluga Spaadoms-Orde. 2. Pet. 1.
helldur hallda þeir meir uppaa Siooner
og Opeñberaner, sem eru fallvalltar og
kunna ad bregdast, eins og Svikſemder
Sathans, hver ed sig gietur giort ad
Liosſens Eingle. 2. Cor. 11.

J þridia Maata; er þad forgiefens ad
yfergiefa Ord þeß lifanda GUds, og vona
uppaa daudra Maña Opeñberaner, so hier
maa vel segiast, skal ecke Folked leita sijns
GUds. Skal madur fraamar leita Raa-
da til þeirra Daudu eñ hiña Lifendu?
Vier endum vora Rædu med Ośk og Bæn
Agur, Sonar Jake, segiande hver i siñ
Stad af Ord. 30. Tveggia Hluta bid eg
þig DRotteñ, ad þu vilier ecke synia mier,
aadur eg dey, Afguda-dijrkan og Lygar
laattu vera laangt fraa mier; Faatækt og
Audæfe gief þu mier ecke, eñ laattu mig
hafa miñ deilldañ Matarverd, annars
kynna eg, nær eg yrde ofmettur, ad af-
neita þier og segia; hver er Drotteñ?
eda ef eg yrde offaatækur, hlite eg ad ste-
la, og mig aa GUds mijns Nafne ad
forgrijpa. Eñ þu, store GUd, blessa oß
hier, og giefdu oß sijdañ ad vera hiaa

þier i Dijrdenne, fyrer JEsum Christum. Amen.

# Annañ Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar S. Lucas i 14. Cap.

J þañ Tijma. JEsus sagde til hañs þessa Epterlijking. Nockur Madur var sa, sem giørde mikla Kvølld-maaltijd, og kallade marga til sijn, og sende wt sinn Þion uñ Kvølldmaals-Tijmañ, ad hañ segde þeim, sem bodner voru, komed, þviad nu eru aller Hluter til reidu. Og þeir tooku aller til i señ ad afsaka sig. Hiñ fyrste sagde til hañs: Bugard keipta eg, og hlijt eg ad fara wt ad skoda hañ. Eg bid þig, afsaka mig. Og hiñ annar sagde; sim Akneyte keipta eg, og fer eg nu wt ad reina þau: Eg bid þig, afsaka mig. Og hiñ þridie sagde: Konu hef eg mier festa, og fyrer þvi maa eg ecke koma. Og Þionustu-madurēn kom aptur, og kuñgiørde þetta sijn-

siinum Herra. Þar vard Hwsbond-en reidur, og sagde til siins Þion-ustu-mañs. Far þu snarlega wt a Stræte og Gøtur Borgareñar, og leid Volada, Vanada, Blinda og Hallta hier iñ. Og Þioneñ sagde: Herra, þad er giørt, hvad þu skip-ader, og þo er eñ meira Rwm. Og HErrañ sagde til Þionsens. Far þu wt a Þiodbrauter og Twn-garda og naudga þeim hier iñ ad ganga, so ad mitt Hws verde fullt. Eñ eg seige ydur, ad eingeñ þeirra Manna, sem kallader voru, munu smacka mijna Kvølld-maaltijd.

Hvad hefur þetta Gudspiall inne ad hallda?

Christi Epterliijkingu um þa miklu Kvolld-maaltijd, hvar wtaf vier skaaum

Fyrst; Hwsfodursens Giæsku, sem hæ-de tilreidde þa miklu Kvolld-maaltijd, so og baud hañ morgum til heñar.

Þar næst; Bodsmañaña Ohæklæte, hverier ed afsøkudu sig, og villdu ecke koma.

J þridia Mata; Hwsfodursens strong-gu Reide þar fyrer, sem liet odrum i þeirra Stad bioda, og sagde ad eingeñ þeirra Manna, sem fyrr bodner voru, skylldu smacka siina Kvolld-maaltijd.

Til hvers talade Christur þessa Epterlijking?

Til eins af þeim, sem i Hwse Phariseæranna Hofdingia sat til Bords med hønum, hver þegar hañ heyrde Christi Rædu, med hverre hañ undervijsade Giestunum, hvernen þeir skylldu hegda sier, nær þeir yrdu bodner i Brwdkaup edur Giestabod, þaa framsette saa hiñ same þesse Ord: Sæll er saa, sem etur Braud i Guds Rijke. Luc. 14. sem hañ villde so miked sagt hafa: Þu talar vel uñ jardneska Maaltijd og Giestabod, eñ þad er laangtum naudsynlegra ad tala uñ Guds Rijke, og þaa himnesku Maaltijd, eñ med þvi Frelsareñ fornam, ad hañ talade þetta framar af Hræsne, eñ af einu hreinu og einfolldu Hiarta, þaa sette hañ fraũ fyrer hañ þessa Epterlijking, lijka sem hañ villde þar med svara hønum þessu; jaa, þad er ad sonnu satt og gott sem þu seger. Eñ þu og þijner Lijkar vilia ecke stunda epter þvi ad komast i GUds Rijke, og þar til Bords ad sitia, helldur hafed þier ydar Ura, Akra, Hollds-Lijst, og annañ veralldlegañ Hiegoma kiærare.

Hvad talar hañ i Upphafe Epterlijkingareñar uũ Hwsfodursens Giæstu?

Hañ seger: Nockur Madur var

saa

saa, er giørde mikla Kvølldmaaltijd, og kallade marga til sijn, og sende wt sin Thioon um̃ Kvølldmaals-tijmañ, ad hañ segde þeim, sem bodner voru, komed, þviad nu eru aller Hluter til reidu.

Hver aa ad skiliast fyrer þañ Mañ, sem giørde þessa miklu Kvølld-maaltijd?

Saa allra hædste Gud, hver, jafnvel þo hañ seige hiaa Spaamañenum Hoseam 11. Eg er Gud, eñ ecke Madur, þaa samlijker hañ sier þo, bæde hier og annarstadar vid eiñ Mañ, hvar med hañ auglyser siñ stora Kiærleika og Giæsku vid Mañaña Børn, og vill þar med locka oß aumar Manneskiur til sijn, hañ vill vera liufmañlegur, milldur og naadugur vid oß, so leinge sem vier vilium hegda oß so sem þeir rettu Meñ. Eñ þar sem vier hegdum oß so sem skynlaus Villudijr, og forsktum hañs frambodna Naad, þaa vill hañ vissulega hefna sijn, og fara aa mote oß, ecke sem eiñ Madur: Es. 47. helldur sem eitt Leon, og sem eiñ Pardus, jaa sem eitt Biarndijr, sem Ungarner eru fraatekner. Hos. 13.

Hvad merkest fyrer þaa miklu Kvølldmaaltijd, sem hañ seigest hafa giørt og tilreidt?

Ei alleinasta GUds Naadar Maaltijd, hvøria hañ hefur tilbued, sem eitt feitt Giestabod ollu Folke. Es. 25. i sijnum Syne JEsu Christo, sem er þad rietta Lijfsens Braud. Joh. 6. Helldur og sierdeilesløga eilijf Dijrdar Kvølldmaaltijd Guds i Himnenum, sem annars kallast Lambsens Brudkaup, edur Kvølldmaaltijd Lambsens. Apoc. 19.

Hvar fyrer kallast þetta ein Kvølldmaaltijd, og hvørn Lærdom kuñum vier oß hier af ad draga?

GUds Naadar Maaltijd, sem tilreidd er i Christo, kañ so ad kallast, fyrer þad Christur var ei alleinasta lofadur vorum fyrstu Forelldrum i Paradijs aa mote Kvøllde, þegar dagureñ var ordeñ svalur. Gen. 3. Helldur var hañ og giefeñ aa nya Testamentesens Tijma, hver ed kallast Veralldareñar Kvølld edur Ender. 1 Cor. 10. og hin sijdasta Stund. 1. Joh. 2. Sañarlega med Syndeñe høfdu Meñerner siaalfer fyrer Sathans Aeggian tilreidt sier eiñ vondañ Frukost, edur Morgunskatt med þessu Nafne, ad þeir skylldu dauda deya, i Sveita sijns Andlites sijns Brauds neita, og med Sott og Harmkvælum fæda. Eñ Gud lofade af siñe sto-

ru

ru Naad, ad hañ villde þar æ mote tilreida eina veglega Kvølldmaaltijd, i þvi, adsenda siñ Son i Heimeñ, til ad sundurmeria Hoggormsens Hofud, ad svipta Daudañ Makteñe, eñ Lijfed og Odauðlegleikañ i Lios ad leida. 2. Tim. 1. Eiñeñ kallast þesse Maaltijd ein Kvølldmaaltijd, þviad þesse dijrdarlega Maaltijd æ Himnum, sem er sw rietta Kvølldmaaltijd Lambsens, mun Guds Børnum giefast, ad endudum þessa Heims Døgum, og þau munu þaa fullkomlega mettud verda, og ecke añarar Maaltijdar medþurfa, þvi seiger David, eg mun saddur verda, nær eg vakna epter þinne Mind. Ps. 17. Eñ Veralldarennar Glede, þar æ mote, er alleinasta sem eiñ Morgunskattur, og giefur ecke fullkomna Sadning.

Þvi kallast þetta ein mikel Kvølldmaaltijd?

Hun kallast þad, ei alleinasta i Tilliti til þeß mikla GUds og himneska Hwsfodurs, sem hana hefur tilbued, og þeirra kostulegu Rietta, sem hañ hefur tilreidt, nefnelega i þessu Lijfe, sijna Naad, Syndanna Fyrergiefning, Riettlæte Christi, Barnanna Utvalning, og Hugg-

un

un heilags Anda: og i þvi eilijfa Lijfe full-
komna Glede og oendañlega Saaluhiaalp;
Helldur og eiñeñ af þvi, hun er tilreidd
i fraa Eilijfd, og skal vara til Eilijfdar,
og ad sijdustu kallast hun mikel, af Marg-
fiollda Bodsmañaña, sem til hennar ver-
da kallader.

Hvad seiger JEsus um Bodsmañaña Kollun?

Hañ seiger fyrst almeñelega, ad hañ
hafe boded mørgum þar til og sijdañ
sierdeileslega, ad hañ hafe utsendt siñ
Þion um Kvølldmaals-tijmañ, ad hañ
segde þeim, sem bodner voru, komed,
þviad nu eru aller Hluter til reidu.

Hverier eiga ad skiliast fyrer þaa morgu, sem seig-
est ad fyrst hafe vered kallader?

Þar fyrer kunna sannarlega ad skiliast
aller Menn, so sem þad er veniulegt i
Skriftenne, ad fyrer þetta Ord, mar-
ger, merkiast aller, so sem hiaa Dan. 12.
Matt. 20. Þvi Gud hefur eingvañ utelukt
fraa siñe Naad og Saaluhiaalp, helldur
þar til kallad alla Meñ og þad alltijd; Eñ
þo sierdeileslega aa þremur Tijdum: i
Tijd Adams, i Tijd Noæ, og i Christi Tijd,
eñ so sem Christur talar hier hellst um
Gydingana, og sijdañ um Heidingiana,
sem

sem voru a Þiodbrautum og Tun gordum: So verdur hier og sierdeiles fyrerskiled Jsraels Folk, hvert GUd sierilæge framar ollu odru Folke i þvi gamla Testamente kallade og þvi til Kvolldmaaltijdarenar iñbaud.

Hver er ad merkiast fyrer þañ Þion, sem seigest ad Hwßfadereñ hafe utsendt?

JEsus Christus, sa rettlaate Guds Þion, sem tok a sig Mind eins Þions. Phil. 2. hver ei alleinasta ersidade i vorum Syndum, og hafde Mædu i vorum Misgiorningum. Es. 43. i sijnu Medalgongu Embætte; Helldur og var hann hans Þion i sijnu spaamañlegu og keñemañlegu Embætte, til ad upprietta Jacobs Kynkvijsler, hvar fyrer hañ og kallast Þion Umskurnarennar. Rom. 15. i hverre Þionustu, hañ ei alleinasta siaalfur ersidade, og fyrerkom sijnum Styrkleika, helldur og utsende hañ sijna Læresveina, til ad kienna og predika.

Nær var hann utsendur?

Um Kvolldmaals-tijmañ, þad er i Tijmans Uppfyllingu. Gal. 4. a þeim sijdustu Dogum. Ebr. 1. til ad uppfylla allt Rettlæte; og ad lijda Pijnu og Dauda fyrer alls Heimsens Synder.

Til hvers var hañ utsendur?

Til þeß, ad hañ segde þeim, sem bodner voru, þad er til Gydinganna, sem ei alleina aadur, fyrer Munn þeirra heilogu Spaamanna, helldur og nu fyrer skommu fyrer Johannem Skijrara voru kallader, komed, (fyrer Tru, Ydran og Umvendan) þviad nu eru aller Hluter til reidu, sem heyra til ydar Fridar og Saaluhiaalpar; Saa himneske Kongurenn hefur tilbued sijna Maaltijd, hans Uxar og aled Fie er slaatrad, og allt er til reidu: So kallade ecke alleinasta Brudgumans Vinur Johannes Skijrare Bodsmeñena, helldur og Brudgumeñ JEsus siaalfur, segiande: Giored Ydran, þvi Himnarijke er naalægt. Matt. 3. Tijmeñ er uppfylltur og Guds Rijke naalægest, ydrest þier og trued Evangelio.

Hvad sioxum vier hier af?

Þaa storu og outseigiañlegu Gllds Giæsku, sem hefur lagt Raad til Naadar vid Gydinga Folk, ecke alleinasta tilbued sijna saaluhiaalplegu Naadar Maaltijd, og laated kalla þaa vinsamlega til hennar, ecke einasta fyrer sijna Spaameñ og Þienara, aadur enn Kvolld-maaltijd-

tijdeñ byriadest, helldur og aa Tijma Kvølld-maaltijdarennar, fyrer siaalfañ siñ eingietenn og elskulegañ Son.

Voru þaa þesser Giester reidubwner ad koma?

Nei, helldur toku þeir aller til i senn ad afsaka sig: hiñ fyrste sagde til hans: Bugard keipta eg, og hlijt eg ad fara ut ad skoda hañ, eg bid þig, afsaka mig. Og hiñ annar sagde; fiñ Akneite keipta eg, og fer eg nu ut ad reina þau, eg bid þig, afsaka mig; og hiñ þridie sagde: Konu hef eg mier festa, og fyrer þvi maa eg ecke koma.

Hvad syner Christur oß med þeßum Ordum?

Mañaña, eñ þo sierdeiles flestra af Gydingunum, Vanart, hverier framar stundudu og stunda epter þvi iardneska, eñ þvi andlega og eilijfa, og med adskiliañlegum einskisverdum Affsøkunum leitudust vid, og leitast ad fegra þetta sitt Praalinde. Þvi sijdañ vorer fyrstu Foreldrar aatu þad beiska Vijnbered, þaa eru þeirra Barna Tennur sliofar vordnar. Jer. 31. og so sem Synd og Affsøkun meiga heita Tvijburar, sem med Esau og Jacob hallda hver i Hæleñ aa añare: So hlaupum vier og eiñeñ til þeß forbodna Tries, og plockum af þvi þaa skad-

samlegu Averte: og strax epter til Fijskiutriesens, og tokum Blodeñ af þvi, til ad hilia med vora Blygdun, i þvi ad dylia og forsvara vorar Synder.

Hvad margslags Affsakaner brukudu þesser oþackláter Bodsmeñ?

So sem Christur nefner preñslags Þyrna, sem nidurkefia Sæde GUds Orda hiá mørgum, nefnilega, þessarar Veralldar Ahiggiu, Audæfe og Vellystingar, Luc. 8. so syner hañ og hier, ad þesser eru þeir sømu, sem hindra marga frá þvi ad komast til GUds Náádar og Hiálpræðesens Máltijdar: Sáá eine affsakade sig med sijnum Bwgarde, hiñ annar med sijnum Akneitum, sáá þridie med sinne Konu.

Voru þetta løglegar Affsakaner?

O nei, þeir kunnu ad giora þad eina, og hitt annad ei epter ad skilia, þeim bar fyrst ad leita GUds Rijkes og hañs Riettlætes. Matt. 6. Sijdañ kunnu þeir áán Syndar ad fullgiora þad annad: Þad er eingeñ Synd ad kaupa annadhvert Bugard edur Naut, ei helldur ad giptast. 1. Cor. 7. Eñ þar sem Madur huxar frammar uñ þad jardneska, og gleimer þar fyrer

þvi

þvi, ad hañ er siaalfur GUds Akurvinna. 1. Cor. 3. plægiande ecke sitt Hiarta ad niju. Jer. 4. So ad. Sæde GUds Orda verde þar i saad, sem i eina goda Jord, þaa syndgar hañ. Jaa, þar sem Madur hondlar so med siina Bugarda, Ura, Fie edur annad veralldlegt Riikedæme, ad hañ verdur þar fyrer verre siaalfur, eñ Nauted, sem þecker siñ Herra, og Asneñ Jotu siins Herra. Es. 1. Edur hiñ sem eigeñkvæntur er, og hefur gipt sig, nær hañ ber Abyggiu fyrer þvi, hvad Heimsens er, og hvernig hañ meige Husfreiu siñe þocknast, framar eñ fyrer þeim Hlutum, sem Saaluhiaalpenne tilheyra, og Gude kunna ad þocknast, þaa er þad saavijslegt Verk, og kañ ad hrinda þvilijkum Manneskium i eilijfa Fyrerdæming.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad hondla so med þad jardneska, og brwka so þaa tijmañlegu Hlute, ad vier misbrukum þaa ecke, edur laatum þaa hindra oß fraa þvi andlega og himneska, þvi so seger S. Paall: Þeir sem eigeñ-kvænter eru, skulu vera so sem ad þeir hefdu ei neinar, og þeir ed harma, so sem ad hormudu þeir ei, og þeir sem

fagna, sem ad føgnudu þeir eige, og þeir sem brwka þennañ Heim, so sem þeir vanbrwke hañ eige. 1. Cor. 7.

Voru þessar Afsakaner þaa gylldar metnar?

Nei, þvi þegar Þioonustu-madureñ kom aptur, og kuñgiørde þetta sijnum HErra, þaa vard Hwsbondeñ reidur, og so hañs Maaltijd skyllde ecke forgiefens tilreidd vera, sagde hañ til sijns Þionustu-mañs: Far þu snarlega ut aa Stræte Borgarennar, til þeß fatæka Almuga Folks, og leid volada og Kripplinga, hallta og blinda hier iñ, þad er, þaa fatæku Tollheimtumeñ og Syndara, sem voru foraktañleger fyrer Pharisearanna Augum, eñ þecktu þo sitt andlegt Volæde og Fatækdom, so og adra hier kringum verande Heidingia, sem ad sønnu hafa nockra Þecking aa Gude, þo litla og ofullkomna.

Hvad lærum vier hier af?

Þad Gud er eiñ mikell Vandlætare, og vill hefna sijn aa sijnum Ovinum, og laata sijna Reide koma yfer sinnar Naadar Foraktara, hver Reide ad er eiñ fortærande Elldur, og þad er hrædelegt ad falla i hañs Hendur. Heb. 10. Þo vill hañ

hañ ecke, ad sijn Naad skule vera forgiefens, sie hun foroktud af nockrum, þaa skal hun þo aptur odrum frambiodast.

Giørde Pienareñ epter þessare Hwßbondans Befalningu?

Jaa, og Þienareñ, epter þad hañ med Aastundan hafde ưtriett sijns Herra Skipun, og leidt marga iñ ad hañs Borde, sagde, HErra, þad er giørt hvad þu skipader, og þo er eñ nu meira Rum.

Hvad aa hier med ad merkiast?

Þad, ad Christur bæde sialfur, so og fyrer sijna Lære-sveina epter Guds Vilia og Befalningu, fyrer Ordsens kostgiæfilega Predikun, leidde marga til Ydrunar af Gydinga Folke, og þo fleire aa medal Almuga Folksens, Joh. 7. so sem Tollheimtu-meñ og Syndara, jaa Bersyndugа. Luc. 7. Og þo var eñ meira Rum, bæde i GUds Naadar og Dijrdar Hwse, eñ Gydingarner alleina kunnu ad iñtaka og uppfylla.

Hveriu svarade Hwsbondeñ hier til?

Þaa sagde Herrañ: Far þu ut aa Þiodbrauter og Tungarda, þad er, til Heidingianna, sem gaanga i Hiegoma

siins Hugskots, Eph. 4. aa þeim breida Synda og Fyrerdæmingar Veige, og eru fyrer utañ Gllds Søfnud framande, og fyrer utañ Borgar-Rett Israels, og Fyrerheitesens Testament. Eph. 2. Sauder af ødru Sauda-hwse. Joh. 10. Og naudga þeim, ecke med Makt, helldur med Orde og Aaminningu til Endurmiñingar sialfra þeirra Naudþurftar, hier iñ ad gaanga, so ad mitt Hws verde fullt: Eñ eg seige ydur, ad eingeñ þeirra Manna, sem kallader voru, og hafa so skañarlega foraktad mitt Bod, munu smacka mijna Kvølldmaaltijd.

Hvad siaaum og lærum vier hier af?

Vier siaaum hier Gllds Giæsku, og straanga Giedsmune vid Gydingana, sem eru fraafallner, og hañs Giæsku vid oß, sem i þeirra Stad iñplantader erum, og høfum fyrer þeirra Fall Heilsugiøf ødlast. Rom. 11. Eñ laatum oß þeckia soddañ Naad og Giæsku, og þockum Gude fyrer sijna Miskunseme: Eñ vorum oß, ad vier ecke med Vantrw og Ohlijdne wtelokum oß sialfer fraa hañs Naadar og Dijrdar Maaltijd, og so þad skule ecke skie, þaa hiaalpa þu oß, o þu himneske

Fader,

Fader, Fyrer Christi Skulld. Amen.

# Þridia Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar Heilagur Lucas i 15. Capit.

Aa þeim Tijma. Eñ aller Tollheim-tu-meñ og Bersynduger nælægdu sig til hañs, so ad þeir heyrdu hønum, og hiner Skriptlærdu og Phariseæi møgludu uñ þad, og søgdu: Þesse medtekur bersynduga Meñ, og etur med þeim. Eñ hañ sagde til þeirra þessa Epterlijking, so segiande: Hver sæ Madur af ydur, sem hefur hundrad Sauda, og ef hañ glatar einum af þeim, yfergiefur hañ ecke þæ niju og nijutijer æ Eydemørku, og fer epter þeim sem ad glatadest, þæangad til hañ finnur hañ? og þæ hañ hefur funded hañ, leggur hañ hañ sama med Fagnade sier æ Herdar, kemur heim og kallar samañ Vine og Næbua, og seger til þeirra:

ra : Samglediest med mier, þviad eg hefe miñ Saud aptur funded, þañ sem glatadur var. Eg seige ydur, ad lijka so mun Føgnudur vera a Himnum, yfer einum Syndugum, sem Ydran giører, meir eñ yfer þeim niju og nijutijer Riettlatum, sem eige þurfa Yferbootar vid. Eda hver er sw Kona, sem hefur tiju Peninga, ef hun tijner einum, er eige so, ad hun kveiker Lioos, og sopar Hwsed, og leitar vandlega, þangad til ad hun finnur hañ, og þa er hun hefur hañ funded, samañkallar hun Vinkonur sijnar og Grañkonur, segiande : Samglediest med mier, þviad eg hefe miñ Pening aptur funded, hverium eg tijnda. Lijka so og seige eg ydur, þad Føgnudur muñ vera fyrer Einglum GUds yfer einum Syndugum, þeim er Yferboot giører.

Hvad hefur þetta Evangelium iñe ad hallda?

Fyrst; Christi Kiærleiks-fullu og myskunsømustu Breitne vid Tollheimtu-Meñ og Bersynduga, sem komu til hañs.

Þar nærst; hañs huggunar-fullu Ræ-

du,

du, med hverre haṅ forſvarade þennaṅ ſin Giorning aa mote Moglan og Laſt-mælum Phariſeanna.

Hvad ſeger Evangelliſteṅ uṁ þad fyrra?

Haṅ ſeiger: Eṅ aller Tollheimtu-meṅ og Berſynduger nalægdu ſig til haṅs, ſo ad þeir heyrdu hønum, og hiner Skriptlærdu og Phariſæi møgl-udu uṁ þad og ſøgdu; þeſſe medtek-ur berſynduga Meṅ, og etur med þeim.

Hvad verdur oß hier fyrer Siooner ſett?

Oß verda ſynder hier tveṅſlags Meṅ; Fyrſt, Tollheimtu-meṅ og Berſynduger, ſem komu til JEſum. Þar næſt; þeir Hræſnis-fullu Phariſæarar, og Skript-lærder, ſem møgludu þar uṁ.

Hverier voru þeir, ſem komu til JEſum?

Allra handa Tollheimtu-meṅ og Synd-arar, hverier halldner voru fyrer þar Storſynduguſtu, ſo ſem ſu berſynduga Konaṅ. Luc. 7. og adrer þvilijker.

Hvad fyrer eitt Folk voru þeſſer Tollheimtu-meṅ?

Þeir voru þeß hattar, ſem fyrer viſſa Peninga Suṁu leigdu edur keiptu af Romverium alla Tolla i Gydinga-lande, hverier jafnvel þo þad være mik-

ed af þeim hallded hiaa Romverskum, samt voru þeir þo vidurstyggeleger hiaa Gydingum, og hiaa þeim metner sem Heidingiar og adrer Storsynduger. Matt. 18. Og þad fyrer þad þeir plaagudu Gydingana, sem annars villdu vera eitt friaalst Folk, og lietu þaa Romverska brwka sig til ad plaaga sitt eiged Folk, þeir villdu ei helldur laata sier nægia med þad sem vera aatte, helldur krøfdu þeir meira en þeim var fyrersett, sem siaast kan Luc. 3.

Hvad giordu þaa þesser Tollheimtu-men?

Marger af þeim aasamt med ødrum Stoorsyndurum komu til JEsum, sem siwker til Læknarans, Sauderner til Hyrdersens, og þeir andlega hungrudu og þyrstu til hans þess sanna Lijfsens Brauds og Uppsprettu, ydrande sijns fyrra Raangslætes og vondra Verka.

Til hvers Erendes komu þeir?

Til ad heyra hønum, þeir høfdu aadur heyrt Johannem, hver ed straffade þeirra Synder, og aaminte þaa ad giora Ydran, þar fyrer kieppast þeir nu en framar til Christum, og vilia læra af hønum, og faa Huggun fyrer sijnar Saaler, sem Syndanna vegna voru i Hrigd og Aangist staddar.

Hvad

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Þad, ad nær vor Samviſka vaknar, og vorar Synder nidurþryckia oß, þaa ſkulum vier ecke frañgaanga i þeim, helldur i Tijma ſnua oß til þeß naaduga JEſu, ſem er Hyrder og Biſkup vorra Saalna. 1. Pet. 2. Og leita oß Lækningar i hañs Saarum, Hreinſunar i hañs Blode, Endurnæringar af hañs Orde, og vorum Saalum Sadnings og Svolunar vid hañs Bord. Vier ſkulum koma til ad heyra honum, bæde nær hañ hootar, nær hañ ſtraffar vorar Synder, ſo og nær hañ huggar vorar Saaler, jaa, nær hañ aaminner oß til gudrækelegrar Ydkunar. So vier ſkulum ætijd ſegia til hañs med Lære-ſveinunum: HErra, til hvers ſkulum vier fara, utañ til þijn, þu hefur Ord Eilijfs Lijfs. Joh. 6.

Hvernen took JEſus aa moote þeſſum ydrande Tollheimtu-Mønnum og Berſyndugum?

Miog blijdlega og vinſamlega, ſo ſem Phariſeanna og þeirra Skriptlærdu moglunarſomu Ord ſijdar i Textanum utvijſa: Hañ medtekur þeſſa, og etur med þeim.

Hvad ſiaaum vier hier af?

Þaa ſtoru Giæſku vors Frelſara JEſu,

ſu vid þar aumu ydrande Syndara, þvi hver ſaa ſem til hañs kemur, þaa vill hañ þañ ei fraa ſier reka. Joh. 6. Helldur ur giarnſamlega medtaka, og hañ vokva og endurnæra, ſem erfidar og þiaaeſt under Syndanna Byrde, þar ſem hañ alleinaſta kemur til hañs med ydrande Hiarta. Hañ ſtendur ſiaalfur fyrer Dyrunum og klappar uppaa, ef nockur vill luka upp fyrer honum, þaa vill hann gaanga iñ til hañs, og Kvolldverd med honum ſnæda. Apoc. 3.

Lijkade ollum þeſſe Chriſti Giæſka?

Nei, þvi Phariſearner og þeir Skriptlærdu møgludu uñ þad, og ſøgdu: Þeſſe medtekur berſynduga Meñ, og etur med þeim, ſo þeir voru raangeigder fyrer þad hañ var godgiarn, ſiaalfer villdu þeir ecke koma, eñ øfunduduſt þo yfer þvi, ad adrer komu til Chriſtum: Þar fyrer ſannaſt þad aa þeim, og var riett talad, ſem hañ ſagde til þeirra: Vei ydur Skriptlærdum og Phariſeis, þier Hræſnarar, hverier aptur loked Himnarijke fyrer Monnum, ei gaange þier þar iñ, og þeim er þar inn vilia gaanga, þaa lofe þier ei þar iñ. Matt. 23.

Hvad

Hvad kūnum vier hier ut af ad ſiaa og Læra?

Þetta, ad þar er eckert ſo vel giort, ad þad kunne øllum ad lijka. Þviad ſo ſem Flugurnar feila ſier ei ad þvi, ad ſetia ſijn Saurinde aa þañ biartaſta Speigel, og hvijtuſtu Klæde; So ſkamaſt Veralldarennar Børn ſijn ei helldur ad þvi, ad tala illa um̄ þad, ſem allra beſt er giort og talad. Luc. 11. Læatum Phariſæana møgla og tala ſo illa um̄ Giæſku vors Frelſara, ſem þeir vilia: Vier vilium þo ei ad ſijdur laata þad, ſem þeir ſeigia um̄ hañ uppa Spott, vera vora ſætuſtu Huggun; Þeſſe medtekur berſynduga Meñ og etur med þeim. Item, hañ er Vinur Tollheimtumanna og Syndugra. Matt. 11.

Hvad giørde JEſus þegar hañ heyrde þeſſa þeirra møglunarſømu Rædu?

Hañ ſagde þaa til þeirra þeſſa Epterlijking, ſem i Gudſpiallinu ſtendur.

Hafa ecke baadar Chriſti Epterlijkingar þaa ſømu Þijdingu?

Sañarlega, þvi vier meigum ſegia um̄ þær þad ſama, ſem Joſeph um̄ baada Pharaonis Drauma: Baader Pharaonis Draumar merkia eitt, Epterlijkingarnar

arnar tvær eru sem ein, og Christi Meining i þeim baadum er sama, sem Endalikteñ aa baadum gefur til Vitundar.

Hver er þaa Christi Meining i þessum tveimur Epterlijkingum?

1.) Vill hañ med þeim syna oß almeñelega allra vorra Veikleika, ad jafnvel þo Gud hafe giort oß ad sijnu Folke, og þeim Saudum, sem hañ fæder, so kuñum vier þo audvelldlega ad reika aa rangañ Veg, og verda villuraafande Sauder, eñ ecke aptur aa riettañ Veg ad komast, nema so sie, ad saa gode Hyrdereñ JEsus leite sialfur ad oß. Og þo vier sieum sem Guds Peningar, uppa hveria hañ hefur sett sijna Mynt, Mynd og Yferskrift, bæde i þeirre fyrstu Skopun, og sijdañ i Endurgetninguñe, þaa kuñum vier þo audvelldlega ad missa Guds Mynd og Merke, og verda tijnder og fortapader.

2.) Vill hañ sierdeilislega til Vitundar gefa, bæde eins Syndara aumlegt Tilstand aadur eñ hañ uñvendest og giorer Ydran, ad hañ er þaa, sem eirn glatadur Saudur, og eiñ tijndur Peningur, sem af sialfum sier til kañ ei aa riettañ Veg ad komast, edur sig upp ad leita: So og sijna

siina storu Giæsku og Umhiggiu fyrer þvi, ad leita epter eins Syndara Ydran og Sæluhiælp. Þvi alldrei er nockur Hyrder so umhurunarsamur, ad leita epter þeim glatada Saud, edur Konañ epter þeim tijnda Pening, ad sœ gode Hyrder sie ecke umhurunarsamare ad leida eiñ villuræfande Syndara, hver ed er lijka sem eirn glatadur Saudur, aptur æ riettañ Veg. Hver ed er (seige eg) sem eiñ tijndur Peningur, ad hverium hañ vandlega leitar, þar til hañ hefur hañ fundid og æ hañ fundeñ setur hañ aptur siina Mynd og Mynt, fyrer siñ Anda og siina Naad.

Straffar hañ ecke og so Phariseaña og hiña Skriftlærdu moglunarsomu Ord og Ofund med þessum Epterlijkingum?

Sañarlega, þvi þar hañ seiger, ad Hyrdersens Viner og Naabuar samglediest med honum, nær hañ hafe apturfundid siñ glatada Saud; So og Kviñuñar Vinkonur og Grañkonur, þegar hun hafe funded siñ tijnda Pening; þæ vill hañ þar med merkia, ad þeim bære ecke ad mogla edur ofundast þar yfer, þo hañ medtæke þæ ydrande Syndara so vinsamlega;

lega; helldur miklu framar samglediast med honum yfer þeirra Umvendan.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad sem Syrach seiger; bregd þu þeim ecke um sijna Synd, er sig bætt hefur, og hugsa þu, ad aller vær erum nockurs sakader. Syr. 8.

Hvernenn endar Christur Epterlijkingarnar?

Med þessum huggunarfullu Ordum, segiande: Lijka so mun Fögnudur vera a Himnum fyrer Einglum Guds, yfer einum syndugum, þeim ed Yferbot giorer.

A hverium Himne seigest hier eigenlega ad Fögnudur mune vera yfer einum Syndugum, sem Yferbot giorer?

A GUds Dijrdar Himne, þviad so sem GUd sialfur fagnar, epter mannlegre Vijsu ad tala, yfer þvi, ad hans Naad, Christi Forþienusta og þau tilskickudu saaluhiaalplegu Medol eru ecke til forgefins þvilijkum Syndara, er sier snyr fra sijnum vonda Vege; So fagna og hans Heilögu Einglar, hverier, med þvi þeir eru þionustusamer Andar. Heb.1. Þaa fagna þeir yfer Mannanna Ydran, og ad þeir verka sijna Saaluhiaalp, so ad þad Skard, sem skede i þeirra Tolu vid Fall þeirra vondu

Eingla,

Eingla, kañ ad uppfyllast fyrer Samañsøfnun þeirra Gudhræddu, til þeirra aa Himnum.

Hverneñ aa þad ad skiliast, ad Christur seiger, ad þeir Rettlaatu þurfe ecke Yferbotar vid?

Þad aa ad skiliast um̄ Hræsnara, sem sialfer meina, ad þeir sieu so rettlaater og heilager, ad þeir hafe ecke Ydrunar Þørf, edur ad faa Fyrergiefning aa siinum Syndum og Saurugleika.

Hvad skulum vier ad siidustu hier af læra?

Vier skulum so tilsiaa, ad vier kyñum fyrer GUds Naad ad læra ad þeckia vorar Synder og Yfertrodslur, eñ stola ecke uppaa vort eiged Rettlæte, helldur aa Tiima Naadarennar snwa oß til Guds, so vier sieum ecke GUde og hañs H. Einglum til Hrigdar, helldur miklu framar til Glede, uppaa þad vier mættum um̄ siider med þeim glediast hiaa hønum eiliiflega. Ad siidustu andvarpe sierhvert Guds Barn med David, segiande: DRotteñ, eg for villt sem Saudur, leita þu ad þiinum Þienara, og med Ephraim; snw þu mier Drotteñ, þaa er mier snued. Amen.

# A Joons-Messu Baptistæ.

Gudspialled skrifar S. Lucas i 1. Cap.

Og þa ed sa Tijme var komeñ, þad Elizabeth skyllde fæda, og hun fædde Son. Og er Nagrañar heñar og Frændur heyrdu þad, ad Drottin hefde margfalldad Myskun sijna vid hana, samgløddust þeir heñe; og þad skede, ad þeir komu a hinum attunda Dege ad umskera Sveineñ, og nefndu hañ sijns Fødurs Nafne Zacharias. Eñ Modur hañs svarade og sagde: Ongvañveigiñ, helldur skal hañ Johannes heita. Og þeir søgdu til hennar: Þar er þo eingeñ i þiñe Ætt, sem ad heyter þessu Nafne. Eñ þeir bentu Fødur hañs, hvad hann villde ad hañ hiete. Eñ hañ beiddist Knefa-spiallds, skrifade og sagde: Johannes er hañs Heyte; Og þeir undrudust aller. Eñ jafnsnart laukst hañs Munnur upp, og Twnga hañs talade, lofande GUD, og Otte kom yfer allá þeirra Nagranna, og um allar Fiallbygder i Judea vijdfrægd-

ust

ust øll þesse Ord. Og aller þeir, ed
þad heyrdu, settu þad sier i Hiarta,
og søgdu: Hver grunar þig ad þesse
Sveiñ verde? Þviad Hønd DRottins
var med hønum. Og Zacharias
Fader hañs fyllteſt af Heiløgum Anda,
spaade og sagde: Blessadur sie
DRotteñ GUd Israels, þviad hann
vitiade og giørde Frelsun sijnu Folke,
og hañ uppreiste oß eitt Hialprædis
Horn i Hwse Davids Þions sijns, so
sem hañ hefur talad fyrer Muñ sinna
heilagra Spaamanna, þeirra sem nu
eru af Heimenum. Hañ frelsade oß
fraa Ovinum vorum, og af Hende
allra þeirra, sem oß høtudu. Hañ
giørde og Miskunsemd vid Fedur vora,
og miñteſt aa siñ heilaga Saattmaala,
og aa þad Sære, er hañ soor
Fødur vorum Abraham, ad hañ giæfe
oß þad. Ad vier leyster af Hende
Ovina vorra, þionudum hønum aan
Otta i Heilagleika og Rettlæte fyrer
hønum sialfum, alla vora Lijfdaga.
Og þu Sveiñ munt kallaſt Spaamadur
hins Hædsta, þviad þu munt fyrerrenna
Auglite DRottins, ad til-

bwa hañs Vegu, og ad gefa hañs Folke Skilning Saaluhiaalparennar, til Fyrergefningar Synda þeirra, fyrer Miskunar-Idur GUds vors, i hverium hañ vitiade vor uppruñeñ af Hædum, ad lysa þeim, sem i Myrkrum og Daudans Skugga sitia, til ad greida Fætur vorar fram̃ aa Veg Fridarins.

Um̃ hvad er geted i þessu Evangelio?

Um̃ Johannis Skijrara Fæding og Umskurn. Hvar af vier siaaum: Fyrst, bæde GUds storu Giæsku vid Zachariam og hañs Hws. Þar næst, og so Zachariæ Þackargiørd, sem hañ færde Gude, hver auglioos er af hañs prijdelega Lofsaung.

Hvad talar Evangelisteñ um̃ Johañis Fædingu?

Hañ seiger: Og þaa ed saa Tijme var komeñ, ad Elizabeth skyllde fæda, og hun fædde Son, og er Naagrañar hennar og Frændur heyrdu þad, ad Drotteñ hafde margfalldad Miskun sijna vid hana, samglødduust þeir heñe.

Hvad verdur oß hier fyrer Siooner sett?

Fyrst, Elizabeth, sem ein glød Barna-Moder. Þar næst; Elizabethar Naa-

Naugrañar og Frændur, sem samglodduſt með henne.

Hverneñ getur hañ um það fyrra?

Með þessum Hætte: Og þa ed sa Tijme var komeñ, epter Guds Orde og Lofun fyrer Eingiliñ, það Elizabeth, sem var Hwsfrw þeß gamla Prestz Zachariæ, og komeñ til ſiña Aara. Jaa, sem hallðeñ var Obyria, ſkyllde fæda, og hun fæðde Son, fyrer ſierlegt Guds Almætte og ſtora Naad og Bleſſan, þar hun var yfer þañ Alldur, sem Konur plaga ad fæda.

Hvad ſiaum vier hier af?

Ei alleinaſta Guds Truſkap til ad hallda og fullkomna ſijnar Lofaner, hvad undarlegar sem þær ſynaſt fyrer Mañanna Augum, helldur og ſo hañs Almætte, ad hañ kañ ad giøra hvad hañ vill, og eingiñ Hlutur er honum omøgulegur. Hañ kañ bæde ad tillykia eiñrar Modur-Kvid, ad hun gete eige fædt. Gen. 20. So og kañ hañ ad uppljwka Modureñar Lijfe, og giøra þa ofrioodſomu frioofſama. Gen. 30. Jaa, hañ lætur Obyriuna bwa i Hwſenu, ſo það hun verde ein gladvær Barna-Modur. Pſ. 113.

Hver Lærdomur kan hier af ad dragast?

Fyrst; hafa øll Guds Born almenni-lega þad hier ad læra, ad þau i øllum aa-liggiande Naudsynium bijde þolinmodlega epter Guds Tijma, og trwe, ad hañ munе vissulega bænheyra þau aa Naudarennar Tijma, og aa Hiaalprædesens Dege hiaalpa þeim. Es. 49.

Þar nærst; hafa øll Christeleg Ekta-hioon þad sierdeilislega hier ad læra; ad med þvi Børneñ eru Gaafa DRottens, og þad er allt i hañs Hende, bæde Tijmeñ ad fæda, og ecke ad fæda, þaa skulu þau þacka GUde fyrer sijna Blessan, þegar hañ giører þeirra Ektaskap aavaxtarsamañ; Og jafnvel þo hønum þockneft, aña̋dhvert seint, edur alldrei þeim Børn i Hioona-bandenu ad gefa, þaa skulu þau ecke med Rachel þar yfer oþolinmood vera, edur þar fyrer møgla aa moote GUde; Helldur laata sier vera þægañ hañs Vilia, hañ kañ audvelldlega ad giøra eina Ofrioossama ad eiñre gladre og blessadre Barna-Mod-ur. Og jafnvel þo hønum þockneft þad ecke, þaa skulu þeir vita, ad hañ hefur sijn Raad huliñ, og veit hvad hañs Børn-um þienar best, hañ vill og sialf-

ur i þeirra Stad vera þeim betre eñ morg Børn.

Hvad stendur skrifad um Elizabethar Frændur og Nagranna?

Þetta: Og er Nagrannar heñar og Frændur heyrdu þad, ad Drottenn hafde margfalldad Miskun sijna vid hana, i þvi ad blessa hana med einum Syne i hennar Alldurdome, og burttaka þad Bryxle, sem hun bar a millum Mañaña, samglødduſt þeir med heñe, epter þvi sem Eingilliñ hafde adur talad, ad marger mundu fagna af hañs Fæding.

Hvad siaum og lærum vier hier af?

Vier siaum hier eitt Epterdæme rettsinnadra Frænda og Nagranna, ad þeir samañsafnuduſt til Elizabethar, og fognudu yfer hennar Velgeingne; so þad geck eins til fyrer henne, og David seiger um sig: Hiner Riettferdugu skulu safnast til mijn, nær ed þu giorer mier til goda. Ps. 142. O hversu agiætlegt er þad fyrer Gude og Monnum, þegar Nagrannar elskaſt, og hallda trwlegañ Vinskap hver vid añan, þvi eiñ Nagranne, sa i Nænd er, hañ er betre eñ Brooder, sa i Fiarlægd

er. Prov. 27. Eiñ̄ verdur oß hier med kent, ad vera sem rietter Limer a einum Lijkama, fagnande med fagnendum, og grꜳtande med grꜳtendum; Eñ siꜳ til, ad vier sieum ecke af þeirra Ætt, hverra Auga ad er illt, fyrer þad Gud er godgiarn. Matt. 20. Miklu sijdur fagnande yfer annara Skada. Þvi hver sem fagnar yfer annars Ofsrum, hañ verdur ecke ostraffadur. Prov. 17.

Hvad verdur talad um̄ Johannis Umskurn?

Þetta: Og þad skede, ad þeir komu a hinum aattunda Dege, sem vid aattu ad vera, og hiner sem fram̄kvæma skylldu þetta heilaga Verk, ad um̄skera Sveineñ epter Guds Befalningu. Gen. 17. Og med þvi þad var Sidvenia ad gefa Børnunum Nafn i Um̄skurnīne, so villdu þeir og gefa þessu Barne Nafn, og kalla hañ epter sijns Fødurs Nafne Zacharias, og jafnvel þo þad være bæde eitt vijrdilegt Nafn, hvert ed merker so miked sem Drottens Miñing, sꜳ sem miñest Drottins, og hvers endurminst verdur af Drottne, Madureñ sem eiñ godur og heidurlegur Kenne-madur var þeß verdugur, ad epter hañs Nafne hiete Sonureñ, samt vill-

de

de hans Moder Elizabeth þad ecke epterlaata, þvi hun svarade og sagde: Ongvañveigiñ, helldur skal hañ Johañes heita: Hvad hun hefur sagt, añadhvert af sierlegium Heilags Anda Jnblæstre, so sem hun aadur talade; Edur og þaa hefur hennar Madur Zacharias henne þar um skriflega undervijsad, ad Gud hafe hønum fyrer siñ Eingil befalad, ad hañ skyllde so nefnast. Eñ þeir sogdu til heñar: Þar er þo eingeñ i þinne Ætt, sem ad heiter þessu Nafne. Hvad er þad fyrer eitt, ad þu villt koma upp med nockud nijtt? Og uppaa þad þeir færu ecke villt med hefie, giorande aa moote Fodursens Vilia, þaa bentu þeir Fødur hans Zacharia, sem var Maallaus, hvad hañ villde ad hañ hiete; Eñ hañ beiddest Knefa spiallds, skrifade og sagde, Johannes er hañs Heite.

Hveria Lærdoma kunnum vier oß til Epterþeinckingar hier af ad draga?

Fyrst; so sem Zacharias og Elizabeth lietu ecke sijns Sonar Umskurn dragast fram yfer siñ riettañ Tijma, helldur lietu þau hañ umskera aa þeim aattunda Dege, epter Guds Befalningu. Gen. 17. So ber og Christi-

legum Forelldrum, ad laata ecke sinna Barna Skijrn leinge undañdragast, helldur þad fyrsta møgulegt vera kañ, þau Gude offra, og i hans Søfnud iñplanta fyrer hana.

Þar næst; so sem vor Nøfn verda oß i Skijrnenne gefeñ, þaa skulu þau vera oß ein dagleg Uppvakning, bæde um̃ þaa storu Naad, sem GUd hefur þar gefed oß, so og um̃ þær miklu Lofaner, sem vier høfum þar aa mote giort vid Gud.

J þridia Maata; þaa ber Forelldrunum ecke ad gefa sijnum Børnum heidiñ Nøfn, edur oñur osæmeleg, helldur god og Christeleg Nøfn. Þeim ber ad nefna þau epter þeim heilogu Guds Børnum i Skriftenne, og ødrum fromum Mønnum̃, añadhvert i siñe Ætt, edur añara, og aaminna þau til þeß, ad þau bere ecke alleinasta þeirra Nøfn, helldur og eptersylge þeirra godum Dygdum.

J fioorda Maata; þaa er þad eiñ aagiætur Hlutur, nær þad er ein god Eining aa millum̃ Mañseñs og Konuñar, ecke i þvi illa, sem aa millum Ananiam, og hans Kviñu Saphiram, helldur i þvi goda, sem hier aa millum Zachariæ og Eli-

Elizabethar, sierdeilis nær þau eru bæde
æhiggiufull, og stunda epter, fyrer id-
uglegar æmiñingar og kostgiæfelega Upp-
tuktan, ad þeirra Born kyñe ad vera riett-
er Johannis Brædur og Systur, so þau
mættu finna Naad hiaa Gude.

Hvad skede epter þessa Handteran?

Fyrst; ein stor Forundrun hiaa Eliza-
bethar Frændum og Naagrennum, þvi
þeir undrudust aller, sem yfer einhver-
iu sierlegu, ad þetta Barn var ei allein-
asta undrunarlega geted og fædt af þessum
olldrudu Forelldrum, helldur voru þau
og bæde samhlioda i þvi, ad gefa Barn-
enu þetta merkelega Nafn. Þar
nærst; ein nædug Umbreiting aa Zach-
aria, þvi Texteñ seiger: Eñ jafnsnart
laukst hañs Muñur upp, og Tunga
hañs talade, lofande Gud, hver aad-
ur fyrer hans Vantru var so sem bundeñ,
epter Eingilsens Ordum, so hliodande:
Þu munt Mæallaus verda, og ei talad
geta, allt til þess Dags, þaa þetta mun
framkoma, so verdur nu þetta sama Band
hans Tungu laust fyrer Gllds Naad, so
hans Munnur lykst upp og hans Tunga
talar riett priisande Gud, og fullkomnast

þad hier a honum, sem talad er fyrer Spamañeñ, er seiger, Tunga hins maallausa mun Lof seigia. Es. 35.

Kunnum vier nockud hier af ad læra?

Jaa, vier kunnum oß hier ut af ad draga þessa epterfylgiande Lærdoma, Fyrst; ber oß verduglega ad forundrast yfer Guds Verkum og Velgiorningum, sem hañ veiter bæde oß og ødrum segiande med David: Drotteñ, undarleg eru þijn Verk, og þad sama þecker vor Saala vel. Þar nærst; þaa siaum vier, ad GUD er bæde eiñ riettlaatur og naadugur GUD; hañ særer og græder, hañ sundurslær, og hans Hond læknar. Job. 5. Hañ er og eiñ almaattugur GUD, hañ hefur skapad Mañsens Muñ, og hañ kañ ad giora maallausa og dausa, siaande edur blinda. Ex. 4. allt epter sijnum þocknanlegum Vilia. J þridia Maata, ad so sem Zacharias, þegar hans Muñur opnadest, og hans Tunga uppleistest, þaa brukade hañ hana fyrst til ad lofa og prijsa GUD med; So ber oß einneñ þegar vier hofum medteked nockurt sierlegt Frelse og Naad af Gude, ad giora honum Þacker af ollu voru Hiarta og offra honum Uxum vorra Vara. Os. 14. i þvi ad lofa og dijrka hañ, eñ

eñ varast ad misbrwka vora Twngu GUde til Spotts og Vanheidurs; Helldur skulum vier miklu framar læta hana vera so sem eiñ Peña eins Ægiæts Skrifara til ad uppteikna Guds Dijrd. Ps. 45.

Var þetta þaa ei ødrum kunnugt utañ þeim, sem voru i Zachariæ Huse?

Sannarlega þar vijdfrægdest þad, þvi Evangelisteñ seger: Og Otte kom yfer alla þeirra Nagrañа, og uñ allar Fiallbygder i Judea vijdfrægdust øll þesse Ord, og aller þeir, ed þad heyrdu, settu þad sier i Hiarta, sem nockud sierlegt og markverdugt og søgdu; hver grunar þig ad þesse Sveirn verde, þviad Hønd DRottins var med hønum. Jaa, hañ auglyste sijna storu Naad, Krapt og Blessan vid Barned.

Hver Lærdomur kañ hier af ad dragast?

Fyrst, saa, ad GUds Verk ber ei ad dilia, helldur heidarlega ad vijdfrægia og opeñbera. Tob. 12. Þar nærst; ad so sem þar geingur alltijd Reikur upp af Brandenum, so geingur og Rikte af vorum Verkum, hvert þau eru helldur ill edur god. Eckert Fiall er so hatt, ad Rikte berest ecke uppaa þad, edur yfer þad; og

eingiñ

einginn Dalur so diupur, ad þad nidurstijge ecke þangad, og utbreidest þar allt um kring. Þar fyrer skulum vier tilsiaa, ad vier gøngum erlega sem aa Dege. Rom. 13. Uppaa þad vor Verk kynne med Æru ad koma i Lios, og vorer Sider goda Lukt og Rikte fraa sier ad gefa. J þridia Maata; þaa syner þad sig opt utvortis aa Ungdomenum i hans Barnæsku, hvad hann mune verda aa sijnum fullkomnu Alldurs aarum, þvi af Blomstur-pungunum aa Triaanum, kann Madur nockurnvegiñ nærre ad geta, hvern Avoxt þau mune færa. Þar fyrer vilie Foreldrarner, ad Børnenn skule god verda; þaa er þad ei nog ad undrast yfer þvi goda, sem utvortis kann hiaa þeim ad siaast, helldur ber þeim og med kostgiæfelegre Upptuktun og Aminningu Drottens, ad uppvekia, og so sem blaasa ad þeirre Naadar Gaafu, sem Gud hefur hiaa þeim nidurlagt; Þeir skulu ecke þeinkia (jeg meina Foreldrarner) ad þeirra eigenn Hendur duge noog til Upptuktunar og Uppfosturs, helldur ber þeim sierdeilislega ad bidia GUD, ad hann vilie laata sijna Hond vera med þeim, til allrar Naadar

Naadar Framkvæmdar og Blessunar, so þau med Samuele vaxe og verde þeck bæde Gude og Mønum. 1. Sam. 2. Jaa, med JEsu aukest med Alldrenum ad Naad og Vitsku hiaa Gude og Mønnum.

Hvad verdur talad um̃ Zachariæ Lofsaung?

Þetta: og Zacharias Fader hans fylltest af heiløgum Anda, spaade (af sierlegum Andans Jñblæstre) og sagde: Blessadur sie Drotteñ GUD Israels.

Af hvers Jñblæstre framsette Zacharias þeñañ Lofsaung?

Af Heilags Anda Jñblæstre, þar hañ fylltest af Heiløgum Anda.

Til Hvers talade hañ þennañ Lofsaung og Þackargiørd?

Til Drottens Israels Guds, sem̃ er maattugur, og miøg loflegur.

Fyrer hvad þackade hann?

Hañ þackade bæde almeñelega, Gude fyrer sijna storu Naad, ad hann villde nu senda siñ eingeten Son i Heimeñ.

Þviad hañ vitiade med eiñre sierlegre Naad og Miskunseme, og giørde Frelsun sijnu Folke, og hann uppreiste oß eitt Hialpar Horn, siñ Son, sem er þad rietta Lamb med Siø Horn. Apoc. 5. þad er, med fullkomeñe makt og Krapte,

og

og hans andlegt Rijke, sem er mættugt til ad kollkasta ollu jardnesku Vellde. Rijk-iunum og þeirra Makt verdur i Ritning-unne samjafnad vid Horn. Zach. 1. i Hu-se Davids Þions sijns, af hvers Ætt og Slekte hañ skyllde fædast, hvad og var ein Fyrermyndan uppaa þaa Christe-legu Kyrkiu, sem er su andlega Zion og Davids Hws, hvar med Gud hefur aud-syndt siñ Truskap i sijnum Lofunum, so sem hañ hefur talad fyrer Muñ sinna heiløgu Spaamaña, sem i fraa forn-um Tijma vered hafa, og sijna storu Myskunseme, og hennar Auglysingu i Giøf og Sendingu sijns Sonar, ad hañ villde frelsa oß fraa vorum Ovinum, og af Hende allra þeirra, sem oß høtu-du. So og þackade hañ sierdeileslega Gude fyrer Sending Johannis og hans Embætte segiande: og þu Sveirn munt kallast Spaamadur hins Hædsta, þvi-ad þu munt fyrerreña Auglite Drott-ens, þad er Meßiæ, ad tilbua hans Veg fyrer þitt Predikunar Embætte, og giefa hans Folke Skilning Saalu-hiaalpareñar, þad er, leida þad til Guds og hañs Sonar saaluhiaalplegrar Þeck-

ingar,

ingar, til Fyrergiefningar Synda þeirra, hveria þeir skulu ødlast fyrer Myskunar-Jdur Guds vors, i hverium hann vitiade vor uppruñeñ af Hædum, þad er JEsus Christus, su saña Rettlætes Sol; Mal. 4. ad lysa þeim med sinne Forþienustu og Ordsens Krapte, sem sitia i Syndareñar, Fævitskuñar og Villu-vegarens Myrkrum og daudans Skugga, til ad greida Fætur vorar fram aa Veg Fridarens, þad er, kieña oß, hverneñ vier skulum med Truñe hafa hier þañ andlega Frid vid Gud, og sijdar niota þeß eilijfa Fridar hiaa Gude.

Hveria Lærdoma kunnum vier oß hier af ad draga?

Hier af kuña marger kostuleger Lærdomar ad dragast; af hverium vier vilium alleinasta þessa tvo epterfylgiande athuga. Saa fyrre, ad vier skulum lofa og Packer giora einasta Drottne, þeim saña Jsraels Gude, fraa hverium øll Naad og Blessan kiemur, eñ ef vier vilium rettelega hønum Packer giora, þaa maa bæde vort Hiarta og Munnur uppfyllast af Naad Heilags Anda, aan hvers Hiaalpar vier kunnum ekkert gott ad giora, þeinckia edur tala. Hiñ sijdare er þesse, ad vier

skulum þacka Gude fyrer alla hans fodur-lega Velgiorninga, en þo sierdeiles og einkum fyrer Giøf og Sending sijns Sonar i þennan Heim, til ad leysa oß og frelsa af Hende Ovina vorra, jaa, fyrer hans heilaga Ords Predikun og Forlijkunar Embætte, hvar fyrer hann giefur oß Skilning Saaluhiaalparennar, og verkar i oß Syndanna Fyrergiefning. Vier vilium ad sijdustu giora Fodurnum þacker, sem oß hefur skapfellega giort til Arfskiptes Heilagra i Lioosenu, hver ed oß frelsade fraa Makt Myrkranna, og upphafde oß i Rijke sijns elskulega Sonar, i hverium vier hofum Endurlausnena fyrer hans Blood, sem er Syndanna Fyrergiefning. Honum med Fodurnum og Heilogum Anda sie Lof og Dijrd fraa Eilijfd til Eilijfdar. Amen.

## Fioorda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar Heil. Lucas i. 6. Cap.

Og JEsus sagde til sinna Lærisveina: Vered miskunsamer, lij-

ka

ka sem ydar Fader er miskunsamur. Eingvañ skulud þier dæma, so ad þier dæmest eige; fordæmed ecke, so ad þier fordæmest eige; fyrergiefed, og þa mun ydur fyrergiefed verda. Giefed, og þa skal ydur giefast. Eina fulla, sambryckta, velskiekna og yferfliotanlega Mæling munu þeir giefa i ydvart Skaut. Þviad med þeirre hinne sømu Mælingu, hverre er þier mæled wt, mun ydur iñ aptur mællt verda. Og hañ sagde þeim eina Epterlijking, hvert kañ nockur Blindur Blindañ ad leida? eda er ecke so, ad þeir falla bæder i Grøfena? Lære-sveiñeñ er eige yfer Meistaranum; Eñ nær Lære-sveiñeñ er sem hañs Meistare, þa er hañ algiørdur. Hvad sier þu Vagleñ i þijns Brodurs Auga, eñ ad þeim Biælkanum, sem i þijnu Auga er, giæter þu eige? Eda hverneñ mættu segia Broodur þijnum: Brooder, leif þu ad eg burtdrage Vagleñ wr þijnu Auga, þar ed þu sier ecke siælfur Biælkañ i þijnu Auga? Þu Hræsnare, drag fyrst wt Biælkañ wr þijnu Auga, og sia þu

þær til, ad þu fæer wtdreiged Vagl-
eñ wr þijns Broodurs Auga.

Hvad hefur þetta Evangelium inne ad hallda?

Fyrst; Christi Aminning og Rꜳdlegg-
ing til ad ydka Myskunseme. Þar nærst;
hañs Samlijkingar Rædu, i hverre hañ
med adskiliañlegum Epterlijkingum varar
oß vid nockrum Løstum, sem strijda moote
gudrækelegu Athæfe, og sierdeiles ꜳ mote
Christelegre Myskunseme.

Hverneñ ꜳminner hañ þꜳ og rꜳdleggur adstun-
da Myskunseme?

Hañ giører þad, fyrst, almennelega, og
þar nærst; i nockrum Greinum, edur sier-
deileslega.

Hverneñ hlioodar hañs almeñeleg Amiñing?

Þañiñ: Vered myskunsamer, lijka
sem ydar Fader er myskunsamur.

J hveriu er sw rietta Myskunseme iñefaleñ?

J þvi, ad vier viknum vid i voru Hiar-
ta, og høfum innelega Medaumkun yfer
vorum Nꜳunga, og lꜳtum hañs Eymd
og Neyd andlega og lijkamlega oß til Hiar-
ta gꜳnga, hiꜳlpande honum i øllu þvi,
sem møgulegt kañ ad vera.

Hverneñ skulum vier vera myskunsamer vid vorn
Nꜳunga, nær hañ er i andlegañ Mꜳta aumur
og voladur?

Vier

Vier skulum kienna honum, þegar hañ er einfalldur og faavijs i sijnum Saaluhjalpar Efnum, hugga hañ, þegar hañ er sorgfullur, straffa hañ, þegar hañ syndgar, og leidrietta hañ med hogværum Anda, ef hañ verdur yferfalleñ af nockrum Breyst. Gal. 6. Jaa, vier skulum leggia allt Kapp aa, ad frelsa hañs Ond fraa Daudanum, og leida hañ af sijnum villta Veige. Jac. 5. i þvi ad hafa Medaumkun yfer honum, hjalpa honum med Otta, og lijka sem ryckia honum wr Baalenu. Jud. v. 23.

Hverneñ skulum vier audsyna vorum Naaunga Mysku̅nseme i þvi lijkamlega?

Fyrst; skulum vier i hvern Maata, sem vier siaaum vorum Naaunga illa vegna, laata hañs Neyd oß til Hiarta gaanga, og af fremsta Megne hiaalpa honum. J annañ Maata; lijde hañ af vondum Moñum Lygar og Baktal, so hañs ærlegt Nafn og Rykte meige þar vid kreinkiast, þaa skulum vier vera myskunsamer, og forsvara, og tala vel uñ hañ, sem Jonathan uñ David. 1. Sam. 19. J. þridia Maata; lijde honum illa uppaa sijna Heilbrigde, þaa skulum vier vera myskunsamer, vitia hañs, hafa Medaumkan yfer honum, og bidia

(F) 3 fyrer

fyrer honum. Jac. 5. Og i þañ Mæta v-
ra hañ til Christum, so sem þeir bæru þañ
Alvisna edur Yktsiwka. Matt. 9. Jaa hi-
ælpa honum med Rææd og Dææd, sem Es-
aias giørde Ezechia Konge. Es. 38. J
fioorda Mæta; lijde honum illa uppá
Ørbyrgd og Fætækdom, þæ skulum vier
ecke med Myskunarleise voru Hiarta aptur-
læsa fyrer honum, helldur vera myskun-
samer, wtdreifa og giefa þeim Fætæka,
þvi so seger David: Sæll er sæ, sem añast
hiñ Naudþurftuga. J fimta Mæta, og
i einu Orde ad seigia, i hverre Neyd og
Þreingingu sem hañ er, þæ skulum vier
ecke vera omyskunsamer vid hañ, sem sæ
rijke Madur vid þañ fætæka Lazarum, edur
frāhiæ honum gæanga, sem Presturéñ og
Leviteñ giørdu vid þañ auma Mañ, er hrap-
adur var æ miedal Ræningia, helldur miklu
framar, sem sæ myskunsame Samaritan,
gæanga ad honum, aumkast yfer hans
Neyd, og af fremsta Megne hiælpa honum.
Hvers Epterdæme skulum vier helst epterfylgia i þvi
Myskunsemena ad ydka?

Vors himneska Fodurs, þvi so seiger
JEsus: Vered myskunsamer, lijka sem
ydar Fader er myskunsæmur.

Hverni

Hverneñ er hañ myſkunſamur?

Hañ er Fader Myſkunſemdaña, 2.Cor 1. ja, audugur af Myſkunſeme. Eph. 2. godur og liknſamur og næſta myſkunſamur vid alla þaa, ſem hañ aakalla; þar fyrer ſeiger Jacob: DRotteñ er myſkunſamur og ſyner Likn. Jac. 5. Þeſſe hañs Myſkunſeme hefur eingvañ Enda, hveria hañ audſyner bæde illum og godum.

Kuñum vier þaa ad vera ſo myſkunſamer, ſem hañ er?

Nei, vier kunnum ecke ad vera eins myſkunſamer, ſem hañ er, eñ vier ſkulum kieppaſt epter ad vera myſkunſamer, lijka ſem hañ er myſkunſamur, þad er, ad vera hañs Epterbreitendur, ſem elſkuleg Børn, i øllu, og ſierdeileslega i Ydkun Myſkunſemennar, ſtundande epter ad vera algiørder, lijka ſem vor himneſke Fader er algiørdur. Matt. 5.

I hverium hellſt Greinum æminner hañ oß til Miſkunſemennar?

Þad giører hañ a þañ Hatt, ad hañ afrædur oß ad dæma, eñ rædur oß ad fyrergiefa, og giefa vorum Naunga, og ſierhverre Aminingu tilleggur hañ tilknijande Rokſemd.

Hverneñ hlioda hañs Ord, med hverium hañ afrædur þad, ſem Mannenum er ſkadlegt?

Þannig: Eingvañ skulud þier dæma, so ad þier dæmest eige, fordæmed ecke, so ad þier fordæmest eige.

Er þetta ecke sama ad dæma og fordæma?

Þetta hvertveggia merker opt sama, ei med þvi Christur frañsetur þad hier, so sen i tveimur Aminningum, þaa kunnum vie þad og med tvennu moote þanneñ ad wt leggia. Ad dæma, merker ad fella eiñ raan gañ og otilheyrelegañ Dom yfer sijn Naunga Frañferde, Ord edur Verk; e ad fordæma er ad dæma siñ Naung skylldugañ ad lijda eitt edur annad Straff og þad sierdeiles af Hatre, Ofund og Hefnd argyrne.

Fyrerbioodast hier allslags Domar til ad dæma og fordæma?

Nei, eingvañveigeñ, Madur maa a sønnu dæma eiñ riettañ Dom. Joh. 7. Þ Yfervallds-Personur og veralldleger Dom arar skulu dæma rett aa millum hver Mañs og hañs Brodurs, Ordsens Þienar ar skulu og dæma, so og fordæma Mañañ Synder; og kunngiøra þeim allar sijna Svijvyrdingar. Ezech. 22. Eñ hier e fyrerboded ad dæma raanglega, jaa hier fyrerbioodast aller o-tilbæreleger og o-til heyreleger Domar, Madur skal ecke dæ-

ma

ma epter Aſynd. Joh. 7. Hañ ſkal ecke dæma fyrer Tijmañ. 1 Cor. 4. Hañ ſkal, ſegi eg, ecke dæma af nockrum ſierlegum eigeñ Þotta, Hatre edur Øfund, ecke dæma adra, eñ gleima ad dæma ſiaalfañ ſig, edur giøra þad ſiaalfur, ſem hañ dæmer og fordæmer aa ødrum. Rom. 2.

Hvar fyrer ſkulum vier ecke þanneñ dæma og fordæma adra?

Uppaa þad vier verdum ei ſialfer dæmder nie fordæmder, hverke af Mønnunum med þeim Hætte, ſem vier høfum dæmt og fordæmt adra, eige helldur af Gude, ſem er eiñ rettvijs Domare. Pſ. 7. Þviad med hverium Dome ſem vier dæmum adra, munum vier og dæmder verda. Matt. 7.

Hvad raadleggur JEſus oß?

Hañ raadleggur oß fyrſt ad fyrergefa, fyrergefed, ef þier hafed Kløgumaal mot nockrum. Col. 3. Jaa, fyrergefed af Hiarta hver eiñ ſijnum Brodur hañs Misgiørder. Matt. 18. So mun ydur aptur ydar Synder og Avyrdingar fyrergiefnar verda bæde af Gude og Møñum.

Kunnum vier þar med Fyrergiefningunne ad forþiena Fyrergiefning hiaa Gude?

Nei eingvañveigeñ, þvi þad er vor Skyllu ad fyrergefa; Eñ þad, ad Gud fyrergefur

ur oß vorar Synder, þad skiedur af einsamlre Naad og Myskunseme, so er þad naudsynleg Skyllda vor, ad forlaata og fyrergiefa, ef vier vilium annars faa Fyrergefning hiaa Gude.

Til hvers aaminner hañ enn framar?

Til eiñrar Christelegrar Giafmilldne: Giefed, skipted wt af þvi, sem Gud hefur gefed ydur, ydar faatækum og naudþurftugum Naaunga, og þad af godu og medaumkunarsømu Hiarta, þvi so befalar DRottеñ: Brioot þu Hungrudum þitt Braud, og innleid þaa sem volader eru i þitt Hwß. Es. 58. Einneñ seger H. Paall, laatum oß giøra gott. Gal. 6. Og ef þier fullkomned þetta, Guds Børn, þaa skal ydur aptur giefast af Gude, sem er Endurgialldare allra godra Verka; þvi so seger Christur: Eina fulla, samþryckta, velskiekna og yfersliotannlega Mæling munu þeir giefa i ydvart Skaut, þad er, sa gode Gud mun ydur þad goda margfalldlega aptur betala, þviad med þeirre hinne sømu Mælingu, hverre er þier mæled wt, mun ydur iñ aptur mællt verda, hvert þad er gott edur illt. Þar fyrer seger Paall, hver hañ saaer sparlega, saa mun spar-

sparlega uppskiera, og hver hañ saaer i Blessanenne, saa mun og einneñ i Blessan uppskiera.

Hverneñ hlioodar Christi Epterlijkingar Ræda?

Texteñ seger; og hañ sagde þeim eina Epterlijking, hvar med hañ vill de framar siñ aadursagdañ Lærdoom utleggia, kañ nockur blindur blindann ad leida, eda er ecke so, ad þeir falla bææder i Grøfena?

Hvad marger eru þeir Lester, sem hañ varar oß vid?

Þrijr, nefneleaa, fyrst Vanviska, hveria Christur vill syna med þessum Ordum, er hañ seger; hvert kann nockur blindur blindañ ad leida? Þetta Spursmaal hefur diupa Meining. Saa eine sem blindur er, kañ ecke ad vijsa ødrum blindum Veigeñ: Med þessu straffar hañ Phariseana og þaa Skriftlærdu, sem voru blinder Leidtogarar. Matt. 23. Jaa, þeir voru blinder og blindra Leidtogarar, og vill hier med vara Folked vid þvi, ad þad skule ecke epterfylgia þessum blindum Leidtogurum, sem med siñe raungre Utleggingu formyrkvudu Guds Lögmaal, og meluktu Kiærleikañ og Miskunsemena

all=

alleinasta i wtvortes Verkum, so þad yrde ecke af þeim forblindad, og fielle med þeim i Fyrerdæmingarennar Grisiu. Annar Løstureñ er Siervisku Þotte og storar Jñ-birlingar uñ siaalfañ sig, og siñ Fullkomleg-leika, framar ødrum i Þeckingu Saaluhi-aalpar Efnanna. Lære-sveiñeñ er ei yf-er Meistaranum, eñ nær Lære-sveiñeñ er sem hañs Meistare, þaa er hañ algi-ørdur, med hverium Ordum hañ og straff-ar Phariseaña Siervisku Þotta: Þeir lietu kalla sig Meistara, og villdu snotra adra og dæma, þar þeir voru þo siaalfer, so sem faa-vijserLære-sveinar, fyrer þad þeir villdu ecke laata þañ rietta Meistarañ sier kienna; og so sem þeir voru siaalfer, so voru og þeirra Lære-sveinar, hvar fyrer hañ raadleggur sijnum Lære-sveinum og Tilheyrendum, ad þeir skule ecke epterfylgia þessum hroka-fullu Meisturum, og ecke hallda sig siaalfa fyrer lærda og vijsa, helldur wtvelia siaalf-añ Christum fyrer siñ Meistara, og so sem goder Lære-sveinar, ætijd framar og fram-ar stunda epter ad verda fullkomner. Þrid-ie Løstureñ er Hræsne og ofsickañleger Do-mar, i þvi ad mijnka sijnar eigeñ Avyrd-ingar, eñ giora miked wr BrestumNaaung-
ans,

ans;hvad sier þu/seiger vor HErra/Ognena i þijns Brodurs Auga/eina litla Avyrding/Breſt og Yferſioon hiaa þijnum Naaunga/eñ ad þeim Biaalkanum/ ſem i þijnu Auga er, þad er, þeim ſtooru Syndum/ſem finnaſt hiaa ſiaalfum þier, giæter þu eige/eda hverneñ maattu ſegia Brodur þijnum: Broder/leif þu ad eg burtdrage Vagleñ ur þijnu Auga/ þar ed þu ſier ecke ſiaalfur Biaalkañ i þijnu Auga? Þu Hræſnare/drag fyrſt wt Biaalkañ wr þijnu Auga/og ſiaa þu þaa til/ ad þu faaer wtdreiged Vagleñ ur þijns Brodurs Auga.

Hverier Lærdomar kuña hier af ad dragaſt?

Fyrſt; þeſſe/ad þeir ſem vilia vera aññara Auga og Leidſagnarar, ſkulu vara ſig, ſo þeir verde ecke ſiaalfer med Phariſeunum forblindader/ og ſteipe bæde ſier og ødrum i Fyrerdæmingareñar Grifiu. Þar nærſt; ſkulum vier vel tilſiaa, ad vier fylgium ecke ſoddañ blindum Leidtogurum epter, helldur framgongum epter Liooſe Guds Orda. Vier ſkulum adhillaſt JEſum Saaluhiaalparennar Lioos. Joh. 1. og utvelia hañ oß fyrer Læknara og Læremeiſtara; ſo munum vier alldrei

villt

villt fara. I þridia Maata; skal eingeñ hafa stoora Þanka um siaalfann sig, edur meina, ad hañ kunne ad vera Meistare yfer ødrum, helldur þeckia siñ eigeñ Ofullkomlegleika; ad hañ sie sem eirn faavijs Læresveirn, þar fyrer skal hañ adhillast JEsum, hañ rietta Meistara, og fyrer Krapt hans Ords, og heilags Anda Naad, stunda epter ad verda fullkomnare æ meir og meir i þvi gooda. I fiorda Maata; saa sem vill kieña, og straffa adra, hañ skal fyrst kienna sier og straffa siaalfañ sig, hañ skal fyrst, seige eg, giora hreint fyrer sijnum eigeñ Dyrum, aadur eñ hañ tekur til ad soopa fyrer añara, so þetta verde ecke til hañs sagt; Lækner, hiarga siaalfum þier, ei helldur, þu lærer annañ, eñ siaalfañ þig lærer þu ecke. Rom. 2. Þar fyrer ransaka þu siaalfañ þig, aadureñ þu dæmer adra, og þeinktu til þeirra Orda, er Christur sagde, hver sem er aan Syndar, hañ kaste af Hende þeim fyrsta Steine. Joh. 8. og hvad gyllder, þu munt hafa noog med siaalfann þig, og þiñ eigeñ Biaalka, og ecke komast til ad lijta so grant epter þeirre litlu Ogn, sem er i Auga þijns Naaunga. Og ad

sijdustu

sijdustu þær bidium vier og segium. O HErra JEsu Christe, send þu oß þijna Naad, so vier mættum, sem elskuleg Børn, eptersylgia vorum Himneska Fodur, og stunda epter ad vera miskunsamer, so vier mættum um sijder þær eilijfu Miskunseme hreppa og hlioota, Amen. J JEsu Nafne. Amen.

# A Mariu Messu.

Gudspialled skrifar heilagur Lucas i 1. Cap.

Aa þeim Døgum: Stod Maria upp, og foor med flijte til Fiallbyggda i Borgena Juda, iñgieck i Hus Zachariæ, og heilsade Elizabeth. Og þad skiede so, þaa er Elizabeth heyrde Heilsun Mariu, ad Barned spratt upp i hennar Kvide. Og Elizabeth uppfylltest af heiløgum Anda, kallade haarre Røddu og sagde; bleßud ert þu aa medal Kvenna, og blessadur er Avøxtur Kvidar þijns. Og hvadañ kiemur mier þetta, ad Mooder Drottens mijns kiemur til mijn? Siaa þu, þaa er Rødd þiñar Kvediu kom mier til Eyrna, spratt Barned upp af Fagn-

Fagnade i mijnum Kvide. Og sæl ertu, sem truder, þviad þad mun fullkomnast, hvad þier var heyted af Drottne. Og Maria sagde: Mijn Önd miklar Drotten, og min Ande gladdest i Gude Heilsugiafara mijnum. Þviad han leit aa Læging Ambaattar sinar, sia! af þvi munu mig hiedan af allar Ætter sæla kalla. Þviad han giørde vid mig mikla Hlute, sa sem maattugur er, og hans Nafn er heilagt, og hans Miskunseme varer fraa einre Kynslod til annarar, yfer øllum þeim, sem han oottast. Hann framde Makt med sijnum Arme, sundurdreifde han dramblaatum i þeirra Hiartans Huxan. Volldugа sette han af Stoole, og upphof lijtelaata. Hungrada fyllte han øllum Giædum, og hinum rijku slepte han faanijtum. Han endurminntest Myskunar sinnar, og medtook sin Þioon Israel. So sem han talade til Fedra vorra, Abrahams og hans Afkvæmes ad Eilijfu. Og Maria var hiaa henne, so nær sem þriaa Maanude, og foor sijdan aptur til sijns Heimkines.

Hvers er geted i þessu Evangelio?

Fyrst; Mariæ Farar til Fiallbygdaña, edur Reisu til Elizabethar; Þar nærst; heñar Lofsaungs og Þackargiørdar til Guds.

Hvad verdur talad um Mariu For og Reisu til Fiall-Bygdanna?

Heñar verdur gieted edur hun utmaalast. Fyrst; af hennar Uppbyriun edur Jñgaunge; Þar nærst; af heñar Asetninge edur Framgaunge, og i þridia Maata; af heñar Endalikt edur Utgaunge.

Hvad seiger Gudspialla-madureñ um Uppbyriun heñar Reisu?

Hañ seiger: a þeim Døgum, þad er, strax epter þad, ad Eingelleñ hafde bodad henne Christi Fædingu, hverñ hun hafde nu gieted fyrer Heilags Anda Yferkomu og Guds Kraptar Yferskyggingu, stood Maria upp, og ferdadest til Elizabethar, hvar med hun bæde villde styrkia siina Tru um þad Teikn, er Eingelleñ hafde giefed heñe, ad Elizabeth være þungud, so og ad audsyna siina Audmiukt og Kiærleika vid hana.

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Fyrst þad, ad so sem Maria, jafnvel

þo hun være haatt upphafeñ og rijkuglega blessud af Gude, þaa samt sem aadur, audsynde hun sijna Elsku og Audmykt, ad hun took uppaa sig so laanga Reisu til Elizabethar. So byriar og sierhverium ad giora, þvi þeß hærre sem eiñ er, þeß meir skal hañ lijtelæcka sig, og þeinkia med David, ad hañ er alldrei so lijtelmotleg ur og smaar fyrer Guds Auglite, ad hañ vilie ecke verda eñ lijtelmotlegre. 2. Sam. 6. þviad þeß miñe sem hañ er fyrer sijnum eigeñ, þeß stærre er hañ fyrer Augum Guds.

J annañ Maata; þegar vier høfum nockurt gott Verk fyrer hende, þaa skulum vier þad ei undañdraga Dag fraa Deige, helldur strax til þeß taka aa þeim Dege, sem nefnest i Dag, þeinkiande ad nu er saa þægelege Tijme ad giora gott, þar vier vitum ecke, hvad flioott hann kañ Enda ad taka, og sierdeiles skulum vier i Tijma rijsa upp af Syndaña Svefne, og adhillast Gud.

Hvert hafde Maria aaset sier ad reisa?

Hun sem bar þañ under sijnu Hiarta, um hvern Brwdureñ seiger, sioa þu hann kiemur og støckur aa Fiollunum, og sted- iar

iar a Hædunum. Cant. 2. foor med flijte, og hafde hasta Ferd til Fiallbygda i Borgena Juda, hver Borg eflaust ad vered hefur Hebron, sem var Prestanna Borg og laa a Fialle Juda.

Hvernenn skulum vier oß þetta til Nytsemdar færa?

Allt þad, er vier tøkum oß fyrer hendur ad giora, og gott er, þaa giorum þad styslega og hættum ei fyrr, enn vier med Boas høfum giört goodann Enda þar a. Ruth. 3. og sierdeiles skulum vier a vorum Christendoms Veige og Vegferdar Reisu til þeirrar vors GUds andlegu og himnesku Hebron, og Juda Samfielags og Løfgiørdar Hwß, hans Kyrkiu hier a Jordunne, og Dijrdar-Hwß i Himnenum, ei til baka lijta, sem Kvinna Loths, edur stalldra epter, sem Davids Menn giordu, tvøhundrud ad Tølu vid Lækenn Besor, helldur flioott framganga, sem Solenn a Himnenum, hvered geingur lijka sem einn Brwdgume wt af sijnu Herberge, og gledur sig sem ein Hetia til ad hlaupa Veigenn. Ps. 19. Laatum vera, ad vor Reisa sie sem Mariu einn Fiall-Vegur, ein þung og Mædusom Reisa, þaa skulum vier ei þar fyrer hætta ad gaanga

fraa einum Christendoms Fullkomleglei-
ka til annars, helldur aafram hallda. Og
lijka sem Jonathan og hans Skialldsvein
klifruduft upp epter aa Hondum og Foot-
um, yfer þaa haau Hamra Bozez og
Senne. 1. Sam. 14. So skulum vier og
med allre Astundan kieppast epter ad kom-
ast yfer þau mædusomu Krossburdar Fioll,
sem liggia i Veige fyrer oss, en aa medan
skulum vier alltijd upphefia vor Augu til
þeirra himnesku Fiallanna, hvadan oss
kemur Hiaalpen. Ps. 121.

Hvernen wtendte hun sijna Reisu aafram?

Þad syner oss Textenn, þar so stend-
ur: Hun inngieck i Hws Zachariæ, og
heilsade Elizabeth.

Kan hier nockur Lærdomur af ad dragast?

Jaa, þvi so sem Maria inngieck i Hws
eins Heidurlegs Prests, so skulu og aller,
en þo einkanlega þeir Ungu, hafa sijna
Umgeingne og Adsetur i Husum ærlegra og
godra Manna, þvi hver aa Bikenu tek-
ur, saa saurgast þar med, en saa ed adhill-
est þaa, sem ærleger eru, han mun og sie-
aalfur ærlegt Nafn bera.

Þar nærst; þegar Madur kemur inn i
nockurt Hws, þaa skal han ecke koma

þeig-

þeigiande, helldur med Mariu heilsa kiærlega af einlægu Hiarta, epter Christi eigen Befalningu, þar hañ seiger: Nær þier gaanged iñ i nockurt Hws, þaa heilsed þvi. Matt. 10. Jaa, epter hañs siaalfs Dæme: Hañ kom til sinna Lære-sveina, stood midt aa millum þeirra, og sagde: Fridur sie med ydur. Luc. 24.

Hvad skiede, þegar Maria kom þañeð i Hws Zachariæ, og heilsade Elizabeth?

Þad skiede ein sierleg Umbreiting bæde hiaa Barnenu og Modurenne.

Hvad stendur skrifad uñ Barned?

Þetta: Og þad skiede so, þaa er Elizabeth heyrde Heilsun Mariu, ad Barned spratt upp i hennar Kvide, af yfer Maata storre Glede, so sem saa, er epter Eingelsens Ordum munde i Modur-Kvide af Heilogum Anda uppfilltur verda, og fagnade sijns Frelsara Komu.

Hvad kunnum vier hier af ad siaa og læra?

Med þvi ad Barned Johannes spratt upp af Glede i sinnar Modur-Kvide, og fagnade yfer sijns Frelsara Nærveru, þaa kunnum vier þar af ad aalikta, ad þau ungu Born kunna fyrer Guds Naad trwad vera, so sem Christur þeim og Trwna tilleggur i adskiliañlegum Stodum.

Matt. 18. Þvi jafnvel þo þetta sie eitt sierlegt Epterdæme, af hveriu Madur kañ ecke ad giøra nockra almennilega Reglu, ad fyrer þad Johannes var i Modur-Kvide uppfilltur af Heilogum Anda, og hafde Trwna i Modur-Lijfe, þaa gænge þad þar fyrer eins til hiaa øllum Børnum, ad þau ødlest þetta, þvi-ef Meñ hielldu þad, hvad være þad annad eñ ad giøra lijted wr Uppruna Syndenne, og ad minka Krapt Skijrnarennar. So kann þo ecke ad sijdur hier af ad aalyktast, ad Gud gietur i Modur-Kvide giefed sinaa Børnum siñ Heilaga Anda, aadur eñ þau eru skijrd, og verkad i þeim Trwna: Hvad Christelegum Forelldrum kañ til Huggunar ad vera, hverra Børn GUD til sijn kallar, annadhvert fyrer Fædingena, i henne, edur strax epter hana, aadur eñ þau fyrer Skijrnena epter tilskickadre Reglu verda endurfædd: Þvi jafnvel þo GUD hafe bunded oß Mennena vid Skijrnena, sem vid eitt reglulegt Endurfædingar og Saaluhiaalpar Medal, þaa er hañ þo ecke siaalfur bundeñ þar vid. Þvi þo honum þocknest ad burtkalla þau wngu Børn, aadureñ þau verda skijrd, þaa

þaa samt kañ hann i oveniulegañ Maata ad giefa þeim siñ heilaga Anda, og ad verka i þeim Truna, þeim til Sæluhialpar; So vel sem hañ kunne i þvi Gamla Testamente ad giøra þau Sveinbørn hiælpleg, sem onduðust fyrer Umskurnena, og Kveñ-folked, sem ecke var umskored. Hañ er ecke alleinasta eiñ GUd sinna Barna, helldur og þeirra Sæðes Gud epter þau Gen. 17.

Hvad verdur gleted um Modurena?

Texteñ seiger: Og Elizabeth uppfillltest af Heiløgum Anda, af Andans sierlegum Gæfum, kallade hæátt Raust af innelegre Hiartans Glede, og sagde: Blessud ert þu Maria, a medal Kvenna, og eñ framar blessadur sie Avøxtur Kvidar þijns, sem er þad rietta Abrahams Sæde, i hveriu allar Piooder a Jordunne skulu blessast. Gen. 22. Og hvadañ kiemur mier þetta, hvadañ kiemur mier sw stoora Naad og Heidur, ad Mooder DRottens mijns, ja, ad þu, sem skalt fæda þañ Mañ i Heimeñ, sem skal vera miñ og allra Manna HErra og DRotteñ, Frelsare og Endurlausnare, kiemur, med þañ sem þu hef-

ur nu i þijnu Lijfe gieted, til miin aumrar og overdugrar Ambaattar? Þvi siat þu! þegar Rødd þinnar Kvediu kom mier til Eyrna, spratt Barned upp af Fagnade i mijnum Kvide, af sijns HErra og Frelsara Naalægd, og sæl ert u, sem trwder Ordum Drottens og Bodun, sem skiede til þijn fyrer Eingelen, þviad þad mun fullkomnast, sem þier var heited af Gude.

Kunnum vier hier af nockra Lærdoma ad draga?

Jaa, adskiliañlega. Saa fyrste er þesse, adso sem Elizabeth, þegar hun heyrde Heilsun Mariu, uppfylltest af Heilögum Anda, og fañ Barned spretta upp af Fögnude i sijnum Kvide, og af sierlegre Glede, kallade hærre Röddu. So geingur þad til med sama Hætte fyrer sierhveriu GUDs Barne, sem med Alvöru og Gudrækne heyrer GUDs Ord, sem ad er so sem ein andleg Raust og Huggunarfull Kvedia, ad þeß Hiarta uppfillest med Heilags Anda Naad, og sprettur upp af innilegre Glede, so þad seiger med David; eg gled mig yfer þijnu Orde, so sem saa er miked Herfang fær. Ps. 119. Og med Jeremia,

ia: Þitt Ord er funded og eted af mier, og þad sama þitt Ord er vor Hiartans Glede og Huggun. Jer. 15.

J annan Mata, so sem Elizabeth kallade þad, sem Maria hafde gieted i sijnum Kvide, ecke alleinasta hennar Lijfs Avoxt, helldur og sinn DRottenn, so skulum vier og stoduglega trwa og medkienna, ad JEsus Christur er ei alleinasta Mariu, helldur og einenn under eins þess lifanda Guds Son. Joh. 6.

Sa þridie Lærdomurenn er þesse, ad so sem Elizabeth forundradest yfer Mariu Lijtelæte, segiande: Hvadann kiemur mier þetta, ad Moder DRottens mijns kiemur til mijn? So mā og sierhvert GUds Barn miklu framar forundra sig yfer sijns Frelsara JEsu Hingadkomu i Holldenu, og andlegre Tilkomu i Naad, segiande: Hvadann kiemur mier þetta, ad GUds eingietenn Sonur, sem er DRottenn allra Drottna, hefur viliad koma i þennann Heim? Hvadann kiemur mier þetta, ad hann daglega med sinne Naad kiemur til mijn overdugs Syndara, þviad hvad er Madurenn þess, ad þu skuler minnast hanns? og Mannsins

Barn,

Barn, þad þu vitier þeß. Ps. 8. Sat fioorde og sijdaste Lærdomur er þesse, ad Maria var ad sonnu luckuleg og blessud a medal Kvenna, i þvi ad hun fieck ad gieta og fæda allrar Veralldarennar Frelsara, eñ þo giorde þetta alleina hana Sælu holpna, ad hun trwde.

Hvad verdur talad (i annañ Mæta) um Mariæ Lofsaung og Þackargiord vid Gud?

So hlioodar Textēn: Og Maria sagde; Mijn Ønd miklar DRottēn, og miñ Ande gladdest i GUde Heilsugiafara mijnum.

Hverium færer Maria hier siñ Lofsaung?

Hun færer hañ sijnum GUde, og sierdeiles sijnum Frelsara, hvern þo hun vel medkiende ad vera eiñ GUd, samt trwde hun, þad hun hefde gieted hañ, sem eiñ Mañ i sijnum Kvide.

Hverneñ þackar hun?

Hun þackar ecke alleinasta med Muñe og Twngu, helldur af instu Sæalu og Anda. Mijn Ønd miklar DRottēn, og miñ Ande gledur sig i GUde Heilsugiafara mijnum.

Fyrer hvad þackar hun?

Hun lofar siñ Gud og Frelsara, og þakar honum fyrer þaa Velgiorninga, sem

sem hann hafe audsyndt sier sialfre sier-
deileslega segiande: Þviad hañ leit a
Læging Ambaattar siñar, i þvi ad hañ
hefur utvaled mig a medal allra Kveña
a Jørduñe til ad fæda i Heimeñ allrar
Veralldareñar Frelsara: Sia, af þvi
muinu mig hiedañ af allar Ætter sæla
kalla, þviad hañ giørde vid mig mikla
Hlute, sa sem Mattugur er, og hans
Nafn er heilagt, og audsynde mier
stora Velgiørninga. Þar næst; lofar
hun siñ GUD fyrer sijna Myskunseme, sem
hañ hafe veitt øllu Mañkynenu almeñe-
lega, og allra hellst talar hun med storre
Lofgiord og Hrosun.

Fyrst, um Guds Allmætte: Sa sem
mattugur er, seiger hun:

J añañ Maata, uñ hañs Heilagleika:
Og hañs Nafn er heilagt.

J þridia Maata; um hans Miskunseme:
Og hans Miskunseme varer fra eiñre
Kynslod til añarar yfer øllum þeim,
sem hañ ottast.

J fiorda Maata; um hañs Rettlæte,
hañ framde Makt med sijnum Arme,
og sundurdreifde þeim dramblaatu i
þeirra Hiartans Huxan. Volldugа

sette

sette hañ af Stoole, og upphof Lijtelæta. Hungrada fillte hañ øllum Giædum, og hinum Rijku slepte hañ fæniijtum, hañ endurminteſt Myſkunar ſiñar, og medtok ſiñ Þioon Iſrael.

I fimta Maata; um hans Nææd og Sañleika, ſem hañ hafde audſyndt ſijnu Folke, i þvi ad hallda ſijn miſkunarſom Fyrerheit, ſem hañ hafe lofad þeim heilogu Fedrum, og hañ medtok ſiñ Þion Iſrael, ſeiger hun.

Hvad kuñum vier ad læra af þeſſum Mariæ Loſſaung?

Hier af kunna marger goder Lærdomar ad utdragaſt; Eñ vier vilium alleinaſta þad hier læra, hverneñ vorum Loſſøngum og Þackargiørdum eige hættad ad vera, nefnelega ſkulu þær, fyrſt, fæaſt vorum Gude og Frelſara, og hønum alleina til Heidurs vera, þvi vier meigum eingvum ødrum hans Dijrd giefa, og ei helldur Afgudunum hans Lof. Eſ. 42. Vier meigum ecke offra vorum eigeñ Veidarfærum, edur giora Reykelſe fyrer vorum Netum. Heb. 1. helldur vorum Gude alleina Þackargiord offra, fræ hverium allt gott kiemur.

I añañ Mæata; þæ ſkulu þær fram beraſt

berast ecke med Munenum og Tungunne alleina, helldur af instu Kroptum Saalar og Anda, alleinasta Munsens Packlæte er sem eckert Packlæte, Moren i kringum Hiartad og Nijrun villde Gud i Løgmaalenu ad tendrad være aa sijnu Alltare. Lev. 3. So vill han og, ad vier i vorre Bæn og Packargiörd skulum offra hönum vorre Saal og Hiarta.

J þridia Maata; þaa skulum vier lofa han og packa hönum, ei alleinasta fyrer þaa Velgiörninga, sem hann veiter oß sialfum sierdeileslega, og segia med David: Lofa þu Drotten, Saala mijn, og forgleim eingvu af þvi goda, sem han hefur giört þier. Ps. 103. Jaa, vier skulum, eins og Syrach seger um David, packa Gude fyrer sierhvert hans Verk og Velgiörninga. Syr. 47. Helldur og fyrer þad sem han hefur audsyndt øllu Mankynenu almennelega, jaa vier skulum, seige eg, med Lof og Packargiörd prijsa og vijdfrægia hans guddomlegu Veru, ad hann er einn almaattugur GUd, sem kan ad giora allt hvad han vill aa Himnum og Jørdu og i øllum Underdiwpum, ad han er einn heilagur GUd, og hans mikla og daasam-

samlega Nafn er heilagt; ad hañ er eiñ riettlatur GUd, sem motstendur dramblatum, enn giefur lijtilatum Nad. Jac. 4. og ad hañ er eiñ sannordur GUd, sem ecke kañ ad liuga. Tit. 1. miklu framar helldur hañ Tru eilijflega. Ps. 146. hveria sijna Tru og Trigd hañ hefur sierdeilislega audsyndt i þvi, ad fullkomna sitt Loford, sem hañ hafde heited Fedrunum, sem var, ad senda siñ Son i Heimeñ.

Dvallde Maria leinge hiaa Elizabeth?

Hun dvallde hiaa henne so nær sem þriaa Maanude, ecke alleinasta til ad styrkia sijna Tru med gudrækelegu Samtale og goodre Umgeingne vid hana: helldur og til ad vera henne til Styrktar i Kiærleiks-fullre Þioonustu, þar hun var bæde Olldrud og þungud. Epter þad for hun aptur til sijns Heimkinnes i Nazareth.

Hvad kunnum vier ad sijdustu hier af ad læra?

Vier skulum med Mariu ecke alleinasta uppbyria gott ad giora, helldur og blijfa stadfaster i þvi goda. Enn so sem vier skulum umflija Samkvæme þeirra Vondu, so skulum vier þar þvert aa mote adhillast Samkvæme þeirra Godu, og med

med þeim Umgeingne hafa, og þegar vier hefum audsyndt vorn Kiærleika vid adra i þeirra Hwsum, þaa skulum vier þeinkia til siaalfra vor, og snua aptur til vors Heimkinnes, og sierdeiles skulum vier aa vorum Veige og Vegferdar Reisu hier i Heime þeinkia til vors rietta Heimiles aa Himnum, so ad nær vorer Lijkamer skulu i Jordena lagder vera, af hverre þeir eru tekner, ad vorar Saaler mættu þaa komast til siins rietta Heimiles aa Himnum; til GUds, sem þær gaf. GUd leide oß þaangad med siinum goda Anda fyrer Christi Skulld alleina. Amen.

# Fimta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar Heilagur Lucas i 5. C.

J þañ Tijma. Og þad skiede, þaa er Folked flyktest ad hønum, til ad heyra GUds Ord, og hañ siaalfur stod vid Sioeñ Genezareth, og hañ leit tvø Skip standa vid Siooeñ. Eñ Fiskararner voru stigner af Skipunum, og þvodu Neteñ. Hañ stie þaa uppaa

uppa añad Skiped, þad sem var Simonar, og bad hañ ad draga nockud fra Lande, og hañ sat og kiende Folkenu af Skipenu. Og sem hañ gaf upp ad kieña, sagde hañ til Simonar: Drag þu ut a Diuped, og leised upp ydar Net til Fiskedrattar. Simon svarade og sagde til hans: Meistare, i alla Nott høfum vier erfidad, og feingum eckert, eñ i þijnu Orde mun eg Netenu utkasta. Og þa þeir høfdu þetta giørt, innelucktu þeir mikla Mergd Fiska, so ad þeirra Net rifnudu. Og þeir bentu sijnum Fieløgum, sem voru a hinu ødru Skipenu, ad þeir kiæme þar, og hialpudu þeim, og þeir komu og hlodu bæde Skipeñ full, so ad þau suckú ad mestu. Þa ed Simon Petur sa þetta, fiell hañ til Kniaña JEsu, og sagde. Gack fra mier Lavardur, þviad eg em Madur syndugur, af þvi ad Felmtur var yfer hañ komeñ, og alla þa, sem med hønum voru, af þeim Fiskedrætte, er þeir feingu til samans, lijka og eiñeñ yfer Jacobum og Johannem, Sonu Zebedei, sem ad voru Lagsmeñ Simonar.

nar. Og JEsus sagde til Simonar: Ottast þu eige, þviad hiedañ i fraa skalltu Menn veida. Og þeir droou sijn Skip ad Lande, yfergaafu alltsamann, og fylgdu hønum epter.

Um hvad talar Gudspialla-madureñ i þessu Gudspialle?

Fyrst; um Christi Predikun af Skipenu fyrer Folkenu. Þar nærst; um þad mikla Kraptaverk, er hañ giørde epter sijna Predikun.

Hvad seiger Evangelisteñ um þad fyrra?

Hañ seiger: Og þad skiede, þaa er Folked flyktest ad hønum til ad heyra GUds Ord, og hañ siaalfur stod vid Sioeñ Genezareth, og hañ leit tvø Skip standa vid Sioeñ.

Hvad høfum vier hier ad athuga?

Fyrst; fyrer hveria Ordsøk ad JEsus stie aa Skip.

Þar nærst; hvad hañ þar verkade, edur framkvæmde.

Fyrer hveria Ordsøk stie hañ aa Skip?

Þad seiger oß Gudspialla-madureñ, þar hañ so talar: Og þad skiede, þaa er Folked flyktest ad hønum (af storre Epterlaungun, þreingiande og þiakande ad hønum) til ad heyra GUds Ord,

ad hañ sialfur stod vid Siooeñ Genezareth, sem annars kalladest Siooreñ Tiberiadis, og hañ leit tvø Skip standa vid Siooeñ, eñ Fiskararner, nefnilega Petrus, Jacobus og Johannes, sem alla Nottena høfdu forgefens erfidad, voru, þar þeim þotte ei Tijme til leingur ad fiska, stigner af Skipunum, og þvodu Neteñ, so þeir kynnu þvi betur ad brwka þau i añañ Tijma.

Hvern Lærdom kunnum vier af þessu þeirra Verke ad wtdraga?

Þennañ; ad med þvi vier aller, asamt þessu Folke høfum stora Þorf a Naad vors Frelsara JEsu, og sierdeiles a hañs Lærdome, Huggun og Aminningu, þa ber oß med hiartañlegre Gyrnd og Epterlaungun, ad flyckiast ad honum med yduglegre Astundan, ad vita hañs Musteris, og med Gudrækne og Alvøru ad heyra hañs Ord, segiande med David: DRotteñ, eg elska Staden þijns Hwß, og þañ Stad, þar ed þijn Dijrd byr. Ps. 26.

Þar nærst; skulum vier þad hier læra, ad jafnvel þo vier høfum ecke a ellum Tijdum stora Lucku med Net vorrar Nær-

ingar

ingar til ad fiska, þaa skulum vier þo ecke uppgiefast, helldur so vel Neted þvo, hvert vier hofum feinged miked edur lijted, marga Fiska edur eingvañ, og aptur i eiñre godre Von bwa þad til Fiske-Drattar; og fierdeiles skulum vier so tilsiaa, ad vier uppaa andlega Vijsu þvoum Net vorrar Næringar, ef vier finnum nockra Synd, Illsku og Ohreininde þar i haanga, edur vidloda, þvi sie nockur Odygd i þijnum Hondum, þaa laattu hana laangt fraa þier, og laattu eingeñ Oriettende vera i þijnu Heimile, þaa maattu upphefia þitt Andlit ostraffanlega, og vera oruggur eñ ecke ottablandeñ. Job. 11.

Hvad seiger Gudspialla-madureñ um Christi Uppgongu aa Skiped?

Hañ seiger: Þaa stie hañ uppaa añad Skiped, þad sem var Simonar, og bad hañ, ad draga nockud fraa Lande, so hañ kynne þvi betur ad kieña Folkenu, og þad hañ ad siaa, og hønum ad heyra.

Hvad siaaum vier hier wt af?

Vier siaaum hier bæde JEsu Hoogværd og Blijdleika, ad jafnvel þo Jørdeñ sie hañs, og hvad i henne er, Jardar-

kringlañ og þeir þar a bwa. Ps. 24. Og hañ hefde þar fyrer Makt ad eigna sier Petri Skip, og Mindugleika til ad befala honum ad draga þad fra Lande, þa vill hañ þo samt sem adur med Hoogværd og Blijdleika hañ þar uñ bidia, kiennande oß, ad laata alla Hlute skie i Kiærleika. 1. Cor. 16. Eiñeñ sieaum vier hier Petrum reidubweñ til ad giora HErrans Beidne, hañ neitar honum ecke sijnu Skipe, edur slær þvi a frest ad draga þad fra Lande, þar hañ þeß ooskade. Hvar af vier skulum og læra, ad vera reidubwner ad giora vorum Naunga til goda, þviad so aminner Christur oß; gief þeim er þig bidur, og vert ei afundenn þeim, er af þier vill Laan taka. Matt. 5.

Þegar JEsus var nu komeñ upp i Skiped, og þad var dreiged fra Lande, hvad giørde hañ þa i Skipenu?

Hañ sette sig nidur, so sem hañ plagade opt ad giora, þa hañ predikade Matt. 5. Og kiende Folkenu af Skipenu, sem stod i Fiørunne.

Hvad villde hañ þar med kienna, og til Vitundar giefa?

Med þvi ad hañ sette sig nidur, og kiende Folkenu, villde hañ bæde kienna sijn-

sijnum Lære-sveinum, og øllum riettsin̄udum Predikurum, ad þeir skylldu æ-stunda eina stødugа Hogværd, bæde i øllum þeirra Sidum, so og sierdeiles i þeirra Predikun, og læta alla veralldlega Þænncka og Um̄hÿggiu hvÿsla æ med-an̄, og med Spaklæte, þo i gudrækelegre Vandlætingu, fram̄bera Orded, so ad Tilheyrendurner mættu þad med Hogværd medtaka. Jac. 1. og færa þar af Avøxt i Þolen̄mæde. Luc. 8. Med þvi segi eg aptur, ad han̄ kiende af Skipenu, þar hefur han̄ viliad wtmæla, bæde sinnar Kyrkiu Tilstand hier æ Jordun̄e, ad hun er vid eingvan̄ Stad fast bunden̄, helldur kan̄ hun audvelldlega flitiast fræ einum Stad, Lande og Folke til annars, jæ ad hun er, so sem Skiped i Hafenu, adskilian̄legum Offoknanna Bylgium, Storm-vindum og Vatnsboda underorpen̄, so hun mæ vel kallast sw volada, yfer hveria ed øll Stormvidre gaanga. Es. 54. Han̄ hefur og viliad wtmæla sinna Þienara Hlutskipte hier i Heime, ad þeir hliota ad vera so sem æ einu Skipe, adskilian̄legum Hæska og Freistingum underorpner, og wt-

standa þungt Erfide og marga Armædu, jaı, þeir hlioota, seige eg, ad vera sem i Skipe, og aa medal Bylgnanna, þaa Stund Folked maa opt vera aa føstu Lande, og hafa þar sijnar Sijslaner, þad er, þad þarf ecke ad hafa so straangt Erfide, og hættusamt Braud, sem þeir, og ei er þad helldur so stoorum Hæaska og Offsoknum undergiefed.

**Þegar nu JEsus hafde endad sijna Predikun, hvad giørde hañ þaa?**

Hañ giørde eitt ypparlegt Kraptaverk, til ad stadfesta med siñ Lærdom, og ad styrkia Simonar og hañs Stallbrædra Trw um sijna Adstod og Styrk i þeim andlega Fiskedrætte, sem hañ sijdar villde kalla þaa til.

**Hverneñ tilreidde hañ sig til þessa Krapta-verks?**

Evangelisteñ seiger: Og sem hañ gaf upp ad kienna, sagde hañ til Simonar (sem sijdar var nefndur Petrus) drag þu wt aa Diuped, og leised upp ydar Net til Fiskedraattar.

**Hver Lærdomur kañ hier af ad dragast?**

Fyrst, þesse, ad so sem JEsus endar fyrre sijna Predikun, eñ Petur skal giefa sig til ad fiska. So skulum vier og fyrst giøra Guds Verk, og sijdañ sialfra

aalfra vorra, vier skulum fyrst hafa Umhiggiu fyrer Saalunne, sijdañ fyrer Lijkamanum, fyrst leita Guds Rijkes og hañs Rettlætes. Matt. 6. adur eñ vier þeinckium um þad jardneska og lijkamlega. Y annañ Maata; so sem Christur endurgallt Simone hañs Godvilia, þar hañ liede honum sitt Skip, i þvi ad hañ med sinne Naad og Almætte gaf honum so rijkuglegañ og yferfliotañlegañ Fiskefeing: So vill hañ og rijkuglega launa sierhverium þeim, sem Kiærleiks-Verk audsyner, edur snwa þeim honum til heilagrar Þionustu. Y þridia Maata; ad hver sem liær Christo og hans Limum Hws edur Rum sijns Hiarta, saa hiñ same maa viß um vera, ad hañ fer ei framar aa mis vid Guds Bleßan, helldur eñ Obededom, sem um stuttañ Tijma hijste Ørk Drottens. 2. Sam. 6. Y fiorda Maata; þurfum vier ecke ad þeinckia, ad Fiskureñ mune sialfur koma hlaupande i Neted, og fara upp i Skiped: Nei, Madur hlijtur ad fara ut aa Diwped og kasta wt Netenu, og draga þad. Þvi GUd hefur ad sonnu lofad oß sinne Bleßan, eñ ei aan Erfides, hvar fyrer þad

(H) 4 heiter

heiter so: J Sveita vors Andlites skul-
um vier vors Brauds neita. Gen. 3.

Giørde Simon þá strax epter þessare Christi
Befalningu?

Jáa, jafnvel þo hañ ad sonnu talade
fyrst þar uñ, og hiellde þad munde ver-
da forgiefens Erfide, so sem þad er hañ
og hans Stall-brædur høfdu haft Nott-
ena fyrer, segiande: Meistare, þu sem ert
eiñ Yferbodare og HErra, hafande Raad
yfer øllum skøpudum Skiepnum, vier,
jeg og mijner Stallbrædur, høfum i alla
Nott erfidad, sem annars plagar ad
vera sw besta Tijd til ad fiska aa, og
feingum þo eckert, eñ i þijnu Orde,
epter þijnum Vilia og Befalningu, mun
eg Netinu wtkasta i eiñre godre Von,
ad þad mune ecke tomt aptur dreiged verda.

Hverneñ kunnum vier oß þetta til Nytsemdar
ad færa?

Vier meigum og skulum erfida i voru
løglegu Kalle, þo þurfum vier ei ad
þeinckia. ad vort Erfide mune alltijd luck-
ast, helldur framkiemur þad, sem Esaias
seiger: Eg huxade, eg erfidade forgief-
ens, og fyrerkiæme mijnum Styrkleika
fyrer ecke og til onytes. Es. 49. Þetta
kiemur nockurn Part þar af, ad vier
gleim-

gleimum i JEsu Nafne ad wtkasta Netenu, edur i hañs Orde, og ad vort Erfide er framar Nætur-verk eñ Dagsins Giørningar, so ad vier annadhvert med otilheyrelegre Agyrnd giørum Dageñ ad Nottu, og Nottena ad Deige, sem þeir, ed snemma uppstodú, og þar epter aa leinge sætu, og ætu sitt Braud med Hrigd. Ps. 127. Edur og med syndsamlegu Athugaleise giørum ecke Dagsens, helldur Nætunnar og Myrkranna Verk. Þar fyrer er raadlegt, ad vier adgiætum hvad vier adhøfunst, og þo vort Erfide luckest ecke strax, þaa skulum vier samt sem ædur ei uppgiefa, helldur aptur voru Nete wtkasta, og hvern Tijma so tilsiaa, ad þad skie kunne i JEsu Orde og hañs Nafne, so mun þad vel luckast, honum til Dijrdar, eñ oß til Gagns og Goda.

Luckadest þeim þaa þesse Draattur vel?

Jaa, þvi þaa er þeir høfdu þetta giørt, iñeluktu þeir mikla Mergd Fiska, so ad þeirra Net rifnudu, og med þvi þeir kunnu ecke siaalfer þaa alla iñ ad draga, bentu þeir sijnum Fieløgum, sem voru aa hinu ødru Skipenu, þad þeir kiæmu þar og hiaalpudu þeim, og þeir

komu, og hlodu bæde Skipeñ full, so ad þau sucku ad mestu.

Hvad siaaum vier hier wt af?

Eina Furdu yfer adra Furdu, eitt Krapta-verk stærra, eñ þad annad. Þad var eitt stort Krapta-verk, ad so marger Fiskar skylldu aa einum Tijma hlaupa i Neted, stærra ad Neted rifnade, og þo sluppu ecke Fiskarner wr þvi, so og var þad ecke þad minsta, ad Skipeñ suckn ad mestu, eñ þo ecke til fulls.

Hvad lærum vier hier af?

Fyrst þad, ad JEsus er Sonur þeß almaattuga Guds, og alla Hlute hefur hañ hønum under Fætur lagt, Saude og Naut allt til samans, þar med eiñeñ Villudijreñ, Fuglana under Himnenum, og Fiskana i Sionum, og allt hvad i Hafenu geingur. Ps. 8. Þar fyrer kañ hañs Bleßan audvelldlega ad audga fyrer utañ Mædu. Prov. 10. hvern hañ vill og nær hañ vill, jaa, hañ kañ ad wthella yfergnæfañlegre Bleßan yfer oß, ef vier alleinasta trwum hønum þar til. Og þar fyrer seiger Syrach: Treistu Gude og vertu i þinne Stiett, þviad harla audvellt er Gude ad giora faatækañ Mañ rijkañ. Syr. 11.

Þar næst; þaa meigum vier ecke laata

oß

oß koma þad ovart, þo ad Net vorrar Næringar rifne stundum, og vilie lijted bresta, edur þo vier lijdum nockurn Mootgaang i i þeirre stærstu Lucku, so ad Skip vors Velstands vilie þvi nær sockva, helldur miklu framar þeinckia, ad eckert jardneskt kañ stødugt ad standa, þvi nær Luckañ hlær ad oß, og leikur blijdast vid oß, þaa er heñe hættast vid ad bregdast oß, eñ ef vier alleinasta helldum oß vid Gud, þaa mun hañ epter sijnum þocknañlegum Vilia, hallda samañ Netenu og vardveita Skiped, so þad sockve ecke.

Hvad fylgde þessu Christi Krapta-verke?

Þad syner oß Gudspialla-madureñ, segiande: Þaa Simon Petrus saa þetta, fiell hañ til Kniaanna JEsu, af eiñre sierlegre Audmykt, og sagde: Gack fraa mier, HErra, þviad eg em Madur syndugur, og ecke þeß verdugur, ad eg skule nioota þinnar Nærveru hiaa mier i mijnu Skipe.

Hvert vijsade hañ þaa JEsu fraa sier, añadhvert af Forakte og Ogiede, edur af otilheyrelegu Athugaleise?

Evangelisteñ seiger: Af þvi ad Felmtur var yfer hañ komeñ, og alla þaa, sem med hønum voru af þeim Fiske-

Fiskedrætte, er þeir feingu til samans, so hañ af þeim stora Felmtre og Hrædslu visse valla hvad hañ talade.

Hverneñ kuñum vier oß þetta til Nytsemdar ad færa?

Vier kunnum, þegar vier aalijtum þaa storu Naad Guds, sem hañ oß audsyner, margra Ordsaka vegna med Petre, ad medkienna oß ad vera auma og overduga Syndara, minne allre þeirre Miskun og ollum þeim Sañleika, sem hañ hefur oß audsyndt. Gen. 32. Eñ þar fyrer skulum vier þo ecke vissa honum fraa oß, sem þeir, um hveria gieted verdur i Matt. 8. helldur miklu framar sem Læresveinarner med vorre Tru og Bæn neyda hañ til ad ganga iñ til vor og vera hiaa oß. Luc. 24.

Hveriu svarade JEsus hier til?

JEsus sagde til Simonar: ottast þu eige, þu munt siaa stærre Hlute eñ þessa, þvi eg vil giora þig ad einum stærre og luckugiefnare Fiskemanne, so ad hiedañ i fraa skalltu Meñ veida med Himnarijkes Nete, sem er med Guds Orda Predikun og Lærdome. Matt. 13. og leida margar Saaler til Guds Rijkes.

Hvad meinar Frelsareñ med þessum Ordum?

Hañ meinar Peturs og añara Postul-

añã

aña, aasamt allra Guds Orda Þienara Embætte, ad þeir eru i andlegañ Maata Fiskarar, sem Saalernar skulu veida. Ezech. 47. Verolldeñ er sem eitt andlegt Haf edur Sior, Meñerner i heñe eru sem andleger Fiskar, sumer iller, sumer goder, hvar fyrer Ordsins Þienarar skulu hier utkasta Himnarijkes Nete med sinne Predikun og Lærdome, og leida Menn ena aa Saaluhiaalparennar Veg, dragande þaa fraa Fyrerdæmingar Diupe til Guds Rijkes, og þar sem vier vilium þad odlast, þaa skulum vier hverke hlaupa fyrer utañ þetta Net, edur oß under þad grafa ofañ i þeß veralldlega Hiegoma Ohreininde, helldur laata viliuglega draga oß til Guds, fyrer hans Ord og þad heilaga Embætte.

Hvad giordu þaa Læresveinarner ad sidustu?

Þeir drou sijn Skip ad Lande, yfergaafu alltsamañ og fylgdu hønum epter. Þeir yfergaafu sitt Net, og sitt Skip, og þad sem meira var, ad Zebedei Syner forlietu siñ Fodur og fylgdu JEsu epter.

Skulu þaa aller, sem JEsu vilia eptersylgia, þañeñ yfergiefa sitt jardneska Gots og sijnar Eigur?

Nei,

Nei, þvi þad er ecke so naudsynlegt fyrer oß, sem þad var fyrer þeim a þeirre Tijd, þo samt sem adur skulum vier vera reidubuner þar til, ef Guds Dijrd utkrefur þad. Luc, 9. og reikna alla Hlute Skada i hiaa þeirre yfergnæfanlegre Þeckingu Christi, hveriu med Fodurnum og heilogum Anda sie Lof og Dijrd fraa Eilijfd til Eilijfdar. Amen.

# Siotta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar heilagur Mattheus i 5. Cap.

J þañ Tijma. JESUS sagde til siña Læresveina: Eg seige ydur, nema so sie, ad ydart Riettlæte yfergnæfe meir eñ þad hiña Skriftlærdu og Phariseanna, þaa munud þier eige iñganga i Himnarijke. Þier hafed heyrt hvad sagt er til þeirra Gømlu; Ecke skalltu Mañ vega. Eñ hver hañ vegur mañ, sa verdur Dooms sekur, eñ eg seige ydur þad, hver hañ reidest Brodur sijnum, sa verdur Dooms sekur.

sekur. Eñ hver sem ad seiger til Brodurs sijns, Racha, hañ verdur Raads sekur. Eñ hver sem seiger, þu Afglape, hañ verdur sekur Helvijtes Ellds. Þar fyrer, næred þu offrar þijna Gaafu til Alltaris, og þier kiemur þar til Hugar, ad þiñ Broder hafe nockud aa mote þier, þaa læattu þar þijna Gaafu fyrer Alltarenu, og far aadur ad sætta þig vid Broodur þiñ, og kom þaa ad offra þijna Gaafu. Vertu snarlega samþyckur þijnum Motstødumañe aa medañ þu ert eñ aa Veige med hønum, so ad eige selie þig þiñ Mootstødu-madur Domaranum, og Domareñ selie þig Þienaranum, og verder so i Dijblyssu kastadur. Sañlega seige eg þier, ad eige muntu þadañ wtfara, þaangad til þu hefur borgad þiñ sijdasta Pening.

Hvad hefur þetta Evangelium inne ad hallda?

Fyrst; Christi Underviijsun um þad rietta og fullkomna Rettlæte. Þar nærst; hañs Utlegging yfer þad fimta Bodord, bæde hvad i þvi verdur bañad og boded.

Hvad seger hañ um þad fyrra?

Hañ seiger, nema so sie, ad ydart Riett-

Riettlæte yfergnæfe meir eñ þad hiña Skriftlærdu og Phariseaña, þaa munud þier eige iñgaanga i Himnarijke.

Hvad fyrer Meñ voru þeir Skriftlærdu?

Þeir voru Lærder Meñ, Lærefedur Gydinga Folks, Hverier ei alleina sialfer voru vijser og lesner i Lögmaalenu, helldur og kiendu og undervijsudu þeir þad ødrum, so sem þeir, ed hielldu sig ad hafa þañ vissa Maata aa Þeckingu og Sañleika Guds Lögmaals.

Hverier Meñ voru Pharisearner?

Þar um maa lesa Utleggingúna yfer Gudspialled aa Trinitaris Suñudag.

Hverneñ var þetta þeirra Riettlæte?

Þeir lietu sitt Rettlæte vera iñefaled i Lögmaalsens utvortes Þeckingu og Verkum, og med sijnum eigeñ Godverkum leitudust vid, ad upprietta sijnar eigeñ Riettlætingar. Rom. 10.

Kunne þetta þeirra Riettlæte fyrer Gude ad gyllda?

Nei, helldur var þad eitt ofullkomed og ogyllt Riettlæte, fyrer þad, ad þad var ad nockru leite framar samstemande Fedra þeirra Setningum, helldur eñ Guds Orde, og ad nockruleite var þad eitt hræsnesfullt Riettlæte, þvi hvad þeir giørdu, þaa

þaa giørdu þeir þad allt til þeß, ſo þeir ſæiſt af Moñum. Matt. 6. og meintu ſig þar med ad forþiena Guds Rijke, og þaa eilijfu Saaluhiaalp. Einen var þad ofullkomed fyrer þad, ad þeir hofdu ecke þañ rietta Grundvoll, nefnelega Trwna aa Christo, sem oß er giørdur til Riettlætes. 1. Cor. 1.

Ber voru Riettlæte ad vera ødruviſe eñ þeirra?

Jaa, þvi nema ſo ſie ad vort Riettlæte yfergnæfe meir enn þad hiña Skriftlærdu og Phariſeaña, þaa munum vier ei iñgaanga i Himmarijke, þad er, vier kuñum ecke ad vera ſanner GUds Limer, hverke hier i hañs Naadar-Rijke, nie helldur ad komaſt i hañs Dijrdar-Rijke.

Hvernenn er þad ad ſkilia, ad voru Riettlæte ber ad yfergnæfa, og ad vera betra enn þad hinna Skriftlærdu og Phariſeaña?

Þad aa ecke ad ſkiliaſt edur meinaſt epter Løgmaalenu, þvi þar ſem nockur villde þeinkia, ad hañ kynne ad verda Riettlaatur af Løgmaalenu, og fyrer Løgmaalſens Verk, þaa ſkal hañ vita, ad þad er omøgulegt vegna vors Holld's Veikleika. Rom. 8. Þar fyrer ſkal hañ ecke med Phariſeunum meina, ad þad ſie nog,

þo hañ kunne utvortes i nockrum Port-um Løgmaaled ad hallda, helldur ber hön-um og ad audsyna iñvortes fullkomna Hlijdne epter øllum Guds Bodordum, þvi annars heiter þad þetta: Bølvadur vere sa, sem ecke fullkomnar øll Ordeñ i þessu Løgmaale, so hañ giøre þar epter. Deut. 27. og þo ad einhver hiellde allt Løgmaaled og brotlegur yrde i einu, þaa er hañ þegar alls þeß sekur. Jac. 2. Edur og aa þetta ad skiliast i þañ Maata, þad Evangelium aahrærer, og þaa er þad Christi Meining, ad hañ vill, ad vier sæk-ium og leitum epter þvi saña Rettlæte, sem fyrer Gude gyllder; þo ber oß epter þvi ad leita, ecke i Løgmaalenu edur vorum eigeñ Goodverkum, helldur med Truñe alleina til Guds Naadar, sem giører þañ raanglaata Riettlaatañ, og i JEsu Christi fullkomnre Hlijdne og Forþienustu, hver ad er saa hiñ Riettlaate Guds, sem kañ oß Riettlaata ad giøra. Es. 53. med þvi hañ, er oß af Gude giørdur til Riett-lætes. 1 Cor. 1. Jaa, hañ, sem ecke visse af Synd, giørde Gud ad Synd vorra veg-na, uppaa þad vier yrdum i hønum þad Riettlæte, sem fyrer Gude gyllder. 2. Cor. 5.

I hverri

I hvern Maata utleggur JEsus enn framar þennann Lærdom?

I þañ Maata, ad hañ wtleggur fullkomlega þad fimta Bodord i Guds Løgmaale: hvar med hañ bæde syner hvad ofullkomeñ ad Phariseaña Meining og Utlegging være yfer þad, so vel sem aññara Guds Barna, so og hver Bodordsens eigeñleg og fullkomeñ Meining mune vera, bæde þad sem ahrærer, hvad i þvi boded er, sem og hitt, sem bannad er.

Hvad seiger hañ um þad fyrsta?

Hañ seiger: Þier hafed heyrt, hvad sagt er til þeirra Gømlu: Ecke skalltu Mañ vega, eñ hver hañ vegur Mañ, sa verdur Dooms sekur.

Hverier eiga hier ad skiliast fyrer þaa Gomlu?

Ecke Moses og þeir gomlu Forfedur, fyrer hveria, og hverium Løgmaaled var fyrst wtgiefed, helldur hiner fyrre Ølldungar og Lære-meistarar a medal Gydinga Folks, epter þaa Babyloniſku Herleidingu, og sierdeiles i og epter Maccabeanna Tijma, sem eina Tijd epter adra hofdu iñfært adskiliañlega Manna Lærdoma og Setninga, og giort margar raungar Utleggingar yfer Guds Løgmaal og Bodord, hvad allt ad jook ein Ætt epter adra.

Hofdu þeir þaa villta Pænka og raanga Utlegging yfer þad fimta Bodord?

Jaa, þeir høfdu ad sønnu Løgmaalsens Ord, þu skallt ecke Mañ deyda, eñ wtløgdu þad alleinasta um utvortes Mord og Mañdraap, ad saa sem hanneñ slær siñ Naaunga i hel, drijgde stora Synd, og være Dooms sekur, ei alleinasta Guds Dooms, helldur og Mannaña Doms; þad er, ad leidast fram fyrer Rietteñ, og straffast fyrer siinar Misgierder, epter Guds eigeñ Doome, er so hlioodar: Hver sem wtheller Mañsens Blode, hañs Blod skal og so wthellast fyrer Mañeñ. Gen. 9. Eñ um þad iñvortes Mord tøludu þeir eckert, sem skiedur i Hiartanu, fyrer otilbærelegt Hatur og Reide, ei helldur um adrar Synder, þessu Bodorde mootstrijdande.

Giørde þaa Christur eina adra Utlegging þar yfer?

Jaa, hañ tilleggur ecke Guds Bodorde eitt nijtt Bodord, helldur wtleggur hañ Løgmaalsens Bodord, og hreinsar þad af þvi nija Mañaña Lærdoms Swrdeige, og raangre Utleggingu, auglysande, ad Mañdraap og Synd aa moote þvi fimta Bodorde, kunne ei alleinasta ad fremiast med wtvortes Verkum, þegar Madur med Høndunum drepur og i hel slær siñ saklausañ

an̄ Naunga, helldur og med Hiartanu fyrer otilbærelega Neide og Hatur, so og med vonduin Atvikum og Vidmote, jaa einen̄ med Mun̄enum og Tungun̄e.

Hvad talar han̄ um̄ þad Man̄draap, sem skiedur med Hiartanu?

Han̄ seiger, en̄ eg (sem saa san̄e Løgmaalsens Utgiefare og mikle Spaamadur, Deut. 18. sem til þess er komen̄ i Heimen̄, ad eg skule wtleggia Løgmaaled) seige ydur, ad þad fimta Bodord er ei alleinasta yfertroded med þvi, ad fremia wtvortes Mord og Man̄draap; helldur og so med þessu, ad hver han̄ reidest Brodur sijnum, sem er hans Samchristen̄ Naunge, aan løglegrar og tilbærelegrar Sakar, han̄ er ei minne en̄ ein̄ Man̄draapare, og er sekur Guds Doms; þvi hver sin̄ Brodur hatar, saa er Man̄draapare, og þier vited þad Man̄draapare̅n hefur eige eilijft Lijf hiaa sier blijfanda. 1. Joh. 3.

Kan̄ Madur og med sijnu Vidmote og Fase ad syndga aa mote þvi fimta Bodorde?

Jaa, þvi so seiger Frelsaren̄ en̄ framar: Hver sem seiger til Brodur sijns; Racha, han̄ verdur Raads sekur.

Hvad þyder þetta Ord, Racha?

Þeir Lærdu hallda þad hafe sin̄ Uppru-

na annadhvert af þvi Ebreſka edur Syr-
lendſka Twngumaale, og meina, ad þad
mune þijda ſo miked ſem onytt Hrak, er til
einkis duger, og hefur hverke Vit nie Skyn,
og hafe Gydingarner brwkad þetta Ord
fyrer Forøktunar-Gloſu, aña adhvert vid, ed-
ur um̃ einhvern, og vill Chriſtur hier med
meina allra handa ſpoſk Atvik, Takta og
Vidmot, hvar med ſumer ſtunda til ad
hæda ſiñ Naunga, og giarnañ fylgiaſt med
Haadyrdum og Spottgloſum, ſo ſem leſa
maa hiaa Spaamannenum Eſaia, ad þeir
vijſa til hañs med Fingrenum, og tala
vondslega. Eſ. 58.

Hvad ſkilſt fyrer Raaded, ſem ſaa ſame verdur
ſagdur ſekur fyrer?

Chriſtur talar hier epter Gydinganna
Riettargaangs Haattalæge, þvi þeir hofdu
ei alleinaſta i ſijnum Doome og Riette al-
mennilega þriaa Meñ i ſierhverre Borg,
ſem dæmdu i þeim Søkum, ſem voru lioſar
og bevijſañlegar, ſo ſem ad voru opennber-
legar Manndraaps Saker, og adrar þvi-
lijkar. Helldur hofdu þeir ſitt Raad og
Yfferriett, i hverium ad voru tuttugu og
þrijr Meñ, ſem dæmdu um̃ viktugar og
ſtorar Saker. Og ad ſijduſtu þaa var i Je-
ruſal-

rusalem Raad og Samkunda (jeg meina hædste Rettur) i hverium ad voru siotiju og tveir Raads-Herrar, fyrer hveria þær þijngstu Saker, sem fyrer hinum ødrum Rettum urdu ecke wtkliaadar, skylldu koma, þar iñfæraſt og til fulls wtdæmaſt. Af þeim fyrstu Doomurum edur Under-riettenum voru þeir lijslauſu Obotameñ dæmder alleinaſta til einlægs Lijfs Straffs. Þeir sem funduſt seker fyrer Raadenu, edur Yfer-rettenum voru veniulega dæmder ad lijda hardara Straff. Eñ þeir, sem komu fyrer hædsta Rett og funduſt seker, voru almeñelega dæmder til miklu hardara Straffs, so sem til ad brennaſt. Og med þvi Christur nefner hier þennañ þrefallda Rett, og geingur fraa eiñre Troppu Straffsens til annarar, nefnelega, fraa Domenum til Raadsens, fraa Raadenu til Elldsens, þaa vill hañ þar med auglyſa, ad saa eine af þessum Syndurum er ei minna Straffs verdugur eñ hiñ añar, helldur þaa forþene þeir aller bæde tijmañlegt og eilijft Straff, jaa stærra og stærra, lijka sem Syndeñ er meire og meire, þingre og þingre: Sie hañ Dooms sekur, sem reideſt sijnum Brodur, þaa er hañ Raads sekur, þad er, hañ forþienar stærra Straff, sem af einu

vondskufullu Hiarta foraktar siñ Naunga, og saa þridie eñ þaa framar, sem med slæm-um Ordum yferfellur og smaanar hañ.

Hvad seger JEsus ad sijdustu um̃ þad Mañdraap, sem skedur med Tungunne?

So talar hañ: Hver sem seiger, þu Afglape (edur Daare) hañ verdur sekur Helvijtes Ellds.

Gietur eingeñ sagt til sijns Naunga: þu Gickur, þu Daare, þu Heimskur, aan þeß hañ syndge og giore sig sekañ þar med?

Sannarlega: þegar þad skiedur ecke af heiptugu og vondu, helldur af einu Kiær-leiksfullu og rettsinnudu Hiarta, hvar med saa sem talar vill hiñ straffa, og honum undervijsa, þvi so seger Christur siaalfur til sinna Lære-sveina: O! þier heimsker og treiger i Hiarta. Luc. 24. Einneñ seger S. Paall so af einu godu og innilegu Hiar-ta til þeirra i Galatia; O þier Skynsemd-arlauser Galatæ. Gal. 3. Og David seg-er: Higged ad, þier Gicker, medal Folk-sens og þier Daarar. Ps. 94. Item seger Salomon: Þier Heimsker, merked Vitsk-una, eñ þegar Madur af einu vondu og heiptarfullu Hiarta talar til sijns Naun-ga þessum edur þvilijkum hordum Smaanar-Ordum, og hvetur sijna Tungu

sem

sem Sverd, og wtskijtur sijnum eitrudu Ordum sem einre Pijlu Ps. 64. jaa stijngur med þeim, sem einu Sverde. Prov. 12. Þad er ein stor Synd og forþienar stort Straff.

Hvers Straffs seger JEsus þañ sekann ad vera, sem þanneñ med Tungunne vegur sinn Naunga?

Helvijtes Ellds. Eñ Helvijte og þeß Pijnu og Forsmaan verdur lijkt vid þañ vidurstyggelegasta afvikna Stad fyrer utañ Jerusalem, sem kalladest Hinnam Sona Dalur, edur Hinnoms Barna Dalur, i hverium Afgudadijrkararner lietu sijn Born fordum gaanga i gegnum Elldeñ til Moloch, þennañ Stad og hañs Afguda-dijrkun afmaade og saurgade sa gudhræd-de Kongur Josias. 2. Reg. 23. Og so ad hañ skyllde þar epter vera þeß vidurstyggelegre, þaa voru øll Saurendeñ af Borgenne þaangad wtboreñ, og þeir miklu Spill-vyrkiar, sem hofdu dæmder vered af þvi stora Gydinga Raade i Jerusalem, voru þar riettader og uppbrender, hver Stadur og annars kalladest Thopheth, 2. Reg. 23. og verdur brwkadur fyrer Jmind uppaa Helvijte. Es. 30.

Hvad skulum vier hier af læra?

Ei alleinasta þad, ad varast wtvortes Mord og Manndraap, helldur og so vonda

og otilbærelega Reide, þvi hun giorer eckert þad, sem fyrer Gude rettferdugt er. Jac. 1. Jaa, vier skulum varast ad syna aa oß reiduglegt Vidmot med vondum og slæmum Ordum aa Bak edur Briost, þviad þad eina so vel sem hid annad, þad alltsamañ eru storar og daudlegar Synder aa mote Guds Bodordum, og forþienar hañs Reide med tijmañlegu og eilijfu Straffe, hvert yfer þaa mun koma, sem ecke ydrast sinna Synda hier aa medañ Naadar-tijmeñ er.

Hvad seger JEsus eñ framar, ad boded sie i þessu Bodorde?

Hañ seger, ad Christelegur Kiærleike og Forlijkun sie sierdeileslega bodeñ, bæde þad aahrærer þañ, sem hefur giort, og hiñ, sem hefur lided Oriett.

Hvad talar hañ um þañ, sem hefur giort Oriett?

Þar fyrer seger hañ, nær ed þu offrar þijna Gaafu til Alltaris, og þier kiemur þar til hugar þad þiñ Broder hafe nockud aa mote þier, þaa laattu þar þijna Gaafu fyrer Alltarenu, og far aadur ad sætta þig vid Brodur þiñ, og kom þaa ad offra þijna Gaafu.

I hverre Meiningu bruukar hañ þesse Ord?

I þeirre Meiningu epter Haattalage

gamla

gamla Testamentesens og þeß Offrana, sem ecke voru þaa olldunges afteknar, þar fyrer, þar sem nockur villde epter Guds Logmaale frambera eitt þocknanlegt Offur fyrer Alltare Drottens, og endurminntest þar þeß, ad hann hefde sijnum Naunga oriett giort, þaa skyllde hann aadur gaanga til hanns, og sig vid hann forlijka, þvi annars kynne hans Offur og Guds Þionusta, ef hun skiede ecke af sannre Tru og riettum Kiærleika, ecke ad vera Gude þocknanleg.

En hvad kiemur þetta oß Christnum vid i þvi nyja Testamente, vier þurfum þo ecke þvilijkt Offur ad frambera?

Jafnvel þo saa Levitiske Kiennemannskapur med sijnum Offrum sie afteken, so erum vier þo andleger Prestar fyrer Gude, hvar fyrer oß ber ad offra honum andlegar Forner fyrer Christum. 1 Pet.2. sem er harmþrwngnu og sundurknosudu Hiarta fyrer vorar Synder. Ps.51. Bæn og Akollun, Lofgiord og Þacklæte. Ps.145. Giafmilldne og Giestrisne, sem og Godgyrne vid þaa fataæku Christi Lime og Þienara, saa, vier skulum giefa oß olldunges til þeß Offurs, sem lifande er, heil-

heilagt og Gude þacknæmt. Rom. 12. eñ alldrei þurfum vier ad þeinkia, ad þvilijkt vort andlegt Offur kuñe Gude ad þocknast, so leinge sem vor Naunge, hveriumm vier hofum oriett giört, hropar Hefnd til Guds yfer oß.

Hveria Amiñing giörer JEsus ad sijdustu þeim, sem Oriettcñ hefur lided?

Hañ seiger; vertu snarlega samþyckur þijnum Motstødumañe, a medañ þu ert eñ a Veige med hønum, so ad eige selie þig þiñ Motstødumadur Domaranum, og Domareñ selie þig Þenaranum, og verder þu so i Dijblissu kastadur: Sañlega seige eg þier, ad eige muntu þadañ wtfara, þaangad til þu hefur borgad hiñ sijdasta Peining. Hvad hañ talar uppa þeß veralldlega Riettargaangs Vijsu, ad so sem Motpartununi, sem vilia gaanga fyrer Dom, og i Riett, hver a mote ødrum, ber ad forlijkast, adur eñ þeir koma fyrer Domeñ, þvi þad er helldur seint, ad þeinkia um Forlijkun, þegar Domareñ hefur allareidu uppsagt Domeñ, og afhendt þa til Straffsens, sem Domureñ er yferfelldur; so skal og sierhver Riettchristeñ Madur

ur, sem er i nockre Vansæatt vid siñ Naunga, a Tijma Nadarennar, þaa Stund hañ er a Veige med honum, forlijka sig vid hañ, so hañ med sijnu hordu og o-forlijkunarsømu Hiarta, hvar yfer hinn annar andvarpar til Guds, leide ecke yfer sig Reide Drottens, þeß riettlæta Domara, og verde aalyktadur sekur eilijfs Fangelsis, wr hveriu eingeñ kann komast, þar til hañ hefur borgad hiñ sijdasta Pening, bad er, hañ skal alldrei badañ komast eilijflega, þviad so sem eingeñ kañ um alla Eilijfd med sinne Pijnu og Kvølum Syndena fullu ad betala, so kañ hañ ecke helldur ad vera frij fyrer Straffenu. GUd giefe oß forlijkunarsamt Hiarta, ad forlæta og fyrergiefa hver ødrum, lijka sem hañ hefur fyrergiefed oß i Christo. Bænheyr þu oß Drotteñ vegna þijns dijrdarfulla Nafns, Amen.

# Siounda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar heilagur Marcus i 8.C.

J Þañ Tijma. Þaa þar var eñ margt Folk komed samañ, og hafde ecke til

til Matar. JEsus kallade sijna Læresveina til sijn, og sagde til þeirra: Mig aumkar yfer Folked, þvíad i þriaa Daga hafa þeir hiaa mier vered, og eckert til matar haft. Og ef eg læt þaa fastande Heim til sijn fara, þaa vanmegnast þeir aa Leidenne. Þvíad sumer voru langt ad komner. Og hans Læresveinar svørudu hønum. Hvadan skaum vier þau Braud, hier aa Eydemørku, so ad vier skaum þaa mettad? og hañ spurde þaa ad. Hversu mørg Braud hafed þier? Þeir søgdu hønum, Siø: og hañ skipade Folkenu nidur ad setiast aa Jørdena, og took þau siø Brauden, þackade og braut sundur, og fieck sijnum Læresveinum, ad þeir legde þau fram; og þeir løgdu þau fram fyrer Folked. Þeir høfdu og faaeina Fiska, og þaa hina sømu blessade hañ, og baud fram ad leggia. Eñ þeir neyttu og urdu metter. Og þeir tooku upp þad yfer var, siø Karfer med Afgaangs-Leifar. Eñ þeir, sem neitt høfdu, voru nær fiorar Þusunder, og hann liet þaa i burtfara.

Hvad

Hvad er iñefaled i þessu Evangelio?

Christi Kraptaverk, sem med siinu guddomlegu Almætte, mettade fiogur Þusund Mañs af sio Brandum og faa-um Fiskum, og þad so, ad þar voru sio Karfer med Afgaangs Leifar.

Hvad marger Partar eru hier adgiætande?

Tveir, nefnelega. Fyrst; þad sem skiede fyrer Kraptaverked, sem var Christi Samtal vid siina Læresveina um Folksens Sadning. Þar nærst; um Kraptaverked i siaalfu sier, bæde þad aahrærer þaa undarlegu Sadningu, so og þær yfer fliotañlegu Afgaangs-leifar.

Hverneñ hliodar Textеñ um þad fyrra?

Þañeñ; J þañ Tijma. Þaa þar var eñ margt Foolk samañ komed, og hafde ecke til Matar. Kallade JEsus siina Læresveina til siin og sagde til þeirra: Mig aumkar yfer Folked, þviad i þriaa Daga hafa þeir hiaa mier vered, og eckert til Matar hast. Og ef eg læt þaa fastande heim til siin fara, þaa vanmegnast þeir aa Leideñe, þviad sumer voru laangt ad komner. Og hañs Læresveinar spørdu hønum. Hvadañ faaum vier þau Braud hier

a Eydemørku, so ad vier faaum þar mettad? og hañ spurde þa ad: Hversu mørg Brauď hafe þier? þeir sögdu hønum, Siø.

Hvad verdur oß fyrer Sioner sett i þessum Ordum?

Fyrst; eitt neydlijdande Folk; þar næst, sa medaumkunarsame JEsus.

Hveria Neyd og Þreingingu hafde Folked?

Þad leid Neyd og Þreingingu bæde a Saal og Lijkama.

Hveria Þreingingu hafde þad Saalareñar vegna?

Þessa, ad Guds Ord var a þeim Døgum lijka sem i Tijd Eli dijrt i Landenu. 1. Sam. 3. Þad er, þad fieckst ecke audvelldlega i siñe riettre Meiningu og fullkomnum Krapte, helldur var þad formyrkvad og samblandad med PhariseañaSiwrdeige og mañlegum Lærdome og Uppafyndingum, hvar af sorgfullar Samviskur feingu litla Huggun.

Hvad giordu þeir i þessare Saalareñar Neyd og Þreingingu?

Þeir høfdu sig til JEsum i storum Flockum og miklre Mergd, sem Sauder til sijns sanna Hyrders, sem faavijser til Meistarans, med þa vellærdu Tunguna, sem kañ ad tala i riettañ Tijma vid þa, sem

sem mædder eru. Es. 50. a hvers Varer Naaden er wthellt. Ps. 45. til ad læra og huggast af hønum.

Hvad kienna þeir oß med sijnu Epterdæme?

Pad, ad vier kostgiæfelega holldum oß til JEsum og hans Barna Safnadar, og med einre Hiartans Lyst og Epterlaungun heyrum hans sæluhiaalplega Ord, en høfum ecke fyrer Sidvana ad yfergiefa vora Samkundu. Heb. 10.

Talar Evangelistenn nockud um þeirra Neyd og Þreingingu a Lijkamanum?

Jaa, han seiger, ad þeir hafe ecke haft til Matar, þvi þeir høfdu vered hiaa hønum (eg meina JEsu) i þria Daga af Epterlaungun til ad heyra hans Ord, og ad siaa hans Kraptaverk. Hvar fyrer þeir gleimdu þeirre Umhiggiu, sem þeir þurftu ad hafa fyrer sine lijkamlegre Næringu, og þeß vegna hungrade þaa ad sijdustu, so þeir høfdu eckert ad eta.

Hvad siaum vier hier wt af?

Þeirra riettu Guds Barna og Þienara Hlutskipte og Tilstand i þessum Heime, ad þeir meiga almennelega lijda Neyd, Hungur og Klædleise, Eymd og Volæde, i þeß Stad, ad Veralldarennar Børn lijka so sem sveima i allskyns yferfliotanleg-

um Nægtum, þar fyrer seger St. Paall; allt til þessarar Stundar þolum vier Sveingd og Þosta, og erum klædfæer, og verdum barder, og høfum aungvan vissañ Samastad. 1. Cor. 4. Elias leid Skort bæde aa Mat og Dryck, þegar Baals og Lundanna Prestar høfdu allskonar Nægter vid Jessabels Bord, eñ Guds Børn skulu ei laata sier koma þetta ovart, helldur þeinkia, ad þeirra Frelsare JEsus hefur og so bæde þolad Hungur og Þorsta. Matt. 4. Þau skulu, seige eg, ecke laata þennañ Skort skilia sig fraa Gude, helldur fyrer hañ meir og meir naalægia sig hønum, so þau kunne ad vera sem þeir Faatæku, sem þo eru alltijd rijker, lijka sem þeir ed eckert hafa, og hafa þo alla Hlute. 2. Cor. 6. Og vera viß um, ad DRottem mun ecke laata þañ Rettferduga vera yfergiefeñ, nie hañs Sæde gaanga epter Braude.

Hafde þaa JEsus nockra Medaumkan med Folkenu i þessu þeirra Efnaleise?

Jaa, Evangelisteñ seiger, ad JEsus hafe kallad sijna Læresveina til sijn, ecke til þeß ad raadfæra sig vid þaa, þvi hañ visse sialfur vel hvad hañ villde giora.

Joh. 6. Helldur til þeß ad giefa til vit-
undar sijna Medaumkun, upphvetia þaa
til somu Dygdar, og af þeirra eigen̄ Med-
kienningu ad wtlocka þaa Vantrw og Ur-
rædaleise, sem var i þeirra Hiortum, og
sagde til þeirra: Mig aumkar yfer Folk-
ed, so mitt Hiarta lijka sem sundurbrot-
nar af Miskun og Medaumkun, þviad i
þria Daga hafa þeir hiaa mier ver-
ed, og eckert til Matar haft, og ef
eg læt þaa fastande heim til sijn fara,
þaa vanmegnast þeir aa Leidene, þvi-
ad sumer af þeim eru laangt ad komner.

Hvad siaaum vier hier af?

Vier siaaum hier, bæde þat storu
Miskunseme og Medaumkun vors Frels-
ara JEsu yfer sijnum naudlijdande Børn-
um, ad han̄ ecke alleinasta veit og þecker
þeirra Neyd og Þreingingu, so sem ford-
um sijns Folks i Egyptalande. Exod. 3.
Helldur aumkast han̄ hiartannlega yf-
er þeim: Han̄ er saa trwfaste og ypp-
arste Biskup, sem kan̄ ad hafa Sampijn-
ing med vorum Breiskleika. Heb. 5. Han̄
er saa medaumkunarsamaste Fader, þviad
lijka sem þad Faderen̄ er Børnunum
liknsamur, eins þaa er Drotten̄ miskun-

samur vid þaa, sem hañ ottast. Ps. 103. Hañ er siw giæskurijkasta Moder, þviad þo ein Moder forgleime sijnu Barne, þaa vill hañ þo ecke forgleima sijnum naudstøddum Børnum. Es. 49. Eins sem hañ hefur sett þau hier aa þeirra Lijfdaga Veg, so vill hañ og ecke, ad þau i nockurn Maata aa þessum Veige vanmegnest: Helldur sialfur hafa Umsorgun fyrer þeirra Saalum og Lijkomum, so þau skal ei vanta Saalarennar Fædu, nie helldur þrioota þad daglega Braud. Eiñeñ siaaum vier hier þeirra Skylldu, sem hañ hefur Medaumkun yfer, sem er, ad þeir skulu stadfaster hiaa hønum blijfa, eñ ecke strax fraa hønum hlaupa, edur hañ yfergiefa, jafnvel þo þeir eiñ og añañ Dag meige lijda nockra Neyd og Þorfnun, helldur sier fast vid hañ hallda, bijda eptter hañs Hiaalp, og stadfastlega reida sig þar uppaa, ad hañ mune vissulega koma og ecke tefia. Hab. 2.

Hvad sogdu hañs Lære-sveinar hier til?

Hañs Lære-sveinar svørudu hønum, hvadañ faaum vier þau Braud hier aa Eydemørku, so ad vier faaum þaa mettad.

Hvad siáum vier hier af?

Lære-sveinaña og allra vorra Vantrw og Veikleika, þvi ef vier siáum ecke strax yferfliootañleg Medøl fyrer vorum Augum, helldur syneft oß sem þad sie ein Eydemørk og Eydestadur allt i kringum oß, þá føllum vier strax i Vantrw og Efaseme og segium: Hvad munum vier eta, eda hvad munum vier drecka; eda hveriu munum vier klædast. Matt.6. med þessum Veikleika umvafdañ siñ eg ei alleinasta eiñ vantrwadañ Riddara i Samaria, so og eiñ Lære-svein Eliſæi Spámañs og Þienara. 2. Reg.4. helldur siñ eg og so sama Veikleika hiá þeim trwa Guds Manne Moyse. Num.11. Já, hier og annarstadar hiá Christi eigeñ Lære-sveinum.

Hver var og er Ordsøk til þessarar þeirra og vorrar Efaseme?

Þad kiemur allt þar af, ad vier lijtum framar til vorrar eigeñ Eydemerkur og aums Tilstands, til þeirra mørgu Munna, og þeß litla Forda, sem er fyrer vorum Augum, helldur eñ til GUds fødurlegrar Umhiggiu, og oendañlegs Almættes, þvi ef vier villdum riett athuga

þad, ad vor himneskur Fader veit allt þad, hvers vier vidþurfum. Matt. 6. Þad ad hans Hønd stitteft ecke, og hans Forraad eydest ecke, þaa mundum vier vissulega faa adra Þaancka, og trwa þvi audvelldlegar, ad marger kynnu ad eta af litlu, og verda metter, jaa, ad þar kynne af ad gaanga. 2. Reg. 4.

Hverlu svarade JEsus hier til?

Han hefde vel haft Ordsok til ad straffa þaa fyrer sijna Vantrw, enn han epter sinne Giæsku hagade sier epter þeirra Veikleika, og spurde þaa ad, ecke af þvi han visse ecke, hvad han skyllde giora, þar han veit alla Hlute, helldur til þeß ad wtlocka þad af þeim siaalfum, so ad Krapta-verked kynne ad verda þvi augliosara: Hversu mørg Braud hafe þier.

Hverlu svorudu þeir?

Þeir søgdu hønum, siø. Hvad sannarlega var lijtell Forde, til ad sedia med so marga Men.

Liet þaa JEsus þesse litlu Forraad aptra sier ad sedia Folked?

Ney, helldur skipade han Folkenu nidur ad setiast aa Jørdena, i Rader, so ad allt kynne skickannlega til ad gaanga, og

og Naturenn yrde med godre Skipan þeim ollum wtdeilldur.

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Þad, ad vier skulum epter Gllds Raade og Vilia setia oß nidur i þeim Stad, og i þvi Stande sem Gllde þocknast, enn ei skulum vier ydiulauser sitia, ei helldur skulum vier sitia vorum Naunga þraungt, helldur skulum vier sitia epter gudrækelegre og reglulegre Vijsu, og i Guds Otta framkvæma vort Verk, og mun Gud oß rijkuglega blessa i vorum Bustødum og Sætum, jafnvel þo audvyrdeleg synest, eins og Folksens, sem hier setteſt nidur aa bera Jord.

Hvad giørde hann enn framar?

Hann took þau sio Braudenn i sijnar blessadar Hendur, þackade sijnum himnesska Fodur, sem hefur Umhiggiu fyrer Mønnunum, og forsorgar þaa, og braut þau sundur, so þau kynne þeß hentugar ad wtdeilast, og feck sijnum Lære-sveinum, ad þeir legde þau framm fyrer Folked; þeir høfdu og fáeina Fiska, og þaa hina sømu blessade hann, og baud framm ad leggia.

Hvern Lærdom kunnum vier oß hier af ad draga?

Fyrst þennañ, ad ædur eñ vier tøk-um Brauded oß i Hendur, þaa skulum vier fyrre med Bæn og Þackargiord lijka sem leggia þad i JEsu blessadar Hendur, og oska, ad hañ vilie blessa og drijgia þad fyrer oß. Þar nærst; skulum vier læra, ad læta oß nægia med þad Braud, sem hañ brijtur og wtbijter oß, jafnvel þo þad sie ecke alltijd sem Assers þad feita Braud. Gen. 49. þad er samt noogu gott, þegar þad fæder oß, vier skulum ei møgla, þo vier faaum ecke alltijd þaa feitu og storu Fiska, sem hiner Lærisveinarner feingu einusinne i sijnu Nete, nefnilega hundrad fimtiju og þriaa. Joh. 21. þeir smaau kunna so vel fyrer Guds Forsion og Blessan ad fæda oß og sedia. J þridia Maata; skulum vier ad þvi giæta, ad þegar Gud leggur Brauded oß i Hendur, þaa eigum vier ecke ad hallda þvi alleinasta fyrer oß sialfa, helldur og leggia nockud þar af fyrer vorn hungradañ Naunga. Es. 58.

Hvad verdur ad sijdustu talad um Kraptaverked i sialfu sier?

Texteñ seiger: Og þeir neyttu og urdu metter, og þeir toku upp þad yfer

yfer var, siø Karfer med Afgaangs-
leifar. En þeir, sem neitt høfdu, voru
nær fiorar Þusunder.

Er þetta so stort Krapta-verk?

Jaa, vissulega, þvi hier eru mørg
Krapta-verk innefalen i einu, hier eta
fiegur Þusund Mañs af siø Braudum
og fáeinum Fiskum, og urdu metter,
jaa, þad vard meira Afgaangs, eñ i fyrstu
var til fram ad bera, þeir toku upp siø
Karfer med Afgaangs Leifar.

Hvad siaaum vier hier af?

Vier siaaum hier af, oß til stærstu Hugg-
unar, JEsu Giæsku og Almætte, ad hañ
er saa, sem bæde kañ og vill blessa vorar
Karfer og Afgaangs Leifar. Deut. 28. og
jafnvel þo vorum Augum syneſt þetta o-
møgulegt þaa er þad ei omøgulegt fyrer
hañs Augum. Num. 11.

Breiter hañ eñ nu med sama Hætte vid oß?

Jaa, eñ þo hañ giøre þad ecke med
Krapta-verkum, þaa samt giører hañ þad
med veniulegum Hætte, hañ blessar og
margfalldar Sæded aa Akrenum, Mioled
aa Molunar-Hwsenu, Deiged i Bakstur-
Trogenu og Ofnenum, Maten i Muñen-
um, Leifarnar i Kørfunne og Matar-Ki-
allaranum. Eñ fyrer þad þetta skiedur

daglega, þar leggium vier þad opt lijted uppa Hiartad.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad setia til hans fødurlegrar Forsioonar og Almættes allt vort Raad og Efne, fleigiande vorre Ahiggiu uppa han, og mun han oß Atvinnu veita. Ps. 55.

Hvad giørde Christur Folkenu, þegar han hafde Krapta-verked framkvæmt?

Evangelisten seger: Og han liet þa i burt fara, so þeir skylldu ecke þeinckia, ad han munde alltijd fyrer Krapta-verk sig fæda, helldur ad þeir geinge til sinar fyrre Kollunar og Erfides, hvar med þeir kynnu ad leita sier Brauds.

Kunnum vier og ad taka oß þetta til Lærdoms og Huggunar?

Ja, vier skulum hier af læra, fyrst þad, ad adhillast JEsum, leita Guds Rijkes og hans Rettlætes, og sijdann ganga i vort eiged Hws, og Framkvæma vort Erfide. Vier skulum, seige eg, fyrst framkvæma Guds Verk, og þar epter ei gleima vorum eigen Verkum. Vier kunnum og ad hugga oß þar vid, ad vor JEsus, epter þad han hefur hier forsorgad oß og mettad a Saalu og Lijkama, vill um sijder giefa oß Heimfarar Leise,

Leise, og láta oß hiedañ reisa til þeirra eilijfu Tiallbwda. Leid oß þangad þu himneske Brwdgume, og láttu oß þar lofa þig uñ allar Allder. Amen.

# Attunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Mattheus i 7. Cap.

Á þañ Tijma. JEsus sagde til siña Lære sveina: Vakted ydur fyrer Fals-Spámøñunum, sem koma til ydar i Sauda Klædum, eñ hid iñra eru þeir glepsande Vargar. Wt af þeirra Avøxtum meige þier kieña þá. Verda nockud Vijnbereñ samañleseñ af Þyrnunum, eda Fijkiurnar af Þystlunum? So lijka mun hvert gott Trie giøra godañ Avøxt: eñ hvert vondt Trie vondañ Avøxt. Gott Trie gietur ecke fært vondañ Avøxt, og ei helldur gietur vondt Trie fært godañ Avøxt. Og hvert þad Trie, sem ecke giører godañ Avøxt, skal upphøggvast og i Elld kastast. Þar fyrer meige þier wt af þeirra Avøxtum þeckia þá. Þeir munu ei aller, sem

til mijn segia, DRotteñ, DRotteñ, iñganga i GUds Rijke, helldur þeir, sem giøra Vilia mijns Føđurs, þeß at Himnum er. Marger munu til mijn segia at þeim Dege, HErra, HErra, høfum vier ecke spaad i þijnu Nafne, høfum vier ecke i þijnu Nafne Diøfla wtreked, og giørdum i þijnu Nafne mørg Krapta-verk. Og eg mun þa jaata þeim, ad alldrei þeckta eg ydur, fared frat mier aller Illgiørda-Menn.

Hvad hefur þetta Evangelium iñe ad hallda?

Fyrst; Christi Vidvørun ad varast bæde falskañ Lærdom, sem og i annañ Maata, hræsnesfullañ Christendom.

Hvad talar hañ um þad fyrra?

Hañ seiger: Vakted ydur fyrer Fals-Spaamønnum, sem koma til ydar i Sauda-Klædum, eñ hid iñra eru þeir glepsande Vargar. Af þeirra Avøxtum meige þier kieña þa. Verda nockud Vijn-bereñ samañlesen af Þyrnunum, eda Fijkiurnar af Þyslunum? So lijka mun hvert gott Trie giøra godañ Avørt, eñ hvert vondt Trie vondañ Avørt. Gott

Trie

Trie gietur ecke ſært vondañ Avøxt, og ei helldur gietur vondt Trie ſært godañ Avøxt. Og hvert þad Trie, ſem ecke giører godañ Avøxt, ſkal upphøggvaſt og i Elld kaſtaſt.

Hverier eru þeir, ſem Frelſareñ ræadleggur oß ad vier ſkulum vakta oß fyrer?

Þeir følſku Spææmeñ.

Hverier eiga fyrer þææ ad ſkiliaſt?

Þad ſeiger oß Ritningeñ: Þvi ſo ſem þeir kolluduſt ei alleinaſta Spææmeñ i þeirre heilogu Skrift, ſem fyrer ſierlega Guds Anda Upplyſing, kunnu ad ſpææ og fyrerſegia okomna Hlute, hverier eiñeñ fordum Daga nefnduſt Siææendur. 1. Sam. 9. helldur og þeir, ſem kuñu Ritningena ad wtleggia. Act. 13. So kolluduſt og bæde þeir følſku Spææmeñ, ſem predikudu falſklegar Siooner og Wtþiidingar, Liige, og ſiin Hiartans Svikræde. Jer. 14. ſo og hiner, ſem ræangt wtlogdu Guds Ord, fyrer ſiñ falſkañ Lærdom. Uñ þææ talar S. Petur ſo, og ſeiger: Þar voru og ſo Fals-Spææmeñ æ medal Folkſens, liika ſem þar mynu og eiñeñ æ medal ydar verda liigeſamer Lærendur, ſem jafnframt iñleida munu Hææſka-

haiskasamlega Tvijdrægne, og afneita Drottne þeim, sem þar hefur endurkeipt. 2. Pet. 2.

Eru og Fals-Spaameñ til nu aa þessum Tijmum?

Jaa, þvi midur, allt ofmarger.

Af hverre Art seiger Christur, ad þesser Spaameñ sieu, og hvad talar hañ um þeirra Adferd og Hattalag?

Hann seiger, ad þeir kome obodner og okallader, sem Satan til Guds-Barna Samfundar. Job. 1. Hvar fyrer og Drottenn klagar yfer þeim og seiger; eg sende ecke þaa Prophetana, þo hlupu þeir, eg talade ecke til þeirra, þo spaadu þeir. Jer. 23. og þad i Sauda-Klædum, þad er med einñre utvortes Audmykt, Einfalldleika og Heilagleikans Skyne, eñ hid iñra eru þeir glepsande Ulfar, og olmer Vargar, sem ei hirma Hiordenne, nie koma til añars eñ ad stela, drepa og fordiarfa. Joh. 10.

Þvi samlijker hañ þeirra utvortes Asynd vid Sauda-Klæde?

Hañ tekur i þessu Efne ei alleinasta Samlijking, af Saudaña Audmykt, Einfalldleika og Sakleise, hveriar Dygder þeir folsku Spaameñ aa sier syna under utvortes Skyne; helldur syner hañ og, ad

þeir vondu vilia þeim godu wtvortes lijk-
er vera ; Hvar med hann bender oß til
Klædnadar og Sidvenin sinna gomlu
Spaamaña, og Guds Manna, sem gein-
gu i kring i Sauda-felldum og Geita-
Skiñum. Heb. 11. So sem Spaamadur-
eñ Elias, hañ var i lodeñe Hwd, og haf-
de eitt Olar-bellte um sijnar Lendar. 2.
Reg. 1. epter þessu breittu þeir følsku
Spaameñ, og færdu sig i lodnar Kaapur
til ad liwga. Zach. 13.

Hvad æ eigeñlega ad skiliast fyrer þesse
Sauda-Klæde?

Fyrer þau eiga ad skiliast þeirra føl-
sku Spaamaña wtvortes Sider og Asynd,
hverier hid itra syna sig audmiuka og vin-
samlega, læatast vera vandlætingasamer,
vegna Guds Dijrdar, eru wtvortes lærd-
er og hafa ypparlegar Gaafur. Þar
fyrer talar St. Paall so um þaa, og seig-
er; þeß hæattar Fals-Postular og svikfsam-
leger Erfidesmenn giora sig ad Christi
Postulum, og þad eru eige Undur, þvi
siaalfur Andskoteñ umsnijr sier til Lioßens
Eingels. 2 Cor. 11.

Hverneñ skulum vier þaa vakta oß fyrer þessum
Fals-Spaamøñum?

Kieñ-

Kieñendunum i Guds Søfnude berei alleinasta ad veita þeim Motstødu, og griipa þessa Smaa-Refe, sem fordiarfa Guds Viingarda, og fyrer heilsusamlegañ Lærdom, ad straffa þaa, sem aa mootte mæla. Tit. 1. helldur heyrer þad og til þvi haaa Yfervallde, sem eru Guds Safnadar Fostur-Fedur. Es. 49. þeim i mote ad standa, og ecke audvelldlega þaa i siinum underliggiande Londum ad liida, so ad sñ raange Lærdoomur ete ecke ofvijdt i kringum sig, sem añad skadlegt Ætumein, og Forgift, og iñtake ecke þaa heilbrigdu Lime i Guds Søfnude. Jaa þad ber øllum Guds Bornum og Limum Christi Safnadar ad vakta sig fyrer þeim, ei alleinasta i þvi ad fordast þeirra Umgeingne, vakta sig fyrer þeirra Swrdeige, so sem St. Petur seiger; vakted ydur, ad þier ecke fyrer þeirra Villu frææleidder verded til ad falla fraa ydar eigeñ Stødugleika. 2. Pet. 3. Helldur og eiñeñ i þvi, ad þeir hallde sig iñelega til Guds, elske hañs Heilaga Ord, og sieu stadfaster i þeim saña Lærdome, eñ læte ei veifa sier af allshaattudum Vinde Lærdomsens. Eph. 4.

Eñ seig mier, Kiære, hvar af skal Madur þeckia þaa folsku Spaameñ?

Af þeirra Avøxtum, seiger JEsus, meige þier kienna þaa, og hañ wtleggur þad eñ framar med eiñre merkelegre Epterlijkingu, þar hañ so talar: Verda nockud Vijnbereñ samañleseñ af Þyrnunum, edur Fijkiurnar af Þyslunum? so lijka nun hvert gott Trie giøra godañ Avøxt, eñ hvert vondt Trie vondañ Avøxt.

Hvad skilst fyrer Avoxtu Fals-Kieñendaña?

Ecke alleinasta þeirra Lifnadar Avexter, þvi þeir kunna ad sønnu ad hafa Skyn Gudhrædslunnar, eñ hennar Krapte afneita þeir. 2. Tim. 3. Og so sem eiñ Saadmadur kañ med ohreinum Høndum ad saa hreinu og godu Korne, so kañ og margur eiñ, sem illa lifer, vel ad predika og ødrum ad kienna, eñ siaalfur Straffs verdur ad vera. 1. Cor. 9. Helldur aa hier miklu framar ad skiliast þeirra Lærdoms Avexter, hverier ei annad eru, eñ ad leida Mañeskiurnar fraa Gude, og þeim saña Saaluhiaalpar Veige, ad hindra Guds Dijrd, og ad hrinda Mønnunum annadhvert i Ofdyrfsku edur Efaseme, so sem GUDs Ande wtmaalar klaarlega Avoxtu Fals-Kieñendaña i Es. 32. segiande: Eiñ Daa-

re mun tala Heimsku, og hans Hiarta mun wtausa Rangendum til ad koma Hræsnenne af stad, og ad tala Villu a mote Drottne, og ad giøra toma Saalu þess hungrada, og laata þann þyrsta vanta Svaladryck; Þvi þegar Pharisearner hielldu meir uppa sinna Fedra Setninga og Findingar, en uppa GUds Ord, þa var Avorturen þar af þesse, ad þeir afløgdu Guds Bodord. Marc. 7. Þegar Saducæarner so vel sem Hymenæus og Philetus neitudu Upprisune, þa var þeirra Lærdoms Avortur sa, ad þeir giordu bæde Ordsens Predikun og Trwna onyta, og konu Efa Orde a sialfs Christi Upprisu. 1.Cor.15. Þegar adrer Villu-Andar kiendu, ad Madur skyllde hallda sig fra adskiliañlegre Fædu, og fyrerbudu ad giptast, þa var Avorturen af þeirra Lærdome þesse, ad GUds Skiepnur og Gaasur synduzt ecke godar ad vera, helldur burtkastañlegar. 1.Tim. 4. So kañ Madur og af Papistanna og Calvinistaña Lærdoms Avortum audvelldlega ad aalykta, ad þeir eru ecke rietter Kiennendur, helldur Fals-Kiennendur. Þvi nær Papistar kienna, ad Madur skule ei alleinasta trwa þvi, sem

sem GUds Ord seiger, helldur og sierdeil-
eslega, hvad Kyrkian, þad er, Paven og
hans Wtsendarar kienna; ad Madur sku-
le ei alleinasta trwa þvi uppskrifada Guds
Orde, helldur og þeim Mana Setningum
og Lærdome, sem ei finnast skrifader i
sonnu Guds Orde: Hver er Avoxturen
þar af annar, en ad leida Mennena fraa
GUde og hans Sanleiks-fullu Orde, til
Mannana, sem eru Lygarar, og þeirra Lær-
doms, sem er Villa, jaa, ad koma þeim til
ad trwa Lijgenne og kloklega uppdiktud-
um og samsettum Dæmesøgum, i Stad-
en fyrer þad hreina Guds sæluhiaalp-
lega Ord? þegar þeir kienna þad, ad
Madur kunne fyrer siin eigen Godverk
ad verda riettlaatur; hvad er þaa þeirra
Avoxtur annad, en ad hrinda Manneskf-
iunne i Efaseme, edur og ad koma henne
til, ad hafa þan Phariseiska Þotta og
Drambsemdar Þaanka um siaalfa sig?
Þegar þeir koma Mønnum til ad tilbid-
ia Mariu edur adra framlidna heilaga
Men, hver er þaa þeirra Avoxtur anar, en ad
rijra Christi Persónu og Krapt hans Medal-
gaungu Embættes? Þegar Calvinistarn-
er setia Skynsemena til Domara i Høfud-

greinum Christelegrar Trwar, og bæde segia og kienna, ad GUD hafe med endelegre og oumbreitañlegre Alyktan, fyrer utañ allt Fortak edur Forord, wtvaled nockra Meñ, eñ fordæmt adra, ad GUD hafe ecke elskad alla, helldur alleinasta þaa Wtvølldu; ad Christur hafe ecke daaed fyrer alla, helldur einasta fyrer þaa Wtvølldu, ad vier medtøkum ecke med Braude og Vijne Christi Lijkama og Blood i Sacramentenu. Hver er þaa þeirra Avøxtur annad, eñ ad forakta og mijnka Guds Ord? ad taka fraa Trwnne sinn Krapt, ad lijtelsvyrda Guds Myskunseme, Heilagleika og Sañleika, ad giøra Christum ad einum ofullkomnum Frelsara; ad efa þad, sem i Ritningunne finst skrifad, bæde um hañs Persónu og Embætte, ad giøra þau heiløgu Sacramenta ad einu wtvortes Teikne, og ad leida Mennena añad hvert til Uggaleises i Syndenne, edur til Efaseme uñ GUds Naad og Saaluhiaalp. Vid hvad samlijker hañ þessum Fals-Spaamoñum?

Vid vond Trie, sem ei annad færa eñ vonda Avøxtu, hvar fyrer þau uñ sijder skulu upphøggvast hier fyrer GUds Orda Sañleika; þvi þeir munu þad ei leinge fremia,

fremia, seiger S. Paull, helldur skal þeirra Fijilska augliöos verda, og loksens med hans Reide-Öxe upphøggvast, og i þañ eilijfa Fyrerdæmingarennar Elld kastast.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad vakta oß fyrer Sværdeige og vondum Averxte þeirra følsku Spaamaña, so vier verdum ecke med þeim vond og avaxtarlaus Trie, sem til einkis añars duga, eñ ad upphøggvast, og i Elld ad kastast, og þar þvert a moote ad leggia allt Kapp a, sem Riettvijsennar Trie, og HErrans lystelegar Pløntunar Greiner, ad blomgast i Forgarde Guds vors. Ps. 92. og æ meir og meir ad uppfyllast med Riettlætesens Averxte. Phil. 1.

Hvad seiger JEsus i annañ Mæata um þañ hræsnesfulla Christendom?

Hañ seger: Þeir munu ei aller, sem til mijn segia, HErra, HErra, iñgaanga i Gudѕ Rijke, helldur þeir, sem gióra Vilia mijns Fødurs þeß a Himnum er.

Hvad er þad ad segia til JEsum, HErra, HErra, edur, DRotteñ, DRotteñ?

Þu skallt vita, ad hier verdur tveñslags Folk so sem adskiled, þeir fyrre nefna hañ med Munnenum af einu godu og trwudu

 Hiarta,

Hiarta, og medkenna hañ fyrer eiñ HErra edur DRotteñ, og þetta giører sierhvert Guds Barn, og aa ad giora, þvi so seiger S. Paall: Ef þu vidurkienner JEsum med þijnum Munne þad hañ sie DRotteñ, og trwer i þijnu Hiarta þad GUD hafe uppvaked hañ af Dauda, þaa muntu hiaalpast. Rom. 10. Og aptur seiger hañ: Allar Tungur skulu vidurkieña þad JEsus Christus sie DRotteñ til Dijrdar GUDs Fødurs. Phil. 2. Þeir sijdare nefna hañ med Muñenum alleinasta aan nockrar Hlijdne og riettrar Trwar, og kalla hañ HErra, sem þeir, til hverra hañ seger: Til hvers kalle þier mig HErra, HErra, og gi-øred eige þad eg seige. Luc. 6. Þeir naalæg-iast hañ med sijnum Munne, og heidra hañ med sijnum Vørum, eñ þeirra Hiarta er laangt fraa hønum, jaa, þeir laata sijna Guds Þionustu vera alleinasta innefallda i wtvortes Kyrkiugøngu, og þeir sem so giora, eru Hræsnarar, so þad maa segiast uñ þaa, ad þeir naalægest Gud med sijnum Munne, eñ þeirra Nijru eru laangt fraa hønum.

Hverneñ fer þaa fyrer þvilijkum Hræsnurum og Munn-Christnum?

Aum-

Aumlega, þvi þeir munu ei inngaunga i GUds Rijke, það er, i það eilijfa Guds Dijrdar Rijke, helldur vill hann wtskirpa þeim af sijnum Munne, þar þeir eru volger, enn hverke kallder nie heiter, og þeir skulu standa fyrer utann þaa himnesku Jerusalem, þviað Hræsnaranna Hlutskipte skal vera þar, sem er Oop og Tannagnistran. Matt. 24.

Enn Hvad skulu þeir Riett-Christnu, sem vilia komast i Himnarijke, giøra?

Þeir skulu ei alleinasta med Munnenum medkienna, tilbidia og prijsa sinn GUD og JEsum, sem einn DRottenn, helldur og giøra Vilia hanns Føðurs þess aa Himnum er.

Hvad er það ad giøra Føðursens Villa?

Hier er ecke meint ad fullkomna Guds Vilia, epter þvi straanga Guds Logmaale, þvi það kann einginn syndugur Madur ad giøra sijdann það hriggelega Fall skiede; helldur er hier meint, ad giøra Guds Vilia epter Evangelii Raad, og þaa er það Guds godur, þocknannlegur og fullkomenn Vilie, ad vier trwum aa Nafn hanns eingietna Sonar, og hver sem trwer aa hann skule hafa það eilijfa Lijf. Joh. 6. Og ad

vier lææium Krapt vorrar Trwar ſtæſt og þeckiaſt i einu heilogu og gudlegu Lijferne. Þetta er þad, ſem S. Paull ſeiger: Þad er Vilie Guds ydar Helgun, ad þier unſlijed Hooraner, og hver ydar ſem eiñ vite ad eignaſt ſitt Kier i Helgan og Heidre. 1. Theſſ. 4.

Hverra Nææbarlauna hafa þeir ſier ad vænta, ſem þanneñ giøra Vilia þeß himneſka Føburs?

Þeir ſkulu iñgæænga i Himna-rijke, þad er, þeir ſkulu vera ſanner Jñbyggiarar hier i Guds Nææbar Rijke, og uñ ſijder verda til Arfs tekner i Guds Dijrdar Rijke, hvar þeir munu bwa i hañs Tialldbwd, og hvijlaſt uppaa hañs heilogu Fialle. Pſ. 15. O Gud, kieñ þu oß ad giøra epter þijnum Vilia, aa medañ vier lifum hier, ſo þu uñ ſijder epter vorre Beidne og Vilia, giefer oß af þinne Naad paa eilijfu Sææluhiaalp. Amen.

# Nijunda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudſpialled ſkrifar heilagur Lucas i 8. Cap.

Jð þañ Tijma. JEſus ſagde til ſinna Lære-ſveina: Nockur Madur audugur

ugur var þar, sa ed hafde eiñ Raads-
mañ, sa same var ofrægdur vid hañ,
so sem hefde hañ eydt hañs Gotze. Og
hañ kallade þañ sama til siin, og sagde
til hañs: Hvad heyre eg þetta af
þier. Giør þu Reikningskap af þinne
Raadsmensku, þviad þu matt eige
leingur Raadsmensku hafa. Eñ Raads-
madureñ sagde med sialfum sier:
Hvad skal eg tilgiøra; miñ Herra
svipter af mier Raadsmenskunne, eg
duge ecke til ad grafa, eñ eg skamast
miin ad bidia. Eg veit hvad eg skal
giøra nær ed eg verd settur af Raads-
meñskunne, so ad þeir medtake mig i
siin Hws. Þar fyrer kallade hañ sam-
añ alla Skullda-meñ siins Herra, og
sagde til hins fyrsta: Hversu miked
ertu skylldugur miinum Herra? Eñ
hañ sagde, hundrad Tunnur Vidsmi-
ørs. Og hañ sagde þa til hañs: Tak þitt
Bref og settst nidur, og skrifa snarlega
fimtiiger. Epter þad sagde hañ til hiñs
annars: Eñ hversu miked ertu skylld-
ugur? Sa sagde; hundrad Mæle-
kierøld Hveites; þa sagde hañ til hañs:
Tak þitt Bref og skrifa attatiige. Og

Herrañ lofade hañ rangláta Raadsmañ, þad hañ hafde giört so forsiálega. Þvi þessa Heims Börn eru kiænare Sonum Lioſſens i þeirra Kynsloð. Og eg seige ydur, giöred ydur Vine af þeim ranglætes Mamona, so ad nær ydur þrijtur, ad þeir medtake ydur i eilijfar Tialldbuder.

Hvad hefur þetta Gudspiall inne ad hallda?

Fyrst; Christi Epterlijkingu uñ þañ rangláta Raadsmañ. Þar nærst; Epterlijkingarennar Alyktan.

Uñ hvad talar hañ i Epterlijkingunne?

Uñ eiñ audugann Mañ edur Hwßbonda, og eiñ ranglátañ Raads-mann, sem var otrwr og eydslusamur a medann hañ var i Embættenu, eñ auglyste sig kiænañ og hreckvijsañ, þegar hañ atte ad setiast af Embættenu og skilia vid þad, epter þvi sem vier heyrdum strax umgeted i upplesnu Evangelio.

Uppaa hvad siktar Christur hellst i þessu Gudspialle?

Hañ framsetur þessa Historiu, so sem i Epterlijkingu uppaa þeß auduga Hwßbonda rangláta Raads-mañ, og er hañs hellste Asetningur, ad kieña oß af Raads-mañsens Forsiáleika i þvi veralldlega, sem

þeinkte

þeinkte uppaa Framtijdena, og giorde sier Vine af sijns Herra Goße; eina andlega Kiænsku og Forsiaalne, ad giora gott og þreitast ei, so ad vier aa sijnum Tijma mættum oaflaatanlega uppskiera. Gal. 6. Hañ vill kienna oß, seige eg, ad giora oß hier Vine af þeim ranglætes Mamona, so vier mættum sijdar uñtakast i eilijfar Tialldbwder.

Hver skilst fyrer þennann auduga Mann edur Husbonda?

Saa store HErra Himens og Jardar, sem er rijkur yfer ollum þeim, sem hañ aakalla, og giefur oß rijkuglega allshaattad til Notkunar. 1. Tim. 6. Hann hvers Jordeñ er, og hvad i heñe er, Jardarkringlañ og þeir þar aa bwa. Ps. 24.

Kann hier nockur Huggun og Lærdomur ut af ad dragast?

Jaa, þad er huggunarsamlegt fyrer þaa faatæku, ad þeir hafa eirn so audugann Mañ, þañ rijka GUd, fyrer Fodur og Forsorgara, hver þaa bæde kañ og vill fæda og forsorga, og Umhiggiu fyrer þeim hafa, þegar þeir alleinasta varpa allre siñe Ahiggiu uppa hañ. Ps. 55. Þeir rijku skulu og læra þad hier ut af, ad vera ecke mikelaater,

lœter, edur setia sijna Von uppai sin fall-vallta Rijkdoom. 1. Tim. 6. Helldur þeinkia, ad allt þad þeir eiga og hafa, er komed fraa þeirre storu og rijkustu Hende, sem kann ad giefa þad hønum þocknast, so og þad aptur ad taka epter sijnum Vilia.

Hver skilst fyrer Rœdsmannenn?

Fyrst; erum vier aller Forstiornarmeñ Guds yfer hans margviislegum Naadargaafum. 1. Pet. 4. Hverium hann trwer fyrer sijn Pund, sumum fyrer fleire, sumum fyrer fœrre, einum fyrer Rœttwrunnar, ødrum Luckunnar, þeim þridia fyrer Naadarennar Gaafur; hann setur sierhvern i sitt Stand og til sijns Verks, eñ þad sem sierlegast utkrefst af Raadsmønnunum og Verkstioornurunum er þad, ad þeir finnest truer. 1. Cor. 4. J annañ maata; þai skilst sierdeileslega fyrer þennañ Rainglaata Raidsmañ, aller þeir, sem illa høndla med Guds Gaifur, og onytsamlega eyda og utsooa þeim, jafnvel þo eingenn sie sai, sem kañ ad vera so trur og fullkomenn, sem hønum annars ber og hœfer.

Hvernenn høndlade þesse Rœds-madur med sijns Herra Goots?

Hañ

Hann vard ofrægdur vid hann, so sem hefde hann eydt hans Gootse og þvi utsooad, hvad hann og i Saũleika synde.

Hver Lærdomur kañ hier af ad dragast?

Þesse, ad Meñerner þeckia ecke so vel sem þeim ber GUds Naad, sem hefur giert þaa ad siinum Raadsmoñum, edur eru ecke so truer sem þeir skylldu i siine Raadsmensku, helldur eyda þeir og fortæra illa siins Herra Gotse, sumer med Lete, þegar þeir grafa hans Pund i Jordu. Matt. 25. Sumer med Ohoofe, i þvi ad þeir lifa epter Viisu og Vana þeß Riika Mans, hvern Dag kostulega og i Glede. Luc. 16. og sumer med Niisku, þegar þeir vilia ecke wtdeila Guds Gaafum aa medal hans faatækra Lima, og elskulegra Barna; helldur vilia þeir nioota þeß alls sialfer, og jafnvel þo þeir hafe þessarar Veralldar Goots og Audæfe, og siaie siina Brædur Neyd liida, þaa samt lykia þeir sitt Hiarta og Hønd til fyrer þeim. 1. Joh. 3. Stuttlega ad segia, so framt sem vier brwkum ecke Guds Gaafur til þeß, ad stunda uppaa Guds Heidur, vora eigeñ Tru og Saaluhiaalp, og vors Naaunga Gagn

og

og Uppbygging, þaa Misbrwkum vier og eydum hans Saafum, hvert helldur þad er i þvi andlega edur lijkamlega, en vier skulum þo ecke þeinkia, ad þetta allt sie huled fyrer þeim stoora og alvitra Herra, þviad fyrer utan þad, ad hann hefur allt siaaande Auga. Ps. 94. Þaa eru þeir nockrer, sem ofrægia oß vid han, sem er vor Aklagare Diøfullen. Apoc. 12. Taar, Eymd, og Andvarpaner føðurlausra, Faatækra, og Eckna. Ex. 3. Aklogun Gllds Orda Þienara, hverier med Andvarpan meiga sitt Embætte giora. Heb. 13. og vor eigen Hiortu og Samviskur, sem aaklaga og fordæma oß. Rom. 2.

Liet þaa Husboonden þetta so vera?

Ney, helldur kallade han han til sijn, og sagde til hans: hvad heyre eg þetta af þier? Giør þu Reikningskap af þine Raadsmensku, þviad þu maatt eige leingur Raadsmensku hafa.

Kallar saa Himneske Husbonden oß sijna Þienara þannen til Reikningsskapar?

Jaa vissulega; han vill ecke giora oß Reikningskap wt af sijnum Giørningum. Job. 33. Hvar til han er ei helldur skylldugur, helldur er hver og einn fyrer sialfan

hañ sig skylldugur ad giora hønum Reikningskap. Rom. 14. hañ lætur kalla oß til Reikningsskapar, stundum fyrer siña Þienara Vidvaraner og Aminingar. Ps. 95. stundum skriflega fyrer sitt Ord og þeirrar heilogu Ritningar Lærdoom og Undervijsun, stundum kroptuglega i Verkunum, bæde iñvortes fyrer vora eigenn Samvisku, so og wtvortes fyrer adskiliañlegañ Kroß og Mootgaang, og vilium vier þaa enn ecke vera til reidu ad giora klaarañ vorn Reikningskap, þaa vill hann umsijder lijka sem senda oß fullkomed Stefnu Fyrerkall og Citatiu(aa mote hverre eingenn Affsøkun edur undañdraattur kañ ad gyllda) añadhvert fyrer Daudañ edur fyrer Domeñ, þvi þaa skal sierhver birtast fyrer hans Domstoole, og giora Reikningskap aa sinne Raadsmensku, hvar fyrer þad er stoor Naudsyn, ad vier i Tijma þeinkium um vorn Reikningskap, og giorum hañ klaarañ hier aa Naadarenar Tijma, so ad þegar vier skulum vera setter af þeirre jardnesku Raadsmensku, ad vier mættum þaa fyrer Guds Naud siñast truer Raadsmeñ, og sem diggver Þienarar iñgaanga i vors Herra Føgnud. Matt. 25.

Hvad

Hvad tok ſaa otrue Raadsmadur til Bragds i ſoddan Tilſtande?

Hañ viſſe ad ſonnu, ad hann kunne ecke ad ſtanda ſiñ Reikningſkap, ſo og viſſe hañ, ad hañs Herra villde ſetia hann af Embættenu, þar fyrer raadfærde hañ ſig vid ſig ſialfañ, þvi ſo ſeiger Evangeliſteñ: Eñ Raadsmadureñ ſagde med ſialfum ſier, hvad ſkal eg tilgiøra, til hvers ſkal eg taka: Min Herra ſvipter af mier Raadsmenſkuñe, ſo eg hefe hier epter eckert vid ad lifa, miklu ſijdur neinu til ad wtſoa, ſo ſem hingad til? Eg duge ecke til ad grafa, edur til annars Handverks, ad forþiena mier þar med Braud, þvi eg er ei vanur vid þad, edur kañ þvi af ad kaſta, og þar fyrer giet eg þad ecke: Eñ eg ſkamaſt mijn ad bidia, og gaanga vid Vonarvøl, þar eg hefe aadur vered i ſtoru Alite og Heidre hiaa ødrum, hvar til eg verd þo ad neydaſt. Sijdaſt griipur hañ til Þioofnadar og Vielabragda, og vill eñ meira fra ſijnum Herra draga, og giora ſier Vine af hans Gotſe, og aalyktar þetta, ſegiande: Eg veit hvad eg ſkal giøra, ſo eg þurfe ecke ad hrekiaſt aa Huſgaang 2. heldur ad þeir, nefn-

nefnelega, mijns Herra Skulldunautar, medtake mig i siin Hws, næred eg verd settur af Raadsmeñskuñe; og so ad þesse hans kiænskulegur Asetningur feinge framgang, þa kallade hañ samann alla Skulldameñ siins Herra, og sagde til hins fyrsta: hversu miked ertu skylldugur mijnum Herra? eñ hañ sagde; hundrad Tunnur Vidsmiørs; og hañ sagde þa til hañs; tak þitt Bref settst nidur, umbreittu þvi og skrifa snarlega fimtiijger. Epter þad sagde hañ til hins annars, eñ hversu miked ertu skylldugur? sa sagde, hundrad Mælekierølld Hveites. Þa sagde hañ til hañs; tak þitt Bref og skrifa attatiige. Meiningeñ er þesse: Hañ skrifade fim̃ fyrer tiju, þar hañ plagade þo annars ad skrifa tiju fyrer fim̃; hañ umbreitte Skriftum þeirra Skylldugu, og sloo af þvi sem ecke var hans, helldur hans Herra, uppa þad þeir giørdu hønum gott aptur a moote, og medtæke hañ i siin Hws, nær hans Herra sette hañ af Raadsmenskunne.

Hvad siaum vier hier af?

Art þeirra kiænu Veralldareñar Bar

na, ad þegar þau, fyrer sijna eigeñ Vanarts Forsomunar og Utsounar Skulld, eru komeñ i Armod og hafa eydt sijnu Gootse; þaa i stadeñ fyrer þad sem þau skylldu taka til leiselegra Medala, so sem ad grafa, erfida og giora nockud, og leita þar med sijns Brauds, og ef þau gieta þad ei, þaa bidia um̃ Braud og betla (hvert jafnvel þo þad sie minkunarlegt og skam̃arlegt, hellst fyrer þañ, hverium aadur hefur vel geinged og seted i Heidre og Velgeingne, samt er þad ecke so illt og syndsamlegt, sem ad stela og finna uppaa vond Urræde) og fyrr eñ sumer koma sier til ad bidia, þaa griipa þeir aadur fyrerbodeñ og oleifeleg Medøl, so sem Þioofnad, Svikseme, Falskleika og Underhiggiu i eiñ og annañ Maata, sviikiande so og wtsooande sijns Naaunga Gootse, þar med sig forsorgande, þeinkiande ecke til þeß, ad Prettvijse er eingeñ Vitska. Syr. 19. Og þad sem aflast med Synd, vill eydast med Sorg.

Eñ hvad sagde Herrañ um̃ þvilijka Hondlun þeß Raanglaata Raadsmans?

Texteñ seger: Og Herrañ, saa riike Madur og Hwsbonde, hverium hañ hafde þioonad, lofade hañ raanglaata Raads-

Raadsman, ecke fyrer þad han høndlade so þiooflega og falsklega vid han, helldur fyrer þad, ad han giørde so forsiaallega, i þvi ad han þeinkte um Framtijdena, ad han kynne þaa ad hafa nockud ad forsorga sig af, þvi so seiger JEsus; þessa Heims Børn, sem gaanga epter þessum Heime, og epter hønum skicka sier. Rom. 12. jaa, Folk þessarar Veralldar, þeir ed sækia epter sijnu Hlutskipte i þeirra Lijfe, og Himnarijke hier i Heime, eru kiænare Sonum Liossens i þeirra Kynslood, þad er, þeir eru klookare og kiænare, forstandugre og framsynare i þvi jardneska og tijmanlega, en Liossens Syner, sem eru komner fraa Myrkrum til Liossens, og gaanga sem Liossens Børn i þeirra Kynslood Art og Adferd.

Hvad merkium vier hier af?

Þad, ad Veralldarennar Børn, med sinne Framsyne fyrer þvi jardneska og tijmanlega, giøra opt stoora Mijnkun Guds Børnum, i Tillite til þeirra Kostgiæfne, sem þeir skylldu brwka til ad nægia þvi andlega og eilijfa; Hiner adrer eru so Abiggiu-fuller og kappsamer til ad vinna ein Skyllding, edur lijten Abata, hvar

 þeir

þeir kunna hañ ad faa, þar þesser eru Hyrdulauser til ad stunda epter þeim besta Abata fyrer sijnar Saaler. Heidingiarner i Chithim og Kedar voru miklu ææstundunarsamare og stadfastare ad þiona sijnum Afgudum, eñ Jsraels Folk til ad þiona og dijrka þañ sanna lifanda Gud. Jer. 2. Og þau ogudlegu Veralldareñar Børn eru laangtum kostgiæfnare og umhuxunsamare fyrer þvi ad þiona Satan, Hollde nu og Heimenum i Syndarennar Þionustu, eñ þeir Gudhrædu fyrer ad þiona Gude i Rettlætesens Þionustu.

Med hverre Aminningu endar Christur ad sijdustu þessa Epterlijkingu?

So sem Biflugurnar kunna ad wtdraga þad sæta Hunang af þeim bestu Blomstrum og Jurtum, og Læknis-meistararner kunna af þeirre sterkustu Forgipt og Eitre ad tilbwa þañ kroptugasta Læknisdom, so vill hañ og, ad vier skulum wtdraga af þeß raanglaata Raadsmans Hreckvijse og Kiænsku eiñ godann og saaluhiaalplegañ Lærdom, þar hann so talar: Og eg seige ydur, giøred ydur Vine af þeim Raanglætes Mammona.

Hvad

Hvad vill hañ merkiast laata fyrer þañ Rangløtes Mamona?

Þessarar Veralldar Gotz og Rijkdom.

Hvi kallast hañ so?

Fyrer þad hañ er annadhvert rangløga feingeñ og samañdreigeñ, edur ranglega aattur og brwkadur, og kemur Moñunum til Syndar og Rangløtes, hvar fyrer hañ kallast Svikseme Rijkedømesens edur saa sviksame Rijkdomur (Matt. 13.) saa rangferduge Mamon er gagnstødelegur aa mote þeim retta og saña. Luc. 16.

Hvad skulum vier af honum giora?

Vier skulum giora oß Vine af honum, þad er, skipta honum aa millum þeirra Faatæku og Naudstøddu, so ad þeir þar aa mote elske oß innelega og bidie GUD fyrer oß. Job. 31. Þo skulum vier ei þeinkia, ad vier meigum ræna, stela og til vor hrifsa med Rettu og Rongu, og hallda, ad vier kunnum þad allt gott ad giora, þegar vier alleinasta giefum nockud til Faatækra; Þvilijkar Giafer eru Gude ecke þocknañlegar, þvi hañ elskar Rietteñ og hatar Raansfie til Brenne-Offurs. Es. 61. Sama er ad segia uñ ønnur Verk og Þionustu, ad hun aa ecke ad vera sam-

añblønduð með illu, ſkule hun vera Guðe þockañleg, þvi það er ſlæm Olmuſugiøf að ſtela Uxanum og giefa Fatækum af hønum Garnernar eður Hemingana.

Hvar fyrer ſkulum vier giøra þær Fatæku að vorum Vinum?

Þar fyrer, að nær oß þrijtur, og vier verðum ſetter af þeirre jarðneſku Raadsmenſku, og meigum forlaata þeñañ Heim og øll hañs Auðæfe, og kunnum ei framar af þeim gott að giøra þeim Fatæku, ſem vier aaður gott giørt høfum, að þeir meðtake oß i eilijfar Tialldbwðer, það er i Guðs Rijke, og þær liſtelegu Verur, ſem eru i Hwſe þeß himneſka Føðurſens. Joh. 14.

Kunna þeir þær fyrer ſijnar Perſonur, og með ſiñe Forþienuſtu að wtvega þeim nockra Saaluhiaalp, og meðtaka þær i GUðs Rijke, ſem þeim hafa hier gott giørt?

Nei, þviað það eilijfa Lijf er GUðs Naaðargiøf i Drottne vorum JEſu Chriſto. Rom. 6. Fyrer hvern og fyrer hvers Forþienuſtu vier verðum aller meðtekner i þær eilijfu Tialldbwðer.

Hverneñ eiga þeſſe Orð þær að ſkiliaſt?

Þau eiga annaðhvert ſo að ſkiliaſt og wtleggiaſt, þeir ſkulu meðtaka yður, það er,

er, þier skulud medtakast; med sama Hætte sagde Rodden til þeß rijka Bonda: Á þessare Nott munu þeir þijna Saal af þier krefia, þad er þijn Saal skal af þier krefiast. Edur og þau eiga ad skiliast um̃ þeirra Fatæku þo gudhræddu Fyrerbon, fyrer þeim, sem þeim gott giora i þessu Lijfe, og þeirra Vitnisburd fyrer Doomstole Christi um̃ þeirra Fromleika og Giæsku vid sig, hvar med þeir hafa auglyst sijna Trw i þessu Lijfe, og safnad sier, sem einum godum Fiesiod, godre Grundvallan uppaa hid tilkomanda, so þeir høndle eilijft Lijf. 1. Tim. 6. Þeir oskudu og beiddu sijnum Velgiorda-Mønnum mikels gods i þessu Lijfe, og i hinu vilia þeir opeñberlega vitna um̃ þad Goda, sem þeir hafa medteked, hvad JEsus sialfur, sem saa rette Kongur, vill fyrer sijna andlega Undersaata og fatæka Lime stadfesta, og þad so aalijta, sem hañ sialfur hefde þad medteked, og af sinne Naad þad launa med eilijfre Glede og Saaluhiaalp, segiande: Komed hier þier Blessader Fødur mijns, og eignest þad Rijke, sem ydur var tilbwed fraa Upphafe Veralldar, þvi hungradur var eg, og þier gaafud mier ad

 eta,

eta, sañlega seige eg ydur, hvad þier gi-
ørdud einum af þessum mijnum minstu
Brædrum, þad giørdud þier mier. Matt.
25. Gud læte oß þar fyrer giøra gott,
þa stund vier høfum Tijd, so vier fyrer
hañs Naad mættum niota þeß goda ad,
med wtvølldum Lijd, uñ Areñ Eilijfdar
blijd. Amen.

# Tijunda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Lucas i 19. Cap.

JÁ þañ Tijma. Og þa JEsus kom
nær, ad hañ sa Borgena, griet
hañ yfer henne, og sagde: Ef ad þu
vissir hvad til þijns Fridar heyrde,
þa munder þu a þessum þijnum Tij-
ma þar Vacktan a hafa, eñ nu er þad
huled fyrer þijnuñ Augum. Þviad
þeir Dagar munu koma yfer þig, þad
þijner Ovíner munu byggia Hervyrke
i kringum þig, og þijn Børn med þier,
og umkringia þig, og a alla Vegu
ad þier þreingia, og þig nidur ad Jør-
du briota, og ecke munu þeir i þier
læta Stein yfer Steine vera, af þvi
þu

þu þeckter ecke þiñ Vitiunar Tijma. Og hañ gieck iñ i Musitered, og tok til ad reka wt þa sem selldu og keiptu þar inne, og sagde til þeirra: Skrifad er ad mitt Hws sie Bæna-Hws, eñ þier hafed giørt þad sem annad Spillvyrkia Jnne. Og hvern Dag kiende hañ i Musterenu. Eñ Kiennemanna Høfdingiar og Skriftlærder, og Villdarmeñ Lijdsens, leitudu fast epter ad fyrerkoma hønum, og gaatu þad ecke funded, hvad þeir skylldu giøra hønum. Þviad allt Folked hnie ad hønum, og hlijdde hañs Ordum.

Um hvad talar þetta Evangelium?

Fyrst; um Christi Græt og Kløgun yfer Jerusalem, þegar hañ var komeñ nær Stadnum. Þar næst; uñ þa Endurbot, sem hañ giorde i Musterenu, epter þad hañ var iñkomeñ i Stadeñ.

Hvad seger Evangelisteñ uñ þad fyrra?

Hañ seiger: Og þa ed JEsus kom nær, ad hañ sa Borgena, griet hañ yfer henne, og sagde: Ef þu visser hvad til þijns Fridar heyrde, þa munder þu a þessum þijnum Tijma þar Vaktan a hafa.

Um hvad talar Gudspialla-madureñ fyrst i þessum Ordum?

Uñ Christi Komu til Jerusalem, og þaa hañ kom nær, ad hañ saa Borgena, ecke so sierdeilis þau wtvortes Hws, og þaa priidelegu Byggingu, sem hennar Iñbyggiara storu Synder, og þad stoora Straff og Eydeleggingu, sem þar kom aa epter. Þetta skiede aa hañs siidustu Reisu fraa Galilæa til Jerusalem, og jafnvel þo hañ visse, hvad laangt siu synduga Borg var vikeñ fraa honum, og hañs himneska Fodurs Vilia, jaa, hvad illa þeir mundu epter faa Daga lidna med hañ fara, samt naalægdest hañ þaa þo, og aaleit þaa med siinum Naadar og Medaumkunar-Augum.

Hvert kiemur hañ eñ þaa til vor og vorra Bustada og aaliitur oß?

Jaa vissulega, ef ecke synelega eins og þaa, samt osynelega: Hañ kiemur til vor og vorra Bustada med sitt Ord og Hiaalpræde sens Medøl, med siinum margfølldu Velgiorningum, andlegum og liikamlegum, hann sier og med siinu allt siaande Auga oß og vora Stade: Bæde Syndernar, sem daglega fara i Vøxt þar inne, so og þær Plaagur, sem yfer þeim haanga Synd-

anna vegna. Hañ ſier Syndena (epter mañlegre Wijſu ad tala) med aangursfullum Augum, hvi hañs Augu eru hreiñe eñ þad hañ kunne giarnañ ad ſiaa þad vonda. Hab. 1. Og ſo ſem hañ ſier Straffed aadur fyrer fram̃, epter ſinne guddomlegre Alvitſku, ſo ſier hañ þad med ſijnum medaumkunarfullum Augum, eins ſem Fadereñ Hriſſed, med hveriu Barned ſkal ſtraffaſt, Læknareñ Verkfæred, med hveriu ſaa daude Limureñ ſkal afſkieraſt, hañ hefur ei Vilia aa Fordiorfun þeirra lifendu, edur Þocknan aa Dauda hins ogudlega. Ez. 18. Eñ þegar hann hlijtur ad ſtraffa, þaa gioꝛer hann ſitt Verk med einum ødrum Hætte, og ſitt Erfide med ødru Mote. Eſ. 25.

Hvad ber oß þar aa moote ad giora?

Vier ſkulum ſo tilſiaa, ad þaa Stund, ſem hañ nalægeſt oß og vora Stade, ad vier vijkium ei laangt fraa hønum med vorum Syndum edur hegdum oß, ſem hañs eigeñ, til hverra hañ kom, eñ þeir medtooku hann eige. Joh. 1. helldur ſkulum vier hañ medtaka med Glede, og adhillaſt, þaa Stund hann aalijtur oß med ſijnum Nadar og Miſkunar-Augum. Jaa, vier ſkulum aalijta hann aptur aa mote

med

með hlijðugum Truar-Augum, og aalykta og segia það sama, sem Agar; eg vil siaa hañ sem mig sier. Gen. 16.

Um hvað talar Evangelisteñ eñ framar, og hvað seiger hañ, að JEsus hafe giort, þaaeð hann kom nær og saa Borgena?

Hañ seiger: að hann hafe grætið yfer heñe.

Meigum vier ecke með øllum Riette spyria hvað honum hafe komed til að grææta?

Sannarlega, því vier høfum stoora Orðsøk til að spyria þar epter, og segia til GUðs Sonar vors grætande JEsu, það sem Hasael fordum sagde til þeß GUðs Mans Eliseum, þegar hañ saa að hann griet: því grætur miñ Herra? 2. Reg. 8.

Kantu að segia mier nockra Orðsøk, hvar fyrer hañ griet?

Jaa, hañ griet yfer þeim storu og himenhropande Syndum, sem drygðar voru i Borgeñe, so og yfer því stora Straffe og Eydeleggingu, sem koma munde, bæðe yfer Stadeñ og hans Iñbyggiara vegna þeirra hrædelegu Synda: þeir voru glader og uggalauser i sijnum Syndum, sem Bidlar Dætra Loths, þegar Ogiæfañ hieck yfer þeim. Gen. 19. Eñ JEsus griet yfer þeim, sem eiñ goodur Fader yfer einu ohlijð-

ohlijdnu Barne, sem hañ sier ad illt vill adhafast, og ottast fyrer þvi, ad þad mune þar með leida Olucku yfer sig. Þar dundu Tæreñ af hans Augum, fyrer þad þeirra Augu voru helldur þurr, og þeir villdu ei i Tijma grææta yfer sijnum Syndum.

Hvad siææum vier hier af?

Ei alleinasta eirn Vitnesburd um Christi Mañdomlegu Nææturu, ad hann hafe vered eiñ sannur Madur, og mañlegum Tilhneigingum og Veikleika (þo an Syndar) underorpeñ; þar hañ kuñe ad hungra og þyrsta, so og ad grææta. Og þar vier finnnm hverge, ad hañ hafe hleyed, helldur fiñum vier vijda, ad hann hafe grææted, sem var yfer Lazari Grøf. Joh. 11. hier yfer Borgeñe, og sijdast æ Tijma sinnar Pijnu, þææ hann offrade Bænum og Beidne með ɵflugu Kalle og Tæærafollum til hañs, sem honum fræ Daudanum biarga kunne. Heb. 5. hvar með hann synde, ad hañ fañ hier i Heime litla Ordsøk til ad hlæa, enn nooga yfer ad grææta.

Hafa Guds Børn og Þienarar eirneñ Ordsøk til ad grææta i þessum Heime?

Jaa,

Jaa, Verollden er þeim eitt Bochim og Taara-dalur, i hverium þeir hafa nooga Ordsok til ad graata, ei alleinasta yfer siñe Neyd og Krosse, sem ad þeim þreinger, þegar Gud fæder þaa med Harmabrande, og birlar þeim Dryck med stoorum Mæler, fullum Taara. Ps. 80. helldur og sierdeileslega yfer Syndunum, ei alleina þeim, er þeir finna sialfa sig mæda og nidurþryckia, sem David. Ps. 6. Helldur og þeim, sem þeir siaa i Hoopatale aan nockrar Blygdunar edur Yferhilmingar ad driijgdar verda af ødrum; Med þessum Hætte griet Jeremias beisklega yfer Foolksens Syndum og Ydrunarleise. Jer. 13. og Davids Augu flutu i Vatne, af þvi ad Foolked hiellt ecke Løgmaal Drottens. Ps. 119. Hvernen kañ eitt gott Barn ad siaa siñ gooda Fødur ad vera spottadann og foraktadañ, og graata ei þar yfer, og skylldu þaa Guds Børn aan Andvorpunar i Hiartanu og Taara af Augunum, kunna ad horfa uppaa og siaa siñ Himneska Fødur, og hans heilaga Nafn med Mannanna storum og hrædelegum Syndum daglega ad vera spottadañ og foraktadañ? jaa, þeir munu og graata

ta yfer annara Straffe, Olucku og Fordiorfun, sem þeir hier hafa bakad sier med sijnum Syndum, so sem David griet yfer sijnum ohlijdna Syne Absalon, þegar hañ heyrde hvad aumkunarlega hann hefde dæed. 2. Sam. 18. Edur so sem Madur kañ ad grååta yfer einum fåtækum Fånga, þegar hañ fyrer sijna Misgiorninga verdur leiddur til Aftokustadarens.

Talade þaa JEsus eckert þegar hañ þannenn griet?

Ad vijsu þa talade hañ af Sorg og Ecka, og so sem tæpte aa Ordunum edur kiæme þeim ecke wt fyrer Harme, med hverium hañ bæde straffade Jerusalems Synder, so og auglyste hañ hennar Straff segiande. Ef ad þu visser, hvad innelega eg villde þijna Velgeingne, og þiña Jñbygiara Frid og Sååluhiaalp, sem og hvad stort Straff og Olucka ad endelega skal yfer þig og þaa koma Syndaña vegna. Og þu kynner þad vel ad vita, þar sem þu villder þeinkia um Spaamañaña Ord, Johannis Vidvorun, og mijnar daglegar Predikaner og Amiñingar, hvad til þijns Fridar heyrde, bæde vid Gud

og

og Meñ, og þaa munder þu aa þessum þijnum Tijma þar Vaktan aa hafa, ad Gud so naaduglega heimsæker þig, og lætur bioda þier siñ Frid og Vinskap, eñ nu er þad vegna þijns Forakts og Hardsvijrugheita, huled fyrer þijnum Augum, þviad þeir Dagar munu koma yfer þig, þad þijner Oviner (þeir Romversku) munu byggia Hervyrke i kringum þig, og þijn Børn med þier, og umkringia þig, og aa alla Vegu ad þier þreingia, og þig nidur ad Jørdu brioota, og ecke munu þeir i þier laata Stein yfer Steine vera, þetta er þad, sem Jeremias seiger, þeir skulu ecke gieta teked einn Hyrningar-Stein edur Grundvallanarstein ut af þier, helldur þaa skaltu vera ein eilijfleg Eydemerk. Jer. 51. Og þad af þvi þu þeckter ecke þiñ Vitiunar-Tijma, jaa þañ Tijma, aa hverium Gud med sijnum fødurlegum Velgiørningum og sierdeiles med Sendingu sijns Sonar og Evangelii Predikun, hefur þijn so naadarsamlega vitiad.

Hvad sioaum vier hier ut af?

Fyrst; þaa storu Giæsku og Laanglundargied vors Guds, sem kiemur til Mañ-

Manaña med sijna Naad og margfallda
fodurlega Velgiørninga, og vill alvarlega,
ad þeir skule lꜳta hans Goodgyrne leida
sig til Yferbootar. Rom. 2. Þar nærst;
Mannaña Hardsvijrugheit og Þverud,
ad þeir forsmꜳ Rijkdom hans Goodgyrnd-
ar, Þoleñmæde og Lꜳnglundargieds.
Rom. 2. og lꜳta Satan forblinda sijn Au-
gu, 2. Cor. 4. so þeir þeckia ecke Fridarens
Veg, edur þꜳ Hlute, sem heyra til þeir-
ra Fridar, Velferdar og Sꜳluhiꜳlpar,
helldur er þad huled fyrer þeirra Augum.
J þridia Mꜳta; sꜳum vier ad sijdustu
Guds strøngu og riettferdugu Reide, og
Straff yfer sinnar Nꜳdar Forøkturum,
ad hans Tijme kiemur um sijder ad vitia
þeirra; jꜳ ad vitia þeirra Synda, sem
þeir hafa drijgt. Ex. 32. og þꜳ heim-
sæker hañ þꜳ i siñe Reide, sem ecke ha-
fa viliad þeckia hans Nꜳdar Vitiun, send-
ande ut sitt Herlid ad fyrerfara þeim. Matt.
22. Jꜳ, hann sender eirn grimañ Ovin,
sem med Assur er eirn Vøndur hans Reide,
og hans Hønd er Stafur hans Bræde, hañ
vill utsenda hañ ꜳ moote eiñre Hræsnis
Þiood, og skipa hønum i moote þvi Fool-
ke hañs Reide, so ad hañ ræne þad, og

utskipte þvi, og under Footum trode þad, so sem annañ Saur á Strætum. Es. 10. og uppbrenne þeirra sterkar Borger med Ellde, og slæe þeirra Æskumeñ i Hel med Sverde, og deyde þeirra Ungbørñ, og sundursnijde þeirra þungadar Kvinur. 2. Reg. 8.

Hvad giørde JEsus epter þad hañ var komeñ iñi Borgena?

Hañ gieck iñ i Mustered, sem i sijns Fødurs Hus, til ad vera i þvi sem hans Fødurs er. Luc. 2. so sem hann alltijd plagade ad giøra, þegar hañ kom til Jerusalem, ad gaanga fyrst iñ i Mustered.

Kuñum vier hier ut af nockud ad læra?

Jaa; vier skulum læra þad hier af, ad vera kostgiæfner ad koma til Kyrkiunnar, og þess Stadar, hvar hañ hefur skickad ad vera skule Minning sijns Nafns, þviad so sem eiñ goodur Sonur hefur stora Epterlaungun ad koma til Hws og Heimiles sijns gooda Fødurs; so skal og sierhvert Guds Barn laata sig lannga epter ad koma til Guds Huß, segiande med David: Hversu elskulegar eru þijnar Tialldbwder, DRotteñ Zebaoth, Saalu mijna forleinger, og tregar epter Forgarde DRottens. Ps. 84.

Hvad

Hvad took hañ sier fyrer ad giøra i Musterenu?

Hañ took til ad reka wt þaa, sem selldu og keiptu þar inne.

Hvad var þad fyrer Kaup og Sølu, sem þesser høfdu i Musterenu?

Med þvi ad GUds Þionustu-giørd framkvæmdest med mørgum Offrunum, og þad var ørdugt og næsta omøgulegt fraa fiarlægum Stødum, ad flitia til Jerusalem þau lifande Dijr, sem þar skylldu offrast, þar fyrer hafde Gud epterlaated, ad þeir mættu selia somu Dijr fyrer Peninga, og taka Peningana med sier, og gaanga til þeß Stadar, sem hañ hafde wtvaled, og kaupa þar aptur fyrer þaa Peninga, þad sem þeir þyrftu til Guds Þionustugiørdar. Deut. 14. Þetta vanbrwkudu þeir yppurstu Prestar, og uppaa þad þeir kynnu ad hafa siñ Abáta þar af, þaa leifdu þeir ad hiner mættu hafa þesse Dijr føl til Kaups i Musteresens Forgarde (hvert þo so vel hefde kunnad ad skie i ødrum Stødum) jaa, þeir sem Peninga umskipte giørdu, høfdu þar og siin Bord, so þeir kynnu ad hafa Peninga Skipte vid Folked, edur laana þvi Peninga, bæde til ad gefa til Helgedomsens, og ad

brwka þar til ad kaupa med þad, sem til Fornanna þyrfte.

Hvad giørde hañ þar vid þessa?

Hañ rak þar wt, so sem hañ hafde adur giørt i Uppbyriun sijns Embættes. Joh. 2. So ad Ritningeñ skyllde uppfyllast, er seiger: Vandlæting þijns Hwß hefur eted mig. Ps. 69. Og hañ forsvarade þennañ siñ Giørning, segiande: Skrifad er Es. 56. ad mitt Hws sie Bænahws; eñ þier hafed giørt þad sem añad Spillvyrkia Jñe. Jer. 7.

Hvad skulum vier hier af læra?

Fyrst þad, ad øll Kaup og Sala i Guds Hwse, hvert helldur þad aahrærer Køllun til þeß heilaga Embættes, edur i añañ Maata er ein Andstygd fyrer Gude. Act. 8. þar nærst; med þvi Guds Hws er eitt Bæna-hws, þa skulum vier vara oß, ad vier giørum þad ecke ad Svefnhwse, Leikhwse edur til ad þvætta þar uñ eitt og añad, þvi þad er ei annad, eñ ræna GUD sijnum Heidre, og spilla sinne eigeñ Saaluhiaalp. J þridia Maata; þa skulum vier sierdeileslega so tilsiaa, ad vier hreinsum vor Hiørtu, sem eru Mustere Guds og Heilags Anda, 1. Cor. 6. So þau kuñe

ad

ad vera eitt Bæn-hws, eñ ecke eitt Spill-vyrkia Inne.

Hvad giørde JEsus þar epter i Musterenu?

Þad syner oß Evangelisteñ, þar hañ so talar: Og hvern Dagkende hañ i Musterenu epter Spœdomunum (Mal. 3.) og hvad hañ sijdar minte sijna Ovine, segiande: Daglega hefe eg hiœ ydur seted, og kient i Musterenu. Matt. 26.

Eñ hverneñ var hønum launadur þesse hañs Lærdomur?

Þanneñ, ad Kiennemanna Høfdingiar og Skriftlærder og Villdarmeñ Lijdsens, leitudu fast epter, ad fyrerkoma hønum, hvad ed voru ein vond Laun og Þock fyrer hañs Omak og Erfide: Þessara Launa meiga Guds Orda Þienarar almennelega vænta sier af Verolldenne. Amos 5. Eñ þeir gœtu þad ecke funded, hvad þeir skylldu edur þordu ad giøra hønum, þviad allt Folked hnie ad hønum, og hlijdde hañs Ordum, med større Lyst og Epterlaungun, hvar fyrer þeir ottudust ad leggia Hendur œ hañ, so þeir uppæstu ecke Folked œ mote sier.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad vier skulum varast, ad vera i þeirra Tolu, sem hata JEsum, hans Ord og Þenara; helldur miklu framar skulum vier hnijga ad hønum, sem Barned ad Modurennar Brioostum, hañ alleina adhillast og heyra hañs Ord. Jaa, hnijga ad hønum i Medlæte og Motlæte, i Lijfe og Dauda, og ei sleppa hønum wr vorum Hiørtum, fyrr eñ vier faaum ad sioa hañ i eilijfu Lijfe. Hvar til GUD hiaalpe oß fyrer Christi Skulld alleina. Amen.

# Ellefta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar heilagur Lucas i 18. C.

Á þeim Døgum. JEsus sagde til nockra þeirra, sem treistu uppaa siaalfa sig, lijka sem mundu þeir rettlaater vera, og forsmaadu adra, þessa Epterlijking: Tveir Meñ geingu upp i Musfered ad bidiast fyrer, eiñ var Phariseus, eñ annar Tollheimtumadur. Phariseareñ stood, og badst nu þanneñ fyrer med siaalfum sier: Gud, eg þacka þier, þad eg em ei so sem adrer

adrer Meñ, Ræningiar, orettvijser, Hoordoms Meñ, eda so sem þesse Tollheimtumadur, eg fasta tvisvar i Viku, og gief Tijunder af øllu þvi eg a. Og Tollheimtu-madureñ stood længt i burtu fra, og villde ecke upplipta sijnum Augum til Himens, helldur barde hañ sier a Briost, og sagde: Gud, vertu mier Syndugum liknsamur. Eg seige ydur, þesse foor rettlætur framar hinum i sitt Hws. Þvi ad hver sem sig sialfañ upphefur, hañ skal nidurlægiast. Og hver sem sig sialfañ nidurlæger, hañ mun upphafeñ verda.

Hvad hefur þetta Evangelium inne ad hallda?

Christi Epterlijkingu um þañ stollta Phariseara, og þañ ydrande Tollheimtumañ.

Hvad marger Partar eru hier athugande?

Þrijr. Fyrst, Ordsøk til Epterlijkingarennar. Þar næst; hennar Inneháld. Og i þridia lage; heñar Alyktan.

Af hveriu Tilefne seiger Evangelisteñ, ad JEsus hafe framsett þessa Epterlijkingu?

Hañ seiger: Ad hañ hafe sagt til nockra þeirra, sem treistu uppa sialfa

sig, lijka sem mundu þeir rettlaater vera, og forsmaadu adra, þessa Epterlijking.

Hverier munu þesser hafa vered?

Þar um̃ talar Gudspialla-madureñ ecke wtþryckelega, þad er annars vel trwañlegt, ad þad hafe vered nockrer af þeim Skriftlærdu og Phariseis, hverier med þvi þeir leitudust vid ad giora sitt eiged Rettlæte fullgyllt, so treistu þeir og jafnañ uppa sialfa sig, og forsmaadu adra, sem færdu ecke so straangañ Lifnad wtvortes sem þeir, þeir hielldu sialfa sig sem Eingla og Storheilaga, adra þvi nær sem Diofla og Storsyndara.

Hvad siaaum vier hier af?

Vier siaaum hier Mañaña Faavitsku, ad þeir vilia treista uppaa sialfa sig, og sijnar eigeñ Rettlætingar, þar þo eingeñ sem lifer, kañ fyrer GUde rettferdugur ad vera, og eckert Holld gietur fyrer honum rettlaatt orded af Logmaalsens Verkum, seger S. Pall Rom. 3. Af þeß haattar Folke eru þeir, er Salomon um̃talar, seigiande: Þar er eitt Kyn, sem þykest hreint vera, og er þo ecke þveiged af sijnum Saur. Prov. 30. Og þeir, sem hafa so stora Þaan-

ka

ka um̃ siaalfa sig, þeim er opt giarnt ad dæma audvyrdelega um̃ adra, og forsmaanarlega um þaa ad tala, sem þeir ed segia hiaa Spaarmannenum til siins Naaunga; vertu hiaa siaalfum þier, og snert mig ecke, þvi ad jeg er heilagre eñ þu. Es. 65.

Ber oß so ad vera sinnudum?

Ney, eingvañveigeñ, vier skulum ecke treista uppaa siaalfa oß og vort eiged Rettlæte, hvert fyrer Guds Augum er sem añar Obecktar Leppur: Es. 64. helldur uppaa Guds stooru Naad og Christi Forþienustu, medkiennande oß ad vera onyta Þioona. Luc. 17. Og þegar vier bidium, þaa skulum vier laata vorar Bæner fram̃ fyrer hañ koma, og segia med Daniele: Drotteñ, vier liggium fyrer þier med voru Bæna Akalle, reidande oß ecke uppaa vort eiged Rettlæte, helldur uppaa þijna storu Miskunseme. Eñ vorum oß, ad vier dæmum ecke ovyrdingarlega og foroktunarlega um̃ adra, helldur med Lijtelæte holldum adra ædre eñ siaalfa oß, Phil. 2. jaa verum so siñader sem Paulus, hver jafnvel þo hañ være eiñ mikell Postule, og heilagur Madur, þaa hiellt hañ sig þo af einre sierlegre Audmijkt ad vera hañ aumasta aa medal Postulaña,

jaa, aa medal allra Heilagra. Eph. 3. Eñ þañ ſtærſta aa medal þeirra Syndugu. 1. Tim. 1.

Um̃ hvad talar Chriſtur i Epterlijkinguñe?

Um̃ tvo Meñ, ſem geingu upp i Muſtered, ad bidiaſt fyrer; þeir geingu upp i Guds Bæna Hws (Eſ. 56.) jaa upp i þañ Stad, hvar hañ hafde ſkickad ad vera ſkyllde Minning ſijns Nafns, og lofad ad ſijn Augu ſkylldu vera opeñ yfer þvi Hwſe Nott og Dag; upp i þañ Stad, ſeige eg, ſem hañ hefur talad um̃, ad hañs Nafn ſkyllde þar vera til ad heyra þaa Bæn, ſem hañs Þienare giorde i þeim Stad. 1. Reg. 8.

Hvers Erendes geingu þeir upp i Muſtered?

Til ad bidia og aakalla GUd.

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Þad, ad jafnvel þo vier kunnum i øllum Stødum GUd ad tilbidia, þegar vier alleinaſta tilbidium hañ i Anda og Sannleika, Joh. 4. þaa ſkulum vier þo jafnañ vitia Guds i hañs Muſtere og Bæna Hwſe, hvar hañ hefur lofad til vor ad koma, og oß ad bleſſa, og ſamteingia þar vorar Bæner, vid annara GUds Barna Bæner. Petrus og Johañes aaſamt hiner adrer Chriſti Poſtular kunnu ad ſønnu ad bidiaſt fyrer heima i ſijnu Hwſe, med godum Avexte, þo ſamt

ſem

sem aadur geingu þeir sameigeñlega upp til Musteresens um nijundu Stund, sem vana-legt var ad bidiast fyrer (Act. 3.) þar fyr-er aaminner David so og seiger; uppheised ydar Hendur i Helgedomenum, og lofed Drotteñ (Ps. 134.) og þegar vier gongum til Musteresens edur Kyrkiuñar, þaa skul-um vier ei þaangad gaanga til þeß ad syna oß og skoda adra, ei helldur til ad sofa, edur hvætta hver framañ i annañ, helldur til þeß ad bidia um Guds Naad og Blessan, ad ta-la vid hañ i vorum Bænum, og heyra hañ aptur tala vid oß fyrer sitt Ord, þar fyrer vakta þiñ Foot, nær þu geingur til Guds Hwß. Pred. 5.

Med hveriu moote fram kom Phariseareñ?

Hañ stood og badst fyrer med sia-alfum sier.

Kunne þad nockud ad hindra, ad hañ stod og bad?

Nei, Gud hefur oß ecke befalad, ad vier skulum brwka eina og adra Ceremoniu, þegar vier bidium, hvert helldur vier bid-ium standande, sitiande, edur liggiande, er eins gott, þegar vier ad eins upphefium heilagar Hendur, 1. Tim.2. og tilbidium hañ i Anda og Sannleika, Joh.4. Eñ þet-ta var Lastverdt hiaa honum, ad, so sem

hañ

hañ stood aa sijnum lijkamlegum Footum i sinne Bæn, so stood hañ og stoolade uppaa sialfañ sig og sitt eiged Rettlæte, og meinte sig þar med ad faa stadest fyrer Gude.

Var þad illa giort, ad hañ badst fyrer med sialfum sier?

Ecke helldur, þvi Christur hefur sialfur skipad, ad nær vier giørum vorar Bæner, þaa skulum vier eige vera sem Hræsnarar, hverium giarnt være ad standa og bidiast fyrer i Samkundum, og aa Gatna-Hornum, so þeir sæest af Mønnum (Matt. 6.) Eñ þad giørde hañs Bæn ad Synd, ad þegar hañ badst fyrer med sialfum sier, þaa so sem tilbad hañ sig sialfañ.

Hvern Lærdom skulum vier oß hier af draga?

Fyrst þennañ, ad jafnvel þo þad gyllde einu, hveria Hegdun vier brukum i vorum Bænum, þegar vor Hiørtu eru einasta rettsinnud: Ecke ad sijdur med þvi vier finnum ei alleinasta þau heilogu Guds Børn, helldur og sialfañ Guds eingieteñ Son ad hafa beigt sijn Knie i Bænenne, so meigum vier og rettelega beigia vor Lijkamans Knie, til ad gefa þar med til vitundar vorra Hiartna og Saalna instu Audmykt; Eñ sierdeiles ber oß ad beigia vors Hiarta andleg Knie med

med Manaſſe, og kriupa a Knie fyrer heim hædſta Gude, og laata vora Bæn koma fram fyrer hans Andlit, ecke uppa vort eiged Rettlæte, helldur uppa hans ſtooru Myſkunſeme. Dan. 9.

J annan Maata; meigum vier ad ſonnu bidiaſt fyrer med ſiaalfum oß, og aakalla vorn Fodur hann i Leinum ſier (Matt. 6.) En vier ſkulum vara oß, ad vier tilbidium oß ecke ſiaalfer, nie offrum vorum eigenn Beidarfærum, edur giorum Reykelſe fyrer voru Nete. Hab. I.

Hverneñ var Phariſearans Bæn i ſiaalfre ſier?

Þanniñ: Gud, eg þacka þier, þad eg em ei ſo ſem adrer Meñ, Ræningiar, Oriettvijſer, Hoordoms Meñ, eda ſo ſem þeſſe Tollheimtu-madur: Eg faſta tviſvar i Viku, og gief Tijunder af øllu þvi eg aa.

Er nockud gott i þeſſare hans Bæn, og þeß verdt ad þvi ſie epterfylgt?

Jaa; þad var velgiort, ad hañ vaktade ſig fyrer ſtorum og hrædelegum Syndum, fyrer Raane, fyrer Oriettvijſe, fyrer Hoordome, fyrer Skamarordum, og ødru þvilijku, þvi þetta eru þær Synder, ſem Gud hefur i ſijnu Orde ſtorlega fyrerbod-

erboded, og hørdu hootad þeim, sem þar driigdu: þad var og riett giort, ad hañ þackade Gude þar fyrer. Ei helldur var þad illa giort, ad hañ fastade og gaf Tijunder: þvi Gud hefur þad befalad i sijnu Orde.

Være þeß ecke oskande, ad marger Christner villdu epterfylgia hønum i þessu?

Sañarlega; þvi þad finnast marger ogudleger Meñ, sem giora sier litla edur aungva Samvisku þar af, þo þeir æfe sig vijsvitande og viliande i mørgum svivyrdelegum Syndum og Løstum, so sem Rane, Oriettvijse, Saurlijfe, Lijge, og ødrum þvilijkum Storglæpum; þar fyrer seger Drotteñ, HErrañ hefur Ordsøk til ad aavijta Landsens Jñbyggiara, þvi þar er eingeñ Tru, eingeñ Kiærleike, og ei Guds Þecking i Landenu; helldur hefur Meinsære, Gudlastan, Lijgar, Mord, Þiofnadur og Hoordomur Yferraad feinged, og ein Bloodskulld kiemur epter adra (Hos. 4.) og þeir eru fæer, sem med Føstum og Sparneytne þvijnga siñ Lijkama, edur eru so riettvijser i sijnum Tijundum og þvi, sem þeir eru skyllduger ad giefa til Guds Huß og Þionustugiørdareñar, sem þeim ber, helldur

helldur eru þeir marger, sem ræna GUD heim Tijundum og Upplyptingar Offre, sem þeir eiga hønum i tie ad laata, hvar yfer hañ klagar fyrer Munn Malachiæ i hañs Bokar 3. Cap. seigiande. Er þad riett, ad nockur Madur ræne GUd, sem þier ræned mig? þier seiged so, hverneñ rænum vier þig? med Tijundum og Upplyptingar Offre. Þar fyrer erud þier og bølvader, so ad aller Hlüter hverfe wr ydar Høndum, þvi þier þretted mig aller samañ. Eñ bered þær alla Tijund i mitt Kornhus, ad þar sie Matur i mijnu Huse, og reined mig þar inne, seiger sá Drotteñ Zebaoth, hvert eg mun ecke uppluka Vind-augum Himensens fyrer ydur, og wthella yfergnæfañlegre Blessan.

Hvad er þad, sem lastverdt er i hañs Bæn?

Þar fyrer er hañ ad lasta, ad hañ vilde hroosa sialfum sier fyrer Gude i siñe Bæn af sijnum Goodverkum, sem þo voru ofullkomeñ, ad hañ hiellt sig ad vera hreinañ af Syndunum, þar hañ var þo eiñ syndugur Madur, sem aller adrer: ad hañ hiellt sig ødrum Moñum heilagre, og sierdeiles leit hañ einu Forøktunar-auga til þeß auma Tollheimtumañs, sem

var þo fyrer Guds Augum betre eñ hañ.

Hverneñ kuñum vier oß þetta til Nytſemd-
ar ad færa?

Oß ber ad ſoñu med Phariſearanum
bæde ad varaſt þad vonda, ſo og ad kiepp-
aſt epter ad giora þad gooda, eñ vier ſkulum
ſo tilſiaa, ad vier hverke dæmum oß ſiaal-
fer of ſtora, ei helldur vorn Naaunga
of ſmaaañ, edur lijtelmootlegañ, helldur
ſkulum vier i ollum Hlutum kannaſt vid
vorn eigeñ Veikleika og GUds Miſkunſe-
me, ſegiande med David; Eige oß Drott-
eñ, eige oß, helldur gief þu þijnu Nafne
Dijrdena. Pſ. 115. og med Daniele, þu
Drotteñ, ert Riettlaatur, eñ vier meigum
ſkamaſt vor Dan. 9.

Hverneñ hegdade Tollheimtumadureñ ſier?

Evangeliſteñ ſeiger; og Tollheimtu-
madurenn ſtood laangt i burtu fraa;
Kañſkie i einu Horne i þeim yſta Forgar-
de Muſtereſens, langt fraa þeim Stad,
ſem Phariſeareñ var, þeckiande ſiñ eigeñ
Overdugleika, ad hañ være ecke verdugur
ad koma frañ fyrer Guds Auglit, þar
hañ hafde med ſijnum Syndum fraaſkil-
ed ſig Gude. Eſ. 59. og þar fyrer villde
hañ ecke upplypta ſijnum Augum til
Him-

Himens, helldur leit hañ þeim nidur fyrer sig af Blygdun fyrer siinar Synder, hvar med hañ auglyser, ad hañ med Manasse være ecke verdugur ad siaa og skoda Himensens Hæd vegna siña margfalldra Misgiorda. Helldur barde hañ sier aa Briooſt, af Hiartans Angre og Ydran, og lijka sem aaklagade sitt syndsamlega Hiarta þar fyrer, ad þad hefde vered sem Rot og Uppspretta til þeirra mørgu og vidurstyggelegu Synda, sem hañ hafde drygt og framed.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad nær vier þeckium vorar Synder, þaa skulum vier ecke vera oblijwger, helldur skamaſt vor og bera Kyñroda. Ezech. 36. og ei upplypta voruñ Augum, audmijkiande vort Hiarta fyrer Gude, segiande med Ephraim ; þaa er eg snereſt, þætta eg mig, og epter þad eg took til ad vitkaſt, slo eg aa mijnar Lendar ; (Þad er, sorgade eg) þviad eg var til Skamar orden, og stood modur af Ovyrdingu, þviad eg hlaut ad lijda þær Haadungar mijns Ungdoms. Jer. 31. og med Esdra : Gud miñ, eg skamaſt mijn og blygdaſt ad upplypta mijnum Augum til þijn, miñ Gud, þviad vorar Synder eru

varnar yfer vort Høfud, og vor Søk er stor allt upp til Himens. Esdr. 9.

Kom hañ þaa ecke nær Gude med sinne Bæn, og Hiartans Andvorpun?

Sannarlega, þvi hañ sagde: GUD, vertu mier Syndugum liknsamur! Þesse Bæn er ad sonnu stutt, eñ þo miøg skynsamleg og kroptug, i hverre hañ þeck-er og medkienner sig ad vera eiñ overdugañ Syndara, eñ GUD eiñ naadugañ og myskunsamañ Fødur, og bidur, ad hañ vilie fyrer Verdskulldan og Forþienustu sijns eingietna Sonar, sem er saa rette og sañe Naadarstooll, Rom. 3. vera sier liknsamur, og fyrergiefa sier sijnar Synder.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad bidia Gud, ad hañ vilie giefa oß þaa rettu Ydran i Hiartad; So ad vier med Angre og Yferboot mættum þeckia og medkienna, oß ad vera auma Syndara, flijande i einre stadfastre Trw til hañs oendañlegrar Naadar, og Christi Forþienustu, bidiande, ad hañ vilie vera oß naadugur og myskunsamur; angre vorar Synder oß, so mun þar aa mote Guds Naad hugga oß: Sieum vier aumer Syndarar, so er hañ þo eiñ miskunsamur Fader; þad eina skulum vier medkien-

naz

na, þvi odru skulum vier trwa: og þar uppar stadfastlega segia, GUd vere oß Syndugum liknsamur.

Hverneñ endar og ælyktar Christur ad sijdustu þessa Epterlijkingu?

Hañ seiger upp Doomeñ yfer þeim bædum, þar hañ so talar: Eg seige ydur, þesse, þad er ad skilia, sæ ydrande Tollheimtu-madur, foor rettlætur fræ GUds Hwse i sitt Hws, sem sæ er af Gude var til Nædar medtekeñ, og hafde feinged Fyrergiefning sinna Synda fram-ar hinum, nefnilega þeim stollta Phariseara, sem leitadest vid ad giora sijnar eigeñ Riettlætingar gylldar, og þar fyrer var hañ ecke þvi Rettlæte, sem fyrer GUde duger, undergiefeñ. Rom.10.

Hverneñ æ þetta ad skiliast; Foor þæ Phariseareñ og so riettlætur i sitt Hws?

Ney, þu skallt vita, ad þad er Sidvane i Ritningunne, ad tveir Hluter i einre Rædu setiast opt til samans, af hverium sæ eine syneft ad vera hinum ødrum betre, þar Meiningeñ er þo þesse, sæ eine er goodur, eñ hiñ annar vondur, til dæmis; þad er betra ad giptast, eñ ad brenna, seiger Paall 1. Cor. 7. Meiningeñ er sw, þad er gott ad giptast, eñ illt ad brenna.

Gott er ad treista uppaa DRottenn,og forlaata sig ecke uppaa Mennena, seiger David i Ps. 118. þad er ad skilia; þad er illt ad treista uppaa Mennena. Tollheimtumenn og Pwtur meiga fyrr komast i Himnarijke enn þier, seiger vor HErra. Matt. 21. þad er, þier kunned ecke ad komast i Himnarijke, þar þier erud forherdter i ydar Syndum. So er þaa Meiningenn þessi hier: Tollheimtumadurenn gieck fyrer GUds Naad riettlaatur i sitt Hws; i stadenn fyrer þad, ad saa drambsame Phariseare miste þaa Naad, og þad Riettlæte, sem fyrer Gude gyllder.

Hvar aa grundvallar hann þennann sinn Dom og Alyktan?

A einne almennelegre Reglu og Ordatiltæke, sem hann og annarstadar brwkar, sem sia maa af Matt. 23. segiande: Þvi hver saa, sem sig sialfann upphefur, hann skal nidurlægiast, og hver sem sig sialfann nidurlæger, hann mun upphafenn verda. Med sama Hætte talar Drottenn hiaa Spaamannenum, þar hann seiger: Jeg upphef þann nidurþryckta, og nidurþrycke þeim upphafda. Ezech. 21. Og Maria i sijnum Lofsöng seiger: Volld-

ugum

ugum hrinder hañ af Stodle, og upphefur Lijtelæta. Luc. 1. GUd giefe oß þar fyrer ad audmykia oß under hañs volldugu Hond, so hañ upphefie oß æ Vitiunar-Tijmanum fyrer sijñ Son JEsum Christum. Amen.

# Tolfta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar oß Gudspiallamadureñ Marcus i 7. Cap.

Og þa JEsus gieck i burt aptur, wr Lands Alfum Tyri og Sidonis, kom hañ til Siaafarens i Galilea, i midiar Bygder þeirra tiju Stadaña. Og þeir leiddu til hañs þañ Mann, sem daufur og mællaus var, og bædu, ad hañ legde Hendur yfer hañ. Og hañ veik hønum afsijdes fra Folkenu, liet sijna Fijngur i hañs Eyru, hrækte wt og æhrærde hañs Tungu, leit upp til Himens, andvarpade og sagde til hañs: Hephata, þad er, opna þig, og jafnsnart þa, upplukust hañs Eyru, þa uppleistust og eiñeñ Fiøtur hañs Tungu, so ad hañ talade rett. Og hañ

fyrerbaud þeim ad segia þad neinum, eñ þvi meir sem hañ fyrerbaud þeim þad, þeß meir þaa vijdfrægdu þeir þad wt: Og þaa undrade þetta nærsta miøg, segiande: Allt giørde hañ vel, þviad dauſa lætur hañ heyra, og maallauſa tala.

Uñ hvad talar þetta Gudspiall?

Fyrst; uñ Christi Krapta-verk, sem hañ giorde aa þeim dauſa og maallauſa Manne. Þar nærst; uñ þaa Hroosun, er Folked tillagde hønum, epter þad hañ hafde giort Krapta-verked.

Hvad høfum vier hier ad athuga i þvi fyrra?

Fyrst; þad sem skiede fyrer Krapta-verked, nefnelega Christi Reiſu, so sem annad Tilefne þar til. Þar nærst; þeß aumia Mañs Leidslu til hañs. J þridia Maata; Krapta-verked i sialfu ſier, baade þaa ſierlegu Adferd, sem hañ hafde i Læknan hins Siwka, so og einneñ þaa stooru Naad, sem hañ hønum audsynde.

Hvad verdur talad uñ Christi Reiſu?

Þetta: Og þaa hann gieck i burt aptur wr Lands Alfum Tyri og Sidonis, hvort hañ aadur hafde geinged, og þar wtreked Diofuleñ af Dottur þeirrar

Can=

Canverſku Kvinnu, þar kom haň til Siarfarens i Galilea, i midiar Bygder þeirra tiju Stadanna.

Hvad fyrer Sioor var Siooreñ i Galilea?

Haň var eitt ſtoort og oſallt Stoduvatn i Galilea Lands-Alſum, ſem añars kalladeſt Genezareths edur Tiberiadis Sioor, les hier uñ Midfoſtu Suñudags Utleggingu.

Hveriar voru þeirra tiju Stada Bygder, ſem hier nefnaſt?

Þad var eitt liited Land, ſem laa i millum þeirra nafnfrægu Borga Tyri og Sidonis at þar einu, Gydinga Lands at hina adra Siiduna, og hafde ſitt Nafn af þeim tiju Stodum, ſem þar voru.

Hvad ſiaum vier hier af?

Þar ſtooru Giæſku vors Lauſnara JEſu, hver jafnvel þo haň være Þioonuſtumadur Umſkurnarennar, og epter ſiinu Spaamans Embætte alleinaſta ſendur til fortapadra Sauda af Hwſe Iſraels. Matt. 15. Þar giorde haň þo ſtundum nockrar Reiſur til Heidingianna Takmarka, þarmed ſynande, ad ſaa Skilnadar Midveggur ſkyllde eitt ſiň nidurbriotaſt, Eph. 2. og gioraſt eitt Folk af baadum,

jaa, ad þeir Sauder af þvi ødru Sauda-hwse, skyldu og þaangad leidast, so þar yrde eitt Sauda-hws og eiñ Hyrder. Joh. 10. Og hvar saa blessade JEsus gieck uñ kring, þaa liet hañ alltijd Giæskunnar og Kiærleikans Footspor epter sig, jaa, hañ gieck uñ kring, og giørde øllum gott. Act. 10. Þaa hañ kom i Lands Alfur Tyri og Sidonis, giørde hañ heilbrigda Dottur þeirrar Cananversku Kvinnu, sem kvaleñ var af Dioflenum, og nu þar hann gieck aptur fraa þeim somu Lands Alfum, þaa hiaalpade hañ þessum auma Mañe: og lijka sem Soleñ, hvert hun rennur upp edur nidur, þaa giefur hun Lioos og Hita fraa sier. So giører og sw blessada Riettlætesens Sool, hvert sem hun geingur fram edur til baka, þaa lætur hun alltijd i Lioose sinar Naadar og Miskunar Geisla.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad giøra gott i øllum Stødum, hverium Manne, aa medañ vier hefum Tijd, eñ eirna mest þeim, sem eru af Trwarennar Heimkynne. Gal. 6.

Hvad mætte þaa Christo þegar hañ kom þaangad?

Evangelisteñ seiger: Og þeir (þad er, nockrer godhiartader Meñ, upphvatter af Med-

Medaumkun) leiddu til hans þann Mann, sem daufur og maallaus var, og baadu, ad hann legde Hendur yfer hann.

Hvad verdur oß hier fyrer Sjooner sett?

Fyrst; saa aume Madur, er ei alleinasta var Daufur, helldur og miøg Maalhalltur, edur drafande, so hans Maalfære kunne ecke edur valla ad skiliast, hvar fyrer og Folked i Niðurlæge Gudspiallsens tellur hann med þeim maallausu, af hverium oß verdur synt eitt Epterdæme uppaa Mannkynsens Eymd, epter þad hrædelega Synda-Fall, ad vier ei alleinasta Lijkamans vegna aa vorum Krøptum og Skilningarvitum erum adskiliannlegum Siukdomum og Veikleika undervorpner, helldur og, þad sem verra er, miøg hneigder til andlegrar Deyfu og Maalleises, fraa þeirre Tijd, ad vor fyrsta Moder i Paradijs lauk helldur frekt sijnum Eyrum upp til ad hlijda aa Høggormsens Lijge, hvar fyrer vor Eyru hafa sijdann vered þyckheyrd, og tilstoppud til ad heyra GUDs Raust, Kall hinna fagnaduar og annad gott, sem vier aattum med riettu ad heyra. Enn þar þvert aa moote, helldur vel heyrande, til ad heyra Satans Lijge, og Veralldarennar faanijta og for-

oktunarlega Rædu. Og fraa þeim Tijma, sem hun gaf sig i Tal vid Høggormeñ, og aat af þvi forbodna Trie, þaa erum vier ordner maallauser, og illa maalefarner, til ad tala nockud Gude til Dijrdar, vorum Naunga til Uppbyggingar, og oß sialfum til Saalar Velferdar. Eñ þvi midur helldur skijrt og sniallt talande þar aa møte, þad sem illt er, og Gude kañ til Stygdar ad vera, og vorum Naunga til Hneixlunar. Rom. 3.

Þar nærst; verda oß þeir fyrer Siooner setter, sem leiddu þañ auma Mann til Christum, og baadu, ad hañ legde Hendur yfer hañ, so sem hañ være opt vanur ad giøra vid þaa, sem hañ læknade, þvi so giørde hañ vid þañ Lijkþraaa. Matt. 8. Vid Modur-Konu Peturs, og vid þaa biwgu Konu. Luc. 13. So høfum vier hier af þessum Mønnum þad prijdelegasta Eptterdæme, uppaa eina Christelega Medaumkun. Hañ var (eg meina saa aume Madur) sviptur sijnum Skilningar Vitum, eñ þeir so sem laanudu hønum sijna Vitsmune. Hañ hafde eingeñ Eyru, med hverium hañ kunne ad heyra nockra Underviijsun edur Huggun, ei helldur þaa Tungu, med hverre

hverre hañ kunne ad klaga ſijna Neyd/og um̃ Hiaalp ad bidia. Þar fyrer aumkuduſt þeir yfer hañs Eymd/ leiddu hañ til Chriſtum/ toludu og bædu fyrer hañ.

Hvad ſkulum vier hier af læra?

Þad/ ad vier ſkulum hafa Medaumkun yfer Eymd vors Naunga/og med Job vera Auga hins Sioonlauſa/ Fæturnar hins Footlama/ og Fader hins Faatæka. Job.29. Eiñ aa ad bera annars Byrde. Gal. 5. og bidia hver fyrer ødrum. Jac.5. Og ſierdeiles þegar vier ſiaaum/ad vor Naunge er i andlegre Neyd og Veikleika; ad hañ er andlega daufur edur maallaus/ þaa ber oß med brodurlegre Aminningu ad leida hañ til Chriſtum/ jaa/bidia med hønum og fyrer hañ/ad hañ fyrer vors Herra mildu Hialpar-Hønd/ mætte verda læknadur og heilbrigdur.

Aumkadeſt þaa ſaa myſkunſame JEſus yfer þeſſum auma Manne?

O jaa; hañ veik hønum affſijdes fraa Folkenu/ liet ſijna Fingur i hañs Eyru/ hrækte wt og aahrærde hañs Tungu/ leit upp til Himens/andvarpade og ſagde til hañs/ Hephata/ þad er/ opna þig.

Kuñe

Kunne Christur ecke annadhvert med Handanna Uppaleggingu, epter Folksens Beidne, edur med einu Orde, ad lækna þennañ auma Mañ?

Sañnarlega: Eñ til ad syna, ad hañ, epter sinne guddomlegre Velþocknan, vilie giøra hvad eitt med þeim Hætte, sem hønum sialfum þocknast, þaa giører hann ad sonnu epter þeirra Beidne, i þvi ad lækna hañ, eñ ecke i þañ Maata, sem þeir baadu, ad hañ legde Hendur yfer hañ, helldur brwkade hañ adskilianlegar Ceremoniur og sierlega Adferd i þessare Græðslu.

Hvad giørde hañ hønum fyrst?

Hañ veik hønum affsijdes fraa Folkenu, hañ leidde hañ ecke olldunges i burt fraa þeim til eins sierlegs Stadar, sem hañ giørde þeim blinda. Marc. 8. helldur veik hañ hønum lijted affsijdes fraa Folkenu, so hañ kynne þeß betur ad fullkomna þessa Græðslu.

Hvad villde Christur þar med kienna oß?

Þetta; ad ef vier vilium hañ aumkest yfer vorre Neyd, og lækne oß bæde af andlegum og lijkamlegum Siwkdome, þaa meigum vier skilia oß fraa Løstum og Gyrndum Folks þessarar Veralldar, og hegda oß ecke epter þessum Heime. Rom. 12.

12. helldur pad mest møgulegt er, geima oß ofleckada fraa honum. Jac. 1.

Hvad giørde hañ eñ framar vid hañ?

Hañ liet sijna Fingur i hañs Eyru.

Hvad villde hañ þar med syna og kienna?

Þad, ad hañs Holld er eitt Lijfgunar-holld, og hañs Hønd almaattug, hverre saa himneske Faderen hefur alla Hlute i Valld giefed, og ad vor Eyru kunna ecke riettelega upp ad liwkast og frijast fraa þeirre andlegu Deyfu, aan þeß þad skier fyrer Guds Fingur, sem er hañs Allmætte, og Krapt þeß verduga Heilaga Anda. Luc. 11.

Giørde Christur nockud meira vid hañ?

Jaa, hañ hrækte wt og aahrærde hañs Tungu: Christur hefur og aa ødrum Tijmum brwkad Hraaka i sinne Lækningu, þegar hañ villde heilbrigda hañ sem blindur var fæddur, þaa spytte hañ aa Jordena, og giørde af Hraakanum Saur, og smurde Saurnum aa Augu hins blinda, og heilbrigdade hañ so. Joh. 9.

Hvad villde hañ þar med til vitundar giefa?

Þetta, ad þar være eckert so lijtelmootlegt hiaa honum, ad þad kynne ecke

ad vera kroptugt Mannenum til Lækningar og Heilbrigde, jaa, ad hañ giarnañ wtvelie þaa Hlute, sem være heimskuleger, lijtelmootleger og veiker fyrer Heimenum, 1.Cor.1. og frañkvæmde með þeim stoora Hlute.

Hveria Hegdan og Adferd brwkade hañ aa medañ?

Fyrst; leit hañ upp til Himens; synande þar með, ad hañ var sa sem komeñ var ofañ af Himnum, jaa Drotteñ af Himnum. 1. Cor. 15. So leit hañ og upp til Himens, þegar hañ took Brauðeñ og Fiskana sier i Hendur, með hverium hañ villde sedia Folked: Það sama giorde hañ þegar hañ villde uppvekia þañ dauda Lazarum. Joh. 11. Kieñande oß þar með, ad vier skulum upphefia vor Augu til þeirra himnesku Fiallana, hvadañ oß kiemur Hiaalpeñ. Ps. 121. Þar nærst; andvarpade hañ og einneñ af Medaumkun yfer þeim auma Manne, jaa, yfer alls Mañkynsens Eymd; oß til Epterdæmes, ad vier skulum eiñeñ laata vors Naaunga Neyd og Þreinging oß til Hiarta gaanga, andvarpa og graata þar yfer Rom. 12. Jaa vier skulum, seige eg, andvarpa til Guds, bæde i Naaungans

og vorre eigeñ Neyd, þvíad fyrer Drottne er øll vor Syrnd, og vor Andvarpan er ei huleñ fyrer hønum Ps. 38.

Talade hañ nockud aa medañ?

Ja, hañ sagde til hans, Hephata: þad er. opna þig. Hvert ed var eitt sierlegt Almættes og guddomlegt Befalningar Ord, med hveriu hañ befalade þeim daufu Eyrum ad uppliukast, og Fiotrum hans Tungu ad uppleisast.

Kañ Christur eñ nu med þvilijkum Mindugleika og Almætte ad tala til adskiliannlegra Hluta?

Jaa, þanneñ kañ hañ ad tala bæde til Himensens og Jardareñar, til þeß ofriossama Lijfs og Obyriunnar; jaa hañ mun um sijder tala til vorra Grafa, Jaa, bæde til Jardarennar og Sioarens, ad þau skule sier uppliwka, og giefa fraañ þaa dauðu, sem i þeim eru Apoc. 20.

Ber oß ecke ad þeinkia, ad hañ eñ nu daglega, uppaa andlega Vijsu, seige til vor, Hephata?

Sannarlega þaa skulum vier þeinkia, ad hañ seige þad til vorra Hiartna, þegar hañ stendur fyrer þeim og klappar uppaa Apoc. 3. til vorra Eyrna, þegar hañ seiger, hver Eyru hefur ad heyra, hañ heyre Luc. 8. til vorra Munna, ad þeir skule

opna

opna sig til ad medkienna vorar Synder, bidia og akalla Gud, hañ ad lofa og honum þacker ad giora, til vorra Handa, ad þær skule sier uppliuka til Giæsku og Giafmilldne vid fatæka og naudþurftuga.

Vard þesse aume Madur þa vel Heilbrigdur?

Jaa, þvi Evangelisteñ seiger, og jafnsnart þaa upplukust hañs Eyru, þaa uppleistest og eineñ Siøtur hans Tungu, so ad hañ talade riett.

Hvad siaum vier hier af?

Vors Frelsara JEsu storu Giæsku og Almætte, hvered med einu Orde kañ ad giora so fliot og god Umskipte a þessum vesæla Manne.

Hvernen kuñum vier ad heimfæra þetta oß til Huggunar?

Vier skulum stadfastlega trua og hugga oß þar vid, ad hañ er eñ nu sa same, og hans Hond er ecke stutt ordeñ, helldur kañ hañ ollu ad umbreita, þegar hverke kuña Jurter nie plastur ad hialpa, þa kañ hañs Ord ad lækna alla Hlute Sap. 26. jaa hañ kañ ad lækna allañ vorn Brest bæde andlegañ og lijkamlegañ.

Hvad giorde JEsus epter þad hañ hafde fullkomnad þetta mikla Kraptaverk?

Hañ fyrerbaud þeim ad segia þad neim

neinum, jaa, hañ sem aadur hafde boded þeim daufa Munne ad uppliwkast, leggur hier lijka sem Band i hañs og þeirra Munna, og bindur þaa med þvi, ad þeir skule ecke segia þad neinum, edur opeñbera þetta Verk, sem hañ giørde.

Eñ hvar fyrer fyrerbaud hañ þad? þad er þo prijdelegt og rett ad kunngiøra Guds Stormerke.

Tob. 12.

Þad giørde hañ bæde siaalfs sijns vegna, ad þad skyllde ecke synast, ad hañ leitade epter sinne eigeñ Dijrd. So og Folksens vegna, sem ecke var eñ nu so upplyst, ad þad kynne verduglega ad tala um hañs Stormerke.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad leita ecke epter vorre eigeñ Dijrd og Hroosun, helldur skulum vier i øllum Hlutum laata Guds Dijrdar og Heidurs vijdfrægingu og Aukningu vera vorn hellsta Asetning, edur vort sierlegasta Sioonarmid.

Eñ giørdu þeir epter þvi, sem Christur befalade þeim?

Ney, helldur þvi meir sem hañ fyrerbaud þeim þad, þeß meir þaa vijdfrægdu þeir þad wt.

Hvad siaaum vier hier af?

Vier siaaum þad satt ad vera, sem þeir Gømlu hafa sagt, ad Heidureñ sie sem Dygdanna Skugge, hver ed fylger einum ecke siidur þar fyrer aa epter, þo hañ flije fyrer hønum.

Giørdu þeir þetta rett?

Jafnvel þo þeir giørdu þetta ecke af neinñre Mootþroan, helldur i godre Meiningu; þaa var þad þo i allañ Maata ecke riett giørt, þar þad var aa mote JEsu wtþryckelegre Befalningu: Skule eiñ Giørningur vera godur, þaa maa hañ bæde vera giørdur med godum Maata, fyrer leifeleg Medøl, og fyrer godañ vißañ Tilgaang: hañ aa ecke ad striida aa moote GUds Bode og Befalningum.

Hvad talade þaa Folked um þennañ almaattuga Lækner?

Þaa undrade þetta nærsta miøg, hvar þeir høfdu stoora Ordsok til, og søgdu: Allt giørde hañ vel, þviad Dausa lætur hañ heyra, og Mallausa tala.

Hofum vier ecke Ordsok til ad segia þad sama hønum til Heidurs?

Sannarlega; þvi hañ hefur allt vel giørt, og giører eñ nu vid oß allt vel i Skøp-

Skøpuneñe, Vardveitslunne, Endurlausnenne og Helgunenne, sem og i øllum ødrum siijnum Verkum og Velgiørningum. Hañ giører og so vel vid oß, nær hañ hotar og snerter oß med siijnu fødurlega Hriise, og um siider vill hañ fullkomlega giøra allt vel vid oß, þegar hañ vill frelsa oß fraa þvi illa, og leida oß iñ i þaa fullkomnu Glede siijns Riikes aa Himnum; hañs allra heilagasta Nafn vere lofad og priisad eiliiflega. Amen.

# Prettanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Lucas i 10. Cap.

Og JEsus snere sier til sinna Læresveina, og sagde þeim sierdeiles: Sæl eru þau Augu, sem siaa þad, hvad þier siaaed, þviad eg seige ydur, þad marger Spaameñ og Kongar villdu hafa sied, hvad þier siaaed, og saau þad ecke, og ad heyra hvad þier heyred, og heyrdu þad eige. Og siaa, ad nockur Løgvitringur stod upp, freistade hañs, og sagde: Meistare, hvad skal eg giøra, so ad eg eigneſt eiliift

Lijf? Eñ hañ sagde til hañs: Hvad er skrifad i Løgmaalenu? hvernen̄ les þu? Hañ svarade og sagde: Elska skalltu DRottenn GUD þiñ, af øllu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þinne, og af øllum Mætte þijnum, og af øllu Hugskote þijnu. Og þiñ Naunga sem sialfañ þig. JEsus sagde til hañs: Þu svarader riett, giør þad og muntu lifa. Eñ hañ villde riettlæta sialfañ sig, og sagde til JEsu: Hver er þaa miñ Naunge? JEsus svarade og sagde: Madur nockur foor fraa Jerusalem, ofañ til Jericho, og hrasade a medal Ræningia, hverier ad ræntu hañ Klædum, og lemstrudu hañ Saarum, geingu siidañ i burt, og lietu hañ þar epter haalfdaudañ liggia. Eñ so bar til, ad Kienne-madur nockur foor ofañ þañ sama Veg, og er hañ leit hañ, gieck hañ fram̄hiaa hønum. Slijkt hid sama Leviteñ, þaa hañ kom nærre þeim Stad, og saa hañ, gieck hañ þar fram̄hiaa. Eñ Samverskur Madur nockur foor um fareñ Veg, kom þar nærre hønum, og sem hañ saa hañ, þaa hrærdest hañ af Miskun vid hañ,

og

og gieck ad hønum, batt umm Saar hans, hellte þar i Vidsmiøre og Vijne, og lagde hann uppaa sinn Eyk, og flutte til Herberges, gaf og giætur ad hønum. Enn annars Dags þar epter, þaa hann foor i burt, took hann upp tvo Peninga, og fieck Hwsbwandanum, og sagde til hans, haf þu gaat aa hønum, og hvad þu leggur meira wt, þad skal eg borga, nær ad eg kiem aptur. Hver þeirra þriggia synest þier vera þeß Naaunge, sem hrasadur var aa medal Ræningianna? Enn hann sagde; saa sem giørde Miskunar-verked aa hønum. JEsus sagde til hans: Far þu og giør slijkt hid sama.

Hvad hefur þetta Evangelium inne ad hallda?

Fyrst; þaa sierlegu Christi Rædu vid sijna Læresveina. Þar nærst; hans merkelega Samtal vid Løgvitringenn? J þvi fyrra er innefalenn einn Kiarne af Evangelio, i þvi sijdara Summa Løgmaalsens.

Hvad seger Evangelistenn umm þad fyrra?

Hann seiger: Og hann snere sier til sinna Lære-sveina, og sagde þeim sierdeiles: Sæl eru þau Augu, sem siaa þad, hvad þier siaaed: Þviad eg seige

ydur, þad marger Spámeñ og Kongar, villdu hafa sied, hvad þier siaed, og saau þad ecke, og heyra hvad þier heyred, og heyrdu þad eige.

Fraa hveriu seiger hier Gudspialla-madureñ?

Hañ seiger fyrst fraa þvi, ad JEsus hafe snwed sier til sinna Lære-sveina. Og þar nærst; hvad hañ hafe vid þaa talad.

Hvad seiger hañ um̃ þad fyrra?

Hañ snere sier til sinna Læresveina. Epter þad þeir siotiiger Lære-sveinar, med vel wtrettud Erende komu aptur til baka, og høfdu kunngiort þeirra Erendes og Wtsendingar luckulegañ Fram̃gang, og sagt: HErra, þar eru eiñeñ Dioflar oß undergiefner i þijnu Nafne, þaa snere hañ sier fyrst til siins hiñneska Fødurs, med Lof og Þackargiord, og siidañ til sinna Lære-sveina, segiande þeim, og synande þeirra stooru Lucku og Saaluhiaalp, þviad so sem þeir høfdu gladt hañ, so vill hañ aptur gledia þaa.

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Fyrst þad, ad nær oß geingur vel, og vier høfum feinged nockra luckulega Fram̃kvæmd, annadhvert fyrer vorra eigeñ, edur annara Þioonustu og Erfide, þaa skulum

um vier fyrst snwa oß til Guds, og færa honum Diirdena hañs Nafns. Ps. 29. sem þeim, fraa hverium oll god Lucka og Blessan kemur, aadureñ vier snwum oß til vor sialfra edur aññara Manna.

Þar nærst; kañ þad oß eckert Gagn ad giera, þo ad allur Heimureñ snwe sier til vor, ef ad JEsus snijr sier fraa oß, og þar þvert aa moote kañ þad ecke ad skada oß, þo oll Verolldeñ snwe sier fraa oß, þegar JEsus snijr sier til vor. Þar fyrer skulum vier so tilsiaa, ad vier snwum ei vid honum Bakenu, helldur vorre Asioonu, so hañ aptur aa mote snwe sijnu Naadar-Andlite til vor. Eñ hver og eiñ neydlijdande andvarpe med David, og seige: Snw þier til mijn, og vert mier miskunsamur, þvi eg em einmana og faaraadur. Ps. 25.

Hvad talade JEsus til sinna Lære-sveina, þegar hañ þañneñ snere sier til þeirra?

Hañ sagde þeim sierdeiles, til Folksens talade hañ almennelega; Eñ til sinna Lære-sveina talade hañ sierdeileslega. Hañ predikade Orded Folkenu i Epterlijkingum, epter þvi sem þad kunne þad ad heyra. Eñ fyrer utañ Epterlijkingar talade hañ

ecke til þeirra: Eñ sierdeiles wtlagde hañ þad alltsamañ fyrer siinum Lære-sveinum, sem hofdu Epterlaungun til ad skilia og medtaka hañs Lærdom, og bædu hañ ad wtleggia siinar Epterliikingar fyrer sier.

Hvad kunnum vier hier af ad merkia?

Þetta; ad þar sem vier vilium rettelega heyra Guds Ord, og siña þeß Grundvøll og Krapt i vorum Hiørtum, þá ber oß ad ástunda ad vera þeir sønnu Christi Lærefveinar, med alvarlegre Gudrækne ad setia oß nidur hiá hañs Footum, kostgiæfelega heyrande hañs Ord, og þad vardveitande: jáa læatum hañ tala til vorra Hiartna: vier vilium med David liika sem tvisvar (nefnelega fyrst med Liikamans, þar nærst, med Sáalarennar andlegum Eyrum) heyra þad hañ eitt siñ til vor talar. Ps. 62.

Hvad sagde JEsus sierdeiles til sinna Lære-sveina?

Hañ sagde: Sæl eru þau Augu, sem siáa þad, hvad þier siáaed, þviad eg seige ydur, þad marger Spáameñ og Kongar villdu hafa sied hvad þier siáaed, og sáau þad ecke, og ad heyra hvad þier heyred, og heyrdu þad eige.

Hvar fyrer priisar hañ þáa sæla ad vera?

Þar

Þar fyrer, ad þeir sáu og heyrdu hañ openberlega i Holldenu, þeir heyrdu hañs huggunarfullu Predikaner, og sáu hañs miklu Kraptaverk.

Med hvad morgum Hætte kañ JEsus ad siaſt, og til hañs ad heyraſt?

Fyrſt; med Trwarennar Augum alleina, med hveriu̅m Hætte ad Abraham og adrer heilager Forfedur i þvi Gamla Testamente sáu hañ, hañ sem koma skylldc. Joh. 8. og þeir Trwudu i þvi Nija Testamente, sia hañ, hañ sem er komeñ. Joh. 20. Þar næſt; med Liſkamans Augum alleina, an nockrar rettrar Trwar, og Kiærleika til hañs, og i þañ Mata sáu hañ Herodes og Pilatus, þeir yppurstu Prestar og Skriftlærder, sem og fleire adrer a medal Gydinga Folks. Joh. 1. Og i siidaſta Mata, bæde med Liſkamans og Sálarennar Augum undereins, med hveriu̅m Hætte hañs Læresveinar, og adrer þeirra trwader Epterfylgiarar sáu hañ, hvar u̅m S. Johannes takar, segiande: Þad sem var af Upphafe, hvad vier heyrdum, hvad vier sáum med vorum Augum, og hvad vier skodudum, og vorar Hendur atoku, nefnelega Liſſ-

sens Orð. 1. Joh. 1. Og aptur seger hañ: Orded vard Holld, og bygde med oß, og vier saaum hañs Dijrd, jaa Dijrd so sem eingietens Sonar af Fodurnum, fullañ Naadar og Sannleika (Joh. 1.) so vier meigum segia: Þeir hafa trwad, eñ vier hofum skiled, ad þu ert Christur Sonur GUds lifanda. Joh. 6.

Hver Mismunur er aa þessum þremur Haattum, med hveriuṁ Christur verdur siedur?

Sa fyrste var og er eñ nu trwudum Guds Bornum til Saaluhiaalpar; Hiñ annar var framar til Fyrerdæmingar eñ Saaluhiaalpar. Apoc. 1. Eñ ad Christi Lære-sveinar og trwader Epterfylgiarar saau hañ og heyrdu honum med þeim þridia Hætte, þad giorde þaa ecke alleinasta saaluholpna, helldur og luckulega framar þeim heilogu Fedrum i þvi Gamla Testamente: þvi marger Kongar og Spaameñ. Edur so sem ad Orde verdur komest hiaa Gudspialla mannenum Mattheo i 13. Cap. marger Spaameñ og rettlaater fijstu ad siaa hvad þier siaaed. Jaa þaa langade innelega epter, ad siaa þañ einget na GUds Son opennberadañ i Holldenu (1. Tim. 3.) so sem vier kunnum ad siaa Gen.

Gen. 4. og vijdar annarstadar, og ødludust þo ecke soddañ þeirra Gyrnd og Epterlangan fullkomlega.

Hvad kuñum vier hier ut af ad ælykta?

Þad, hvad luckuleger sieu þeir nija Testamenteſens Tijmar framar þeim gomlu: þar var Notteñ, hier Dagureñ; þar Fyrerheiteñ, hier Fullkomnuneñ; þar Christi Eptervæntan, so sem þeß er koma munde, hier hans Nalægd, so sem þeß er allareidu er komeñ. Hafe Drottningeñ af Sudre priiſad Salomonis Þienara sæla ad vera, segiande: Sæler eru þijner Þienarar, sem ad alltijd standa fyrer þier og heyra þiñ Viisdom (1. Reg. 10.) þa maattu Christi Læresveinar og truader Epterfylgiarar miklu framar sæler kallast, þar þeir daglega sia og heyrdu þann, sem er meire eñ Salomon Matt. 12. hiñ friidaste a medal Mannanna Barna, a hvers Varer Nadeñ er wthellt Pſ. 45. og jafnvel þo Guds Born sieu ecke epter Christi Uppstigning so luckuleg sem þeir, ad þau kuñe i lijkamlegañ Mata ad sia siñ JEsum, og til hans ad heyra, so eru þau þo ecke ad siidur sæl; þar þau kuña med sijnum andlegum Truar-Augum hañ ad sia,

sem

sem er þeirra Truar Uppbyriare og fullkomnare Heb. 12. og ef þau siaa hañ ecke (med lijkamlegum Augum) so trua þau þo aa hañ, og glediast med ouumrædelegre og dijrdarsamlegre Glede, og epter þad þau hafa sied hañ, so sem i giegnum Speigel i einu myrkvu Orde, þa munu þau þar siaa hañ Auglite til Auglites 1. Cor. 13. og þaa heiter þad riettelega um þau: sæl eru þau Augu, sem siaa þad hvad þier siaaed.

Hvad talar Evangelisteñ um þad añad, nefnelega, þad merkelega Samtal Løgvitringsens vid Christum.

Hañ seiger: og siaa, ad nockur Løgvitringur stod upp, freistade hans og sagde: Meistare, hvad skal eg giøra, so ad eg eignest eilijft Lijf.

Hvad fyrer eirn var saa, sem stod upp ad freista Christs.

Eirn Løgvitringur edur Skriftlærdur.

Hvad fyrer Meñ voru Løgvitringar og Skriftlærder, sem eg heyre ad nefnder eru hier og hvar i Evangeliskre Historiu?

Þeir voru aa medal Gydinga lærder Meñ og vel lesner i Løgmaalenu, og þeirre heiløgu Skrift, hvar fyrer þeir og kollud-

ust Ritninga Meistarar. 1 Tim. 1. Hverier sig hielldu ad vera Tistunarmeñ þeirra saavijsu og Lærefedur einfalldra, hafande vißañ Maata a Þeckingu og Sañleika i Logmalenu, Eñ þeir vanbrukudu þennañ siñ Lærdom og Klokskap, þar þeir brukudu hañ sierdeiles til ad freista Christs, sem þesse og adrer hans Stallbrædur.

Hverier eru þeir riettu Skriftlærdu?

Þeir eru riett Skriftlærder, sem til Himnarijkes eru mentader Matt. 13. af þeirre heilogu Skrift fraa sijnum Barndome, og kunna af heñe bæde ad undervijsa sier og sijnum tilheyrendum til Saaluhiaalpar fyrer Truna a JEsum Christum 2. Tim. 3. hier um maa lesa framar Utlegginguna yfer Gudspialled þañ annañ dag Jola.

Hvad giorde þesse Logvitringur?

Hañ stod upp, freistade JEsu og sagde: Meistare, hvad skal eg giøra, so ad eg eignest eilijft Lijf?

Var þesse Spurning ecke nogu god?

Sannarlega þaa var Spurningeñ ad sonnu nogu god, hefde hañs Hiarta annars vered gott og einlægt, og hañ hefde framsett hana i einnre godre Meiningu,

og

og til godrar Endalyktar til ad uppfrædast af honum. Eñ þad var lastverdt og fordæmannlegt a honum, ad hañ talade ad sønnu vel med Munnenum, eñ hafde þo Falskleika i Hiartanu; med Munnenum kallade hañ Christum Meistara, eñ meinte i Hiartanu eiñ Svikara; hañ stod upp sem eiñ Diøfull og freistade hañs, og hafde Spursmaal vid hañ, sem Achab vid Micheam. 1.Reg. 22. ecke til þeß ad læra af honum, helldur til þeß ad heyra hvad hañ segde og freista hans.

Hvad siaum vier hier af?

Slægd Verralldarennar Barna, sem tala annad med Munnenum eñ þau þenkia i Hiartanu Ps. 12. sem hafa Huñang a Tunguñe, eñ Gall og Eitur i Hiartanu, og þeinkia ecke til þeß, ad þau freista Guds þar med, er sannarlega veit og þecker þeirra Huxaner, og hvad vondt þau þeinkia i siinum Hiørtum. Matt. 9.

Kunnum vier þa ecke ad utdraga oß eiñ godañ og Saaluhiaalplegañ Lærdom hier af?

Sannarlega; vier vilium laata þennañ Løgvitring vera ut af fyrer sig med siina Vondsku og Falskleika, og þañ Tiima, sem hañ og adrer eru siwker af Spurningum,

þaa

þaa vilium vier vera umhiggiusamer, hellst ad spyria epter þvi, hvad vier skulum giora, so ad vier kuñum ad eignast eilijst Lijf? þvi þad er þad einasta og sierlegasta, sem oß naudsyniar um ad vita, hvad eingeñ kann betur ad segia oß edur kienna, eñ vor JEsus, sem er Vegureñ, Sannleikureñ og Lijfed. Joh. 14.

Hveriu svarade JEsus hier uppaa?

Med þvi hañ visse vel, ad Logvitringureñ villde leita epter Rettlætenu og þvi eilijfa Lijfe i Logmaalenu, so vijsade hañ hønum til Løgmaalsens, segiande: Hvad er skrifad i Løgmalenu? Hvernenn les þu?

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Þad, ad þeir sem vilia treista uppaa sialfa sig, og leita epter Rettlætenu i Logmaalenu, þaa ber ad vijsa þeim til Løgmaalsens, þad getur snarlega synt þeim siñ Veikleika og Ofullkomlegleika, so giørde S. Paall, þar hañ þanneñ talar: Seiged mier, þier sem under Logmaalenu vilied vera, hafe þier ecke heyrt Logmaaled. Gal. 4.

Hvert Andsvar gaf Logvitringurenn hier uppaa?

Hañ svarade vel hier uppaa med Muñenum,

enum, og innebatt allt Løgmaaled i tveimur þeim miklu Kiærleikans Bodordum; þad fyrra hefur inne ad hallda þañ Kiærleika, sem vier erum Gude umskyllduger: Elska skalltu DRotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu, og af allre Ønd þinne, og af øllum Mætte þijnum, og af øllu Hugskote þijnu. Hid siidara þañ Kiærleika, sem vier erum vorum Naunga umskyllduger: Og þiñ Naunga sem siaalfañ þig. Lev. 19. Christur siaalfur innebatt þetta og i þessum tveimur Bodordum. Matt. 22.

Hvad skulum vier hier af læra?

Fyrst þad, ad Kiærleikureñ er Innehalld Bodordsens 1. Tim. 1. og Elskañ, Løgmaalsens Uppfylling. Rom. 13. vier skulum ei þeinkia, ad þad sie sv Hlutur, sem stendur i voru eigeñ Vallde ad giora, og laata ogiordañ, ad elska; helldur er þad vor æverande Plikt og Skyllda, þar nærst; ber oß GUD, sem þañ ædsta Goda, ad elska yfer alle Hlute fram, jaa, framar eñ siaalfa oß, og þad af øllu Hiarta, hañ vill ecke ad Hiartanu sie sundurskipt, annadhvert vill hañ hafa þad allt, edur eckert af þvi. Og i þridia Maata; ber oß Naun-

Naaungañ, sem Guds Mynd og vort eiged Holld fyrer Gllds skulld, ad elska, og þad ecke af Ysservarpe og Hræsne, helldur af einum iñelegum Kiærleika, sem siaalfa oß: Moses hafde þesse bæde Bodord i siñe Hende þegar hañ giek ofañ af Fiallenu. Deut. 9. So eiga þau og so ad vera i Hiarta aa sierhveriu Guds Barne, þvi so seger S. Johannes: Þetta Bodord høfum vier af hønum, þad hver hañ elskar Gud, hañ elske eiñeñ siñ Brodur. 1. Joh. 4.

Hverneñ fiell JEsu þetta Andsvar?

Hañ sagde til hañs, þu svarader riett, giør þad (ef þu annars gietur) og muntu lifa. Hvad hañ sagde ecke til þeß, ad styrkia hañ i siñe saavijslegre Meiningu, helldur framar til ad koma hønum til ad þeinkia um siñ eigeñ Ofullkomlegleika.

Var hañ þar med aanægdur?

Ney, helldur villde hañ riettlæta siaalfañ sig, og hiellt sem saa unge Madur, Matt. 19. ad hañ hefde þad allt halldeð i fraa Barnæsku, og sagde til JEsu, hver er þaa miñ Naaunge?

Hveriu svarade JEsus hier uppaa?

Hañ framsette eina Epterlijkingu ed-

ur Historiu fyrer hañ, so sem i Epterlijk-
ingu, uñ Mañ nockurn, sem gieck fraa
Jerusalem ofañ til Jericho ꝛc.

Hvad meinte Christur sierdeiles i þessare Rædu?

Ecke ad wtmaala hier, so sem i Epterlijk-
ingu, Fall og Uppreisn Mañkynsens, i
hvern Maata sumer af þeim Gømlu,
framar af Gudrækne, eñ riett og eigeñle-
ga hafa wtlagt þessa Historiu, helldur ad
segia og syna Løgvitringnum, hver ad væ-
re hañs Naunge, nefnelega ecke allein-
asta saa, sem være hañs Vinur, helldur og
hañs Ovinur, ecke einasta saa, sem være
af sama Lande og sømu Trwar og hañ,
helldur og saa, sem hverugt være, so sem
saa Samverske Madur, hañ var okiend-
ur og hafde adra Trw eñ hiñ, sem hrasad-
ur var aa medal Ræningia; Stuttlega
ad segia: Hver saa sem geingeñ kyñe ad
vera fraa Jerusalem til Jericho, þad er
fraa goodum Bloma og Velstande til
Eymdar og Volædes, og være añadhvert
ad Audlegd, goodu Mannorde, edur Lijk-
amans Heilbrigde falleñ aa medal Ræn-
ingia og illa wtleikeñ, og hefde Hiaalpar
og Adstodar Þørf. So og syner Christ-
ur hier, hverneñ Madur skule bevijsa sig
aa

ad vera Naunga þeß Nauðþurftuga, nefnelega, ad Madur gange ecke framhia hønum, sem Kienne-madureñ og Leviteñ, helldur sem sa Samverske Madur, aumkest yfer hønum, gange ad hønum, hiaalpe hønum i Neydenne, og øllu þvi sem møgulegt vera kañ med Raad og Daad. Og ad þetta sie hañs sierlegasta Merking og Meining, giefur hañ til vitundar med þeirre Spurningu, er hann spurde hañ ad, so sem ad minna hañ aptur aa siin eigeñ Ord: Hver þeirra þriggia synest þier (rettelega ad hafa beviisad sig ad) vera þeß Naunge, sem hrasadur var a medal Ræningianna.

Hvert Svar gaf hañ þar uppaa?

Hañ sagde, sa sem giørde Myskunar-verked aa hønum, þvi sa, sem þad giører ei, hañ er ecke verdugur þeß ad bera þad Nafn, ad heita Naunge, helldur er hañ laangt þar fraa, sem sa er geingur laangt i burt fraa siins Naunga Neyd og Þijnu. Ps. 38.

Hvad sagde JEsus ad siidustu til hañs?

Hañ sagde: Far þu, og giør slijkt hid sama, vilier þu añars rettelega segiast ad elska þiñ Naunga.

Hver skal vor Lærdomur hier af vera?

Þad er ecke nog, þo vier vitum hvad rett er, og hvad gott adrer hafa giort/ helldur skulum vier og giora epter þvi sem vier vitum, Joh. 13. og epterfylgia añara Epterdæmum i þvi goda. Phil. 3. Og sierdeiles vors goda himneska Fodurs, sem lætur sijna Sool uppgaanga yfer Vonda og yfer Goda, og lætur rigna yfer Rettlaata og yfer Raanglaata. Matt. 5. So vier mættum vera hans retteleg Børn/ hier i Naad, og þar i eilijfre Dijrd og Sæluhiaalp; hvar til Gud naadarsamlega hiaalpe oß fyrer Christi Skulld. Amen.

# Fiortanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Lucas i 17. Cap.

Jþañ Tijma. Og þad skiede so, þaa ed JEsus gieck til Jerusalem, ad hañ ferdadest i giegnum midia Samariam og Galileam. Eñ sem hann gieck iñ i nockurt Kauptwn, mættu hønum tiju Lijkþraaer Meñ, hverier ed stodu laangt fraa, hofu upp sijnar Radder, og søgdu: JEsu gode Meistare/

are, myſkuna þu oß. Eñ ſem hañ leit
þaa, ſagde hañ til þeirra; fared þier,
og ſyned ydur Kienne-mønnunum.
Og þad ſkiede ſo, þaa er þeir geingu
þadañ, ad þeir urdu hreiner. Eñ eiñ
wt af þeim, nær hañ ſaa þad, ad hañ
var hreiñ vordeñ, ſnere hañ aptur,
lofande Gud med haarre Rauſt, fiell
fram̃ aa ſijna Aſioonu fyrer Fætur
JEſu, giørande hønum þacker, og
þeſſe var Samverſkur. Eñ Jeſus
ſvarade og ſagde: Hvert voru ecke tiju
hreinſader? Eñ hvar eru hiner niju?
Fañſt eingeñ annar, ſaa aptur ſnere, og
giæfe Gude Dijrdena, nema þeſſe Ut-
lendingur? Og hañ ſagde til hans:
Statt upp og far hiedañ, þviad þijn
Trw giørde þig hiaalplegañ.

Hvad er innefaled i þeſſu heilaga Gudſpialle?

Fyrſt; Hreinſun þeirra tiju Spitelſku.
Þar nærſt; Þeirra Hegdun epter þad
þeim var hiaalpad, og þeir voru hreinſ-
ader.

Hvad høfum vier aptur ad athuga i þvi fyrra?

Fyrſt; Eymd þeirra Lijkþraau, i hver-
re þeir komu til Chriſtum, ad leita ſier
Hiaalpar og Lækningar af hønum. Þar

nærst; Christi Myskunseme, sem aumkadest yfer þeirra Eymd, og hreinsade þa.

Hvad talar Evangelisten um þad fyrra?

Han seiger: Og þad skiede þa Jesus gieck til Jerusalem, ad han ferdadest i gegnum midia Samariam og Galileam, en sem han gieck inn i nockurt Kauptun, mættu hønum tiju lijkþraaer Menn, hverier ad stodu laangt fraa, hofu upp sijnar Radder og søgdu: JEsu gode Meistare, myskuna þu oß.

A hverium Tijma var þad, sem þesser lijkþraau Menn komu til JEsum?

Þar um talar Evangelisten þanninn: Og þad skiede so, þa JEsus gieck til Jerusalem, ad han ferdadest i gegnum midia Samariam og Galileam. Hver Ferd ad var hans sijdasta Reisa, sem han giørde til Jerusalem, aa hverre han giørde miked gott og fleire Krapta-verk, en aa nockre annare sinne Reisu.

Hvernen kunnum vier þetta oß til Lærdoms ad heimfæra?

Med þvi vier erum aller Pilagrimar og Vegfarendur, þa Stund vier lifum hier aa Jordunne. Ps. 39. Þa ber oß i allan Maata aa vorre Vegferdar-reisu, ad eptfylgia

erfylgia vorum JEsu, hver ed um̃ kring gieck, giorde gott og grædde alla. Act.10. Og fierdeiles nær vier af Sottum, Alldurdome, og ødrum þvilijkum Daudans Sendebodum kunnum ad aalykta, ad þad lijde ad Kvølldé vorrar Vegferdar og Pilagrims Reisu, og ad vier munum snart afleggia vort Hreise. 2. Pet. 1. og gaunga Veg allrar Veralldar, þaa ber oß so til ad sia, ad sw himneska Jerusalem sie saa Stadur, til hvers vier alleinasta kieppunst, og ad vier sieum þaa kostgiæfner i godum Verkum, so vier mættum laata oß epter eitt gott Nafn aa Jordunne, og niota þeirrar eilijfu Saaluhiaalpar i Himnenum.

I hverium Stad komu þeir til JEsu?

Þegar hañ kom iñ i Kauptwned, edur lijted Þorp vid Vegeñ, hvert helldur þad hefur vered i Samaria edur Galilea nefner Evangelisteñ ecke.

Hvad sioaum vier hier af?

Þad, ad eingeñ Stadur er saa hverke lijtell nie stoor i Verølldeñe, ad Madur finne þar ecke alltijd Siwka og Auma, þviad so sem þar er Synd, so er þar og Siwkdomur i øllum Stødum. Og so

sem Christur seiger, ad vier høfum jafn-
añ Faatæka hiaa oß, Matt. 26. so høfum
vier og alltijd Auma hiaa oß, hverium oß
ber ad hiaalpa.

Hverneñ voru þeir Siwker?

**Þeir voru Lijkþraaer.**

Hvad syrer Siwkdomur var þad?

Þad var eiñ aumurSiwkdomur, miøg almennelegur aa medal Gydinganna, og annara þar i kring verande, sem augliost er af Skriftarennar Epterdæmum. Num. 12. med hverium Lijkameñ var iñvortes fordiarfadur af spilltu Bloode, eñ wtvortes iñtekeñ af stoorum og vidbioodslegum Saarum og Kaunum, og var þar syrer olæknañlegur af Mannaña Høndum. 2. Reg. 5. Jaa, hañ iñtookst og hiaa Gydinga Folke bæde Hwß og Klæde. Lev. 13. Og þeir sem med þeß haattar Siwkdome voru, maattu bwa alleiner, og ecke vera hiaa ødru Folke: Eñ ef þeir mættu nockrum, þaa skylldu þeir kalla; ohreiñ, ohreiñ, og Prestarner aattu alleina ad dæma, hvert þeirra Saar voru læknañleg edur ei.

Hvers Imind var þesse Siwkdomur?

Syndarennar, þeirrar andlegu Spit-
elsku,

elsku, sem inrekur og fordiarfar alla Mañsens Naatturu innvortes og wtvortes, og giorer þaa odugannlega til alls Gods; Hun kañ ad innsmeigia sier til allra Manna, jaa, ad saurga bæde Klæde og Hws, og allt þad, sem Syndareñ hefur Uñgeingne med; Hun kañ ad wtelykia eina Manneskiu fraa Guds Samfielagskap og hañs Barna; og med þvi hun hanger vid oß alla, þaa meigum vier og aller medkienna og upphroopa uñ oß; ohreiner, ohreiner, og hofum stoora Ordsok til ad bidia Gud, ad hañ vilie oß af henne hreinsa, segiande med David hver i sinn Stad: Drotteñ þvo þu mig vel af Misgiord minne, og hreinsa mig af minne Synd. Ps. 51. afleis mig med Ysopo, so ad eg hreinsest; þvo þu mig, so ad eg Snio-hvijtur verde.

Hvad marger voru þeir?

Tiju. Vid þad litla Kauptwn, mætte honum so stoor Flockur aumra Mañā.

Hvad siaaum vier hier af?

Þad, ad Madur finnur skialldañ eiñ lijkþraaañ einañ fyrer sig. Vier finnum stoora til samans wte fyrer Dyrunum i Samariæ Borgarhlide, og hier i Samaritanna

ritanna Landamerkium mæter Christur tiju Lijkþrœxum i einu: So sem þeir andlega Lijkþrœxu reira sig til samans med Syndarennar Bande. Es. 5. So kañ og sw lijkamlega Lijkþrœx og annar Kroß ad samteingia þœx, sem annars eru adskillder, þviad so seiger Drotteñ: Nær þeim geingur illa, þœx munu þeir œxrla vitia mijn (og segia) komed, vier vilium aptur til Drottens, þviad hañ hefur i sundurslited oß, hañ mun og lœkna oß, hañ hefur sleiged oß, hañ mun og grœda oß. Hos. 6.

Med hverium Hætte komu þeir fram?

Fyrst, seger Evangelisteñ, ad þeir hafe mœtt hønum, þeir hafa geinged so sem i Vegeñ fyrer hañ, þegar þeir hafa formerkt, ad hañ munde gœnga inn i Þorped. Þar nærst; ad þeir hafe staded lœngt frœ, giørande epter Løgmœlenu i þvi, sem fyrerbaud þeim Lijkþrœxu ad koma nærre ospilltum Mønnum, gefande þar med til vitundar siñ Overdugleika, ad þeir med sijnum Syndum høfdu giørt Adskilnad œ millum Guds og sijn. Es. 59. og med riettu forþienad þenñ hrædelega Siwkdom, sem añad hardara. Og ad sijdustu seiger Gudspiallamad=

madurenn, ad þeir hafe upphafed sijnar Radder (þad mesta þeim var mogulegt i þessum haasa Siwkdome) og sagt: JEsu, gode Meistare, myskuna þu oss! Þeir baadu þann retta Mann JEsum, þann sanna Frelsara, sem kann bæde ad frelsa fraa andlegre og lijkamlegre Lijkþraa, hvern þeir og kolludu Meistara, þvi hann hafde Makt og Myndugleika, bæde ad biooda og befala, jaa, bæde ad bioda Siwkdomenum ad koma, sem og ad fara, þeir baadu og rett, þar þeir grundvolludu ecke Bænena aa sinne eigenn Forþienustu; helldur aa hans o-utseigianlegu Naud. Myskuna þu oss, seigia þeir.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad med þvi JEsus er saa riette Naudhiaalpare, Jer. 14. og einn Meistare til ad hiaalpa. Es. 63. þaa skulum vier og i vorum Siwkdome, og i allre annare vorre Naud adhillast hann, og med sannydrande Hiortum standa laangt fraa, i þvi ad þeckia og medkienna vorar Synder og Overdugleika, lijka sem saa ydrande Tollheimtumadur, Luc. 18. Enn þo naalægiast hann med trwadre Bæn, i þvi ad upphefia vorar Radder, og bidia hann ad myskuna oss og hiaalpa.

Hvertu giegnde þaa ſaa nꜳduge JEſus þeſſum aumu lijkþraau Monnum?

Evangeliſten ſeiger: En ſem hann med ſijnu nꜳduga og alvitra Auga leit þaa, ſem annars voru vidurſtyggeleger. aa ad lijta fyrer annara Manna Augum, ſagde han til þeirra: Fare þier, og ſyned ydur Kennemønnunum.

Hvar fyrer viſſar han þeim til Kenne-mannanna?

Fyrſt: bæde til ad reina þeirra Trw og Þolenmæde, hvert þeir villdu gainga burt epter hans Befalningu, aan þeß þeir raadfærdu ſig vid Holld og Blood. Þar nærſt; og ſo til ad giøra Gydinganna Kennemannſkap, ſem en þaa var ei aftekeñ, ſinn tilbærelegañ Heidur, og ad þad ſkyllde ecke ſynaſt, ad hann villde fraa þeim taka þaa Gaafu og Offur, ſem þeir Lijkþraau epter Løgmaalenu voru ſkylldugar fram ad bera, jaa, ad þad ſkyllde vera eiñ kroptugur Vitnisburdur yfer og fyrer þeim um Chriſti Perſonu og Almætte, þegar þeir ſæu ſo ſtoort Krapta-verk, ad tiju Lijkþraaer aa einum Tijma, alleina fyrer Krapt hans Ords, hefdu heilbrigder orded.

Hvad kunnum vier hier af JEſu vorum HErra ad læra?

Þad, ad ſo ſem oß ber almennelega ad

gefa

gefa sierhverium siñ Heidur, og ei misuña honum þeß Gialds og Innkomstar, sem honum tilheyrer, so sem S. Paull seiger; giefed þad hverium sem þier skyllduger erud. Rom. 13. So ber oß og sierdeiles ad heidra þad heilaga Predikunar Embætte, og þeß Þienara, og ecke inne ad halld a þeirra Innkomst og tileinkudum Laun-um, epter þvi sem Syrach talar: Ottast Drotteñ og heidra Prestana, og gief þeim siñ Hluta, sem þier er boded. Syr. 7. Þvi DRotteñ hefur tilskickad, ad þeir sem Evangelium kunngiora, skulu af Evangelio Næringu hafa. 1. Cor. 9.

Verdur ecke eñ nu þeim andlega Lijkþrææu vijsad af JEsu til Keñemañaña, ad þeir skule sig þeim syna?

Sañarlega. Og þar fyrer hefur hañ innsett þad heilaga Predikunar Embætte, og tilsett sijna Þienara og Verkstiornarmeñ a Jordunne. 1. Cor. 4. Og giefed þeim Makt bæde til ad leisa og binda. Matt. 16. Ad fyrergefa og apturhallda Syndunum, og lijka sem hañ vijsade Saul til Ananiam, Act. 9. og Cornelio til Petrum, Act. 10. so vijsar hañ eñ nu øllum voludum Syndurum til sinna Þienara, og Sendeboda, ad þeir medkienne sijnar

Synd-

Synder fyrer þeim, uppa Guds vegna, og auglyse sijna Trw og gott Aform, so þeir kunne fyrer þa fullvisser ad vera um̃ Guds Naad, og fa Syndanna Fyrergiefning.

Urdu þær þeir lijkþrææu læknader af sijne Lijkþrææ.

Ja, Evangelisten seiger: og þad skiede so, þa er þeir geingu þadan̄, ad þeir urdu hreiner.

Hvad sieæum vier hier wt af?

Vors Frelsara storu Giæsku og Almætte, sem kan̄ eins næalægur og fiarlægur, med sijnu kroptugu Orde ad hreinsa og heilbrigda þa, so þad mæ riettelega segiast um þa, sem David sæ Vijse seiger um Jsraels Born, han̄ sende sitt Ord og giorde þa heilbrigda og frelsade þa, so ad þeir lietust ecke Ps. 107. þviad hverke Jurter nie plaastur læknade þa, helldur þitt Ord DRotten̄, sem læknar alla Hlute Sap. 16.

Hveria Huggun kun̄um vier hier wt af ad hafa?

Þad er vor Huggun, ad JEsus er trufastur vid alla þa, sem a han̄ treista Sap. 3. og han̄ er en̄ nu sa same almaattuge Lækner, er græda kan̄ allar vorar Meinsemder. Ps. 103. ei alleina Lijkamans, helldur Sæalarennar i þvi, ad han̄ fyrergefur

gefur oß vorar Synder, þegar vier eptter hans Vilia, Bode og Befalningu gøngum til hans med sannydrande Hiortum, og hans Þienara uppaa hañs vegna, medkiennande og afbidiande vorar Synder.

Hverneñ hegdudu þeir lijkþraau sier, epter þad þeir voru hreiner vordner?

Þar um talar so Gudspiallamadureñ. Eñ eiñ ut af þeim, nær hañ saa þad, ad hañ var hreiñ vordeñ, snere hañ aptur, lofade GUd med hærre Raust, fiell fram̃ aa sijna Asionu fyrer Fætur JEsu, giørande hønum Packer, og þesse var Samverskur.

Hvad sioaum vier hier af?

Bæde eitt stort Opacklætes Epterdæme aa þeim niju Lijkþraau, er so vel voru hreinsader, sem saa Samverske, eñ þeir aalitu ecke riettelega þessa Naad, sem þeim var veitt, nie sneru til baka ad offra sinne Packargiord; þegar Saared var læknad, þaa lijka sem gleimdu þeir Skadanum. So og eitt sierlegt Packlætesens Epterdæme aa þeim Samverska, er ei liet sig afvega leida af þeim niju, til ad gaanga med þeim, aa þeim sama, Opack-

Opacklætes Vege, helldur snere hañ apt'ur og auglyste sitt Þacklæte, bæde i Ord'um, Giorningum og Hegdan.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þetta, ad vier skulum ecke fylgia fiølmentum Hop til Jllgiorda. Ex. 23. og fierdeiles skulum vier fraaskilia oß Þeim vondu og opacklaatu, sem forgleima hans Verkum og Velgiorningum. Ps. 106. og vilia ecke þeckia þad, ad hañ he'fur læknad þaa. Helldur skulum vier offra Gude Þackargiørd, og giallda hin'um Hædsta vor Heit. Ps. 50. breitandi epter Ezechia, þar hañ seiger: DRottenn hiaalpaa þu mier, þaa vilium vier spila nija Lofsaungva, so leinge vier lifum i Huse DRottens. Es. 38 jaa, verum so sin'ader sem David, er seiger: Eg vil med Brenneoffre gaanga i þitt Hus, og giall'da þier miin Heit, lijka so sem eg hefe mijnum Vørum tilupploked, og þad miñ Munnur, hefur talad i minne Anaud. Ps. 66.

Hvad talade þaa JEsus?

Hañ svarade og sagde; hvert vo'ru ecke tiju hreinsader? Eñ hvar eru hiner niju? Fanst eingeñ annar, sa

aptur snere, og giæfe GUDe Dijrdena, nema þesse Utlendingur? þeir voru sem riett skrifud Ziphru-Tala (10) þegar þeir komu til Christum ad bidia um Hiaalpena, eñ nær þeir skylldu snwa aptur til baka og giefa Gude Dijrdena, þaa var Talañ umbreitt og briaalud, so sem þegar 0. settst fyrer framañ 1. þaa merker þad ecke utañ eiñ, þeir hiner niju urdu ad ongvu, og alleinasta saa eine audsynde sig þacklaatañ.

Hvad merkium vier hier af?

Þad, ad JEsus helldur vissañ og rettañ Reikningskap vid oß, hañ veit grant bæde hvad marger ad hafa þeiged hañs Velgiorninga, so og hvad faaer honum hafa riettelega fyrer þaa þackad, þar fyrer laatum oß vara oß, ad vier finnunst ecke med Oþacklætesens Merke, nie tilbyrgium sialfer med þvi hañs Naadar Uppsprettu, edur burtsnwum fraa oß hañs Miskunseme. So almennelegt sem Oþacklæted er, so oþocknañlegt er þad fyrer Gude; þetta þeirra Oþacklæte var JEsu miklu vidurstyggelegra, eñ þeirra Lijkþraa.

Hvad sagde JEsus ad sijdustu til þeß Samverska?

Hañ sagde til hañs: Statt upp

og fær hiedañ, þviad þijn Trw giørde þig hiaalplegañ. So nadugur er hañ, ad hañ tileinkar þad Trunne, sem er hañs eigeñ Almættes Verkan, uppaa þad vier skulum med Diørfung fram fyrer hañ koma, og trwa, ad vier munum þad faa, sem vier i Trwnne rettelega umbidium, þvi þeim eru aller Hluter møguleger sem trwa. Marc. 9. Vier skulum andvarpa med Fodur þeß Tunglsiwka, og segia: HErra, vier trwum, eñ hiaalpa þu vorre veikre Trw, og med Lære-sveinunum: DRotteñ, auk þu oß Trwna. Þitt Nafn, o JEsu, vere lofad og prijsad eilijflega. Amen.

# Fimtanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Mattheus i 6. Cap. Ï hañ Tijma. JEsus sagde til sinna Lære-sveina: Eingeñ kañ tveimur HErrum i señ ad þioona. Annadhvert hañ afræker þañ eina, og elskar hiñ annañ, eda hañ þijdest þañ eina, og fyrerlætur hiñ annañ. Eige giete þier Gude þioonad og þeim Raanglætes

Mañ-

Mamona. Þar fyrer seige eg ydur; Vered eige hugsiwker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta og drecka, og eige helldur fyrer ydrum Lijkama, hveriu þier skulud klædast, eda er ecke Lijfed meira eñ Fædslañ, og Lijkameñ meire eñ Klædnadureñ. Lijted aa Fugla Himens, þeir ed hverke saa nie uppskiera, og ecke helldur safna þeir i Kornhlødur, og saa hiñ himneske Fadereñ, hañ fæder þaa. Eda erud þier ecke miklu framar eñ þeir? Eñ hver ydar hietur med siñe Ahiggiu auked eiñre Alen vid sijna Leingd? og hvar til erud þier hugsiwker fyrer Klædnadenum? Higged ad Akursens Liliugrøsum, hverneñ þau vaxa, þau vinna ecke nie spinna, eñ eg seige ydur, þad Salomon i allre siñne Dijrd var eige so skrijddur sem eitt af þeim. Og ef GUD prijder so Grased, þad sem i Dag er aa Akre, og aa Morgun verdur i Ofn kastad, skyllde hañ ecke miklu framar þad sama vid ydur giøra, o þier Lijteltrwader? Þar fyrer skulu þier ecke hugsiwker vera, so segiande: hvad eigum vier þa eta, eda hvad

eigum vier ad drecka, eda med hver-iu eigum vier ad klædast? Þviad epter þessu øllu leita Heidnar Þiooder. Og ydar himneskur Fader hañ veit þad þier þurfed alls þessa vid. Þar fyrer leited fyrst Guds Rijkes og hañs Rettlætes, og mun ydur allt þetta tilleggiast. Fyrer þvi skulud þier ecke Umhiggiu bera fyrer Morgun-deg-enum, þviad Morgundagureñ mun fyrer sialfum sier Umhiggiu bera, hverium Dege næger sijn Þiaaning.

Hvad hefur þetta Gudspiall inne ad hallda?

Fyrst; Christi Raadlegging, ad varast eina otilbærelega Mamons Þionustu og Heidinglega Bwksorg. Þar næst; hañs Raadlegging ad stunda eina sanna Gud-hrædslu og hafa Umhiggiu fyrer Saaluñe.

Hvad afrædur hañ oß?

Fyrst, eina otilbærelega Mammons Þionustu, sem siaa maa af þeim Ordum, er hañ hier framsetur, bæde i eiñre al-mennelegre Reglu, segiande: Eingeñ kañ tveimur Herrum i señ ad þiona, añad-hvert hañ afræker þañ eina, og elskar hiñ annañ, eda hañ þijdest þañ eina, og fyrerlætur hiñ annañ: Þessa Reglu heim-

heimfærer hañ til nærverande Efnes, eige giete þier Gude þionad og þeim Rauanglætes Mamona.

Uñ hveria Herra edur Drottna æ þesse Christi Regla ad skiliast?

Ecke uñ lijka og eins sinnada Herra, hverra Befalning ei er hver æ mote añare, þvi i þeirre Meiningu kañ eiñ Undersaate bæde ad þioona sijnum Gllde og sijnu Yfervallde under eins, ad gefa þad Gude hvad Guds er, og þad Keisaranum hvad Keisarans er. Matt. 22. Þanneñ kañ eiñ Þienare under eins bæde ad þiona þeim hædsta HErra i Himnenum, so og sijnum lijkamlegum Herra æ Jordunne. Eph. 6. Þanneñ kañ eiñ under eins bæde ad þiona Kongenum, sem sijnum Yferherra, og lijka einum odrum jardneskum Herra. Þiñ Þienare giætte Hiardar Fødur sins, sagde David fordum til Sauls. 1. Sam. 17. Þanneñ kunne Jacob under eins bæde ad þiona Gude og Laban. Eñ þetta æ ad skiliast uñ þaa Herra, sem eru ølldunges mootstrijdande og gagnstædeleger hver ødrum i sijnu Siñe og Vilia, hverra Befalningar eru hver æ moote añare; so sem ad voru Saul og David, Ro-

boam og Jeroboam, þañ Tijd sem Strijd og Styriolld var a mille þeirra; Gud og Baal; eins lijka hier, Gud og Mammon, þvi þad er omøgulegt, ad þioona þeim bædum, med Trw og Hollustu under eins: Sa sem ecke vill vera eiñ Trwar Nijdingur og Hræsnare, hañ maa annadhvert af rækia hañ eina, og elska hiñ annañ, eda adþijdast hañ eina, og fyrerlijta hinn annañ. Eige giete þier Gude þioonad og þeim Rangslætes Mamona.

**Hvad fyrer eitt Ord er Mamon? og hvad þijder þad?**

Þad er epter Meining þeirra Lærdu eitt Syrlendskt Ord, og merker so miked sem yferfliootannlegt Goß og Rijkdom.

**Kañ Madur ecke under eins þiona Gude og Mamon?**

Ney, þad er framar omøgulegt, eñ under eins ad lijta þvi eina Auga upp til Himens, og ad horfa med þvi ødru ofañ a Jordena. Madur kañ ad sonnu under eins ad hafa Gud i sijnu Hiarta, og Rijkdom i sinne Eigu. Abraham, David og adrer hafa vered rijker af Gotse, þeir hafa og vered rijker i GUde, eñ ad þiona Gude og Mammon under eins, ad elska, adhyllast og hnijga ad þeim bædum, þad er omøgulegt.

**Hvar fyrer er þad omøgulegt?**

Fyrst;

Fyrst; fyrer þad Gud vill alleina elsk-
ast af oß, hañ vill ecke giefa neinum sijna
Dijrd. Es. 42. Hañ vill ecke, ad vier set-
jum vor Hiortu til nockurs annars, eñ til
sijn alleina. Þar fyrer ef vier þioonum
Mamon, og setium vor Hiortu til hañs, þaa
rænum vier Gud sinne Dijrd, og þioonum
honum ecke med riettskickudu Hiarta. Þar
næst; er Gud og Mamon olijker Herrar,
og strijder hver aa mote odrum, hvad saa ei-
ne vill aafram hafa, þad vill hiñ añar hafa
til baka; hvad saa eine bijdur, þad bannar
hiñ annar. Gud befalar, ad Madur skule
af sijnu Gotse og Formegan giefa nockud
Gude til Dijrdar. Eñ Mamon seiger þar
þvert aa mote, til hvers er þesse Spilling.
Matt. 26. Gud bijdur, ad Madur skule af
sijnu Gotse sedia þaa Hungrudu og klæda
þaa Noktu. Es. 58. Eñ Mamon bijdur
þar þvert aa mote, ad Madur skule aptur-
loka bæde Hond og Hiarta fyrer þeim
Naudstoddu, laata þaa sialfa annast sig
og sedia; Eñ laata sijnar Epterleifar epter
hiaa sijnum Nydium. Ps. 17. vilie Gud ad
Madur af sijnu Gotse giore sier sialfum
gott, þaa bannar Mammon þad, og giefur
sijnum Eignar-manne hverke Makt til ad

eta nie drecka. Eccl. 6. Hverneñ skyllde Madur kunna ad þiona þessum tveimur og iñbyrdes mootstædelegum Herrum baadum under eins, Gude og Mam̃on?

Hvern Lærdom skulum vier oß ad sijdustu hier wt af draga?

Þad seiger oß David, so talande: Vilie ydur Rijkdomur til, þaa fested ecke Hiartad þar vid. Ps. 62. Eiñeñ seiger S. Paall: Rijkum þessarar Verralldar biood þu, ad þeir sieu ecke mikelaater, og legge eingva Von uppaa þañ fallvallta Riijkdom, helldur uppaa lifanda Gud. 1. Tim. 6. Vier meigum ad sönnu eiga Mam̃on, eñ ei laata hañ eiga oß; Ecke þioona hönum, helldur laata hañ þiona oß. Hañ er sem Madur plagar ad segia um Elldeñ, eiñ godur og nytsamur Þienare; Eñ eiñ slæmur og skadlegur Herra.

Hvad fyrerbijdur JEsus eñ framar?

Eina otilheyrelega Bukßorg og Ahiggiu fyrer þessa Liifs Næringu: Þar fyrer seige eg ydur, seiger hañ, vered eige hugsiwker fyrer ydru Liife, hvad þier skulud eta og drecka, og eige helldur fyrer ydrum Lijkama, hveriu þier skulud klædast.

Fyrerbijdur hañ hier alla Um̃higgiu fyrer þvi jardnesska og tijmañlega?

Nei,

Nei, ongvañveigeñ, þvi þad er ſw Umhiggia, ſem er naudſynleg og tilbæreleg, ad Meñ leite og neyte ſijns Brauds i ſijns Andlites Sveita. Gen. 3. Ad þeir erfide med Spaklæte, og ete ſitt eiged Braud. 2. Theſſ. 3. Og forſorge ſig og ſijna. 1. Tim. 5. Helldur fyrerbijdur hañ hier otierlega og heidinglega Bukſorg, blandada med Vantrw og Efaſeme um GUds fodurlega Forſorgun, hvar med Madur plagar og kvelur ſig forgiefens, ſo ſem þeir ed ſneiña uppſtanda, og þar epter leinge ſitia, og eta ſitt Braud med Hrigd. Pſ. 127. og ſpyria ſem Heidingiarner: Hvad eigum vier ad eta, og hvad eigum vier ad drecka, ſo ſem Chriſtur ſiælfur ſijdarbeſt wtleggur ſijn Ord.

**Hvar fyrer ſkulum vier læra þvilijka otierlega Umhiggiu hiaa lijda?**

Þad ſkulum vier giora, fyrer þad hun er otilbæreleg, med þvi vier høfum nooga Bevijſing uppaa Guds Umhiggiu og Forſorgun, bæde hiaa ſiælfum oß, ſo og hiaa ødrum Skepnum, ſo ſem hiaa Fuglunum under Himnenum og Liliu-groſunum aa Akrenum.

**Hveria Bevijſing høfum vier þar uppaa i og hiaa ſiælfum oß?**

Þar um̃ talar JEsus so; Er ecke Lijfed meira eñ Fædslañ/og Lijkameñ meire eñ Klædnadureñ? sem villde hañ segia: Hafe Gud giefed þad meira, þvi skyllde hañ þaa ecke giefa þad minna? Hafe hañ giefed ydur Lijf og Anda. Act. 17. þvi skyllde hañ þaa ecke giefa ydur ydar Deildañ Verd til ad hallda Lijfenu vid Lijkamañ? So leinge sem hañ vill ad Lampe ydar Lijfs skule loga, þaa mun hañ sialfur til hans Vidsmiøred edur Oleum gefa. Hafe hañ smijdad ydar Lijkame, og giefed ydur þaa, og giort þad allt samañ, hvad þier erud allt um kring. Job.10. skyllde hañ þaa ecke gefa ydur Klæde til ad skijla med Lijkamañum/sem eru miklu miñe Hættar eñ Lijfed?

Hveria Bevijsing kunnum vier ad siaa hiaa Fuglunum uppaa Guds Forsorgun?

Þad kienner Frelsareñ oß eñ framar segiande: Lijted til Fugla Himensens; Ei alleinasta til þeirra smaau Titlinga, helldur og Hrafnanna og annara grædugra Fugla, Luc.12. þeir saa hverke nie uppskiera, og ecke helldur safna þeir i Kornhlødur (hiaa Lucam stendur so skrifad: Eige hafa þeir Hlødu nie Kiallara) þo fæder saa himneske Fadereñ,

nefn-

nefnelega ydar Fader, eñ einasta þeirra Skapare) þaa sem aadur, nær hañ giefur þeim, þaa samañsafna þeir, nær hañ upplijkur sinne Hende, þaa verda þeir med godu sadder. Ps. 104. Jaa, þeir metta sig vid hañs Bord. Ezech. 39. og þar ed margur tameñ Fugl deyr i Fugla Burenu fyrer Mannanna Forsomun, sem þaa skulu rækta og vakta, þaa deyr eingeñ wte aa Mørkeñe af Hungre, af þeim sem Gud forsorgar.

Vill hañ, ad vier skulum læra þetta oß til Hiarta gaanga?

Jaa, hañ vijsar oß lijka sem Job til Fugla Himensens, ad þeir skule vera vorer Læremeistarar. Job. 12. Eda erud þier ecke miklu framar eñ þeir? sem hañ villde segia: Hafe Gud so Umhiggiu fyrer þeim skynlausu Skiepnum Fuglunum under Himnenum, er ei kunna fyrer sier Umhiggiu ad hafa, þvi skyllde hañ þaa ecke miklu framar bera Umhiggiu fyrer ydur, sem erud skynsemdarfullar Manneskiur, skapadar epter hañs Mind, hveriuni hañ hefur gefed Forstand, Medøl og Maata til ad erfida, og fyrer hañs fødurlegu Forsioon ad leita ydur Brauds.

Hvorneñ vijsar hañ þeim ad sijdustu til Liliugrasanna

anna ꝛc Akrenum, og ad þeir skule af þeim siaa og þeckia Guds Fyrersioon?

So seiger hañ: Og hvar til eru þier hugsiwker, sem Heidingiar fyrer Klædnadenum? higged ad Akursens Liliugrøsum (ecke alleinasta ad þeim, sem plontud eru i Alldengørdunum, og eru ræktud af Mannanna Høndum) hverneñ þau vaxa, þau vinna ecke nie spinna, so sem Mennerner giora ad tilbwa sier Klæde; Eñ eg sege ydur, þad Salomon, sem var saa vijsaste og rijkaste Kongur, jafnvel þo hañs Prakt og Skart være skrautlegt, þaa var hañ þo eige i allre sinne Dijrd so skrijddur, sem eitt af þeim, þvi hañs Klæde voru sem annara Manna einneñ ad Laane af ødrum Skepnum: Eñ Grasanna eru þeirra eigeñ, sem þau eru skøpud med, og hvad vel sem Mañaña Konst kañ ad giora kostuleg og prijdeleg Klæde, og þad frekast verdur, breita epter Natturuñe, so kañ þo eingeñ Maalare, edur forfareñ Meistare, med sinne Konst ad giora epter Lilianna og Blomstraña føgrum og prijdelegum Farva fullkomlega.

Hverneñ vill hañ, ad vier skulum fæꝛa oß þetta til Epterþeinkingar?

Med

Med þessu þar hañ seger: Og ef Gud prijder so Grased, þad sem i Dag er a Akre og a Morgun, þad er, inañ lijtels Tijma, verdur i Ofn kastad; þviad hversu prijdelegt sem þad synest standande a Akrenum, so er þad þo ei annad eñ Gras, er fliotlega verdur uppþøggved og nidurtroded, edur þad fellur hastarlega og visnar; Hvar fyrer og Meñnerner, epter þessa lijfs Ostødugleika og Breiskleika, lijkiast vid Gras og Blomstur. Ps. 37. Skyllde hañ ecke miklu framar klæda ydur, þar þier erud skynsemdarfullar Skepnur og hañs Børn, o þier lijteltruader! sem ecke vilied forlaata ydur i þessu uppa hañs fødurlega Fyrersioon, og kasta allre ydar Ahiggiu uppa hañ. Ps. 55.

Hver er eñ framar Ordsøk þar til, ad vier skulum laata þa otierlegu Ahiggiu fara?

Þar til er su Ordsøk, ad fyrer þad hun er faavijsleg og onytsamleg, þa seiger Christur; eñ hver ydar getur med sinne Ahiggiu auked einñre Alen vid sijna Leingd? og hvar til eru þier hugsiwkter fyrer Klædnadenum. GUd alleina rædur vorre Hæd, hvort sem vier skulum vera haaer sem Eliab, edur smaavaxner

varner sem Zacheus, og so sem vier med allre vorre Ahiggiu kunnum hverke til ad leggia, edur af vorum Vexte ad taka, so kunnum vier og med allre vorre Hugsijke, ecke ad giora oß rijkare eñ GUd vill; med onytsamlegre Ahiggiu kunnum vier ad sonnu ad plaaga og pijna vort Hofud, Heila og Hiarta, eñ hverke kunnum vier þar med ad fylla vorn Pung, eige helldur vor Matarhus.

Hver er sw sijdasta Ordsok, hvar fyrer Christur fyrerbijdur þaa otierlegu Buksorg?

Fyrer þad hun er ochristeleg og heidingleg. þar fyrer skulud þier ecke hugsiuker vera so segiande: Hvad eigum vier ad eta? eda hvad eigum vier ad drecka? eda med hveriu eigum vier ad klædast? þviad epter þessu øllu leita heidnar Þioder, sem ecke vita af GUde edur hans Forsion ad segia. Ef ad þier, sem vilied heita og vera GUds Born, skulud þad sama giora, þaa lijtur þad miog illa wt fyrer ydur; helldst fyrer þad, ad ydar himneskur Fader ær hvern þier trwed, og hvern þier tilbidied; Hver, sem eiñ Fader vill, og sem eirn himneskur Fader kañ, ad giefa ydur

ur allt þad, sem ydur er naudsynlegt, hañ veit ad þier þurfed alls þessa vid, og þar fyrer vill hañ og hafa Umhiggiu fyrer ydur, og giefa ydur þad; so sem god Børn giøra þad, sem þeirra Foreldrar befala þeim, og a medañ laata þau þaa hafa Umhiggiu fyrer sier. So skulu þier og giøra, vill hañ segia, epter þvi sem ydar himneskur Fader befalar ydur, nefnelega, ad bidia trwlega, erfida kostgiæfelega, og laata hañ i øllu hafa Umhiggiu fyrer ydur.

Hvad er þad, sem Frelsareñ vill ad vier skulum epterleita?

Hañ vill ad vier skulum leita Guds Rijkes og hañs Riettlætes.

Hvad vill hañ skiliast laata fyrer GUds Rijke?

Ei alleinasta hans Naadar Rijke hier a Jordunne, helldur og hans Dijrdar Rijke a Himnenum.

Hvad skilst fyrer GUds Rettlæte?

Sierdeileslega þad tilreiknada JEsu Christi Rettlæte, sem GUd af siñe Naad skeinker oß fyrer Christum (Rom. 3.) hvert og alleina er þad Rettlæte, sem fyrer Gude duger (Rom. 1.) og þar fyrer kallast GUds Rettlæte (Rom. 1.) og fyrer

þad

þad vier med Trwnne skulum umfadma og tileinka oß þad, þar kallast þad og Trwarinnar Rettlæte (Rom. 4.) þar næst; at hier ad skiliast þad uppbyriada Rettlæte, ad vier sem riettferdug GUds Børn umflijum Synd og Orettlæte, af fremsta Megne; Eñ leggium kapp at, ad uppfyllast med Avextum Rettlætesens, sem kañ adskie fyrer JEsum Christum til Dijrdar og Lofs Gude. Phil. 1.

Hverneñ skulum vier leita GUds Rijkes og hañs Rettlætes?

Med sierlegre Kostgiæfne og Astundan, sem Kaupmadureñ ad þeirre godu Perlu (Matt. 13.) i þvi ad vier med Postulanum Paale gleimum þvi, sem til baka er, og drøgum oß ad þvi, sem i fyrer er, skundande ad þvi uppsetta Takmarke, epter þvi Hnosse, þeirrar GUds Køllunar, sem þar uppe er, i Christo JEsu. Phil. 3. og þad sierdeileslega fyrst og fremst yfer alla Hlute fram, so sem þad, ed einasta er naudsynlegt. Luc. 10.

Hvert tilleggur JEsus nockurt Fyrerheit þessare siñe Befalningu?

Jaa, hañ seiger, og mun ydur allt þetta, nefnelega þad lijkamlega, og jardneska

neska tilleggiast, giefast sem ein Tilgiøf, þvi þeir sem leita Drottens munu aungvañ Skort hafa ad neinu godu Ps. 34. og Gudrækneñ er til allra Hluta nytsamleg 1. Tim. 4.

Med hveriu endar hañ ad sijdustu Textañ?

Med einñre aptur itrekadre Raadleggingu, ad fordast otierlega Bwksorg, fyrer þvi skulud þier ei Umhiggiu bera, med einñre faavijslegre og Heidinglegre Buksorg, fyrer Morgun Degenum, þad er, fyrer þeirre okomnu Tijd, sem þier erud ovisser um hvert hana munud lifa; þviad Morgundagureñ, þad er, Meñerner, sem lifa og naa þeim Dege og Tijma, munu fyrer siaalfum sier Umhiggiu bera, og þaa finna noog ad hafa Umhiggiu fyrer, þo þeir þiaae sig ecke med onaudsynlegre Ahiggiu fyrer Tijmañ, hverium Dege næger sijn Þiaaning. So Madur hefur ecke Þørf fyrer ad auka hana med einñre onytsamlegre Ahiggiu fyrer þvi epterkomanda. Þad mætte vera eiñ faavijs Madur, sem bære eina þwnga Byrde, og giørde sig vanhiegna med þvi ad bera hana i marga Daga fyrer Tijmañ. So er þad ecke helldur minne Faviska, fyrer hañ sem vill plaaga

sig med Umhiggiu og Ahiggiu fyrer okom̃enã TijmaByrdum og Piaaningum: KomeDagureñ, so verdur Piaaningeñ ecke epter; kome Piaaningeñ, so kemur og Guds Hialp og Naad, sem er ny og fersk aa hverium Morgne, hañ veit best, hverneñ hañ vill þessu nidurrada. O ad vier villdum þar fyrer einasta forlaata oß uppaa hañ! og breita epter Postulans Raadleggingu, þar hañ so bijdur: Ydart Framferde sie fyrer utañ Agyrne, og laated ydur þad nægia sem i naand er, þviad hañ hefur sagt, eg vil aungvañveigeñ sleppa minne Hende af þier, og ecke yfergefa þig. Heb. 13. Gud gefe oß sin̄ Anda og Naad, og leide oß til eilijfs Lijfs fyrer JEsum Christum. Amen.

# Sextanda Sun̄udag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Lucas 17. Cap.

I þañ Tijma. Og þad skiede so, epter þad ad JEsus geck til þeirrar Borgar, sem kallast Naim, og hañs Lære-sveinar geingu marger med hønum, og mikell Siøllde annars Folks.

þat er hañ took ad nælgast Borgar-hlided, siaa þu, þad frañlideñ Madur var boreñ wt, einka Sonur sinnar Modur, og hun var Eckia, og mikell Siøllde Borgar-manna geck wt med henne, eñ þaa er DRotteñ leit hana, hrærdest hañ af Miskun yfer henne, og sagde til hennar: Græt þu eige, og hañ geck þar ad, og aahrærde Børurnar. Eñ þeir sem bæru stodu vid, og hañ sagde: Þu Ungmenne, eg sege þier, riis þu upp, og saa reis upp sem frañlideñ var, og tok til ad mæla, og hañ gaf hañ aptur sinne Modur. Eñ aller urdu ottaslegner, lofudu GUD og søgdu. Spaamadur mikell er aa medal vor uppriseñ, og GUD hefur vitiad siins Folks. Og þesse Saga barst ut af hønum, um allt Gydingaland, og um øll kringumliggiande Herød.

Hvad marger Partar eru adgiætande i þessu Evangelio?

Tveir, fyrst Christi Kraptaverk, ad hañ uppvakte Eckiunnar Son af Naim. þar næst; hañs Kraptaverks Verkan hiaa þeim, sem þad saau og heyrdu. J

þeim fyrra siaaum vier JEsu Giæsku og Almætte: J þeim siidare Folksens Lofgiord og Packlæte.

A hverium Tijma skede þetta, sem Gudspialla-mad' ureñ umgetur?

Þar um hlioodar so Texteñ: Og þad skede so epter þad, þad er, epter þad hañ hafde giort heilbrigdañ Hundrads-Hof' dingians Þienara til Capernaum, ad JE' sus gieck til þeirrar Borgar, sem kall' ast Nain.

Hvad siaaum vier hier af?

Vors Frelsara storu Giæsku, ad hañs eina undarlega Verk og Velgiorningur fylger ødrum epter, hañ gieck um kring/ giorde gott og græddde alla. Act. 10. Hañ hafde valla med einu Orde uppreist Hundrads-Hofdingians alvisna Þienara af sinne Sæng, þegar hañ geingur og til Nain, til ad uppvekia Eckiuñar framlideñ Son aa Lijk-borunum.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad giora øllum gott og ecki þreitast, Gal. 6. aa medañ vier umgøng' unst i þessum Heime, jaa i þessum Naud' anna og Daudans-Dal.

Hvad fyrer eiñ Stadur var Naim, sem JEsus gieck til?

Þad

Þad var eiñ liitell Stadur i Galilea, ecke læangt fraa Capernaum, sem laa fyrer nedañ FialledHermon, vid Fialled Tabor; þesse Stadur var miøg priidelegur, edur i priidelegu og lystelegu Takmarke; hvar af hañ droo sitt Nafn; Eñ hversu føgur og lysteleg sem þesse Borg var, samt kunne Sorg og Daude ecke fraa henne ad wtelyktast, so þau giørdu hana sorgfulla og olistuga.

Hvad merkium vier hier af?

Þetta, ad eingeñ Stadur i Verølldeñe er so priidelegur og þægelegur, ad Neyd og Daude Syndanna vegna kunne sier þar ecke iñ ad þreingia. Veralldarennar Glede og Unadsemd eru sem Lundur edur GraskarJonæSpaamans, þegar þad voox og bloomgadest allra mest, kom Ormureñ og stack þad, so þad uppþornade. Jon. 4.

Fylgdu nockrer JEsu, þaa hañ gieck til Naim?

Jaa: hañs Lære-sveinar geingu marger med hønum, og mikell Fiølldе annars Folks, hvert hañ hafde i Ferd med sier, so hañs Kraptaverk yrde þeß augliooſara. Hañ hafde aadur lаated þaa siaa Huggun aa mote adskiliañlegre Neyd og Siwkdome, nu vill hañ og syna þeim

Huggun a mote Daudanum: hañ vill kenna þeim bæde hveria Makt Daudenn Syndanna vegna hefur yfer Mønnunum, so og hveria Yfermakt hañ hefur yfer Daudanum.

Hvern Lærdom kunnum vier oß hier wt af ad draga?

Þennañ, ad vier skulum med Læresveinunum og Folkenu kostgiæfelega fylgia vorum JEsu, so vel nær hañ leider oß til Sorgar-hwßens, sem til Glede Hwßens. Eccl. 7. Og daglega med gudrækelegum Þønkum, hyxa um̃ vora Eymd, Siwkdom og Dauda, þo skulum vier i øllum Hlutum hugga oß þar vid, ad vier i hønum høfum eiñ Gud, sem hiaalpar, og þañ DRotteñ, Drotteñ, hiaa hverium eñ þaa er Utgangur fraa Daudanum. Ps. 68.

Hvad mætte JEsu þegar hañ kom til Naim?

Þad seiger oß Texteñ, þar so stendur: Þaa er hañ took ad Naalgast Borgarhlided, sia þu, þad framlideñ Madur var boreñ wt. So ad hier lijka sem mæter hvert ødru Lijfed og Daudeñ i Naims Borgar-Hlide; lijka sem Gydingarner hielldu Rett og Dom i Borgar-hlidunum, So helldur og Christur hier i Borgar-hlidenu Nain, lijka sem standande Rett yfer Daudanum og svipter hañ sinne Makt.

Hvad fyrer eiñ var sꝏ framlidne Madur?

Þad var ein ung Persona, edur Ungmenne, so sem JEsus sijdar i Textanum kallar hañ ꝏ sijnum besta Alldre, og i sijnum Blooma af Daudanum nidurfelldur og umkollkastadur. Hañ var einka Sonur sinnar Modur, hennar einasta Lioos, 2. Sam. 14. Huggun og Glede, og hun var Eckia, ein harmþrungeñ og sorgfull Kvinna yfer Dauda sijns Mañs, eñ nu er hennar Sꝏr aptur upprifed, og hennar Sorg endurnijud, þar hun mꝏ harma yfer sijnum einka Syne og hañ syrgia. Jer. 6. Jꝏ hun mꝏ grꝏta yfer einum einka Syne, og hriggia sig yfer einu frumgietnu Barne. Zach. 12.

Hvad siꝏum vier hier wt af?

Vier siꝏum þꝏ mikluMakt, sem Daudeñ Syndanna vegna hefur yfer Manneskiunum, hañ vofer edur hꝏnger ætijd yfer þeim, hañ hlijfer hverke Ætt, Stande nie Alldre; Abraham mꝏ so vel deya sem Sara. David, sem var eiñ Kongur, mꝏ og gꝏnga Veg allrar Veralldar; og Daudeñ yferfiell so vel Davids nijfædda Son, sem þañ gamla Methusalem. Gen. 5. Jꝏ, so sem af Trenu falla fleire Blød og ofullvaxner

varner Avexter, helldur eñ þeir sem full-varner eru og komner til fullrar Frioof-gunar, so eru þær Manneskiur fleire, hver-ium burtrykt verdur af þeirra vngu og blomlegu Arum, eñ þær sem komast til Alldurdoms og deya saddar af Lijfdogum. Þar nærst; siaum vier, hverneñ GUD breiter hier vid sijn Born, hañ leggur ski-alldañ eiñ Kroß uppa þau, og lætur so þar vid blijfa, helldur leggur hañ þeim opt Sorg ofañ a Sorg, þar til þau eru mædd af Stune, og finna aungva Hvijlld. Jer. 45. so hañ hugge þau uñ sijder og endurnære.

Voru nockrer i Ferd med þessare sorgfullu Eckiu?

Ja, Evangelisteñ seiger: Og mikell Fiølldi Borgarmaña geck wt med hen-ne, so sem Sidur var til hia Gydinga Folke, ad þeir jørdudu sijna Daudu utañ Borgar; so verdur og þesse hiñ Daude af Stadnum wtboreñ, og margt Folk fylgde Lijkenu ept-er, bæde i þeirre Meiningu ad giøra þeim Dauda þañ sijdasta Heidur, so og til ad la-ta sia sijna Medaumkun yfer þeirre sorg-fullu Modur, sem eñ nu epterlifde.

Hver Lærdomur kañ hier wt af ad fliota?

Þesse, ad vier skulum ei alleinasta veita þeim Daudu eina ærlega Greftran. Syr.

38.

38. Helldur og einnen hafa Medaumkun med þeim Sorgfullu, sem epterlifa; og grææta med Grææntendum. Rom. 12. Med þvi eina skulum vier auglysa vora Trw um Upprisu þeirra Daudu, med þvi odru vorn Kiærleika og Miskunseme, bæde vid þaa Lifendu og þaa Framlidnu. Ruth. 2.

Hvad giørde þaa sæ milde JEsus vid þaa sorgfullu Kvinnu?

Þar um talar Gudspialla-madurenn þannenn: Og er DRottenn, sem er sæ rette Drottenn og HErra yfer Lijfe og Dauda, leit hana, hrærdest hann Miskunar yfer henne, og sagde til hennar: Grææt þu eige. Hier siææum vier, ad aller Hluter hiææ þeim nææduga Frelsara samstemdu hver med odrum i einnre innelegre Medaumkun; Med Augunum sææ hann bæde hennar wtvortes og innvortes Sorg, hanns Hiarta hrærdest Miskunar yfer hennar Neyd, med sijnum Munne og Tungu talade hann huggunarsamlega til hennar, og sagde: Grææt þu eige.

Hveria Huggun kunnum vier oss hier wt af ad draga?

Þad er oss ein yfer Mææta stoor Huggun, ad vier vitum og trwum, ad vor HErra JEsus Christur hefur ei alleinasta allt siææ-

ande Auga, so ad hañ burtsnijr ecke sijnum Augum fraa Rettferdugum. Job. 36. helldur lijta þau aa þaa, sem hañ ottast, þaa sem vona uppaa hañs Miskunseme. Ps. 33. Jaa, hañ lijtur grant til þeirra Eymda, so sem hañ leit fordum til sijns Folks i Egyptalande. Exod. 3. helldur hefur hañ og eitt miskunarsamt Hiarta, hvert af Medaumkun sundurbraadnar. Jer. 31. Jaa, eiñ huggunarfullañ Muñ og Tungu, so hañ kañ ecke ad þeigia yfer þeirra Graate, helldur hlijtur hañ ad hugsvala, lijka so sem þad ein Moder hugsvalar einum. Es. 66.

Hvad skulum vier læra af hañs Eptirdæme?

Þad, ad hafa Medaumkun yfer vorum aumum og sorgfullum Naaunga, ei alleinasta lijta til hañs Neydar og Angistar, helldur skulum vier og laata hana innelega oß til Hiarta gaanga, og tala huggunarsamlega til þeß Sorgfulla, þeinkiande ad vinsamleg Ræda er Hunangseimur, sem er sæt fyrer Saalena, og ein Lækning fyrer Lijkamañ. Prov. 16.

Eñ hvar af kemur þad, ad JEsus fyrerbijdur henne ad graata? hafde hun ecke nooga Ordsök til ad graata, þar hun hafde aadur mist siñ Mañ, eñ nu siñ einka Son?

Vier

Vier skulum ecke þeinkia, ad JEsus hafe olldunges bannad henne edur ødrum ad grꝏta yfer sinna Vina Dauda og Burtfor, þvi hañ veit vel, ad vor Kraptur er þo ecke af Steinum, edur vort Holld af Kopar. Ad vier kunnum ecke ꝏn þeß ad vera, ad hriggiast vid Skilnad vorra kiæru Astvina; Sorg og Grꝏtur er ecke olldunges fyrerbodeñ, yfer vorum kiærum burtsofnudum Vinum. Þvi epter Daudañ Mañ plaga Meñ ad syrgia, þar hañ hefur ecke Liooſed leingur, seiger Syrach Cap. 22. Þeir heilögu Forfedur hafa grꝏted sijna Burtsofnudu, so sem Abraham, Joseph og adrer fleire, jꝏ JEsus griet siꝏlfur vid Grøf sijns Vinar Lazari. Joh. 11. Eñ hañ bañar hier ofmikla Sorg og oþoleñmodlegañ Grꝏt: Vier meigum ad sønnu vera hriggver og sorga, eñ ecke so sem Heidingiar, er eingva Von hafa. 1. Theſſ. 4.

Liet hañ þꝏ þar vid blijfa, ad hañ hrærdest Miskunar yfer heñe, og talade vingiarnlega til heñar?

Nei, helldur auglyste hañ i Verkunum sijna Miskun og Almætte i þvi, ad hañ geck þar ad, og ꝏhrærde Børurnar, eñ þeir sem bꝏru, stoodu vid, til ad siꝏ hvad hañ villde giøra.

Hverneñ kunnum vier ad heimfæra þetta oß til Huggunar?

Þad er oß stoor Huggun, ad þegar Mennerner gaanga laangt frá oß, so saa Neydlijdande maa klaga med David, og segia: Mijner Viner og Kunningiar standa i gegn mier, og horfa aa mijna Pijnu, og mijner Naaungar gaanga laangt i burt. Ps. 38. og þad þeß vegna, ad þaa vantar añadhvert Efne, edur Vilia til ad hiaalpa oß, þaa vill JEsus gaanga til vor med sijna Hiaalp og Adstod og hiaa oß vera i Neyd og Dauda. Ps. 91.

Kunnum vier og ad læra nockud hier af?

Jaa, þad er ecke nog, þo vier siaaum vors Naaunga Neyd, aumkunst yfer honum, og tølum vinsamlega til hans helldur skulum vier og med Raad og Daad, gaanga til hans i Neydenne, og þad mesta møgulegt er honum hiaalpa 1. Joh. 3.

Hverneñ uppvakte JEsus ad sijdustu þañ dauda?

Hañ talade til þeß dauda og sagde: Þu Ungmeñe, eg seige þier rijs þu upp, i stadeñ fyrer þad, ad þeir heilogu Spaameñ og Postular, sem fyrer Gllds Krapt hafa uppvaked þaa daudu, hafa giort

þad

þad med Bæn, Akollun og Utbreidslu sijns Lijkama yfer þaa daudu, sem og ødrum Ceremonium 1. Reg. 17. þaa hefur hañ alleinasta med einu Befalningar Orde uppvakt þaa daudu, so sem hier Ekkiunnar Son, Dottur Jairi og Lazarum.

Hvad hefur hañ hier med viliad syna oß?

Þad, ad hañ sie sa rette DRottēn yfer lifendum og daudum Rom. 14. yfer Lijfenu og Daudanum, er bæde kañ ad lata Mennena i burt deya, og aptur ad segia, komed aptur þier Mannanna Børn. Ps. 90.

Stod saa Daude þaa upp epter Christi Befalningu?

Jaa, saa reis upp sem frammlidēn var, og took til ad mæla, til eins Teikns, ad hañ vissulega være lifande aptur orden og hañ gaf hañ aptur sinne Modur og huggade hana, og lijka sem giorde hennar Hiarta lifande aptur.

Hvad sioaum vier hier wt af?

Vors Frelsara JEsu Almættes Ords Krapt, med hveriu hañ giorde þañ dauda lifande.

Hvar til skal þetta þiena oß?

Oß til Truar Styrkingar um Upprisu vorra

vorra Lijkama, ad þeir a þeim sijdasta Dege fyrer hans almattugu Raust skulu upprijsa, þvi so seiger S. Paall, Drotten sialfur mun med Hrope og Hofud Eingelsens Raust og GUds Ludre ofan koma af Himnum, og hiner daudu i Christo munu fyrst upp aptur rijsa 1. Tess. 4. so og skal þetta þena oß til Huggunar um vorra Vina Dauda, þvi þo vier missum þa hier fyrer Daudan, þa munum vier þa aptur faa i eilijfu Lijfe.

Hvad fylgde a epter þessu Christi Kraptaverke?

Ein stoor Forundran hiaa þeim sem þad saau og heyrdu: En aller urdu ottaslegner seiger Evangelisten. lofudu GUd og søgdu: Spaamadur mikell er a medal vor upprisen og Gud hefur vitiad sijns Folks.

Hafde Folked hier þaa rettu Þeckingu a Christo?

Ney, ecke olldunges fullkomlega, en þeir alyktudu af þessu Kraptaverke, ad han være mikell GUds Madur og Spaamadur, jaa saa Spaamadur, sem i Heimen ætte ad koma. Joh. 6. og ad GUd

hefde fyrer hañ, med einnre ſierlegre Naad og Hiaalp þeirra vitiad.

Hvad ſkulum vier hier af læra?

Þad, ad forundraſt yfer GUds daaſamlegum Furduverkum, loſande og þackande hønum fyrer þau, ſegiande med David, hver i ſiñ Stad; DRotteñ miñ GUd, miklar þaa eru þijnar Daadſemder, og þijnar Huxaner, þær þu audſyner oß, eckert er þier lijkt, eg vil kunngiøra þær og þar af ſegia, þo ad þær ſieu oteliannlegar Pſ. 40. og ſierdeiles ſkulum vier þad læra, af JEſu Kraptaverke, ad þeckia og medkienna hañ ad vera þañ mikla Spaamañ, ſem fyrerheiteñ var, ad i Heimeñ koma ſkyllde, jaa þañ ſaña Veralldarennar Frelſara, fyrer hvern GUd af ſinne Naad hefur vitiad og frelſad oß.

Barſt þeſſe Saga um JEſum leingra wt?

Jaa, þeſſe Saga barſt wt af hønum um allt Gydinga Land, og um øllkringum liggiande Herød.

Hvad merkium vier hier af ad ſijduſtu?

Þad, ad JEſu Giørningar og Heidur opennberaſt og utbreideſt alltijd, og þad ꝏ mote Mannanna Vilia og Þaanka,

ka, þviad so sem Solarennar Byrta verdur ei huleſt, so kañ JEsu Heidur ecke helldur ad dempast, helldur mun hans Nafn vera daxsamlegt i øllum Londum Ps. 8. Vier endum þessa Rædu og þöckum Gudde, sem hefur sendt siñ Son i Heimeñ, til ad frelsa oß fra Daudans og Diofulsens Vallde, segiande med Zacharia; blessadur sie DRottenn Gud Israels, þviad hañ hefur vitiad og Frelsan giert siinu Folke, honum sie Lof og Diird fra Eiliifd til Eiliifdar, Amen.

# Seitianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Lucas i 14. Cap.

Aa þeim Tijma, og þad skede so, ad JEsus kom i Hus nockurs Phariseara Høfdingia a Þvottdege Brauds ad neyta, og þeir høfdu Vardhalld a hønum. Og sia þu, ad Madur nockur Vatns siwkur var þar framme fyrer hønum. Og JEsus andsvarade og sagde til Løgspekinganna og Phariseanna, so segiande. Hvert leifest nockud ad lækna a

Þvott

Hvottdøgum? En þeir þøgdu vid. Og hañ took a hønum, læknade hañ, og liet hañ i burt fara, svarade og sagde til þeirra: Hvers ydar Asne edur Naut, sem fellur i Pitt, er þad eige lafnsnart wtdreiged a Hvott-dege? og þeir gatu hønum eingvu þar til svarad. En hañ sagde þessa Epterlijking til þeirra sem bodner voru, þegar hañ saa, hverneñ þeir møttust epter hinum fremstu Sætum, segiande so til þeirra: Nær ed þu verdur bodeñ af einhverium til Brwdkaups, þa set þig ecke i hid ædsta Sæte, kañ skie, þad annar heidarlegre eñ þu, sie bodeñ af hønum, og kome saa, sem þier baud og hønum, og seige til þijn: Gief þessum Rwm, og hliooter þu þa med Kiñroda ad hafa hid ysta Sæte. Helldur so nær ed þu verdur bodeñ, þa far þu, og set þig i hiñ ytsta Seß, so ad þa nær ed saa kemur er þier baud, þa seige hañ til þijn: Vinur, þoka þier upp betur. Þa mun þier Vyrding veitast hia þijnum Sessu-nautum. Þviad hver sig sialfañ upphefur, hañ mun nidurlægiast, og hver sig lijtelæter, hañ skal upphafeñ verda.

Hvad marga Parta hefur þetta Gudspiall inne ad hallda?

Priar, nefnelega, fyrst um JEsu Komu i Hws Pharisearana Høfdingia, hvar til hañ var bodeñ. Þar nærst; um Heilbrigde þeß Vatnssiwka. J þridia lage, uñ þaa Bord-Rædu, sem JEsus framsette til Gestanna.

Hvad talar Evangelisteñ um þad fyrsta?

Hañ seiger: Og þad skede so, ad JEsus kom i Hws nockurs Phariseara Høfdingia aa Þvott-deige, Brauds ad neyta, og þeir høfdu Vardhalld aa hønum.

Hvad siaaum vier hier wt af?

Fyrst; JEsu Litelæte og Vinsemd i þvi, ad hañ iñgieck i Phariseárans Hws. Þar nærst; Phariseanna Flaatskap og Underferle, ad þeir høfdu Vardhalld aa honum.

Hvad fyrer eitt Hws var þad, sem JEsus gieck iñi?

Þad var Hws nockurs Phariseara Høfdingia, hver eflaust hefur boded honum iñ til sijn, sem hiñ, um hvern so skrifad stendur: Eiñ af Phariseum bad hañ, ad hañ æte med honum. Luc. 7. þo af einu følsku Hiarta, sem siaa maa af þvi, sem epter

epterfylgde; ecke ad ſijdur þaa geingur hañ þo iñ i hañs Hws, ſynande þar med, ad hañ vilie ecke, ad nockur fortapeſt, helldur þad aller Meñ verde ſaaluholpner, og komeſt til Sannleikſens Vidurkienningar. 1. Tim. 2. Hañ geingur in til Phariſeaña, ſem Læknereñ til þeirra Siwku, ad lækna þaa aa Saalu og Lijkama, ſem eiñ Læremeiſtare til þeirra faavijſu, ad kienna þeim og undervijſa; eñ eingvañveigeñ til ad giora ſig Hluttakara i þeirra Vondſku og Vielum.

Hvad ſkulum vier hier af læra?

Þad, ad vier ſkulum ecke giarnañ hafa Samſielag og Umgeingne med þeim Oguðlegu, eige gaanga i þeirra Raade, nie helldur ſtadnæmaſt aa Veige Syndugra, edur ſitia aa Stoole Haadungar-Mañaña. Pſ. 1. Eñ aa medañ (med þvi vier kunnum ecke ad ſkilia vid Verolldena fyrr eñ Gude þocknaſt þad, ad giefa oß Heimfarar-Leife; helldur hlioотum vier ad hafa Umgeingne med Mønnunum, ſo leinge ſem vier erum og lifum i Verolldenne) þaa ſkulum vier bidia Gud, ad vardveita oß fraa þeim vondu, jaa, ad geima oß fraa Illu, þar til hañ tekur oß af Heimenum.

Joh. 17. og siaa til, ad vier þad mesta møgulegt er, kynnum ad vardveita oß ø-fleckada fraa Heimenum. Jac. 1. og vera olastañleger og hrein Guds Born, ostraffañleger midt i mille þeirrar vondrar og fraa-snwennar Kynslodar, skijnande aa medal þeirra sem Lioos i Heimenum. Phil. 2.

A hverium Tijma kom hañ iñi Pharisearans Hws?

A Þvottdeige, þvi þad var Sidvane Gydinganna epter þad þeir høfdu aa Þvottdøgum endad Guds Þioonustugiørd, þaa geingu þeir heim i sijn Hws, til ad eta og drecka (þo epter Þørfum) og giøra sig glada i GUde, þeir budu og ødrum heim til sijn, og giørdu þeim til goda.

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Vier skulum aa Sabbaths Døgum eda Sunnudøgum fyrst yfer alla Hlute fram, med Epterlaungun og Gudrækne utenda Guds Þionustugiørd, sijdañ er þad ei fyrerboded, ad vier etum og dreckum epter Naudþurft, og brwkum Guds Gaafur, jaa, ad vier biodum og ødrum ad niota þeirra med oß; Eñ vier meigum ecke gleima þeim Faatæku og Naudþurftugu, helldur wtdeila þeim siñ Part af þeirre

Bleß-

Blessan, sem GUD hefur gefed oß. Luc. 14.

Til hvers kom JEsus inn i Pharisearans Hws?

Brauds ad neyta, so sem Ritningenn plagar þar ad Ordum ad komast, þad er, hann kom til ad faa Mat med honum.

Hvad verdur til Vitundar giefed med þeim Ordum, er Skrifteñ brwkar i þessu Efne?

Bæde Braudsens Giæde og Naudsyn, ad þad styrker Mañsens Hiarta. Ps. 104. og er lijka sem einn Stafur, er stidur Lijfed, og ein Stytta, er stendur under þvi, so og þad, ad vier sieum vel aanægder med þad, og laatum oß ecke laanga epter mörgum kræstum Rettum, helldur laatum oß nægia med þad, sem Gud forsorgar oß aa. 1. Tim. 6. og þacka honum fyrer alla Hlute.

Enn hvernenn var breitt vid JEsum i Phariseans Hwse?

Evangelisteñ seger so: Og þeir høfdu Vardhalld aa honum, ecke til gods, helldur til ills, so sem þad Ord verdur opt brwkad til þeß sijdara. Marc. 3. Þeir umsaatu hann, og gaafu grandvarlega giætur ad, hvert hann forsæe sig ecke, annadhvert Ordum edur Verkum, hvar med þeir kynnu hann ad aaklaga, so þeir leggia fyrer hann Vielrædes Braud, og þeirra Gestabod syn-

eſt ſem Abſalons, er hañ giorde ſijnum Brodur Ammon. 2. Sam. 13.

Hvad ſiaum vier hier af?

Veralldarennar Underhiggiu og Falſkleika, hviad lijka ſem eitt Fugla-bwr er fullt med Fugla, ſo eru og þeirra Hws full med Svik. Jer. 5. Þeir ſyna ſig opt wtvortes vinſamlega vid ſiñ Naunga, eñ i Hiartanu umſitia þeir hañ. Jer 9. Þeir kuña ad ſoñu til hañs ad ſegia; et og dreck, eñ þeirra Hiarta er þo ecke til hañs. Prov. 23. Þeirra velſmackande Matur er opt falſkt Braud, ſa þeir ſkeinkia tijtt a fyrer ſiñ Naunga, og blanda ſiñe Grimd þar med, og giora hañ druckeñ, ſo þeir meige ſia hañs Smaan. Hab. 3.

Med hverium Ordum talar Evangeliſteñ um̃ Lœknan og Heilbrigdan þeß Vatnsſiwka?

Hañ ſeiger: Og ſia þu, ad Madur nockur Vatnsſiwkur var þar frammne fyrer hønum; Og JEſus andſvarade og ſagde til Løgvitringanna og Phariſeanna, ſo ſegiande: Hvert leifeſt nockud ad lœkna a Hvott-døgum? Eñ þeir þøgdu vid. Og hañ took a hønum, lœknade hañ, og liet hañ i burt fara, ſvarade og ſagde til þeirra: Hvers

Hvers ydar Asne eda Naut, sem fellur i Pitt, er þad eige jafnsnart wtdreiged a Þvottdeige? og þeir gatu hønum eingvu þar til svarad.

Hvad er hier ad athuga?

Fyrst; Komu þeß Vatnssiwka fram fyrer Christum. Þar næst; þa ypparlegu Grædslu, sem Christur veitte hønum. J þridia Mata; þa Rædu, med hverre hañ forsvarade siñ Giørning. Og sia þu, ad Nadur nockur vatnssiwkur var, þar fraṁe fyrer hønum.

Mun þesse Vatnssiwke hafa vered feingeñ hier til af Phariseunum ad koma fraṁ fyrer Christum?

Gudspialla-madureñ talar hier eckert uṁ, hefde þesse Mañeskia vered medvitande i Phariseanna Falskleika, og lated þa fa sig þar til, þa hefde JEsus an alls Efa straffad hañ þar fyrer, eñ þad synest trwañlegt, ad þesse auma Manneskia hafe sialfkrafa komed til JEsum, og ad Pharisearner hafe giarnsamlega lated hønum þad epter, ad hañ liete hañ sia sig, so þeir kyñe þar fyrer þeß betur ad umsitia hañ, og fa Ordsok til ad skullda hañ fyrer Þvottdagsens Vanhelgun, ef JEsus lækn- ade hañ, edur og fyrer Omiskunseme og

Vanmaatt, ef hañ læknade ecke hañ Siwka.

Med hverium Siwkdome var þesse Madur þvingadur?

Hañ var vatnssiwkur.

Hvad fyrer eiñ Stukdomur var þad?

Þad var og er þvi midur sa Siwkdomur, sem er alþecktur aa medal Maña, og almennelega ordsakast af oskickañlegu Athæfe og Ohofe i Mat og Dryck (þvi ad ofmiked Viin og annar sterkur Dryckur verdur uñ siider ad ofmiklu Vatne i Liikamanum) hvar vid Liifed og allur Liikameñ uppboolgnar, og fyllest af Vessa og færer med sier iduglegañ Þorsta, og adra adskiliañlega Mædu: og verde hañ ecke nidurdempadur i Tijma, þaa er siidar valla Raad til ad lækna hañ.

Hvers Imind er þesse Siwkdomur?

Syndareñar, sem took siñ Uppruna af oleifelegu Ofaate vorra fyrstu Forelldra i Paradijs, og af Mañaña eigeñ otierlegum Gyrndum, hun iñtekur Mañeskiuñar Saal og Liikama, og giorer þau oduganleg til alls hins goda, og so sem saa Vatnssiwke vill hafa þeß meir, sem hañ dreckur meir, eins liika þeß meir sem Syndareñ syndgar; þeß kiærara er honum ad syndga, og aan

þeß

þeß hañ i Tijma laate af Syndunum, og verde endurvitkadur wr Diøfulsens Snøru, 2. Tim. 2. þaa verdur þad sijdara fyrer Syndaranum verra hiñu fyrra.

Hvad skulum vier giøra þegar vier fiñum oß ad vera þanneñ andlega Vatnssiwka?

So sem þesse i sinne lijkamlegre Vatnssott kom fram fyrer Christum, þañ retta Læknar, so skulum vier og i þeirre andlegu medkienna þad, ad vier sieum andstyggeleger og faafeinger, iñdreckande Ranglæteð sem annad Vatn. Job. 15. Eñ bidia, ad hañ vilie fyrer sijns Blods og Forþienustu Krapt lækna og heilbrigda oß.

Heilbrigdade JEsus þaa strax hañ Vatnssiwka?

Ney, helldur andsvarade hañ fyrst, og sagde til Logspekingaña og Phariseanna, hverra þaanka hañ saa og merkte: Hvert leifest nockud (er þad riett) ad lækna aa Þvottdøgum, og med þessu kom hañ i Veg fyrer þeirra Slægdar þaanka og vondar Raadagiørder.

Være þeß ecke ofkande, ad Meñ at ollum Tijmum, eñ þo sierdeiles aa Þvottdøgum edur Hvijlldar-døgum villdu færa sier i nyt þetta JEsu Spursmaal, og brwka þad sier til goods: Er þad rett edur leifelegt, ad giøra þad og þad aa Hvijlldar-Deige?

Jaa, vissulega, þvi þaa mundu margar Synder odrijgdar vera, sem añars drijgdar eru, og þvi þridia Bodorde i Logmaale Drottens betur epterfylgt, fyrer framañ hvert hañ hefur sett, eitt sierlegt Minnesteikn, nefnelega þetta, minstu; minstu ad hallda helgañ Hvijlldar-dag Drottens Guds þijns.

Svorudu þeir nockru hier til?

Ney; helldur þogdu þeir vid, þeir villdu ecke segia jaa, þvi þad var aa mote þeirra Meiningu. Eñ ney þordu þeir ecke ad svara, þvi þaa gat hañ skulldad þaa fyrer Omiskunseme.

Hvad giorde þaa JEsus?

Hañ liet eckert hindra sig, hverke þeirra vonda Þaanka, nie kloklega Þogn, helldur took hañ aa hønum med sinne Almættes Hende, læknade hañ og liet hañ i burt fara, synande þar med, ad hañ være Herra Sabbaths Dagsens, Matt. 12. jaa, yfer allslags Siwkdomum og Meinsemdum. Ps. 103.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad laata ei Mañaña Vondsku og Vanart hindra oß fraa þvi, ad giora þad gooda, og sierdeiles skulum vier aa Sabbaths Døgum gott giora. Matt. 12.

For-

Forsvarade JEsus og þennañ siñ Giorning?

Jaa, hañ svarade og sagde til þeirra: Hvers ydar Asne eda Naut, sem fellur i Pitt, er þad eige jafnsnart wtdreiged aa Þvott-dege.

Hverneñ giorde JEsus hier sijna Alyktun?

Hañ took dæme af þvi sem minna er, uppaa þad meira, i þeirre Meiningu, ad þar sem Madur biargade einu skynlausu Dijre, og uppdræge eiñ Uxa edur Asna aa Þvottdeige, sem kynne i eiñ Pitt falleñ ad vera, og hiellde þad øngva Synd, hvad miklu framar kynne Madur þaa aan Syndar, og ætte jafnvel aa Sabbaths Dege, ad hiaalpa eiñre skynsemdarfullre Manneskiu, sem falleñ kynne ad vera i eiñ edur aññañ Siwkdom, Neyd og Haaska? sem þesse Madur, hver ed i sijnum Siwkdome og Vatns-soott, maklega maatte lijkiast vid eitt Dijr, sem falled er i Pitt.

Hvad lærum vier hier af?

Þad, ad Madur maa sañarlega gott giora aa Sabbaths Deige. Matt. 12. Þrældoms-verk, fyrer hver Sabbaths Dagureñ vanhelgast, og Guds Þionustugiord hindrast, meigum vier ecke giora, miklu sijdur vidurstyggeleg og syndsamleg Verk. Eñ

so

so sem Heilagleikans Verk eru bodeñ, so eru og Naudsynia og Kiærleikans Verk ecke fyrerbodeñ; Madur maa ad soñu aa Sabbaths Deige uppdraga wr Pittenum Uxa edur Asna, eñ ei siaalfur hrinda þeim þar uti, og leita so epter Ordsøk af yfertroda og vanhelga Hvottdageñ.

Þegar Christur hafde nu fullkomnad þetta Kraptaverk og forsvarad siñ Giørning; hvad tok hañ sier þaa framar fyrer ad giøra?

Þad seiger oß Evangelisteñ þar hañ so talar: Eñ hañ sagde þessa Epterlijking til þeirra, sem bodner voru, þegar hañ saa, hverneñ þeir møttust epter hinum fremstu Sætum.

Fyrer hveria Ordsøk frammsette hañ þessa Epterlijkingu?

Fyrer þaa Ordsøk, ad hañ saa hverneñ þeir møttust epter hinum fremstu Sætum. Þetta var þeirra gamall Kville; ad þeir villdu giarnañ sitia efst til Bords og i Samkundu Husum Matt. 23. hañ hafde aadur læknad þañ lijkamlega vatnssiuka, hier finnur hañ þa i andlegañ maata vatnssiuka, uppblaasna og uppbolgna af storum Þonkum um siaalfa sig, og þar fyrer vill hañ lækna þaa.

Hvad

Hvad sieckum vier hier wt af?

Mannañá Hofmod og Drambseme, ad eiñ vill giarnañ vera ødrum hærre i Verolldenne, og jafnvel þo þeir aller sieu af einum Uppruna, so vill þo sierhvør eine upphefia sig yfer hiñ annañ.

Ber Gllds Børnum so sinnudum ad vera?

O ney, helldur skulu þau efterfylgia Syrachs Rædum, er so hlioda; stunda þu ecke epter nockre hærre Stiett og hygg ecke yfer Megn þier. Syr. 3. og St. Páls Aminningu, hver verde fyrre til Virding ad veita ødrum, stunded ei þad hvad hætt er, helldur hallded ydur nidur til þeirra lægu. Rom. 12.

Hverneñ hliodar þar hañs Epterlijking?

Þannen, nær ed þu verdur bodeñ af einhverium til Brudkaups, þa set þig ecke i hid ædsta Sæte, kannskie, þad annar heidarlegre enn þu, sie bodeñ af hønum, og kome sa sem þier baud og hønum og sege til þijn; Gef þessum Rwm, og hlioter þu þa med Kinnroda ad hafa hid ista Sæte. Helldur so, nær ed þu verdur bodeñ, þa far þu, og set þig i hiñ ytsta Seß, so ad þa nær ed sa kemur, er

þier

þier baud, þaa sege hañ til þijn, Vinur, þoka þier upp betur, þaamun þier Vyrding veitast hiaa þijnum Sessunautum.

Hvor er Christi Meining i þessum Ordum?

Hañ vill aaminna þaa, ad þeir skule ecke sialfer uppheſia sig, og leita ad siñe eigeñ Dijrd, so þeir verde ecke sijdar med Bligdun lijtelæckader, helldur þar þvert aa mote, þaa skylldu þeir lijtelæcka sig sialfer, so þeir mættu upphafder verda.

Maa Madur þaa ecke stunda epter Hefdar Sæte edur Tignarstande hier i Heime?

Þad er ecke fyrerboded, ef Madur giorer þad ecke sijnum Naaunga til Skada og Underþryckingar, Madur maa ad sonnu sitia i þvi Tignar-sæte, er GUD hefur sett hañ i, eñ ad þreingia sier sialfur upp yfer adra, af otilheirelegre Metorda Sott, og raangre Ærugyrnd epter þeim fanyta Heidre, og hata siñ Naaunga, og vilia nidurþryckia hønum, þad er þad, sem Christur fyrerbijdur.

Hverneñ aaliktar JEsus ad sijdustu Epterlijkinguna?

Med þessum Ordum, sem hañ anngars vijda brwkar. Matt.23. hver sig sialfur

ur upphefur, hañ mun nidurlægiast, og hver sig lijtelæter, hañ skal upphafeñ verda. Hier um maa lesa Utlegginguna yfer Gudspialled aa þañ ellefta Sunnudag epter Trinitatis.

Hvad skulum vier ad sijdustu hier af læra?

Þad Postuleñ Petur raadleggur oß segiande: Lijtelæted ydur under volduga GUds Hønd, so ad hañ upphefie ydur aa sijnum Tijma, aller samañ vered hvør ødrum undergefner, og hallded ydur fast vid Lijtelæted, þvi Gud motstendur dramblaatum, eñ lijtelaatum gefur hañ Naad 1. Pet. 5. jaa, hañ gefur þeim eilijft Lijf, og innleider þaa i eilijfa Glede; þangad ad komast veite oß su heilaga Guddomsens Þrenning, hverre ad sie Lof og Dijrd fra Eilijfd til Eilijfdar. Amen.

# A Michaelis Messu.

Gudspialled skrifar Mattheus i 18 Capit.

Ï þañ Tijma, geingu Læresveinarner til JEsu og søgdu; hver er mestur i Himnarijke? JEsus kallade eitt Barn til sijn, og sette þad midt i millum þeirra og sagde. Sannlega

lega seige eg ydur, nema þier umsnw-
ést, og giørest svo sem smaa Børn,
þaa munud þier ecke inganga i GUds
Rijke, hver sialfur sig læckar, so sem
Ungmenne þetta, sa er mestur i Rij-
ke Himnanna, og hver sem medtek-
ur eitt þvilijkt Ungmenne i mijnu
Nafne, sa medtekur mig. Eñ hver
hañ hneixlar eiñ af þessium Vesaling-
um, sem at mig trua, þarfara være
hønum, ad Milnusteirn heingdest um
hans Haals, og være i Siaafar-diup
søcktur, vei sie Heimenum fyrer Hneixl-
aner, þar hliota þo ad koma Hneixl-
aner. Eñ vei þeim manne, fyrer hvern
ad Hneixlaneñ kemur, eñ ef þijn Hønd
eda þiñ Fotur hneixlar þig, snijd hañ
af og snara hønum fraa þier, betra
er þier ad iñgaanga til Lijfsens, hallt-
ur og handarvane, eñ þad þu hafer
tvær Hendur og tvo Fætur, og verd-
er i eilijfañ Elld kastadur. Og ef Auga
bitt hneixlar þig, þaa slijt þad wt og
snara þvi fraa þier. Betra er þier ein-
eygdum iñ ad ganga til Lijfsens, enn
þad þu hafer tvø Augu, og verder i
Helvijskañ Elld kastadur, siaed til, ad
þier

hier forsinaaed ecke eiñ af þessum Veslingum. Hvíad eg sege ydur, ad þeirra Einglar aa Himnum, sia jafnañ miins Fødurs Auglit, semer aa Himnum.

Hvad giørde Frelsarenn JEsus i þessu Evangelio?

Hañ afrædur hier fierdeiles tvent siinum Læresveinum, nefnelega, fyrst ad ydka Drambseme.

Þar nærst; ad gefa af sier Hneixle. J þvi fyrra syner hañ hvad þeir skule læra af Ungbørnunum. J þvi siidara, hvad þeir meige ecke aa moote þeim giøra.

Hvad gaf honum Ordsøk til þeirrar fyrre Raadleggingar?

Læresveinanna Drambsemdar Þankar, og su Þraattan, sem uppkom aa mille þeirra um þad, hver mestur være, þvi so seger Evangelisteñ: aa þeirre sømu Stundu geingu Læresveinarner til JEsum og søgdu: Hver er mestur i Himnariike.

Nær geingu Lære-sveinarner til JEsu med þetta Spursmaal?

A þeirre sømu Stundu edur Tiima, nefnelega (sem vier kunnum ad siaa af Gudspiallamañsens fyrerfarande Capitula) þegar JEsus skømu aadur hafde aa Vegenum fyrersagt þeim siina Pii-

nu og Dauda i Jerusalem, og Uppriisu aa þridia Dege, hvar af þeir urdu næsta hriggver. Og siidar, epter það hañ var komeñ til Capernaum, þaa var af honum Skattur heimtur, hvern hañ gallt fyrer sig og Petur, so ad aa þeim Tijma, þaa þeim hefde bored ad hafa adra Þaanka, og af Tijmans Tilstande hefdu kunnad Audmijktena ad læra, fiellu þeir i so haa Þaanka um sialfa sig, ad þeir fooru ad þraatta um það, hver mestur munde vera aa medal þeirra.

Hverneñ auglystu þeir þessa sijna stooru Þaanka?

Þeir geingu til JEsum, þeirra Meistara, og villdu, ad hañ skyllde lijka sem skilia þaa ad, og urskurda hver rettast hefde, þvi þeir høfdu aadur þraattad um það iñbyrdes sijn aa millum, hvad þeir þordu þo eige ad medkenna. Marc. 9. Eñ nu toludu þeir opeñberlega fyrer honum: Hver er mestur i Himna-rijke.

Hvert var það Rijke, sem þeir hier um toludu og epter spurdu?

Þeir toludu og spurdu ecke so miked epter Christi andlegu Naadar og Dijrdar Rijke, sem epter einu jardnesku og veralldlegu Rijke, hvert þeir faavijslega meintu, ad hañ

hañ munde uppretta. Act. 1. hveriu þeir og þeinktu ad verda mikler Metorda Meñ, og haatt upphafder. Eñ þeir kunnu ecke þar um ad forlijkast, hver þeirra munde mestur vera, edur hallden fyrer þañ ypparsta a medal þeirra.

Hvad siaaum og lærum vier hier wt af?

Fyrst; so sem Drambsemeñ var sw stædsta Synd, med hverre Satan i Paradijs freistade og sveik vora fyrstu Forelldra, eins lætur hañ þau heilogu Guds Børn eñ nu ecke Hlutlaus vera, ad hañ freiste þeirra ecke med þessum Leste: Med honum freistade hañ Davids, þar hañ mootstod Jsrael, og skaut honum i Hug af Hofmood ad læta telia Folked. 1. Chron. 21. So og var S. Paals ecke lijted freistad med stoorum Paunkum. 2. Cor. 12. Og hier siaaum vier, hvernen Christi Lærisveinar freistast og iñtakast af þeim. Jafnvel þo þeir hefdu nu so leinge vered hia þeim hogværa og lijtelaata JEsu, og bæde af hañs Ordum og Epterdæmum aaminter, ad vera audmiuker. Hvar fyrer vier skulum þeß framar vara oß vid þessum Leste, og bidia Gud um̄ audmiuk Hiorta, ad vier giorum ecke fyrer Ofund edur Hiegooma Dijrd, helldur

fyrer Lijtelæte hallda adra ædre eñ sialfa oß. Phil. 2.

Þar nærst; ad so sem Læresveinarner beinktu uṁ Metord og hætt Stand, þaa þegar þeir hofdu þo ad sonnu vissulega uṁ annad ad þeinkia, nefnelega uṁ JEsu nælæga Pijnu og Dauda, og þeim bar af honum ad læra Hogværd og Lijtelæte, hver so audmiuklega gaf sig under Yfervallded, ad hañ gallt Skatt, þegar hañ var þar uṁ adspurdur, midt i þessu Stande auglystu þeir sijna storu Þaanka uṁ sialfa sig. So geingur þad til eñ nu, og yfer þvi er ad klaga, ad þegar Moñum ber hellst ad vera gudræknum, þaa sækia þeir mest epter veralldlegum Heidre og fanijtre Upphefd. Og þar ed hardar og mædusamar Tijder, ættu ad kienna Folke ad wtvelia sier Audmyktar Sæte, þaa vitnar Reinslañ, ad Meñ hafa þaa stædstu Þaanka uṁ sialfa sig, og adskiliañlega Faavisku. So DRotteñ maa vel segia til þvilijkra: Hvad stodar ad lemia ydur leingur, fyrst þier gaanged þvi meir afvega. Es. 1. Eñ so sem Lære-sveinarner, þegar þvilijker Þaankar uppkomu aa medal þeirra, geingu til JEsum, og lietu hañ underviisa sier; So skulum vier og þegar hof-

hofmoduger Þankar vilia uppstijga i vorum Hiortum, gaanga til hañs, heyra hañs Ord, og giæta ad hañs Epterdæme, og hvad gyllder, vier munum þaa sannarlega faa adra Þanka, og af honum læra, ad vera hogværer og af Hiarta lijtelaater. Matt. 1 8.

Hveriu giegnde JEsus sijnum Læresveinum, þegar þeir komu fram fyrer hañ med þessa stolltu Spurning?

Þar um talar so Evangelisteñ; JEsus kallade eitt Barn til sijn, og sette þad midt i millum þeirra, ad þad skyllde vera lijka sem eiñ Læremeistare þeßara gomlu Manna, og sagde: Sañlega seige eg ydur, nema þier umsnwest fraa ydar hofmoodu og faafeingelegu Þonkum, og giøreft so sem Ungbarn, i Hogværd, Lijtelæte og Fullnægiu, þaa munud þier ecke iñgaunga i Guds Rijke: Hver sia alfur sig læckar so sem Ungmeñe þetta, saa er mestur (og skal faa storañ Heidur) i Rijke Himnanna. So ad hañ med allre Hoogværd kende þeim, og med þeß litla Barns Epterdæme, þaa bæde straffade hañ þeirra Drambseme, sem og aaminte þaa, ad aastunda þad sanna Lijtelæte.

Hver Lærdomur kañ hier af ad dragast?

Fyrst sä, ad þeir Gømlu kunna opt ad læra, þad sem gott er, af þeim Ungu. Þad skyllde vel vera epter þvi gamla Maaltæke; þeim ungu skal madur keña, þaɑ gømlu skal madur heidra, þo kañ opt eiñ gamall Eli ad læra af einum ungum Samuele. 1. Sam.3. Og so sem þau ungu Tre bera optast þaa bestu Averte, so finnur Madur opt Dygdernar i betre Bloma hiaa þeim Ungu, eñ hiaa þeim Gømlu. Þar næst; þaa meiga þeir gømlu vel epterfylgia þeim ungu, þo ei i øllu, þeir meiga ecke vera Børn, hverke i Skilningsleise nie Ostadfeste, þvi so seger S. Paall: Vered ecke Børn i Skilningenum, helldur vered Børn i Vondskuñe. 1. Cor. 14. Og aptur seiger hañ; verum eige leingur Børn, ostødug so sem Bylgiur, veifadar af allshaattudum Vinde Lærdomsens. Eph. 4. Ei helldur i Synd og Faavitsku, þvi þad Barn, sem er orded hundrad Ara, skal vera Bølvad. Es. 65. Helldur skulu þeir vera Børn i Hogværd, i Lijtelæte, i Vinsemd, i Forlijkunarseme og ødrum þvilijkum Dygdum, i hverium þeir ungu opt giøra Minkun til þeim gømlu. J þridia

Maata, nema so sie vier snwum oß fraa Synd og Vondsku; Drambseme og ødru illu, og giørunst so sem smaa Børn i Lijtelæte og ødrum Christelegum Dygdum, þaa munum vier ecke iñgaanga i GUds Rijke. Med þeß gamla Adams syndsamlegu Athæfe, kañ Madur ecke ad komast iñ i þaa himnesku Jerusalem GUds, þvi þad Port sem liggur til Lijffsens, er helldur þraungt þar til, ad þau drambsømu Veralldarennar Børn og Folk kuñe þar iñ ad gaanga. Þar fyrer skulum vier Drambsemena afleggia, og ætstunda þad sanna Lijtelæte; þviad Gud motstendur dramblaatum, eñ Lijtelaatum gefur hañ Naad. 1. Pet. 5.

Hvorneñ kenner Christur eñ framar sijnum Lærisveinum, hverneñ þeir skule umgængast med þeim ungu?

Hañ syner þeim fyrst, hverneñ þeir skule breita vid þaa, nefnelega, medtaka þaa; Hver sem medtekur eitt þvilijkt Ungmenne. Þad er, ei alleinasta tekur þad til sijn, og giører þvi til goda i lijkamlegañ Maata, helldur og sierdeileslega medtekur þad Saalarennar vegna, i þvi ad hañ lagfærer þad, kenner þvi, og aaminner þad i

mijnu Nafne, minna vegna, epter miñe Befalningu, og mier til Dijrdar, sa medtekur mig, og hver hañ medtekur mig, sa medtekur ei mig, helldur hañ sem mig sende. Marc. 9. Þar nærst; kenner hañ þeim, hvad þad sie, sem þeir skule þeim ecke at mote giora, nefnelega, ad þeir skule ecke hneixla þat. Eñ hver hañ hneixlar eiñ af þessum Vesalingum, sem at mig trwa, annadhvert med Ordum eda Verkum, þarfara være hønum ad Milnusteiñ, edur ønnur þung Byrde, heingdest uñ hañs Hals, og være i Siafar-diup søcktur, þarfara være hañ være daudur, og ecke framar til at Jørduñe, eñ ad hañ so illa skyllde vanbrwka sitt Lijf, til ad hneixla þat ungu og saklausu.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad so sem vier skulum kappkosta ad medtaka þat wngu, giora þeim til goda, ala þat upp i Aga og Umvendun til DRottens. Eph. 6. þeinkiande, ad nær vier medtøkum þat, medtøkum vier sialfañ JEsum, og Naad og Saaluhialp med hønum, so skulum vier þar þvert at mote vel vara oß; ad vier alldrei hver-

ke

ke med Ordum edur Verkum sieum þeim til Hneixlunar (hvad þo þvi midur opt skedur) so vier ecke i stadeñ fyrer þad ad vier skulum underviisa þeim og styrkia þaa i Trwnne, wtslokvum þañ Trwar-gneista, sem i þeim er, og þar fyrer giorum oß sakada og verduga ad liida tijmannlegt og eiliift Straff.

Hvad seger JEsus eñ framár?

Med þvi hañ hefur sierdeiles talad um Hneixlun, sem þeir ungu hlioota stundum ad liida, þaa tekur hañ sier Ordsok ad tala uñ Hneixled almennelega, segiande: Vei sie Heimenum fyrer Hneixlaner, þar hlioota þo ad koma Hneixlaner, eñ vei sie þeim Mañe, fyrer hvern ad Hneixlaneñ kemur.

Hvad margfallt verdur sagt ad Hneixled sie almeñelega?

Tveñslags, nefnelega, þad Hneixle sem eiñ gefur ødrum af sier. Og þad Hneixle, sem eiñ tekur sier til af ødrum.

Talar Christur hier i Textanum um þetta tveñslags Hneixle?

Jaa, hañ talar fyrst um þad Hneixle, sem eiñ gefur af sier: vei sie Heimenum, þeim vondu og vidurstyggelegu Moñum, fyrer Hneixlaner, sem þeir

med sijnum Hneixlunar Ordum og vondum Epterdæmum af sier giefa; þar hliota þo ad koma Hneixlaner, eñ vei þeim Mañe, fyrer hvern ad Hneixlaneñ kemur.

Hverneñ eiga þesse Ord ad skiliast, þar hliota þo ad koma Hneixlaner?

Þesse Christi Ord, sem Lucas i 17. Cap. þaneñ framsetur, omogulegt er ad þar skyllde eige koma Hneixlaner, eiga aungvañveigen so ad skiliast, sem Gud, annadhvert af nockru ounbreitañlegu Raade skyllde hafa ałyktad, ad Hneixlaner skyllðu koma, edur ad hañ skyllde koma nockrum Mañe til ad tala edur giora nockud hneixlañlegt: þad sie læ̈ngt fræ̈ honum, þvi hañ er ecke sæ̈ Gud, þeim ed ogudlegt Athæfe lijkar Ps. 5. og sañarlega mæ̈ þad segiast til þeirra syndugu og hneixlañlegu Mañа, er Syrach talar segiande; þu þarft ecke ad segia: hafe eg ræ̈ngt kiendt, þæ̈ hefur Gud þad giort, þviad hvad sem hañ hatar, þad skyllder þu ei giora; þu þarft ecke ad segia, hañ hefur sviked mig, þvi hann þarf einskis ogudrækens vid, þviad Drotteñ hatar alla Afgudadijrkan, og hver hañ elskar, sæ̈ hræd-

eñ fyrer henne Syr. 15. Helldur eiga Ordeñ ad skiliast bæde um Dioful sens Illsku, er ecke aflætur ad koma Mañe til Syndar og Hneixlunar. So og um Mañeskiuñar eigeñ Vanart og syndsamlegar Tilhneigingar, sem lætur hañ sig þar til leida; og i þañ maata, so sem eirn forfareñ Lækner kañ ad segia um eina Mañeskiu; þad hlijtur so ad vera; jaa, þad getur ei odruvijs vered, eñ þesse madur verde siukur, med þvi hañ lifer so osidsamlega, og spiller siaalfur siñe Heilbrigde; og um eirn siukañ, hañ hlijtur sanarlega ad deya, med þvi hañ vill ei bruka Læknesdoomeñ, nie giora epter Læknarans Raadum, og þañeñ eiga þesse Postulans Ord ad skiliast, er hañ seger, þar hlioota Flockadrætter ad vera ydar a mille 1. Cor. 11.

Hvad talar hañ um þad Hneixle, sem nockur tekur sier til af odrum?

Hañ seger: Ef þijn Hønd, edur þiñ Fotur hneixlar þig, þa sniid hañ af og snara honum fraa þier, betra er þier iñ ad ganga til Lijfsens halltur og handarvane, eñ þad þu hafer tvær Hendur og tvær Fætur, og verder i eilijf-

eilijfañ Elld kastadur. Og ef Auga þitt hneixlar þig, þa slijt þad wt, og snara þvi fraa þier; betra er þier ein eygdum iñ ad ganga til Lijfsens, eñ þad þu hafer tvø Augu, og verder i helviitskañ Elld kastadur.

Eiga þesse Ord ad skiliast riett epter Bokstafnum?

Nei, þvi alldrei hefur nockur sitt eiged Holld hatad Eph. 5. Ei helldur høfum vier nockurstadar Befalning af Gude þar uppaa, ad vier skulum hata vorn Lijkama og hans Lime: helldur aa þetta ad skiliast um Syndarennar Lijkama Rom. 6. og hans Lime, þad er, um allra handa Synder og Løste, um hveria St. Paall talar seigande; so deyded nu ydra Limu, sem aa Jordu eru, Horaner, Ohreinleika, skammarlegañ Bruna, vonda Lifting og Agyrne, sem er Skurgodadijrkan Col. 3 vorer lijkamleger Limer, Hendur, Fætur, og Augu kunna ecke af sialfum sier nockurn ad hneixla. Eñ þær Synder, sem loda vid vora Lime og fremiast med þeim, þær skulum vier afsnijda, og fraa oß snara, i þvi ad yfergefa þær, flija þær og fordast, jaa, þar sem añadhvert nockur Madur, edur

ur einhver annar Hlutur, sem oß kañ so kiær ad vera sem vor eigeñ Hønd, Fotur, Auga, edur einhver annar Limur hneixlar oß, þaa skulum vier þo snijda hañ af, og snara honum fraa oß, yfergefa hañ og fordast.

Hvad talar Christur ad sijdustu um þær ungu?

Hañ seger og syner aptur, hvad Madur skule fordast ad giøra þeim, siaaed til ad þier forsmaaed ecke eiñ af þessum Vesalingum, edur dæmed lijtelmootlega um þaa, þeinkiande, ad þad hafe eckert uppaa sig, þo þier hneixled þaa. Og hvar fyrer Madur skule fordast þad, þviad eg seige ydur, ad þeirra, nefnelega, Smaabarnaña Einglar (sem geima þau og vardveita) aa Himnum, siaa jafnañ mijns Fødurs Auglit, sem er aa Himnum, og seigia honum fraa þvi, ef nockur foraktar þau og hneixlar.

Hvad skulum vier hier af ad sijdustu læra?

Þad, ad vier skulum vara oß, ad vier hneixlum edur forsmaaum ecke þeßa Vesalinga; helldur lijka sem St. Pall seiger, ad Konañ skule hafa Vellde edur Skijlu aa sijnu Hofde fyrer Eingláña saker. 1. Cor. 11. so skulum vier og vegna heilag-

ra Eingla og þeirra Naalægdar varast ad hneixla þaa ungu, uppaa þad þeir heilogu Einglar (hverier jafnvel þo þeir aa Jordunñe wtriette GUds Eyrende, og giore hans Vilia i þvi, ad vardveita þaa ungu, sem og eñar GUds Born, þaa eru þeir þo alldrei wtelukter fraa þeirre Gledie og Dijrd, sem þeir hafa af Guds Andlites Skodun aa Himnum) hriggest ecke yfer vorre vondre Breitne vid Smaa-Borneñ og kuñgiore þad vorum Herra. Helldur ad þeir mættu miklu framar glediast yfer vorre Ydran og godre Umgeingne Luc. 15. uppaa þad vier mættum um sijder þeim lijker verda, og eilijflega med þeim sia GUds Auglite aa Himnum fyrer Jesu Christi Forþenustu. Amen.

# Atianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Matth. i 22. Cap.

J þañ Tijma. Þaa Pharisearner heyrdu þad, ad hañ hafde nidurþaggad þaa Saduceos, samañsøfnudust þeir i eitt. Og eiñ Løgvitringur af

af þeim, spurde hañ ad, freistande hañs og sagde: Meistare, hvert er hid hædsta Bodord i Løgmaalenu? Eñ JEsus sagde til hañs, þad, ad þu skallt elska DRottiñ GUd þiñ af øllu Hiarta þijnu, og af allre Øndu þiñe, og af øllu Hugskote þijnu, þetta er hid fyrsta og stærsta Bodord. Eñ hitt añad er þessu lijkt. Þad, ad elska skalltu Naunga þiñ so sem sialfañ þig. J þessum tveimur Bodordum, er iñebunded allt Løgmaal og Spaameñerner. Eñ þaa Pharisearner voru so til samans komner, spurde JEsus þaa ad og sagde. Hvad vyrdest ydur um Christ, hvers Son hañ sie? þeir søgdu hønum Davids, hañ sagde þaa til þeirra. Hverneñ kallar David hañ þaa i Anda eirn Herra? þar hañ seiger: DRottiñ sagde mijnum DRottne; sittu mier til hægre Handar, þaangad til ad eg legg Ovine þijna til Skarar Foota þiña. Nu ef David kallar hañ Herra, hverneñ er hañ þaa hans Sonur? og eingeñ gat svarad hønum einu Orde, og eige dyrfdest nockur upp fraa þeim Dege hañ framar ad spyria.

Hvad

Hvad hefur þetta Evangelium iñe ad hallda?

Fyrst; Phariseanna Spurning, er þeir spurdu JEsum ad, um þad fyrsta Bodord i Logmälenu og JEsu Andsvar þar uppa.

Þar næst; JEsu Spurning aptur, er hañ spurde Phariseana ad, hvad þeim vyrdtest um Christ, hvers Son hañ være.

Hvad er aptur ad athuga i þvi fyrra?

Fyrst; hverneñ Pharisearner hofdu Samkomu, og hielldu Rаd samañ a mote Christo. Þar næst; hverneñ eiñ af þeim vegna þeirra allra spurde hañ, og hañs Svar uppa þa somu Spurningu.

Hvad seiger Evangelisteñ um þad fyrra?

Hañ seiger; þa Phariseaner heyrdu þad, ad hañ hafde nidurþaggad þa Saduceos, samannsøfnudust þeir i eitt.

Af hverju Tilefne toku Phariseaner sig samañ a moote JEsu?

Þa þeir heyrdu þad, ad hañ hafde nidurþaggad þa Saduceos.

Hvad syrer Folk voru Saducei?

Þeir voru eirn sierlegur Villuflockur og Falskennendur a medal Gydinganna, sem

sem sǫgdu Upprisuna ei ad vera Matt. 22.
ei helldur Eingel nie Anda. Act. 23.
Hverneñ hafde JEsus nidurþaggad Saduceos?
Þad kunnum vier litlu framar ad lesa
i þeim sama Capitula Gudspiallamañs
Matthei, þar so stendur; a þeim
sama Dege geingu Saducei til hans,
hverier ed hallda Upprisuna ei vera, og
spurdu hañ ad, og sǫgdu: Meistare,
Moses hefur sagt, þaa nockur andadest,
og hefde eige Bǫrn epter, þaa skyllde
hañs Broder eiga hañs Eigen-konu, og
uppvekia sijnum Brodur Sæde; Eñ hiaa
oß voru sio Brædur, hiñ fyrste fastnade
sier Konu, og hañ andadest, og af þvi
hañ hafde eckert Saad, liet hañ Brodur
sijnum epter sijna Eigeñ-Konu, lijka so
annar og hiñ þridie, allt til siǫunda; Eñ
sijdast epter alla þaa andadest og Konañ,
hvers þeirra sio verdur hun Eignar-Ko-
na i Upprisuñe, þviad aller þeir hafa ha-
na haft. Eñ JEsus svarade og sagde til
þeirra: Þier villest og vited ecke Ritning-
arnar, nie helldur GUds Krapt, þviad i
Upprisuñe muñu þeir hverke taka Konu
til Ekta, nie þær sig gipta laata: helldur
eru þeir sem Einglar Guds a Himnum.

Eñ hafe þier ei leſed af Uppriſu Framlid-enna, hvad af Gude er ydur ſagt, er hañ ſeg-er: Eg er GUD Abrahams, og GUD Iſaaks, og GUD Jacobs: Eñ GUD er ei GUD daudra, helldur lifande Manna, med hverium Ordum hañ kroptuglega nidurþaggade þáa, bæde um Konuna, er haft hafde ſio Meñ, ſo og um þeirra raanga Lærdom um Uppriſuna og eitt aññad Lijf epter þetta, hveriu þeir neitudu, ſo þeir kuñu aungvu þar áa mote ad ſvara, og er Folked heyrde hañs Ord, undradeſt þad hañs Keñing.

Eru eñ nu Saducei til þvilijker ſem þeir?

Jafnvel þo þeir ſieu ecke til epter þeirra eigeñ Perſonu og opeñberlegre Villu-lærdoms Kenningu, ſamt eru marger eñ nu til af þeirre ſomu Art, þeir trwa ad hverke ſie, Eingell nie Diøfull, Uppriſa nie Domur, Himnarijke nie Helvijte, tale þeir þad ecke wtþryckelega med Muñenum, ſo ſegia þeir þad þo i ſijnum Hiortum. Pſ. 14. Hvad þeirra Lijf og Lifnadur wtvijſar. Med Muñenum medkienna þeir ad ſoñnu, ad þeir þecke GUD, eñ med Verkunum afneita þeir þvi. Tit. 1. Þeir hafa Yferlit Gudlegs Athæfes, eñ þeß Krapte afneita þeir.

2. Tim.

2. Tim. 3. og lifa sem adrer Gudleisingiar, og Epicuri Stall-Brædur, er segia: Etum vær og dreckum, þviad aa morgun rum vier dauder. 1. Cor. 15.

Hvad skulu Guds Born og Þenarar giora vid þvilijka?

Þeir skulu nidurþagga þaa, og til baka reka med Guds Orda Sannleika, sem kenner og giorer oß vissa um allt þad, hveriu þeir med Ordum og Verkum neita, jaa, þeir skulu þeinkia, ad þad er Vilie Guds, ad þeir med Velgiorninge nidurþagge Oviturleik heimskra Manna, 1. Pet. 2.

Þegar Christur hafde þanneñ nidurþaggad Saduceos, hvad giordu þaa Pharisearner?

Þeir komu til samans, i gegn þvi heilaga Barne Guds JEsu, Act. 4. og þeinktu meir Sigur aa honum ad vinna eñ Saduceiunu, og hans Heidur ad minka.

Voru þeir þaa so goder Viner Saduceanna?

Ney, helldur var Ovilld og Oeining aa mille þeirra, bæde i Lærdome og Lifnade, eñ fyrst þad gillder JEsum, þa verda þeir sem Pilatus og Herodes hverier annara Viner. Luc. 23. Þeir samañsafnudust, og baaru sijn Raad samañ, ecke fyrer þann Kiærleika, sem þeir hofdu til Saduceanna, helldur af Hatre vid JEsum.

Hvad ſioum vier hier af?

Veralldarennar Barna vonda Art; ad þaa Stund ſem þau eru ſundurþyck ſijn i millum, og kunna ſkialldañ ad samañſafnaſt til goods, þaa eru þau þar hvert aa mote opt reidubwen ad samañſafnaſt til hins vonda, til ad ſtyggia Gud, og hriggia hañs Børn, þau eru lijka ſem Samſons Refar, er adſkillder voru aa Hofdunum, eñ samañbundner aa Holunum med Elldſkijde, til ad kveikia i Kornenu, og giora Skada þar med. Jud. 15.

Hverneñ hegda þaa Phariſearner ſijnum Veidebrellum?

Evangeliſteñ ſeger: Og eiñ Løgvitringur af þeim, eiñ miøg lærdur og forfareñ Madur i Løgmalenu, ſpurde hañ ad, freiſtande hañs og ſagde: Meiſtare, hvert er hid hædſta (ſtærſta og hellſta) Bodord i Løgmaalenu. So ad þeſſe Madur vanbrwkade ſijna Vitſku, þar hañ med henne freiſtade Chriſts, i ſtadeñ fyrer þad, ad hønum bar ad ſtunda epter ad undervijſa bæde ſiaalfum ſier, og ødrum til Saaluhiaalpar. 2. Tim. 3. Hañ kallade hañ Meiſtara, og þeinkte þo ad vera hañs Yfermeiſtare.

Hvad

Hvad siaaum vier hier af?

Þeirra ogudlegu vondt Haattalag, ad þeir brwka þær Saafur, sem Gud hefur þeim laanad, ecke honum til Heidurs, helldur miklu framar til ad freista hans, og honum til Vanheidurs, jaa, ad þeir tala opt eitt med Munnenum, en meina þo annad i Hiartanu.

Hvad meinar han þar med, ad han spyr han um þad fyrsta Bodord i Logmaalenu?

Gydingarner sundurskiptu Logmaalenu i morg Bodord stor og smaa, og med þvi þad voru adskilianlegar Meiningar um þad, hvert þad hædsta Bodord skyllde vera. Sumer hielldu, ad Bodorded um Sabbaths Dagen, adrer ad Boborded um Offranernar være þad hædsta, og so framvegis. So hiellt Logvitringuren, ad JEsus munde ecke audvelldlega kunna ad greida vr þessu, og svara til þessa Spursmaals.

En hveriu svarade JEsus hier uppaa?

Han sagde til hans, þad, ad þu skallt elska Drotten Gud þin, af ollu Hiartta þinu, og af allre Ondu þine, og af ollu Hugskote þinu, þetta er hid fyrsta og stærsta Bodord, en hitt anad er þessu likt. Þad ad elska skalltu Naunga

þiñ sem sialfañ þig. J þessuum tveim-
ur Bodordum, er iñebunded allt Løg-
maal og Spameñerner, og jafnvel þo
hañ hefde vel Ordsøk til ad straffa hañ,
og seigia, þu Hræsnare, þvi freistar þu
mijn; Edur komed hønum sialfum til
ad seigia hvad i Logmaalenu skrifad stæde,
so sem hañ giørde einum af hañs Selskap
Brædrum, Luc. 10. Þaa samt svarar hañ
hønum med allre Hogværd, og Blijdu,
og iñebindur allt Løgmaaled i tveimur
Kiærleikans Bodordum, Deut. 6. nefnel-
ga, ad vier skulum elska Gud af øllu Hiar-
ta, og vorn Naaunga sem sialfa oß.

Hvad keñer hañ oß hier med?

Fyrst; keñer hañ oß med sijnu Epter-
dæme, ad vier sieum jafnañ reidubuner
Andsvar ad giefa hverium Mañe þeim sem
Skials krefia, af þeirre Von, sem i oß er.
1. Pet. 3. Og þeim heimska skulum vier
svara epter siñe Heimsku, so hañ laate sier
ei þykia, ad hañ sie higgeñ. Prov. 26.
Þo aa þad ad skie med allre Hogværd og
Blijdleika; þar nærst syner hañ oß, ad Elska
sie Løgmaalsens Uppfilling og Suña
Bodordsens. 1. Tim. 1. GUd, sem þañ
ædsta goda, skulum vier elska yfer allt

Hluter

Hlute fram, af øllu Hiarta, af allre Saal, og øllum Kroptum, eñ vorn Naunga, sem er vort Holld og Blod, skulum vier elska sem sialfa oß. Hier um maa lesa Utlegginguna yfer Gudspialled þañ Þrettanda Suñudag epter Trinitatis.

Hvad talar Evangelisteñ um þad añad, nefnelega um JEsu Spurningu, ad hverre hañ spurde Phariseana?

Hañ seger: Eñ þaa Pharisearner voru so til samans komner, spurde JEsus þaa ad og sagde; hvad vyrdest ydur um Christ, hvers Son hañ sie? Þeir under Personu Løgvitringsens spurdu hañ aadur, hvert þad ædsta Bodord være i Løgmaalenu, hvar uppaa hañ hafde svarad hønum aanægiañlega, so hiñ Skriftlærde maatte sialfur medkeña og segia til hañs: Meistare, i Sañleika sagder þu vel, þviad eiñ er Gud, og eingeñ er þar añar eñ hañ, og ad elska hañ af øllu Hiarta, og af øllu Hugskote, af allre Saal, og øllum Kroptum, og ad elska Naunga siñ sem sialfañ sig, þad er øllum Breñefornum meira og øllu Offre. Marc. 12. Nu framsetur hañ eina Spurning fyrer þaa aptur, um þad sem eñ meire Naudsyn er aa

ad

ad vita, nefnelega um Christum, sem er Lögmaalsens Ender og Kiarnen af Evangelio; og vill vita, med þvi ad bæde þeirra Forfedur, og þeir væntu epter hañs Tilkomu, hvert þeir hefdu þaa rettu þeckingu um hañ og hañs Persónu.

Hvad keñer hañ oß hier med?

Þetta, ad þad er sw ædsta og stærsta Vitska og Þecking, ad þeckia Gud rettelega, og þañ hañ wtsende JEsum Christum Joh. 17. og þegar vier af Lögmaalenu siaaum vorar Synder, og merkium hvert Straff og Bölvan vier med þeim høfum forþenad: Þaa er eckert betra Raad til, eñ ad flya til Christum, sem er Ender Lögmaalsens, og segia til Lögmaalsens, sem oß aaklagar, og til vorrar eigeñ Samvitsku, sem vill fordæma oß: Hvad vyrdest ydur um Christ? Hvers Son hañ sie? Er hañ ecke sa Guds Son, sem i Tijmans Uppfyllingu var sendur, fæddur af Kviñu, og Lögmaalenu underorpeñ, uppaa þad hañ frelsade þaa, sem under Lögmaalenu voru, so ad vier medtækium Barna Utvalningena. Gal. 4.

Hveriu svorudu þeir hier uppaa?

Þeir søgdu hønum Davids, med þvi

þvi þeir vißu af Ritninguñe, ad hañ ætte ad fædaſt af Kyne og Hwſe Davids.

Eñ var þetta fullkomed Andſvar?

Ney; Þeir gaafu alleinaſta Svar um Chriſtum, ſo miked ſem hañs Mañdom aahrærde, eñ eckert tala þeir um það, ad hañ ſkule under eins vera eirn ſañur Gud: Þeirra Svar var ad ſeñu gott og ſañferdugt, eñ þo ofullkomed, þvi þar ſem hañ alleinaſta hefde vered Davids Sonur, og ecke Guds Sonur under eins, þa hefde hañ eingvañveigeñ kuñad oß ad frelſa og endurleiſa.

Hverneñ beviiſade JEſus þetta þeirra Svar ad vera ofullkomed?

Med þeſſu ad hañ ſagde til þeirra; hverneñ kallar David hañ þaa i Anda (af Guds Anda ſierlegre upplijſingu) Eiñ Herra, þar hañ ſeger i Pſ. 110. DRotteñ (Gud Fader) ſagde mijnum Drottne (til ſijns Eingetna Sonar) ſittu mier til hægre Handar, þaangad til ad eg legg Ovine þijna til Skarar Fota þiña. Nu ef David kallar hañ Herra, hverneñ er hañ þa hans Sonur, ſem hañ villde ſegia: Þier ſeged, ad hañ ſie alleina Davids Sonur, eñ David kallar hañ ſiaalfur ſiñ DRotteñ, hverneñ kañ hañ þaa ad vera bæde Da-

vids Sonur og Davids Herra. Marc. 12.

Kunnu þeir ad svara Christo hier uppaa?

Nei, þvi eingeñ gat svarad hønum einu Orde, og eige dyrfdest nockur upp fra þeim Dege hañ framar ad spyria.

Hvad lærum vier hier af?

Þad, ad Hollld og Blod kañ ecke ad openbera oß þañ Lærdom um Christi Persionu og Embætte, helldur hliotum vier þad alleinasta ad læra af GUDS Anda Upplysingu.

Kant þu þaa ecke, mitt Barn; fyrer Guds Naad ad svara uppaa þad Spursmaal, og segia, hvers Sonur ad Christur sie?

Sañarlega, Gude sie Lof! þaa veit eg af Guds Orde, og kañ þar uppaa ad svara, af mijnum Catechismo, ad hañ er Guds og Mariu Sonur, eiñ sannur Gud fraa Eilijfd af Fødurnum fæddur, og eiñ sannur Madur, fæddur af Mariu Meiu, sannur Gud og Madur i eiñre Persónu, Davids Sonur epter Mañdomenum: Eñ Davids Herra epter sijnum Guddome: Hañ var bæde aadur eñ Abraham var, so og epter þad Abraham var. Joh. 8. Hañ er ad soñu af Fedrunum komeñ epter Holldenu, eñ hañ er þo eiñ Gud yfer øllum Hlutum blessadur ad Eilijfu.

Eilijfu. Rom. 9. Nu þier, vor blessade HErra JEsu Christe Guds Sonur, sem ert Rot Davids Ættar, og skiær Morgunstiarna. Apoc. 22. sie med Fodurnum og heilogum Anda Lof og Dijrd fraa Eilijfd til Eilijfdar. Amen.

## Nitianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Mattheus i 9. C.

J þann Tijma, JEsus stie aa Skip, for hann yfer um aptur, og kom i sijna Borg. Og siaa ad þeir færdu til hans Limafalls siwkann Mann, þann er laa i sinne Reckiu. Enn þaa JEsus leit nu þeirra Trw, sagde hann til hins Limafallssiwka: Vertu hughraustur, Sonur, þijnar Synder eru þier fyrergefnar. Og siaa, ad nockrer af Skriftlærdum sogdu med sialfum sier: Þesse gudlastar. Og sem JEsus saa þeirra Hugreiningar, sagde hann: Hvar fyrer hugse þier so vondt i ydrum Hiortum? hvert er audvelldara ad segia: þier eru þijnar Synder fyrergefnar, ellegar ad segia, statt upp og gack?

Eñ so ad þier vited, þad Mannsens Sonur hefur Makt a Jørdu ad fyrergefa Syndernar, þa sagde hañ til hins Limafallssiwka: Statt upp, tak i burt Sæng þijna, og gack i þitt Hws, og hañ stod upp og for i sitt Hws. Þegar Folked sa þetta, undradest þad, prijsande Gud, sa ed þvilijka Makt hefde Mønunum gefed.

Uṁ hvad verdur talad i þessu Gudspialle?

Uṁ Christi Krapta-verk, sem hañ giørde a þeim alvisna, fyrst so miked sem ahrærde þad sem undañgeck, og var so sem Ordsok til Krapta-verksens. J annañ Maata, Krapta-verked i sialfu sier. J þridia Maata, þad sem Krapta-verkenu epterfylgde.

Hvad talar Evangelisteñ uṁ þad fyrsta?

Hañ seger: JEsus stie a Skip, for yfer uṁ aptur, og kom i sijna Borg.

Nær skede þesse JEsu Reisa og Yferferd?

Evangelisteñ seger, ad þad hafe skied epter þad hañ i Bygdum Gergeseners Mañа, hafde utreked Dioflana af tveimur Diofuloodum Moñum, og giefed þeim Leife ad fara i Gergeseners Svijnahiord, hverier

hverier epter pad þeir voru i hana farner, þaa fleigde hun sier med Ys mikelle i Siooeñ, og drekteſt i Vatnenu, og oll Borgeñ, epter þad Hyrdararner hofdu kunngiort hvad ſkede, geck wt i mote JEſu, og bææ du hañ burtfara af þeirra Landa-merkium, þar þeim bar ad fagna yfer þeſſu hans Krapta-verke, og þeſſara aumu Manna Heilbrigde og Frelſe, og ad hafa beded hañ, ſem var ſoddañ eiñ almættugur HErra, og hafde einneñ Valld yfer Dioflunum, ad vera hiaa ſier. Þaa hofdu þeir ſijn Svijn kiærare eñ hañ, og bææedu hañ ad fara fraa ſier, hvar fyrer hañ tafde og ecke leinge hiaa þeim, helldur ſtie hañ aa Skip, og for yfer um aptur. Matt. 8.

Hvad ſkoꝛum vier hier af?

Vier ſiaaum hier fyrſt Mannaña Faavitſku, ſem vyrda ſijn Svijn, eg meina ſitt ſvijnslega Framferde, Epicuriſkañ Lifnad, og Vellyſt i Heimenum meira, eñ þeirra Gud og JEſum, kunne þeir alleinaſta ad hafa ſitt Hlutſkipte i þeirra Lijfe Pſ. 17. og lifa epter þeß rijka Mans Veniu hvern Dag koſtulega, og i Glede Luc. 16. þaa ſkeita þeir lijted um JEſum og hañs Nærveru. Þar næſt; ſiaaum

vier

Christi Rettlæte, sem vijkur fraa þeim, sem med sijnu vondu og ogudlegu Athæfe styggia han̄ fraa sier, þvi þeir han̄ forakta, þaa vill han̄ aptur fyrerlijta. 1. Sam. 2. En̄ vei þeim, fraa hverium han̄ vijkur. Hos. 9.

Hvern mœta hagade JEsus þessare sine Ferd?

So sem han̄ aadur stie aa Skip og for yfer um Sioen̄ i Byggder Gergeseners Man̄a, so stie han̄ nu aptur aa Skip og for yfer um aptur. Han̄s Umgeingne Lijf og Lifnadur aa han̄s Hiervistar Dögum, var ei an̄ad en̄ jafnadarleg Ferd og Reisa, ecke alleinasta til Lands, helldur og opt til Vatns.

Kan̄ hier nockur Huggun wt af ad dragast?

Jaa; þeir siofarande Men̄, er med Skipunum fara aa Sionum og fremia sijna Höndlun aa þeim storu Vötnum Ps. 107. kun̄a ad hugga sig þar vid, ad JEsus med sine Skips-för hefur helgad og lijka sem stadfest þeirra Stand og Höndlun, en̄ þeir skulu kappkosta, ad hafa han̄ alltijd med sier, sem han̄ rietta Stiornara, in̄an̄ sin̄a Skipsborda, so han̄s Fyrersion meige Skiped vardveita.

Til hvers Stadar kom JEsus, epter þad han̄ for yfer um aptur?

Han̄

Hañ kom i sijna Borg.

Hvad fyrer ein Borg var þad?

Þad var Capernaum. Marc. 2.

Hvar fyrer kalladest Capernaum Christi Borg?

Fyrer þad hañ bio þar, og hafde þar hellst sitt Adsetur. Matt. 4. Jaa fyrer þad hañ frañsette þar so margar saaluhiaalplegar Predikaner, hvar fyrer hun segest og ad vera upphafeñ til Himiens. Matt. 11.

Hvern Lærdom kuñum vier oß hier ut af ad draga?

Þeñañ, ad vier skulum so hegda oß, ad vorer Stader, Hus og Hiørtu kuñe ad vera JEsu andleger Stader, hvar hañ kuñe ad bua med siñe Naad Huggun og Blessan, hvad ed skiedur nær vier utrekum og wtdrijfum Synd og Vondsku af vorum Stødum Hwsum og Hiørtum, og laatum JEsum, og hañs Ord rijkuglega byggia aa medal vor Col. 3. og vel sie oß, ef vier þañeñ kappkostum ad vera Guds Borg, jaa ad vera saa heilage Stadur og Herberge hins hædsta, þaa vill hañ siaalfur vera midt þar iñe. Ps. 46.

Þegar JEsus kom til Capernaum, hvad skede þaa?

Gudspiallamadureñ seger: og siaa, ad þeir færdu til hañs Limafallssiukañ mañ, þañ er laa i siñe Reckiu, þeir adrer tveir Evangelistar Marcus og Lucas tala

um

um þetta med fleirum Kringumstædum, og segia, ad þar hafe komed nokrer til hans, færande eirn Limafallssiukan, sem boren hafe vered af fiorum, og þar þeir gaatu ei komest til hans fyrer Folkenu; opnudu þeir Þekiuna upp yfer honum, og grofu þar i gegn, og lietu so Sængena nidursiiga, sem hinn limafallssiuke laa i fram fyrer Jesum. Marc. 2.

Hvad siaaum vier hier af?

Vier siaaum hier bæde Eymd þess faatæka Mans, ad hann var altekenn af Limafallssiyke, og kvalldest þunglega sem Hofudsmannsens Þenare Matt. 8. og þad var eckert heilbrigt aa hans Liikama, edur i hans Hollde; hann kunne sier til gagns, hverke ad hræra Hond nie Fot, helldur hlaut hann ad laata adra bera sig aa Sængenne. Hvarfyrer hann var ein Imind uppaa Eymd Mannkynsens, epter þad hriggelega Syndafall, bæde Saalar og Liikamans vegna, so og siaaum vier hier þessara Guds Barna storu Medaumkun og Kiærleika vid þennann auma Mann, ad þeir lietu hans Neyd sier til Hiarta gaanga, baru hann til JEsum, og lietu eingvann Hlut hindra sig fraa þvi, ad audsyna honum sinn Kiærleika.

Hvad

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad hafa Medaumkun yfer Eimd vors Naunga, vera med Job, Auga hinsſionlauſa, og Fætur hins fotlama Job. 29. en ſierdeiles ſkulum vier med audmiukum Bænum bera þañ ſiuka fram fyrer JEſum, og ei láta nockra Hindrun, Omak, edur Mædu aptra oß þad ad giera, þeinkiande, ad Kiærleikuren umber alla Hlute 1. Cor. 13.

Þegar ſaa limafalls-ſiuke var þañeñ lagdur fram fyrer JEſum, hverneñ tok hañ þaa aa mote honum?

Evangeliſteñ ſeger: Eñ þaa Jeſus leit nu þeirra Trw, ſagde hañ til hins limafalls ſiuka: vertu hughrauſtur Sonur, þijnar Synder eru þier fyrergefnat.

Hvad var þad, ſem Jeſus ſaa, og kom honum til ad tala ſo huggunarſamlega til hins limafalls-ſiuka?

Hañ ſaa þeirra Trw, ecke alleinaſta þeß Limafalls-ſiwka, helldur og þeirra medaumkunarſomu Guds Barna, ſem komu fram med hañ.

Hvad er þad, ſem Guds og JEſu Augu liſta ſierdeiles epter?

Þad er Trweñ, hun er ſem þad feita i Offreñu, og ſem Saaleñ i Lijkamanum, er giorer alla vora Gudhrædſlu og Þionuſtu

lifande og þocknañlega: Eñ aan heñar er omøgulegt Gude ad þocknast. Heb. 11.

Kañ þaa nockur holpeñ ad verda fyrer añara Trw?

J þeim lijkamleguEfnum kañ ad sonnu añara Bæn og Trw nockud ad hiaalpa, sem vier siaaum af Epterdæmunum þeß konunglega Mañs, Hundrads-Hofdingians, þeirrar Canversku Kviñu, og añara fleire. Hvar fyrer og S. Jacob seger, ad Madur skule bidia fyrer þeim Siwka, og Bæneñ Trwarennar mune frelsa hañ. Jac. 5. Eñ i þeim andlegu Efnum skal sierhver lifa af sinne eigeñ Trw. Hab. 2.

Hverneñ talade hañ þaa til hins Limafalls-siwka?

Þanneñ: Vertu hughraustur Sonur, vertu med godu Gede, og laattu þijnar Synder og þiñ eigeñ Overdugleika ei skielfa þig, þvi þijnar Synder eru þier fyrergefnar.

Hvad gaf JEsus hier med til vitundar?

Þad, ad hañs Synder være Ordsøk til hañs Siwkdoms, og ad hañ være laangtum aumare aa Saalunne eñ Lijkamanum, hvar fyrer þad være meire Þorf ad heilbrigda fyrst Saalena, i hverre ad være Roteñ til þeß lijkamlega Siwkdoms, þar fyrer skyllde hañ i eingvañ Maata laata

sijnar

sijnar Synder og Overdugleika koma sier tilEfaseme, helldur skyllde hañ miklu framar vera hughraustur, og trwa, ad hañs Synder være honum fyrergefnar.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad aalijta Syndena sem eina Rot og Uppsprettu til allra Meinsemda, Sotta og Vanheilsu. Ef værum vier aan Syndar, þaa værum vier vijst aan Sorgar. Eñ med þvi vier syndgum daglega og styggium Gud, þaa meigum vier maklega medkienna med Ræningianum aa Krossenum, þegar hañ tiptar og straffar oß, ad vier medtøkum hvad vorer Giørningar eru verder. Luc. 23. Og segia med David: Þad giører þijn Reide, ad vier so forgøngum, og þijn Grimd, þad vier hliootum so skindelega i burt, þviad vorar Misgiørder setur þu frañ fyrer þig, vorar ovitañlegar Synder i Lioos fyrer þijnu Auglite. Ps. 90. Þar fyrer, ef vier vilium verda heilbrigder aa Lijkamanum, þaa skulum vier fyrst leita epter Lækningu fyrer Saalena, og faa eina naaduga Syndanna Fyrergefning; Eñ ei so sem marger giøra, þvi midur, reina fyrst adskiliañleg Medøl, sem þeir kunna. Eñ þegar øll Von um Lijkamans

Heilbrigde er wte, þa fara þeir fyrst ad þeinkia um̃ Lækning fyrer Saalena.

Var þesse JEsu Huggunar-full Ræda vel upptekeñ af øllum þar vidverande?

Nei, þvi Evangelisteñ seger: Og siaa, ad nockrer af Skriftlærdum søgdu med sialfum sier: Þesse gudlastar. Gudspiallamadureñ Marcus talar hier so- leides um̃; Eñ þar voru nockrer Skrift- lærder, saatu þar og hurudu i siinum Hiort- um, þvi talar þesse sliika Gudlostun? hver maa Syndernar fyrergefa nema Gud eiñ? Þeir aalitu JEsum alleina sem eiñ naatt- urlegañ einunges Mañ, og hielldu þad være Gudlostun, ad hañ tileinkade sier þad, sem Gude alleina bære.

Hvad siaaum vier hier af?

Þad, ad eckert er so vel talad og giort, ad þad kunne øllum ad liika. Þvi alltiid finnast þeir, sem i siinum Hiortum dæma, og med siinum Tungum tala illa, jafnvel um þau bestu Ord og Verk. Liika sem þær skadlegu Flugur, er ei fyrerverda sig ad setia siin Ohreininde uppaa þañ fegursta Speigel og hviitustu Klæde.

Hvad sagde JEsus hier til?

Evangelisteñ seger: Og sem JEsus

saa

sa þeirra Hugreñingar/sagde hañ/hvar fyrer huxe þier so vondt i ydrum Hiørtum? hvert er audvelldara ad segia, þier eru þijnar Synder fyrergefnar, ellegar ad segia; statt upp og gack? Sem hañ villde sagt og talad hafa: Þier þeinked, ad þar sem eg hefe fyrergefed hønum Syndernar, og sagt, þier eru þijnar Synder fyrergefnar/so hefde eg og kunnad ad hafa sagt/statt upp og gack. Eñ seig mier, Kiære/hvert er audvelldara ad segia: Þier eru þijnar Synder fyrergefnar? ellegar ad segia; statt upp og gack. Marcus seger: Og JEsus fañ strax i sijnum Anda/ad þeir þeinktu so med sier, og sagde til þeirra: Þvi þeinke þier so vondt i ydrum Hiørtum.

Hvad siaxum vier hier af?

JEsu Alvitsku/sem sier þær infstu Mañanna Huxaner og Þanka. Vel meiga þeir segiast ad vera tollfrijer fyrer Mønnunum/eñ aungvañveigeñ fyrer hønum/þvi hañ veit gløgt hvad med hverium Manne er. Joh. 2. Og formerker vorar Hugreñingar aaleingdar. Psl. 139. Hvar fyrer vier skulum gefa giætur ad, hverier Þankar uppstijga i vor Hiørtu.

Læknade hañ og þañ Limafalls-siwka i lijkamlegañ Maata?

Jaa, þvi so seger hañ: Eñ so þier vited ad Mañsens Sonur, sem er Gud og Madur i eiñre Persónu, so og epter þeirre manndomlegu Natturu, hefur Makt aa Jørdu til ad fyrergefa Syndernar, þaa sagde hañ til hins Limafalls-siwka: Statt upp, tak i burt Sæng þijna og gack i þitt Hws. Og hañ stood upp heill og heilbrigdur epter JEsu Ordum og fyrer Hañs Almætte, og foor i sitt Hws; og med þessum Hætte bevijsade Jesus sig ad kunna ad lækna so vel Lijkamañ sem Saalena: Og med þvi hañ med sijnu kroptugu Orde kunne ad giøra þad eina, þaa hafde hañ og ei minne Krapt og Makt til ad giøra hid annad.

Hvad syner JEsus hier?

Sitt Almætte, ad hañ kañ ad giøra allañ Manneñ heilañ. Joh. 7. Hañ kañ ad lækna bæde Lijkamans og Saalarennar Meinsemd. Þar nærst; ad so miklu leite, sem Saaleñ er betre eñ Lijkameñ, so miklu skadlegre er Saalarennar Siwkdomur eñ Lijkamans, jaa so miklu meire Krapt þarf til ad lækna Saalarennar eñ Lijkamans Meinsemd.

Hvad

Hvad fylgde ad ſijduſtu epter þetta Krapta-verk?

Folkſens Forundran, og Þackargiørd þar fyrer til Guds, þvi Evangeliſteñ ſeiger: Eñ þa Folked ſaa þetta, undradeſt þad, priiſande GUD, ſaa ed þvilijka Makt hefde Mønnunum gefed (þad er JEſu; hvern þeir þecktu ecke eñ nu rettelega ad vera eiñ ſannañ Gud og Mann) bæde til ad fyrergefa Syndernar og lækna Siwkdomeñ. Gudſpialla-madureñ Marcus ſeger, ad þeir hafe aller ottaſt, heidrad Gud og ſagt; alldrei høfum vier ſlijkt ſied.

Hvad ſkulum vier hier af læra?

Þad, ad forundraſt yfer Guds undarlegu Verkum, og priiſa hañ fyrer allar þær Velgiorder, er hañ oß veiter, til Liifs og Saalar Pſ. 116. og ſierdeiles ſkulum vier þacka hønum þar fyrer, ad hañ hefur gefed ſijnum Þenurum i þvi heilaga Embætte þaa Makt, ad þeir hafa Valld til ad fyrergefa Syndernar aa Jordu. Matt. 16. Vier vilium enda vora Rædu, og ſierhver i ſiñ ſtad ſegia med David: Lofa þu Saala mijn, DRotteñ, og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafn, lofa þu DRotteñ Saala mijn, og forgleim ei þvi goda, ſem hañ hefur giort þier, hañ hvøred fyrergiefur þier allar

þijnar Synder, og græder allar þijnar Meinsemder Ps. 103. þier, þu Þrieine Gud, sie Lof og Dijrd fra Eilijfd til Eilijfdar, Amen.

# Tuttugasta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar Matth. i 22. Cap.

Nu þeim Tijma. JEsus svarade og talade i añad siñ i Epterlijkingum til þeirra og sagde. Himnarijke er lijkt þeim Konge, sem Brudkaup giørde Syne sijnum, og sende wt sijna Þiona, ad kalla Bodsmennena til Brudkaupsens, og þeir villdu ecke koma. J añad siñ sende hañ wt adra Þiona og sagde. Sege þier Bodsmønnunum; sia ed mijna Maaltijd hef eg tilbwed, mijner Uxar og aled Fie er slatrad, og allt er reidubwed, komed til Brudkaupsens. Eñ þeir forsmadu þad, og geingu i burt, eirn a siñ Bugard, eñ annar til siñar Sijslunar, eñ hiner adrer gripu hañs Þiona, og løgdu þeim Hadungar til og drapu þa. Eñ þa Kongureñ heyrde þetta, vard hañ reidur, og sende wt

wt sitt Herlid, og fyrerfor þessum
Mordingium, og brende upp þeirra
Borg. Þa sagde hañ til siña Þiona,
Brudkauped er ad sönu reidubwed;
eñ þeir sem bodner voru, þeir voru
þeß ei verduger. Þar fyrer fared wt aa
Gatnamoteñ, og biodед til Brud-
kaupsens, hverium sem þier fiñed, og
hañs Þionar geingu wt aa Strætёñ, og
samañsöfnudu öllum þeim, sem þeir
fundu, vondum og godum. Og
Brudkauped vard fullt med bordsett
Folk. Eñ þaa Kongureñ gieck iñ, ad siaa
þaa, sem til Bordsens saatu, saa hañ
þar eiñ mañ, eige klæddañ Brudkaups
Klæde, og sagde til hañs; Viñur, hvern-
eñ komstu iñ hingad, hafande ecke
Brudkaups Klæde? Eñ hañ þagde.
Þaa sagde Kongureñ til siña Þienara,
binded hañs Hendur og Fætur, og
kasted hönum wt i hiñ ystu Myrkur,
þar ed vera mun Op og Tannagnijst-
ran; þviad marger eru kallader, eñ
faaer wtvallder.

Hvad hefur þetta Evangelium iñe ad hallda?

Christi Epterlijkingu um þañ Kong,
sem Brudkaup giörde Syne sijnum.

Hvad marga Parta høfum vier ad athuga i þessare Epterlijkingu?

Tvo; nefnelega, fyrst um Brudkaupsens Tilreidslu og Bodsmannaña Kollun. Þar næst; um Giestaña edur Bodsmannaña Skodun.

Hvad talar Gudspiallamadureñ um þad fyrra?

Hañ seger: JEsus svarade, þad er, hañ hiellt vid ad predika og keña Gydingunum, og epter þad hañ hafde framsett fyrer þa Epterlijkinguna um þa vondu Vijngards Meñ, jafnvel þo þeir yppurstu Prestar og Pharisei formerktu þad hañ talade um þa, og yrdu reider þar af, og leitudust vid ad grijpa hañ, so liet hañ þad þo ecke hræda sig, edur hindra fra þvi, ad giøra sitt Embætte. Helldur talade hañ aptur i Epterlijkingu til þeirra, og sagde: Himnarijke er lijkt þeim Konge, sem Brudkaup giørde Syne sijnum. Og sende wt sijna þiona, ad kalla Bodsmennena til Brudkaupsens, eñ þeir villdu ecke koma.

Hvad skilst hier fyrer Himnarijke?

Guds Naadar-rijke, og hañs Kyrkiu Tilstand hier a Jorduñe, þvi þad samlijkest hier vid þad Gestabod, til hvors ad bodner

er verda bæde iller og goder, i hveriu ad finst eiñ Gestur, sem ecke hefur Brudkaups Klæded, og þar fyrer verdur hønum wt kastad, hvad ecke kañ ad segiast um Gudds Dijrdar-rijke i Himnenum, þvi þar maa eckert almennelegt iñgaanga. Apoc. 21. Ei helldur skal nockur þadañ wtkastast, sem iñ er komeñ.

Hvar vid samlijkest þetta Himnarijke?

Vid eiñ Kong/sem Brwdkaup giørde Syne sijnum.

Hver aa ad skiliast fyrer þessañ Kong?

Saa himneske Fadereñ, sem er saa hiñ sæle og alleina vollduge Kongur Kongaña, og Drotteñ Drottnaña. 1.Tim, 6. Eiñ mikelshaattar Konungur yfer allre Jardarkringluñe. Ps.47. Hvers Stoll Himeneñ er, og Jordeñ hañs Fotskør. Es.66.

Hver er Sonur þessa himneska Konungsens?

Hañs eilijfe og Eingietne Sonur/sem hañ med eilijfum og ogrijpanlegum hætte hefur geted af siñe Guddomlegre Very. Ps.2. Hvar fyrer hañ kallast Liome hañs Dijrdar og riett Jmind hañs Veru. Heb.1.

Hverneñ hefur þesse Himneske Kongur giort Brwdkaup Syne sijnum?

J þvi, ad hañ hefur sendt hañ, og laated hañ

hañ i Jomfru Mariu Kvide, taka uppaa sig vora mañdomlega Naatturu, og med einre fastre og osundurskilianlegre Personulegre Einingu, so sem trulofa sig heñe, medtaka hana i Einingu siñar Personu, og giøra hana hluttakande ad sijnum Guddomlegum Eigeñlegleikum, so og med siñe Verdskulldan og Forþenustu tilreidt eitt feitt Gestabod, og andlegañ Brudkaups Kost, ollu Folke, hier i Naad fyrer sitt heilaga Ord og hææverdug Sacramenta, sem þar skal fullkomnast aa ollum trwudum og utvølldum GUds i Eilijfu Lijfe.

Hvad aa þaa eigeñlega ad skiliast og formerkiast fyrer þetta Guds Sonar Brwdkaup?

Ecke hañs andleg Eining og Trwlofun, sem hañ hefur giört vid sijna andlega Brudur, þaa Christelegu Kyrkiu og heñar Lime, sem hañ hier hefur sier trwlofad. Hos. 2. Og i eilijfu Lijfe vill hañ med þeim, sitt Brwdkaup hallda. Apoc. 19. þvi mañeskiurnar verda syndar og fyrer Sioner settar i þessare Epterlijkingu, ecke sem ein trwlofud Brwdur, helldur sem iñbodner Gester og Bodsmeñ; Helldur aa hier fyrer Brudkauped ad skiliast eigeñlega, hañs Personuleg Eining, vid vora mañdomlega Naatt-

Naatturu, so sem þad var aalyktad fraa
Eilijfd, fyrersagt og wtmaalad i þvi gamla
Testamente, eñ nu fullkomnad i þvi nija.
Liet hañ og nockrum til Brwdkaupsens bioda?
Jaa, hañ wtsende sijna Þiona ad
kalla Bodsmeñena til Brudkaupsens,
hviad so sem Meñ plaga ad giora i jardnesk-
um Brudkaupum og Gestabodum, ad þeir
bioda ei alleinasta Gestunum nockrum
Tijmum aadur, helldur eru þeir og laatn-
er aa Brudkaups Degenum vita, ad nu sie
Tijme til ad koma; so hefur og i vidlijkañ
Maata saa himneske Kongureñ ei allein-
asta laated Moñunum bioda, og sierdeiles
Gydingafolke, sem var hañs Eigeñdomur,
hveriu hañ framar øllu ødru Folke kuñgior-
de sitt Ord, sijna Side og sijn Riettende
Ps.147. hañ hefur, sege eg, laated sijna Þen-
ara Spaamennena bioda til sijns Sonar
Brudkaups. Eñ þegar Brudkauped var
nu tilbued, og allt til reidu, og GUds
Sonur var Madur ordeñ, og i Heimeñ
komeñ, wtsende hañ siñ Þenara Johann-
em Skijrara, jaa siñ eigeñ Son, sem var
epter hañs Spaamans Embætte Þenare
og Þionustu-madur Umskurnareñar. Rom.
15. og hañs Lære-sveina, ad þeir skylldu
bioda

bioda heim til Brwdkaupsens. Þanneñ baud Johannes heim: Giored ydran, Himnarijke er naalægt. Matt. 3. So var og Brwdguneñ siaalfur lijka sem Bods-madur til þeirra, þvi so seger Gudspialla-madureñ Marcus i 1. Cap. Jesus kom i Galilæam, og predikade Evangelium af GUDs Rijke, so segiande: Tijmeñ er uppfylltur, og Guds Rijke naalægest, ydrest þier og trwed Evangelio. Einneñ wtsende hañ og sijna Lære-sveina, til ad laata þaa vita, ad nu være Tijme ad koma, þar hañ sagde: Fared wt, prediked og seged, þad Himnarijke er naalægt. Matt. 10.

Voru þesser Bodsmeñ þaa vilinger til ad koma?

Nei, þvi Evangelisteñ seiger: Og þeir villdu ecke koma, þeir voru GUDs Naust ohlijduger, þeir villdu ecke lijda hañs Þenara Aminningar, og med eiñre sannre Trw og Hlijdne koma til þeirrar andlegu Brwdkaups Maaltijdar.

Liet saa himneske Kongureñ þetta þaa so vera?

Nei, helldur sende hañ wt aptur adra Þiona, nefnelega, sijna Postula og Lære-sveina, Spaameñ, Spekinga og Skriftlærda. Matt. 23. bæde fyrer og epter sijns Sonar Dauda, og sagde: Seiger þier

þier Bodsmønnunum, siæed, mijna Maaltijd hefe eg tilbwed, mijner Uxar og aled Fie er slaatrad, og allt er reidubwed, komed til Brwdkaupsens. So sem Meñ til eins jardnesks og sierdeiles til eins konunglegs Brwdkaups og Maaltijdar tilbwa allt vel, slaatra Uxum og Ale-Fie, Bodsmønnunum til Matar. So liet og saa himnesk Kongureñ þessa Bodsmeñ vita, ad eckert vantade af þvi, sem hañ ætte til ad leggia; hañ hafde i Christo sijnum Syne, hverium hañ hafde so sem slaatrad og i Daudañ gefed fyrer þaa, tilbwed og tilreidt eina kostulega Saalar Maaltijd edur Fædu handa þeim. Og tilbwed eina rijkuglega og yferflootañlega Nægd, af andlegum og himneskum Giædum, sem hañ fyrer sijns Ords og Evangelii Predikun liet framsetia fyrer þaa. Hver Ord kunne hañ blijdare ad hafa og brwka til ad bioda þeim? fyrer hver þeir kynne ad leidast til ad koma.

Gieck þeim þaa þetta Kiærleiks-Bod til Hiarta, og komu þeir?

Ney; helldur forsmaadu þeir þad, og geingu i burt, eirn aa siñ Bugard, eñ añar til siñar Sijslunar, og þanneñ

hefdu

hofdu þeir meire Þanka um þad jardneska og veralldlega, eñ um þad andlega og eilijfa. Eñ hiner adrer voru eñ þar verre, þvi þeir gripu hañs Þenara, og logdu þeim Hand-ungar til og drapu þa. Matt. 23.

Eñ hverneñ tok sa himneske Kongureñ þetta upp?

Þa Kongureñ heyrde þetta (og þvi skylde hañ ecke heyra, sem Eyrad hefur plantad? Ps. 94.) vard hañ reidur, og sende wt sitt Herlid, sitt adskiliañlegt Straff og Plagur, og sierdeiles þeirra Romversku eydeleggiande Sriids-her, og fyrer þessum Mordingium, og brende upp þeirra Borg, og eydelagde alldunges þeirra Stad, Rijkes-Stiorn og Herradæme.

Liet hañ þar þar vid bliifa?

Nei, helldur sagde hañ til siña Þiona: Brudkauped er ad soñu reidubued, eñ þeir sem bodner voru, þeir voru fyrer sijna eigen Vondsku og Oþacklæte, med hvorin þeir racku þad fra sier, og hielldu sig sialfa eilijfs Lijfs omaklega Act. 13. þess ei verduger, þar fyrer fared wt a Gatnamoteñ, wt a Heidingiaña Tak-mork, hvar sa sañe Guds Vegur er eñ nu oþecktur, og Meñerner rasa a Syndaña villt-

villtum Veige, og bioded til Brwdkaup-
sens hverium sem þier siñed.

Giordu Þenararner epter þessare hañs Befalningu?

Jaa, þeir sømu hañs Þionar, nefne-
lega Christi Postular og Læresveinar,
og aller rettsinnader Kennendur, geingu
wt aa Vegeñ, uñ allañ Heimeñ, til allra
Þiooda, og samañsøfnudu, med Ord-
sens Predikun, øllum þeim, sem þeir fun-
du, vondum og godum, og Brudkaup-
ed vard fullt med bordsett Folk, i þvi ad
Heidingianna Tala er iñkomeñ. Rom. 11.

Hvad vill þaa JEsus med þessum Parte af Epterlijk-
ingunne oß kenna og undervijsa?

Fyrst; hañ stora Kiærleika Guds vid
oß Mennena, ad hañ hefur ei alleinasta
sendt siñ Son i Heimeñ, og laated hann
uppaa sig taka, og lijka sem trwlofa sier
vora manndomlega Naatturu, og þar med
tilreidt eina retta, yferfliootannlega Naad-
ar, Maaltijd og Brwdkaups Kost fyrer
oß, af øllum sijnum fødurlegum Velgi-
orningum; helldur wtsender hañ og so
ydduglega sijna Þenara, og lætur þaa dag-
lega Mønnunum bioda til þeirrar sømu
Naadar Maaltijdar og Brwdkaups. Stor
var Milde Kongsens Aßyeri vid sijna Und-

 ersaata,

ersæata, ad hañ giørde ei alleinasta sijnum Hofdingium og Hebergia-sveinum eitt ypparlegt Gesta-bod i hundrad og attatijge Daga; helldur og þar epter, þaa giørde hañ eitt Gesta-bod øllu þvi Folke, sem var i Susan Slote, bæde storum og smaaum i sio Daga. Eñ Naad þeß himneska Konungsens er þusundsinnum stærre, þvi hañ hefur i Christo sijnum Syne, giørt øllu Folke eitt feitt Gesta-bod, af klaaru Vijne, af Feite, af Merg, af Dreggialausu Vijne. Es.25. og lææted þeim øllum so vinsamlega bioda, segiande: Komed og eted mitt Braud, og drecked Vijned þad eg skeinke. Pr. 9. og þad aan Peninga og fyrer ecke neitt. Es.55. Þar nærst; vill Christur syna oß hier Mañanna Illsku og Obacklæte, ad sumer eru so mootviliuger, ad þeir vilia ecke koma; adrer so oskynsamer, ad þeir elska Heimeñ og þaa Hlute, sem eru i Heimenum, hañ jardneska og fæsfeingelega Hegooma, sijna Akra og Kaupmannskap, sem er ad sønnu godur i sinne rettre Brwkun, eñ skadlegur ef hañ er vanbrwkadur, framar eñ þad andlega og himneska; Þeir þridiu eru alldeiles so ogudleger og forherdter, ad þeir griipa hañs Þiona, leggia þeim Haadungar

ungar til, og drepa þær. 1. Cor. 4. Þeir eru oþacklaater og Bondskufuller, so um þær mꜳ þetta sannarlega segia: Þackar þu þannen Drottne, þijnum Gude, þu gallda og Heimsku-fulla Folk? Deut. 32. Og i þridia Mꜳta; þeß himneska Koningsens rettferduga strongu Reide vid sinnar Naadar Foraktara, þar han verdur þeim reidur, og bijr ein Her wt til Bardaga, jaa, Drotten sialfur kemur medur Herlide sinnar Reide, og sender wt einn griman Ovin i mote einnre Hræsnes Þiood. Es. 10. Hann vill uppvekia Elld i þeirra Borgarhlidum, sꜳ ed foreyda skal þeirra Hwsum, og ei skal hann wtsløcktur verda. Jer. 17. Jaa, hann vill wtbrinia Skepnurnar til Hefndar yfer þeim, og þad sem mest er, ad hann vill Guds Rijke frꜳ þeim taka, þad er sitt Ord og sijna Naad, og gefa þad ødrum þeim, sem þar af Avøxt færa. Matth. 21. Og þannen er fyrer Gydinganna Hrøsun Heidingium Heilsugiøf ordenn. Rom. 11.

Hvernenn kann þetta ad þena oß til Vidvørunar?

Vier skulum vara oß, so vier medtøkum ecke Guds Naad til forgefens, helldur læra af annara Skada vijser ad vera, þeinkiande, hvad hrædelegt þad er ad falla

i Hendur lifanda GUDS. Hebr. 10.

Hvad giørde Kongureñ, þegar Gesterner voru iñ geingner?

Hañ geck og iñ, þvi so seger Texteñ: Eñ þa Kongureñ geck iñ, ad siaa þa sem til Bordsens saatu, saa hañ þar eiñ Mañ eige klæddañ Brwdkaups Klædum.

Hvad aa ad skiliast fyrer þesse Brwdkaups Klæde?

Ein soñ og lifande Trw, med hverre vier iklædum oß Drottne vorum JEsu Christo. Rom. 13. og hañs Rettlæte, sem er þad retta Hiaalpræðes Klæde, og Rettlætesens Mottull. Es. 61. med hverium Klædum vier kunnum alleina ad hilia Klædleise vorra Saalna, og standast fyrer Gude.

Hvad talar Kongureñ til þessa overduga Gests?

Hañ sagde til hañs: Vinur, hverneñ komstu iñ hingad, hafande ecke Brwdkaups Klæde? eñ hañ þagde.

Hvad kenner hañ oß hier med?

Þetta, ad þad er forgefens, ad laatast vera eiñ Christeñ og Limur Christelegrar Kyrkiu, nema so sie, ad Madur hafe þa Christelegu Trw, og auglyse hana med Verkunum. Es. 29.

Svarade hañ nockru hier uppaa?

Nei,

Nei, helldur þagde hañ, og bætte illu at illt, hønum hefde vered betra ad hafa medkiendt siñ Veikleika, beded um Naad, og lofad ad betra sig. Þvi hvër hañ neitar sijnum Misgiørdum, þeim mun þad ecke vel vegna, eñ sa sem þær medkienner og fyrerlætur þær, mun Miskun ødlast. Ordsk. 28.

Hver Domur var ad sijdustu yfer þennañ Gest felldur?

Þad syner oß Texteñ: Þaa sagde Kongureñ til sinna Þenara, fyrer hveria skiliast eiga Einglarner. Ps. 103. binded hañs Hendur og Fætur, og kasted hønum wt i hin ystu Myrkur, þar ed vera mun Op og Tannagnijstran, þviad marger eru kallader, þad er, aller eru kallader, eñ faaer wtvallder. hier uñ maa lesa Utlegginguna yfer Gudspialled aa þeim Sunnudeige, sem kallast Septuagesima, edur fyrste Sunnudagur i Nijuvikna Fostu.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad ef vier vilium ecke þanneñ verda fraa Guds Auglite wtkastader, bindast med Myrkranna Hleckium, og liggia sem adrer Sauder i Helvijte, nagader af Daud-

anum. Ps. 49. Þar skulum vier leggia alla Astundan aa, ad koma fram fyrer hans Auglit med viliugum og rettskickudum Hiørtum, og kaupa þad hvijta Klæde af vorum JEsu, hveriu vier kunnum ad iklædast, so ad ei auglysest Vanvyrding vors Fatleises. Apoc. 3. Helldur mættum finnast aa sijdasta Dege iklædder og ecke nakter, og þaa yferklædast þeim Bwstad, sem er aa Himnum. 2. Cor. 5. Hvar til Gud hiaalpe oß fyrer Verdskulldan JEsu Christi, vors Sæalar Brwdguma. Amen.

# Tuttugasta og fyrsta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Johannes i 4. Cap.

Jö þan Tijma. Þar var eiñ Kongungs-madur, hvers Sonur ad siwkur laa til Capernaum. Þaa hañ heyrde þad, ad JEsus var komeñ af Gydingalande i Galileam, foor hañ til hañs og bad hañ, þad hañ fære ofañ, og læknade Son hañs, þviad hañ være ad mestu Daudur. Þaa sagde JEsus til hañs, nema ad þier siaaed Teikn og Stormerke, trwed þier

eige

eige. Konungs-madureñ sagde til hañs: HErra, far þu ofañ, adur eñ Sonur miñ andast. JEsus sagde hønum þaa, far þu, Sonur þiñ lifer. Og Madureñ trwde þeim Ordum, er JEsus sagde hønum, og geck þadañ: Eñ þaa er hañ foor ofañ epter, geingu hañs Þenarar aa moote hønum, og kunngiørdu hønum, segiande: Sonur þiñ lifer. Hañ spurde þaa þar ad, aa hverium Tijma þad hønum hefde batnad. Og þeir søgdu hønum: J giær uñ siøundu Stund hvarf fraa hønum Kalldañ; þaa formerkte Fadereñ, ad þad var uñ þañ Tijma, aa hverium JEsus hafde sagt, Sonur þiñ lifer. Og hañ trwde og allt hañs Heima-folk.

Hvad marger Partar eru athugande i þessu Gudspialle?

Tveir. Saa fyrre hlioodar uñ þeß konunglega Mans Reisu og Komu til Christum, leitande sijnum Syne Lækningar hiaa hønum. Annar uñ hañs Heimreisu til Capernaum, og hvad hønum mætte aa Leidenne.

Hvad hefum vier aptur ad athuga i þvi fyrra?

Fyrst, þeß konunglega Mans Komu til Christum. Þar næst; hañs Samtal vid Christum.

Hvad seger Evangelisteñ um̃ þad fyrra?

Hañ seger: Þar var eiñ Konungsmadur, hvers Sonur ad siwkur laa til Capernaum, þa hañ heyrde þad, ad JEsus var komeñ af Gydingalande i Galileam, for hañ til hañs.

Kañ nockur eigeñlega ad segia, hver þesse Konungsmadur hafe vered?

Nei, þar Evangelisteñ nefner hañ ecke; nockrer geta til, ad þad hafe vered Chusa, Forstoonar-madur Herodis, hvers Hwsfrw, Johanna, nefnest aa medal þeirra Kvenna af Galilea, sem epterfylgdu JEsu, og veittu hønum af sijnum Eignum. Luc. 8. Hvad sem um̃ þetta er, þaa gefur Orded edur Nafned til vitundar, ad hañ hafe vered eiñ ypparlegur og merkelegur Madur, og Forstionare i Hofgarde Herodis; Eñ hvad stoor og merkelegur Madur sem hañ var, þaa var hañ ecke frij fyrer Krosse og Motgaange, ad Siwkdomureñ kynne ecke ad hitta hans Son, og hoota hønum Dauda.

Hvad lærum vier hier wt af?

Þad,

Þad, ad jardneskur Heidur og Hefdarstand, kañ eingvañ ad frija fra Eymd, Krosse og Motgaange; a medal Mannaña verdur opt þeim storu og mektugu hlijst fyrer eiñre og añare Byrde og Alögum, sem hiner miñe haattar meiga bera; eñ fyrer Siukdome og Dauda er aungvum hlijst, þeir eru hvers Mañs, ja so og Maktarmaña og Yferherra, eige skalltu hyxa, ad þu muner frelsa þitt Lijf, fyrer þad þu ert i Kongsens Hwse, liet Mardocheus fordum segia Esther. Esth. 4. So þarf og eingeñ ad hyxa, ad hañ kuñe añad-hvert i Kongsens edur añara Storherra Hwsum ad vera framar frij fyrer Siukdome, Sorg og Dauda, helldureñ i þvi audvyrdelegasta Fiskimans Hreise.

Hvad fyrer eiñ Kroß var þad þa, sem komeñ var iñ fyrer þeß konunglega Mans Dyr, og knwde hañ til ad koma til Christum?

Þad var hañs Sonar Siwkdomur; hañs Sonur var siukur til Capernaum og la i Kolldu, sem sijdar verdur umgeted i Textanum, hver Neyd hañs Sonar geck honum so hardt til Hiarta, og hardara eñ þo þad hefde vered hañs eigeñ.

Hvad merkium vier hier af?

Þad, hvad stor ad sie Kiærleike riett-

sifiadra Forelldra vid sijn Born, þviad so sem þau eru vordeñ hluttakande i þeirra Hollde og Blode Hebr. 2. og komeñ fraa þeirra Hiarta, so gaanga þau þeim nær til Hiartans aptur. So sem þeir fagna iñelega yfer þvi, nær þeim geingur vel; þeir hafa Glede af þvi, ad siaa ad Synerner vare i Ungdome sijnum, sem nijplantader Kvister, og sijnar Dætur so sem wtskorner Pilarar, lijka sem Haller Ps. 144. so þar þvert aa mote reñur þeim þad rijkt til Hiarta, nær þeim geingur illa, og þau aññadhvert falla i Siukdom edur aðra Neyd, sem siaa maa af Jakobs, Davids, þeirrar Sunamitisku Kvinu, og añara Epterdæmum.

Hvad skulu Borneñ hier af læra?

Þad, ad elska og heidra sijna Forelldra, sem bera so stora Umhiggiu fyrer þeim; heidra Fedur þiñ af ollu Hiarta þijnu, og gleim ecke Harmkvælum þiñar Modur, minstu þeß, ad þu ert af þeim geteñ, og hvad kantu ad endurgiallda þeim fyrer þad sem þau hafa þier giort. Syr. 7.

Hver Urræde took Kongsmadureñ fyrer sig i soddañ Kroßburde?

Þau: ad þaa hañ heyrde, seger Evangelisteñ, ad JEsus var komeñ af

Gyd-

Gydingalande i Galileam, geck hañ burt til hañs, hañ bio i Capernaum, hvar JEsus hafde àd mestu leite sitt Adsetur, hiellt þar margar siinar Liifkroptugar Keñingar og Predikaner, og giorde adskiliañleg Kraptaverk: Þo heyrum vier ecke, ad hañ hafe nockurn Tijma aadur komed til Christum; helldur þar Krossen nu klemmer hañ, kemur hañ honum til ad taka uppaa sig laanga Reisu fraa Capernaum til Cana: So lærer hañ nu þad i siinu Hrigdarstande, til hvers hañ hafde lijted edur eckert þeinkt i siinu Velstande, og med hans Sonar Siwkdome leitast Gud vid ad utvega siaalfs hañs Saalu Læknisdom.

Hvad sioaum vier hier af?

Þad stora Gagn og Nytseme Krossens, ad hañ er sem eiñur Kiærleikans Bond, med hverium Gud dregur oß til sijn, vier sem annars hielldum oß laangt fraa honum. Þvi þegar Hormungeñ er fyrer Hondum, þaa vitia Meñ þijn DRotteñ, næred þu agar, þaa kalla þeir saargrætelega Es. 26. so sem Reykelsed gefur þaa fyrst af sier siñ þægelega Ilm, þegar þvi er kastad aa logande Elds Glædur, og Vijnbereñ þañ sæta Vokva, þegar þau eru

logd

løgd i Pressukiered. Eins læra Manneskiurnar best ad þeckia siñ Gud, og hønum ad þiona, þaa hañ sender þeim Krossens Bruna, og heimsæker þau med adskiliannlegum Hormungum. Hvar fyrer vier skulum ecke laata þañ Mootgaangs Bruna koma oss ovart, helldur aalijta hañ sem añañ Hiaalpræðes Kaleik fyrer vora Saal, jafnvel þo Hollde og Blode þyke hañ bitur og beiskur.

Hvad giørde hañ þegar hañ kom til JEsum?

Hañ bad, hañ villde koma ofañ og lækna Son siñ, þvi hañ være ad mestu daudur. Og jafnvel þo hañ giørde þad vel ad leita Jesu i hañs Naud, og hiellt aa siñe Bæn vid hañ um Hiaalpena, samt var þad stor Breiskleike, ad hañ vill fyrerskrifa hønum bæde Tijma og maata, hverneñ hañ skyllde hiaalpa, nefnelega, hañ skyllde koma ofañ og lækna Son siñ, hañ var ei so trwarsterkur, sem Hundrads-høfdingeñ, er bio i sømu Borg og sagde til Frelsarans; seig þu eitt Ord, og mun miñ Þion heilbrigdur verda. Helldur er hañ siñadur sem Martha, hver ed trude, ad JEsus alleinasta naalægur kynne ad hiaalpa Brodur hennar, segiande: Herra,

ra, ef þu hefder vered hier, þaa være Broder miñ ei laateñ Joh. 11.

Hvad sioaum vier hier af?

Vorn mikla Breiskleika, vier vilium ad sonnu i Neydenne syna þad, ad vier holldum oß til Guds, og truum honum vel, þo vilium vier giarnañ hafa Truna fyrer Augunum og i vorum Hondum, eins og Naaman hiñ Syrlendske þeinkte ad sonnu og trwde þvi, ad Eliseus kynne fyrer Guds Krapt ad giora sig heilbrigdañ, eñ þo so, ad hañ hefde skodad sig og teked aa sier. Jeg þeinkte (seger hañ) ad hañ munde koma wt til mijn, og gaanga fram ad, og aakalla Nafn DRottens siins Guds, og hræra med sinne Hende vid þañ Stad, og taka so Spitelskuna i burtu. 2. Reg. 5.

Hveriu svarade JEsus hier til?

Hañ straffade hañs Vantrw og Breiskleika, segiande: Nema þier siaaed Teikn og Stormerke, þaa vilie þier ecke trwa.

Hvad straffar hañ hier?

Þeß konungle ga Mañs og añara Vantrw, hverier ecke vilia Gude trwa, nema so sie þeir siaae Teikn og Stoormerke, og hafe Trwna lijka sem i Hondunum, og þetta var Gydinganna gamall Vane, þviad so

sogdu

sögdu þeir til JEsum: Hvad giorer þu fyrer Teikn, so ad vier siaum og trwum þier. Joh. 6. Þar fyrer seger Christur: Þetta vonda og horunarsama Slekte leitar Teikns. Matth. 12. Einneñ seger S. Pall, Gydingar oska Teikns, og Grykter spyria ad Speke. 1.Cor. 1. Og so eru eñ nu marger, sem hverke vilia trwa Guds Fyrerheitum nie Hotunum, nema þeir siae Teikn, og hafe Trwna so sem i Hondunum, þeinkiande ecke, ad Trweñ er eitt örugt Traust þeirra Hluta, sem Madur vonar, og efar ei um̃ þad, sem hañ sier ecke. Hebr. 11. Þvi er so vared fyrer mörgum sem Thoma, er ecke villde trwa Christi Upprisu, nema hañ sæe Naglaförœñ i hañs Hondum, hvar fyrer Christur sagde: Sæler eru þeir, sem ecke siaa og trwa þo.

Hverneñ kañ þetta ad þena oß til Vidvörunar?

Vier skulum vara oß, ad vier hverke af Vantrw nie Forvitne oskum Teikns, helldur skulum vier laata oß nægia med þau Teikn, sem Gud hefur giort og uppteikna laated i sijnu heilaga Orde, og aan Aflaats bidia med David, segiande: Gior þu eitt Teikn vid oß, ad oß vel gange. Ps. 86.

Hvert tyok sar konunglege Madur þetta fyrer fulla Fraavijsan?

Nei,

Nei, helldur hiellt hañ áfram i þvi ad bidia um̃ Hiálp og Lækning fyrer siñ siwka Son: HErra, far þu ofañ ádur eñ Sonur miñ andast. Og jafnvel þo Christur sette honum fyrer Sioner hañs eigeñ Veikleika, þá var þo samt hañs Hurun hiá siinum siwka Syne. So hañ þeinkte eñ nu framar ad fá hañs Lijkama, eñ siina eigeñ Sálu Læknada. Af Breiskleika hafde hañ ádur, lijka sem fyrerskrifad JEsu Staðeñ, nu tileinkar hañ og Tijmañ, á hverium hañ skule hiálpa hans Syne: HErra, far þu ofañ, ádur eñ Sonur minn andast, honum er þo þar fyrer ad hroosa, ad hann hiellt JEsum fyrer eiñ HErra, og þad þann, sem kynne ad hiálpa siinum Syne, og var stadfastur i Bænenne ad bidia hann.

Hvad skulum vier hierlaf læra?

Fyrst, þad, ad þeckia vorn eigeñ Veikleika, ad vier høfum opt meire Umhiggiu fyrer ødrum eñ siálfum oß, já, ad vier so sem fyrerskrifum GUde, med Bethuliæ Borgarmonnum, Tijd og Tijma i vorre Neyd, nær og hverneñ hañ skule oß hiálpa Judith.7.

Þar nærst; ad vera þoleñmoder i Kvøl-

Kvølenne, stadfaster i Bænenne Rom. 12. og med Jacob sleppa ecke vorum Frelsara JEsu, fyrr eñ hañ hefur blessad oß Gen. 32. og yfer alla Hlute fraiñ, skulum vier hañ bidia til vor ad koma med sijnum Naadar Krapte ædur eñ vier deyum.

Hveriu svarade vor blessade Frelsare hier uppæ?

Jafnvel þo hañ hefde vel Ordsok til aptur ad straffa hañ, þæ samt sem ædur, med þvi hañ sæ hans Veikleika og storu Angist, þæ villde hañ ecke leingur hallda honum uppe, helldur sagde hañ: Far þu, Sonur þiñ lifer, sem hañ villde segia; þeß gioreßt ecke Þorf, ad eg fare ofañ med þier og lækne þiñ Son nærverande, jeg kañ so vel ad giora þad fiarlægur, gacktu þiedañ, þiñ Sonur lifer.

Hvad syner JEsus oß hier med?

Sijna storu Giæsku og Medaumkun yfer vorum Breiskleika, ad hañ vill ecke i sundurbriota þañ brakada Reyreñ, nie utslockva þañ riwkanda Lijnkveik. Es. 42. helldur vill hañ med siñe Naad hiælpa vorre veikre Trw, eñ ei er þad hañs Vilie, ad vier skulum honum nockud fyrerskrifa, og taka til Stad og Tijma, æ hveriuni hañ skule oß hiælpa.

Var

Var þar sa konunglege Madur, anægdur med þetta JEsu Andsvar?

Jaa, þvi Evangelisteñ seiger. Og Madureñ trwde þeim Ordum, er JEsus sagde hønum, og gieck þadañ, hañ sem adur var vantruadur, vard nu trwadur, hañ raadgadest ecke leinge um vid Holld og Blod, helldur trwde hañ einfalldlega JEsu Ordum, og geck þadañ, ecke med neinum Flijter, þvi hañ endade fyrst sijna Heimreisu Dageñ epter, sem augliost er af þvi, sem epterfylger, þviad hver sem truer, hañ þarf ecke ad flijta sier Es. 28.

Hvern Lærdom kunnum vier oß hier af ad draga?

Þennañ, ad vier skulum med eiñre stadfastre Trw binda oß vid GUds Ord og Fyrerheit, og ei efa þad, ad hañ hallde þad, sem hañ hefur lofad, þvi hañ er sa Gud, sem eckert lijgur. Tit. 1. Helldur helldur hañ sijnar Lofaner eilijflega.

Vard hañ eñ framar styrktur i Trwnne?

Jaa, þvi þar hañ for ofañ epter fra Cana til Capernaum, geingu hañs Þenarar a moote hønum, og kuñgiørdu hønum, segiande: Sonur þiñ lifer. Hañ spurde þa þar ad, a hvertium Tijma þad hønum hefde

(P) batn-

batnad, og þeir søgdu hønum, i giær um siøundu Stund hvarf fraa hønum Kalldañ, þaa formerkte Faderen, ad þad var uñ þañ Tijma, aa hverium JEsus hafde sagt, Sonur þiñ lifer, hañ spurde ecke epter þessu af Vantrw, helldur alleinasta til þeß, ad styrkia sijna Trw framar, sem og skede fyrer Þenaranna Fraasøgn.

Hvad siaaum vier hier af?

Vier siaaum hier, hverneñ Gud breiter vid sijn Børn, hañ kemur i Veg fyrer þau, styrker þau med sinne Naad, og so sem leider þau fraa eiñre Styrkingu til annarar, lijka so sem hañ lætur Hveited vaxa, i fyrstu Grased, þar nærst Axed, og so þar nærst fullt Hveite i Axenu. Marc. 4. So og siaaum vier hier eitt fallegt Epterdæme aa þeim konunglega Manne, og hañs Þienurum uppaa Husstioornar Stiettena, med þvi þeir høfdu aadur med hønum graatanda graated, so vilia þeir nu aptur gledia hañ med þeim goodu Tijdendum, ad hañs Sonur sie heilbrigdur vordeñ, og med hønum fagnande fagna, hvar af Madur kañ ad aalykta, ad hañ hefur vered eiñ goodur Herra, og þeir trwer og fromer Þenarar.

Hvad seger Gudspiallamadurenn ad sijdustu umm þennann Konungsmann?

Hann seger: Og hann trwde, og allt hanns Heima-folk, so hanns Trw, sem i fyrstunne var miog lijtel, var nu sterk ordenn og gaf Avoxt, hann trwde ei alleinasta sialfur, helldur og sem Abraham og Josua, kom sijnu Hwse til ad giora þad sama.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þetta, ad þad er ecke noog, þo vi er trwum sialfer og ottunst Gud, helldur so sem eitt Lioos kveiker eitt annad, so skulum vier og tilsiaa, ad vier kunnum ad kveikia Trwarennar Lioos i ødrum, sierdeiles i vorum Børnum og Þioonustu-folke, so vier sameigennlega trwum aa Gud, og verdum um sijder sæluholpner; þar til gief þu oss, o Gud, þijna Naad, fyrer JEsum Christum. Amen.

# A Allra Heilagra Messu.

Gudspialled skrifar H. Mattheus i 5. Cap.

Og þaa JEsus leit Folked, gieck hann uppaa Fialled. Og þaa hann sett est nidur, geingu hanns Lære-sveinar til hanns. Og hann lauk sinn Munn upp, kiende þeim og sagde: Sæler eru þeir,

sem andlega eru volader, þviad þeirra er Himnarijke. Sæler eru þeir, sem harma, þviad þeir munu huggader verda. Sæler eru hogværer, þviad þeir munu Jardrijked erfa. Sæler eru þeir sem hungra og þyrsta epter Rettlætenu, þviad þeir skulu sadder verda. Sæler eru myskunarsamer, þviad þeir munu Myskun hlioota. Sæler eru hrein-hiartader, þviad þeir munu Gud sia. Sæler eru fridsamer, þviad þeir munu Guds Børn kallader verda. Sæler eru þeir, sem fyrer Rettlætesens saker offsokter verda, þviad þeirra er Himna-rijke. Sæler erud þier, nær Menerner hallmæla ydur, og Offsokn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku, fyrer mijnar saker, þo liwgande. Fagne þier og vered glader, þviad ydar Verdkaup er noglegt a Himnum, þvi so offsoktu þeir Spamennena, þa sem fyrer ydur voru.

Hvad hefur þetta Evangelium inne ad hallda?

Eiñ Part af þeirre merkelegu Predikun, er Christur framsette a Fiallenu, i hverre hañ talar um þa rettu Guds Barna Saaluhialp.

Hvad

Hvad marga Parta innebindur þad i sier almenne-
lega, sem adgiætande eru?

Tvo, sa fyrre innebindur i sier Gud-
spialla-mannsens Formaala, i hverium
hañ syner Tilefne til Christi Predikunar.
Saa annar JEsu eigeñ Predikun og Ræ-
du uñ Guds Barna Saaluhiaalp.

Hverneñ hliodar Gudspialla-mannsens Formaale,
edur Iñgaangur hañs Rædu?

Hanneñ, og þaa JEsus leit Folked,
sem margt var, og honum fylgde epter wr
Galilea, wr þeim tiju Borgum, fraa Jeru-
salem, wr Judea, og wr þeim Herodum, er
voru hinumeigeñ Jordanar, Matt. 4. og
sa þeirra storu Saalar þreinging og mik-
lu Þorf fyrer hañs Ords saaluhiaalplegañ
Lærdom, geck hañ uppaa Fialled, so hañ
þeß betur kynne ad siaast og heyrast af Folk-
inu. Og þaa hañ setteſt nidur, geingu
hañs Lære-sveinar til hañs. Og hañ lauk
sin Muñ upp (til ad tala þad sem miog
naudsynlegt var og markverdugt) kende
þeim og sagde.

Kuñum vier hier af ad wtdraga nockurn Lærdom?

Jaa, þennañ, ad JEsu Augu lijta eñ
nu yfer Folked, so vel nær þad er eitt synd-
ugt og mootviliugt Folk, sem þegar þad er
audrækelegt og giarnsamlegt til ad læra.

Hans Augu, seger David, lijta a Folked. Ps. 66. Han geingur daglega uppa sijns Hwß andlegt Fiall, situr sem einn Lære-meist-are hia oß i sinne Kyrkiu, lykur sijnum Munne upp, og lætur hlioma sijna Raust, kennande oß þad af sijnu saaluhiaalplega Orde, sem oß er naudsynlegt ad vita og trwa til Saaluhiaalpar. O! ad vier villdum sem namis-giarner Lære-sveinar gaanga til hans, og sem eitt hlijded Folk uppliuka vorum Eyrum og Hiortum til ad heyra, og vardveita hans heilaga Ord, og giora epter hans Vilia, so han mætte aptur a moot uppliwka sinne milldu Hende, og sedia oß med sinne Blessan andlegre og lijkamlegre. Ps. 145.

Hvernen byriar JEsus sijna Predikun a Fiallenu?

So sem David byriar sijna Psalma, eins byriar og Davids Sonur og Davids HErra sijna Predikun. Sæler, er þad fyrsta Ord hiaa baadum. Ps. 1.

Hvad verdur oß þar med syndt?

Þad, ad Sælunne byriar ad vera bæde A og O, þad fyrsta og þad sijdasta i vorum Þonkum og vorre Rædu, sem er þad einasta og allra naudsynlegasta, Luc. 10. ad vier sieum sæler.

Hvad

Hvad fyrer Sælu meinar JEsus hier?

Ecke eina jardneska og veralldlega Lucku og Sælu, so sem Folk þessarar Veralldar hefur, hvert ed sitt Hlutskipte hefur i sijnu Lijfe. Ps. 17. og meinar, ad Sælañ sie innefaleñ i veralldlegum Rijkdome og Vellyst, i Heidre og ypparlegre Asynd, og ødrum Luckuñar ostødugum Giædum, sem þo er alltsamañ ølldunges Hiegome. Eccl. 12. helldur meinar hañ hier þaa rettu andlegu og eilijflegu Sælu, hver Sæla er, ad Madur sie hier sæll i Gude, og verde sijdar sæll hiaa Gude.

Um hvad margfallda Sælu talar hañ?

Hañ talar um aattfallda Sælu.

Hver er sw fyrsta?

Ad vera andlega voladur: Sæler eru þeir, sem andlega eru volader, þviad þeirra er Himna-rijke.

Hvad er þad, ad vera andlega voladur edur faatækur?

Þad er, ad vera ei alleinasta faatækur i andlegañ Maata, þvi þad kunna marger ad vera, sem hallda sig þo rijka, eins og Samkundunnar Eingell til Laodicea, um hvern so skrifad stendur: Þu seger, eg em rijkur, og hefe ølldunges noog, og þarf einskis, og þu veist ei þad þu ert vesæll,

aumur og voladur, blindur og fatlaus, Apoc. 3. helldur er þad ad finna og þeckia sin andlegan Faatæktdom og Volæde, ad sijta og graata þar yfer. Jac. 4. Jaa, ad leita epter Guds Naadar og JEsu Christi Forþienustu yfergnæfanlegum Rijkdome, og ad honum feingnum er þad allt bætt sem vantade.

Hvar fyrer prijsar JEsus þvilijka andlega volada sæla?

Þviad þessu þeirra andlega Volæde og Faatæktdom skal fylgia saa beste og fullkomnaste Rijkdomur, þviad þeirra er Himnarijke, ecke fyrer Forþenustu, helldur fyrer Naad, ecke fyrer þad þeir eru volader, helldur fyrer þad þeir þeckia sitt Volæde, og leita þar aa mote Naadar i oendanlegum Naadar Rijkdome Guds, þeir munu bæde vera retter Innbyggiarar hier i Guds Naadar Rijke, so og verda þar Borgarar i Guds Dijrdar Rijke, þar hiner þvert aa moote, sem hallda sig i sijnum Þanka rijka og rettlaata, munu standa fyrer utan þad þrongva Port, og ei kunna þar inn um ad gaanga. Matt. 7.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad kappkosta, ad vera andlega volader,

ader, þeckia og medkienna vora andlega Eymd og Faatækdom, so vier mættum vera rijker i Gude. Luc. 12. rijker af Trw og godum Verkum, og umsijder ødlast þañ retta og fullkomna Rijkdom af Nægdar Giædum Guds Hwß.

Hver er sw ønnur edur annarslags Sæla, er Christur um talar?

Ad harma. Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir munu huggader verda.

Er þaa sierhver Hrigd ein sæluhiælpleg Hrigd?

Nei, þvi sw Hrigd finst, sem er syndsamleg og fordæmañleg, hveria S. Paall kallar, þessa Heims Hrigd, edur Hrigd epter Heimenum, og seger, ad hun verke Dauda. 2. Cor. 7. Þegar eiñ Madur er hriggur, og harmar aan rettrar Ordsakar, sem Ammon og Achab, hverier hriggver voru af þvi þeir kunnu ecke strax ad framkvæma siñ vondañ Asetning, og Vilia, edur og þeir, hverier framar eru hriggver yfer Straffenu, sem þeir lijda, eñ yfer Syndenne sem þeir hafa drygt og forþenad Straffed med, edur og sleppa sinne Hugarhreiste i Hrigdeñe, og falla i Efa, og Ørvænting Syndanna vegna, sem Cain og Judas, edur i ofmikeñ Harm og Oþolennmæde under Krossen-

um og Straffenu, sem þeir hiaa Spa-mannenum, hverier nær þeir lijda Hung-ur, verda þeir reider og bølva sijnum Kon-ge og sijnum Gude. Es. 8.

Hver er þaa sw retta og sæluhiaalplega Hrigd?

Sw Hrigd sem er af Gude og verkar Ydran til Hiaalpræd es, hvers aungvañ ydr-ar. 2. Cor. 7. Þegar Manneskiañ harm-ar framar yfer Syndenne, sem hun hefur drygt, eñ yfer Straffenu, sem hun lijdur; þegar hun harmar framar yfer þeirre Fijlu og Andstygd, sem af Syndenne er, eñ fyrer þeim Beiskleika og Svida, sem Straffenu fylger; Jaa þegar hun so harmar bæde yf-er sijnum Syndum og sijnum Krosse; þaa skal hañ þo ecke laata þaa miklu Sorg yfer-buga sig, helldur blanda hana med einnre stadfastre Von og Trwnadartrauste uñ Guds Naad og fødurlega Hiaalp.

Hvad fylger slijkre Hrigd?

Ein naadarsamleg Hugsvølun, þvíad þeir munu huggader verda, lijka so sem þegar ein Moder hugsvalar nockrum (Es. 66.) þeim Sorgbitnu i Zion, mun gefast Fegurdarprijde fyrer Øskuna, og Fagnad-ar Vidsinior fyrer Hrigdena, og kostuleg Klæde fyrer Sorgar Anda (Es. 61.) sieu

þeir

þeir rettelega hriggver yfer sijnum Synd-
um, þaa vill Gud hugga þaa med Huggun
sijns Anda fyrer sitt Ord, jaa, fyrer eina
naadarsamlega Aflausn; hañ vill laata
þaa heyra Fognud og Glede, so ad þaut
Beineñ gladvær verde, sem sundur eru
broteñ. (Ps. 51.) Hañ vill segia til þeirra
þad sama er JEsus sagde til þeß Alvisna,
vertu hughraustur miñ Sonur (mijn Dott-
er) þijnar Synder eru þier fyrergefnar.
(Matt. 9.) Sieu þeir og rettelega hriggver
yfer sijnum Krosse og Harmkvælum, þaa
mun hañ hugga þaa, annadhvert hier tijm-
añlega sem Job, nær Gud snijr þeirra
Sorgarklogun i Dans, og i sundursliitur
þeirra Hrigdar Seck, og umgyrder þaa med
Fognude. Ps. 30. edur þar sijdar eilijflega
med Lazaro. Þvi þeir ed med Taarunum
nidursaa, munu med Fognude uppskiera.
Ps. 126.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad wtvelia helldur ad harma
med GUds Bornum, eñ fagna med Ver-
alldarennar Bornum; þvi hier er þeirra
Stund ad hlæa og fagna med Heimenum,
eñ sijdar munu þau æpa og ijla. Luc. 6. Eñ,
þar þvert aa mote, er Tijd GUds Barna

þaa ad fagna, þvi þeirra Hrigd skal þaa snwast i Fognud (Joh. 16.) Hvertveggia umbreitest under eins, þar fyrer ef vier hormum rettelega hier, þaa munum vier verda i Tolu þeirra wtvølldu þar.

Hvad talar JEsus um þaa þridiu slags Sælu?

Hañ seiger: Sæler eru hogværer, þviad þeir munu Jardrijked erfa.

Hvad er þad ad vera hogvær?

Þad er ei alleinasta ad vera hogvær vid GUD, ad heyra og medtaka hans Ord med Hogværd. Jac. 1. og so vel i Medlæte sem Motlæte gefa sig under hans Vilia, og vera ecke ofolenmodur og moglunarsamur vid DRotteñ, helldur vera til Frids og þeigia, seigiande med Eli, hañ er DRotteñ, hañ giører hvad henum er þeckt 1.Sam. 3. Helldur og einneñ ad vera hogvær vid Naungañ, ad Madur yfergiefe Reidena, og læte af Stygglindenu, og endurgialldе ecke Illt med Illu, edur Skammarord fyrer Skammaryrde 1. Pet. 3. Helldur lijde og fyrergefe Oretteñ, jaa, betale illt med godu, sem þau riettu GUds Børn Matt. 5.

Eru þvilijk GUds Børn þaa Sæl?

Jaa, þvi þau skulu Jardrijked erfa.

Syn=

Synest þetta ecke eitt sierlegt og undarlegt Fyrerheit?

Sannarlega, þviad fyrer Mannanna Augum synest opt ad þad sie þvert aa mote, þvi þegar þeir ogudlegu þenia sig wt, og blomgast sem Laurberia Tre. Ps. 37. og laata Landed kallast epter þeirra Nafne (Ps. 49.) jaa, stunda epter, ad þeir kunne einsamler Landed eignast. Þaa eru þeir Gudhræddu þar þvert aa mote framande aa Jørdunne, og eiga valla med Abraham þverfotar Breidd af henne (Act. 7.) Eñ vier skulum vita, ad þar þeir ogudlegu erfa Jardrijked, sem Of-belldes meñ med Raanglæte; og eru þo ei þar med aanægder, og hliota um sijder ølldunges med ollu ad foreydast, og i burtu ad slijtast wr sijnum Tialldbwdum (Ps. 52.) þaa eru þeir gudhræddu med Abraham Verolldarennar Erfingiar og Verølldenn er þeirra. 1. Cor. 3. Jaa, þad litla, sem þeir hafa, erfa þeir med Rettu, med aanægdum Hiørtum, og Gllds Blessan, hafe saa Gudhrædde eñ þaa lijted, so hefur þaa saa ogudlege ecke meira; og nær þu gefur giætur ad hans Stad, þaa mun h añ ecke finnast. Eñ þeir hogværu skulu Jardrijked erfa med Fride. Prov. 2.

Hverñ

Hvern Lærdom skulum vier oß hier af draga?

Þennañ, ad vier skulum ecke med Veralldarennar Børnum framnigaanga med Offstopa og Hardneskiu, helldur med Hogværd framundraga vort Liif, hier i Heime, uppaa þad vier mættum hafa spakt og rosamt Liiferne i allre Gudrækne og Sidseme, og somasamlega lifa hier aa Jordunne, og um siider verda Jnbyggendur i þeim nija Himne, og þeirre niju Jord, i hverium ad Rettlæted bygger. Es. 66.

J hveriu seiger Frelsarenn framar, ad Gllds Barna Sæla sie innefaleñ?

J einu andlegu Hungre og Þorsta. Sæler eru þeir, sem hungra og þyrsta epter Rettlætenu, þviad þeir skulu sadder verda.

Epter hveriu hungra og þyrsta þau rettu Gllds Børn?

Epter Rettlætenu, ei alleinasta epter þvi tilreiknada JEsu Rettlæte, hveriu þeir med Trunne iklædast. Rom. 3. helldur og epter þvi uppbyriada Rettlæte fyrer Guds Anda Naad, ad þeir sem eru riettvijser, mættu verda eñ Rettlaatare. Apoc. 22. Jaa, epter þvi eilijfa og fullkomna Rettlæte, ad þeir mættu koma og vera aa medal

niedal þeirra algiørfelega Rettlætu Anda Heb. 12. friier fra allre Synd og Ofullkomlegleika.

Hverneñ er þeirra Hwngur og Þorste þar epter?

Ecke nockurt lijkamlegt, helldur eitt andlegt Hungur og Þorste, ein inneleg Hiartans Epterlongun, Lyst og Beidne epter Rettlætenu. Þvi alldrei laangar þañ hwngrada so epter Mat, edur þañ þyrsta epter Dryck, ad eina hungrada Saalu laange ecke miklu framar epter Rettlæte sijns Guds, lijka sem David seiger; so sem þad Hiørtureñ kallar epter ferskụ Vatne, so kallar mijn Saala, GUD, til þijn, mijna Saalu hana þyrster epter GUde, epter þeim lifande Gude, hvønær mun eg þangad komast, þad ad eg siaae GUds And lit. Ps. 42.

Eru þeir Sæler, sem þvilijkt Hungur og Þorsta hafa?

Jaa, þviad soddañ Hungre mun fylgia Sadning og Endurnæring, þar þeir skulu sadder verda, so sem David seiger; GUd sedur þurftugar Saaler og uppfyller hungradar Saaler med godu. Ps. 107. Hañ vill hier sedia þaa med sinne Naad, med sijns Ords sætu Manna, med Velgiørningum Christi Forþienustu, og um sijder

med

med þvi hullda Manna og hañs Andlits Skodun.

Hvad skulum vier þaa hier af læra?

Þad, ad vier skulum ei so miked laata oß hungra og þyrsta epter þeim lijkamlega Mat og Dryck, og þeirre forgeingelegu Fædu, sem epter þvi sanna og fyrer Gude gylldande Rettlæte, uppaa þad vier mættum faa þaa rettu Sadning og Endurnæring fyrer vorar Saaler, hier tijmannlega og sijdar eilijflega.

Hverja prijsar JEsus eñ framar Sæla ad vera?

Þaa myskunsomu: Sæler, seger hañ, eru myskunsamer, þad er þeir, sem laata Eymd þeirra aumu og voludu sier til Hiartagaanga, og annast hina Þurfstugu (Psl. 41.) og hiaalpa þeim nær þeim lijdur illa, hvert helldur þad er Saalareñar edur Lijkamans vegna. Hier um maa lesa Utleggingana yfer Gudspialled þañ fiorda Suñudag epter Trinitatis.

Hvar fyrer prijsar hañ þaa sæla ad vera?

Þar fyrer, þviad þeir munu Myskun hlioota. Eñ so sem omyskunarsamur Domur skal gaanga yfer þañ, sem eingva Myskunseme giorer. Jac. 2. so skal og þar þvert aa moote saa myskunsame odlast apt-

ur

ur eina oendañlega Myskunseme, bæde tijmañlega, andlega og eilijfa. Luc. 6.

Hver er þar vor Skyllda?

Þesse, ad vier, so sem Guds Wtvallder, heilager og elskañleger, iklædunst hiartfolgenne Myskunseme (Col. 3.) og aumkunst yfer ødrum, so ad Gud aptur a moote aumkest yfer oß, og sie oß myskunsamur.

Hveria reiknar JEsus framar i Tolu þeirra Sælu?

Þa sem eru hreinhiartader: Sæler eru hreinhiartader, þviad þeir munu Gud sia.

Er nockur syndugur Madur af sialfum sier so hreinhiartadur, sem honum ber?

Nei, þvi hver ma segia, hreiñ er eg i mijnu Hiarta, og klaar af mijnum Syndum? Ordsk. 20.

Hverneñ kunna Guds Born þa ad vera hreinhiortud?

Þad skiedur, þegar þau fyrst fyrer Angur og Trega burthreinsa Syndanna Sawrdeig og Ohreininde af Hiartanu. Þar nærst; hreinsa þau Hiartad fyrer Trwna med JEsu Christi Bloode. 1. Joh. 1. Og ad sijdustu leggia þau alla Astundan a daglega ad endurnijast, og hreinsa sig af allre Saurgan Holldsens og Andans (2. Cor.

7.) jaa, ad hreinsa sig lijka sem ad Gud er hreinn. 1. Joh. 3.

Hvad skal oß hier tilknija?

Pad naadarsamlega Fyrerheit, sem Christur gefur þeim hreinhiortudu, ad þeir skule Gud siaa.

Med hverium Hætte skulu þeir siaa hann?

Þeir skulu siaa hann hier i Naad med Trwarennar Augum sem Moses, hver ed saa hann osynelega, og hiellt sier vid hann, Heb. 11. og sijdar i Dijrdenne sem Job, med sijnum eigenn Augum, er þeir bera hier, og þad Auglite til Auglites. 1. Cor. 13. Þar þvert aa moote skulu Hundarner og hiner ohreinu vera þar fyrer utann. Ap. 22.

Hvad wtheimtest þaa af oß?

Þetta, ef vier vilium hier siaa Gud med Trwarennar Augum, og sijdar skoda hanns Auglit i Rettlæte (Ps. 17.) þaa skulum vier hier epterfylgia Fridnum og Helgunenne, aan hverrar þad eingenn kann DRottenn ad siaa. Heb. 12.

Hver er sw siounda Sæla, sem JEsus umtalar?

Ad vera fridsamur: Sæler eru Fridsamer, þviad þeir munu Guds Børn kallader verda.

Hverier eru þeir Fridsomu?

Þeir

Þeir fridsomu eru ei alleinasta þeir, sem stunda epter ad hafa Frid vid Gud fyrer Drotteñ vorn JEsum Christum, Rom. 5. og Frid vid alla Meñ, so miked sem mogulegt er. Rom. 12. helldur og þeir, sem ástunda, ad giora Frid á millum annara Manna, sem osampycker eru, og niðurdempa þeirra Þrætur.

Hverium Naadar-Launum lofar JEsus þvilijkum?

Þessum, ad þeir skule Guds Børn kallader verda, þviad so sem hañ er sialfur Fridarens Gud. Heb. 13. So skulu þeir, sem eru Fridarens Børn, og so kallast og vera hañs Børn, hañs Fridur mun varðveita þeirra Hiortu, Hugskot og Skilningarvit i Christo JEsu; og sijdar munu þeir hiaa honum niooта þess eilijfa Fridar og himneskrar Sælu.

Hvad skulum vier hier af læra?

Vier skulum, so sem þau rettu Fridarens Børn, leita Fridar, og sækia epter honum. Ps. 34. uppaa þad vier mættum vera þau rettu Guds Børn hier i Naad, og þar i eilijfre Dijrd.

Hver er ád sijdustu sia aattunda slags Sæla, er Christur umtalar, og hverier hreppa hana?

Þau saklausu Guds Børn, sem fyrer Rettlætesens saker offsokt verda.

Hvad talar hañ um þau?

Fyrst; talar hañ almennelega um ell sijn saklausu og naudlijdande Børn, segiande: Sæler eru þeir, sem fyrer Rettlæte sens Saker ofsokter verda, med adskil ianlegre Pijnu og allra handa Motgaange af Dioflenum og vondum Mønnum Heimenum, og þad ei, sem Illvyrkiar fyrer þeirra Misgiorda saker, 1. Pet. 2 helldur saklauser fyrer Rettlætesens sak er, þviad þeirra er Himnarijke, og þei skulu fyrer miklar Hrellingar iñgaanga Guds Rijke. Act. 14. Þar nærst; sni hañ sinne Rædu, og talar sierdeileslega til sinna Lære-sveina, og seger: Sæler eru þier, nær Mennerner hallmæla ydur og Ofsokn veita, og tala i gegn ydur alla Vondsku fyrer mijnar Saker, fyr er saker Medkenningar mijns Ords og Nafns, þo liugande, fagne þier og vered glader, reikned þad fyrer allañ Fognud, þviad ydart Verdkaup er noglegt a Himnum, þar fyrer seger S. Petur; gled ied ydur, þad þier med Christo lijded, upp þad þier eiñeñ a Opeñberingar-tijma hañs Dijrdar mættud glediast og fagna (1. Pet. 4.) Eiñeñ seger S. Jacob, taked ydur til

Ept-

Epterdæmes Spamannanna Kvaler og Poleñmæde, þviad, seger Christur, so ofsoktu þeir Spamennena, þaa sem fyrer ydur voru, og S. Stephanus seger til Gydingaña, hvern Spamañaña hafa ydar Fedur ei ofsokt? Act. 7. og hverneñ meige þier þaa þeinkia, vill Christur segia, ad þier kunned framar eñ þeir frijer ad vera.

Hvad lærum vier ad sijdustu hier af?

Þad, ad þau rettu Guds Børn og Þenarar, jafnvel þo þeir lijde adskiliañlegar Offokner i Heimenum, og verde vanvyrdter fyrer Nafned Christi, so eru þeir þo sæler (1. Pet. 4.) þviad oll soddañ Þreingíng, Offokn og Vanvyrding, skal ecke geta skiled þaa fraa Guds Kiærleika, edur hañs himnesta Rijke, helldur eru þeim tilbweñ ein eilijf Verdlaun, ef þeir annars lijda med Christo, þvi þaa skulu þeir med honum verda upphafder til Dijrdarennar (Rom. 8.) og hver sem vill þaa Huggun odlast, saa skal aastunda ad lijda saklaus fyrer Christi Nafns saker, þvi ecke Harmkvæleñ, helldur Rettferdugt Maalefne gierer eiñ sannañ Pijslarvott, jaa, ad lijda Oretteñ þoleñmodlega, so sem S. Petur seger: Hver Hrosun er þad, ef þier fyrer Misgiorda saker

Sløg lijded? Eñ nær þier umlijded og þoled fyrer Velgiorda saker, þad er Naad hiaa Gude. 1.Pet.2. Nu, o Gud, sem ert Gud vorrar Sæluhiaalpar, leid þu oß i þijnum Sañleika til þinnar eilijfu Sælu. Amen.

# Tuttugasta og annañ Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Mattheus i 18. Cap.

Og JEsus sagde til siña Lære-sveina. Himna-rijke er lijkt vid eiñ Konung, sem reikna villde vid Þiona sijna. Og er hañ took til ad reikna, kom eiñ fyrer hañ, sa ed hønum var skylldugur uñ tiju þusund Punda, eñ þaa hañ hafde þad eige til, sem hañ skyllde gialld a, skipade Herrañ ad selia hañ og so Børneñ, og allt hvad hañ aatte, og borga þar med. Eñ sa Þioon fiell fram, tilbad hañ, og sagde: Haf þoleñmæde vid mig, allt skal eg giallda þier. Eñ Herrañ sa aumur aa þeim Þioon, og liet hañ lausañ, og gaf hønum upp alla Skullדena. Eñ þaa hañ geck wt, fañ hañ eiñ af sijnum Samlags-Þionum, sa ed hønum aatte ad giallda hund-

rad Peninga, þañ sama handtook hañ, greip fyrer Kverkar hønum, og sagde, giallt þad þu ert mier skylldugur. Og hañs Samlags Þioon fiell fram til Foota hañs, bad hañ og sagde: Haf Þoleñmæde vid mig, þvi allt skal eg gialda þier. Eñ hañ villde ecke. Helldur foor burt, og liet hañ i Dijblissu, þangad til hañ hafde borgad sijna Skulld. Eñ sem hañs Samþionar sau hvad skede, urdu þeir miøg hriggver vid, komu og kunngiørdu sijnum Herra, allt hvad giørst hafde. Þaa kallade hans Herra aa hañ, og sagde til hañs: Þu illur Þioon, alla þaa Skulld gaf eg þier upp, af þvi þu badst mig, hvert byriade þier þaa ecke miskunsømum ad vera vid þiñ Samlags Þioon, lijka sem eg var þier myskunsamur? Og hañs Herra vard reidur, og ofurselldе hañ Kvølurunum, þaangad til hañ hafde borgad allt þad hañ var hønum skylldugur. So mun og miñ himneskur Fader giøra vid ydur, ef þier fyrergefed ecke hver eiñ wt af Hiarta, sijnum Brodur hañs Misgiørder.

Hvad marger Partar eru athugande i þessu Gudspialle? Tveir,

Tveir, fyrst Christi Epterlijking i sialfre sier um þann Skullda-Þionenn. Þar nærst; Epterlijkingarennar Endalikt, edur Nidurlag.

Hvad verdur i Epterlijkinguñe fyrer sioner sett?

Einn tvofalldur Lagavegur og Rettargangur, sem Hwsbondenn hiellt vid þann storskylduga Þion: Sa fyrre uppbyriadest med straungre Vidhondlan, enn endadest med Miskunseme. Hinn annar uppbyriadest bæde og endadest med straungu Rettlæte.

Hvad seiger Jesus um þad fyrra?

Hann seger: Himnarijke er lijkt vid einn Konung, sem reikna villde vid Þiona sijna.

Af hveriu Tilefne frammsette hann þessa Epterlijking?

Petur gaf honum þar Ordsok til, hvad Evangelistenn syner i nærst fyrerfarande Ordum, segiande: Þa gieck Petur til hanns og sagde; Herra, hversu opt skal eg mijnum Brodur, þeim sem vid mig brijtur, fyrergefa? Er þad nog siosinnum? Jesus sagde til hans: Eg sege þier, eige siosinnum, helldur siotijgesinnum siosinnum. Og uppa þad hann kynne þess betur ad utleggia þennann Lærdom, og upphvetia bæde hann og adra

til

til Christelegrar Forlijkunar, þaa framsette hañ þessa Epterlijkingu.

Um hvad er Epterlijkingeñ?

Um Himnarijke, þad er, Guds Naadarrijke og hañs strijdande Kyrkiu hier aa Jordunne. Hier um maa lesa Utlegginguna yfer adrar Christi Epterlijkingar, aa Sunnudageñ i Nijuviknafostu Jñgang, og 20. Sunnudag epter Trinitatis.

Vid hveru samlijker hañ þvi?

Vid eiñ Konung! (Vid eiñ Mañ, sem var eiñ Kongur) og reikna villde vid Þiona sijna.

Hvern vill hañ merkiast lææta fyrer þennañ Konung?

Þañ alleina volldugа og odaudlega Gud, sem er eiñ Kongur yfer ollum Kongum, og eiñ DRotteñ yfer ollum Drottnum.

Hverier eiga ad skiliast fyrer Þiona þessa Konungs?

Aller Meñ; þvi sierhver af oß maa medkienna med David og segia: Drotteñ eg em þiñ Þion, og Sonur þinnar Ambattar (Psl. 116.) hañ hefur sierhveriuм truad fyrer sijn Pund og Gaafur, af hverium hañ vill sannarlega aa sijnum Tijma Reikningskap taka, þvi þaa skal hver og eiñ af oß fyrer sialfañ sig giora GUde Reikningskap. Rom. 14.

Hverneñ færer edur kallar GUd sijna Þiona til Reikningskapar?

Þad giører hañ iñvortes fyrer siñ Anda i þeirra Samviskum, i þvi ad hañ leider þeim i Þaanka, bæde sijna Velgiørninga þeim veitta, so og þeirra Misgiørninga honum til Stygdar drijgda. Þad giører hañ og utvortes fyrer sijns Ords Predikun og Lærdom, med hverium hañ straffar Syndena, og aaminner þaa til Yferbotar. Hañ giører þad og fyrer adskiliannlegañ Kroß og Motgaang, hvern hañ sender þeim, og vilie þeir ecke laata þetta upphvetia sig ad giøra klaarañ siñ Reikningskap: Þaa vill hañ ad sijdustu kalla þaa til Domsens fyrer Daudañ. Heb. 9. og þaa skulu bæde smaaer og storer standa fyrer GUde, og Bækurnar skulu upplaataſt. Apoc. 20. og hver eirn mun þaa odlaſt epter þvi sem hañ hefur adhafſt i Lijkamans Lijfe sie þad illt eda gott. 2. Cor. 5.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad kappkosta ad vera truer og riettsiñader GUds Þionar, giæta vel ad vorum Reikningskap, og sia til, ad vier giørum hañ klaarañ aa medañ GUd aa Tijma Naadarennar sparar oß hier og kallar oß til

hañs

hans, uppaa þad vier mættum, þegar saa store Reikningskapar-Dagur kemur, giora fyrer Guds Raad eiñ godañ Reikningskap.

Hverneñ gieck þad til, þegar Konungureñ uppbyriade ad hallda Reikningskap?

Texteñ seiger: Og er hañ tok til ad reikna, kom eiñ fyrer hañ, saa ed hønum var skylldugur um tiju þusund Punda, ein Summa sem þeir lærdu reikna ad vera i þad allra minsta 75 Sinnum hundrad þusund Rixdaler.

Hvad merkest hier fyrer þañ eina Þion?

Fyrer þañ eina eigum vier aller ad merkiast; vier erum aller Skulldunautar vors GUds, og mikel Skulld er uppaa oß skrifud, i hans Reikningsbook, bæde fyrer þad goda, sem vier høfum medteked af hønum; so og fyrer þad vonda, sem vier høfum giort aa mote hønum. Vier høfum bæde þaa Skulld ad giallda, sem vier høfum erft epter vora fyrstu, so og siaalfra vorra syndugu Forelldra. Liika sem Syner Eckiunnar, sem var ein af Konum Spaamannanna Barna, erfdu Skulldernar, eñ ecke añad. 2. Reg. 4. So og þaa Skulld, sem vier siaalf-

er

er hefum giort, og sett oß i, og þesse vor Skulld er stor allt upp til Himensens jaa so stor, ad vier kunnum ecke ad svara honum einu i mote Þusund, hafe hañ Lysting til ad þraatta vid oß. Job.9.

Hafde þaa þesse Þenare nockud ad betala med so stora Skulld?

Nei, hañ hafde þad eige til sem hañ skyllde giallda, med hveriu skyllde eirn faatækur Þenare giallda so stora Skuld, hvered være fyrer eiñ Kong og Herra nogu stor og þung ad betala.

Hvad verdur oß hier med synt?

Þad, ad eckert er þad hiaa oß, sem vier kunnum Drottne ad endurgiallda, fyrer allar hans Velgiorder. Ps. 116. edur þad, med hveriu vier kunnum ad forlijka fyrer vorar Synder. Mic. 6.

Þegar hañ hafde þad eige til, sem hañ skyllde giallda, Hverneñ hondlade þaa Husbondeñ vid hañ?

Þad syner oß Texteñ, þar so stendur; þaa skipade Herrañ ad selia hañ, hans Husfru og so Børneñ (so sem Sidur var aa þeim Tijmum) og allt þad hañ ætte, og borga þar med.

Hvad vill Christur hier med syna oß?

Þaa strongu Gllds Rettlætes Reide, sem endelega vill Syndena straffa, sie hun

ecke

ecke hier at Nadarennar Tijma afbeden og utsliettud. Þegar Mennerner med Achab selia sig til ad syndga, og giora illt fyrer Drottne. 1.Reg. 21. þaa vill GUd epter sijnu Rettlæte, selia þaa i Daudans og Fyrerdæmingareñar Þrældom.Heb.2.

Til hvers greip sax Skulldbundne Þienare i þessu auma Stande?

Hañ gieck ecke at mote siñe Skulld, nie synde neinar Refiar, helldur fiell hañ fram, vilbad siñ Herra og sagde, haf Þoleñmæde vid mig, allt skal eg þier giallda.

Hvad lærum vier hier af?

Þad, hverneñ vier skulum hegda oß i vorreUmvendun. Þegar vier þeckium vorar Synder, og siaum, ad vier erum Gude um miklu meira skylldugir, eñ vier kuñum nockurntijma ad giallda, og høfum laangtum stærra Straff forþienad, eñ vier kyñum nockurn Tijma ad þola. Þaa gierer þad alldrei gott ad þeya og neita sijnum Misgiordum. Prov. 28. vier þurfum ei helldur ad þeinkia, ad vier kuñum ad flija fra hañs Auglite, og hilia oß fyrer hønum. Ps. 139. miklu sijdur, ad vier kuñum med rongumAfsøkunum ad villa hañ, og so sem blin-

da

da hañs Augu, sem siaa og vita alla hlute: Þar hañ setur vorar Misgiorder fram fyrer sig, vorar ovitañlegar Synder i lios fyrer siinu Auglite. Ps. 90. helldur er þad þad besta Raad, ad vier utþryckelega medkieñum vorar Synder, bidium um Naadena, eñ ecke um Retteñ, og med þvi vier vitum, ad Guds Rettlæte vill hafa fullkomlegañ Betaling fyrer siina Skulld, þaa skulum vier til Christi Forþenustu sækia Skulldena og Gialdded, hañ hefur utgiefed sitt Liif til Endurlausnar og Betalings fyrer oß alla.

Viknade þaa Herrañ vid þessa hañs audmiuka Bæn?

Jaa, Herrañ saa aumur aa þeim Þion, og liet hañ lausañ, og gaf hønum upp alla Skulldena.

Hvad vill Jesus hier med synaoß?

Guds storu Giæsku og Miskunseme, ad hañ er eiñ naadugur Gud. Ps. 59. og i hiaa hønum er mikel Fyrergefning. Es. 55. hañ fyrergefur Syndernar og forlætur Misgiorningana. Mich. 7. Jaa, hañ gefur ei alleinasta upp Skulldena, helldur Strafféd. Ezech. 18. So ad jafnvel þo hañ straffé stundum, epter þad hañ hefur fyrergefed Syndena, so sem hañ giørde David. 2. Sam.

12.

12. þar er þad þo ecke Reide Straff, helldur ein fødurleg Hirting, med hverre hañ vill, ad vier skulum i aññad siñ vakta oß betur fyrer Syndeñe.

Hverneñ hegdade Þenareñ sier, epter þad ad hañs Herra hafde audsynt hønum so stora Giæsku?

Miøg illa, þvi Texten seger: Eñ þar hañ geck ut, fañ hañ eiñ af siinum Samlags-Þionum, sa ed hønum atte ad gialld hundrad Peninga, þañ sama handtok hañ, greip fyrer Kverkar hønum, og sagde, giallt þad þu ert mier skylldugur. Og hañs Samlags-Þion fiell fram til Fota hañs, bad hañ og sagde. Haf Þoleñmæde vid mig, þvi allt skal eg gialld þier. Eñ hañ villde ecke, helldur for burt, og liet hañ i Dijflyssu, þangad til hañ hafde borgad siina Skulld.

Hvad vill Frelsareñ hier med siinum Læresveinum, og øllum oß fyrer sioner setia?

Hañ vill oß hier med fyrer sioner setia margra maña stort Opacklæte vid Gud, og Omiskunsemd vid siñ Naunga, ad þar stund sem Gud veiter þeim þa storu Naad, og fyrergefur þeim þeirra margfalldar Synder, þa eru þeir þar a mote so

hard-

hardhiartader, ad þeir vilia ecke fyrergefa siinum fatæka Naaunga (sem þo er þeirra Samþion, somu Ættar og heimkiñes, og under sama Herra) eina litla Aavyrding, sem ei kaň þo meira ad reiknast aa mote þeirra eigeň vidurstyggelegum Syndum, med hverium þeir stiggia Gud, eň so sem hundrad Peningar aa mote tiju Þusund Pundum, þetta er þad sem Syrach seger, eiň madur helldur Neideňe vid annaň, og vill leita Naadar hiaa Drottne, haň er omiskunsamur vid siň lijka, og vill bidia fyrer siinum Syndum, haň er ei nema Hollð og Blod, og helldur Heipteňe, hver vill honum þaa haňs Synd fyrergefa. Syr. 28.

Eň vard þesse haňs Þondska ostroffud?

Nei, helldur so snart, sem haňs Samþionar saau þad hvad skede, þaa urdu þeir miøg hriggver vid, komu og kuňgiørdu siinum Herra allt hvad ed giørst hafde.

Hverier eiga ad skiliast fyrer þessa Samþiona?

Þeir heilogu Einglar, sem eru Guds Barna Samþionar. Apoc. 19. Ordsens Þenarar og aňur Guds Born, sem andvarpa yfer Þondsku og Ogudlegleika, sem og Omiskunseme þeirra ogudlegu.

Hverju

Hveriu svarade Konguren̄ hier til?

Han̄ vard reidur, kallade Þionen̄ fyrer sig, talade hardlega til han̄s, og liet ein̄ omiskunsaman̄ Dom yfer han̄ gaanga, fyrer þad han̄ villde ecke audsyna Miskunseme, þvi Texten seger: Þaa kallade han̄s Herra aa han̄, og sagde til han̄s: Þu illur Þioon, alla þaa Skulld gaf eg þier upp, af þvi þu badst mig, hvert byriade þier þaa ecke miskunsøm̄um ad vera vid þin̄ Samlags-Þion, lijka sem eg var þier miskunsamur? Og han̄s Herra vard reidur, og ofurselldé han̄ Kvølurunum, þaangad til han̄ hafde borgad allt þad han̄ var hønum skylldugur.

Hvad vill Christur kenna oß med þessum Parte af Epterlijkingun̄ne?

Þetta, ad so sem Vondska og Obacklæte þeirra Ogudlegu er ecke huled fyrer Gude, helldur auk þeß, ad sia alvitre Gud veit og þecker þad, þaa verdur þad bæde af Einglum og Mønnum hønum kunngiørt, so skal þad ei helldur vera ostraffad, helldur mun omyskunsamur Domur yfer þaa gaanga, sem eingva Myskunseme hafa giørt, Jac. 2. Og lijka sem þeir hafa giort

ødrum, so mun Gud endurgiallda þeim aptur.

Hverneñ endar JEsus Epterlijkinguna?

Med þessum Ordum: So mun og miñ himneskur Fader giøra vid ydur, nefnelega, so sem Kongureñ i sinne Reide giørde vid þañ vonda Þioon, verda ydur reidur, tala hardlega til ydar, og ofurselia ydur Dioflunum, þeim helvijtsku Kvolurum, þangad til þier hafed borgad allt þad þier erud honum skyllduger, sem þier kuñed þo alldrei eilijflega ad giøra, ef ad hver ydar sem eiñ fyrergefur ecke wt af Hiarta sijnum Brodur hañs Misgiørder.

Hvern Lærdóm kunnum vier oß hier af ad draga?

Þennañ, hverium vier Kioofum endelega epter ad fylgia, med þvi vor Naunge er vor Broder, hañ hefur sama Gud og Fødur og vier. Mal. 2. Hañs Yfersioon a mote oß er og alleina eiñ Brestur, mañlegur Veikleike og lijtel Stygd, sem eckert er ad reikna a mote þeim mørgu og storu Syndum, med hverium vier styggium vorn Gud, þa skulum vier ecke hefna vor siaalfer, edur vera Laangrækner vid vorn Naunga, helldur giarnañ fyrergefa hver ødrum, lijka so sem ad Gud hefur fyrergefed oß i Christo JEsu,

JEsu, og þad af ollu Hiarta, eñ ecke einasta med Munnenum og Ordunum; vier skulum ecke einasta fyrergefa Naunganum Misgiorderner, helldur og einneñ gleima þeim aulldungis; uppa þad Gud fyrergefe oß allar vorar Synder, eñ vier leidum ecke med Omiskunseme og Oforlijkunarseme yfer oß GUds Rettlætes Reide tijmanlega og eilijfa. Vier vilium ad sijdustu bidia GUd, ad giefa oß forlijkunarsamt Hiarta, so vier sieum vilinger ad fyrergefa vorum Naunga, og nuun GUd aptur a mote fyrergefa oß, og leida ad sijdustu iñi þa eilijfu Glede, hvar vier munum lioma um allar Allder Allda, Amen.

## Tuttugasta og Pridia Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Mattheus i 22. Cap.

Á þañ Tijma, þa geingu Pharisearner burt, og settu Raad samañ, ad þeir feinge veidt hañ i Ordum, og sendu til hañs sijna Læresveina, med Herodis Þenurum, so segiande. Meistare, vier vitum þad, þu ert sannsøgull, og kenner GUds Gøtu i

Sannleika, og skeiter ei nockrum, þvi ad þu ser ei ad Mañvyrdingum, þar fyrer seig þu oß, hvad þier liist, hvert leifest ad gefa Keisaranum Skatt edur eige? Eñ þaa JEsus formerkte þeirra Flatskap, sagde hañ, hvad freiste þier mijn Hræsnarar? Syned mier Mintena Peningsens, og þeir syndu hønum Peningeñ. JEsus sagde til þeirra, hvers Mynd og Yferskrift er þetta? þeir søgdu hønum, Keysarans, þaa sagde hañ til þeirra, gefed þaa Keysaranum hvad Keysarans er, og þad GUde hvad GUds er. Og er þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, forlietu hañ og geingu i burt.

Hvad høfum vier ad athuga i þessu Gudspialle?

Fyrst, hverneñ Pharisearner samtoktt flærdarfull Viela-Raad aa mote JEsu. Þar nærst; hverneñ JEsus yfervinnur þaa, og giorer þeirra Raad ad Faavitsku.

Hverneñ samsettu þeir Raad aa moote JEsu?

Þar um talar Evangelisteñ þanneñ: Þaa geingu Pharisearner i burt, og settu Raad samañ, ad þeir feinge veidt hañ i Ordum.

Nær geingu Pharisearner i burt, ad setia Raad samann aa moote hønum?

Þaa

Þaa, seger Evangelisten, nefnelega, epter þad, ad JEsus, med tveimur hordum Epterlijkingum, þeirre einu um þaa vondu og illsinnudu Vijngards Men, hinne ann are um þann Kong, sem Brwdkaup giorde Syne sijnum, hafde straffad þeirra Vondsku og storu Hræsne, og þeir formerktu, ad hann talade um þaa, þaa urdu þeir reider þar af, og geingu i burt, og settu Raad saman, ecke til goods, ecke til þess, ad raadslaga um þad, hverneñ þeir kynne ad verda lauser vr Sathans Snoru, helldur hverneñ þeir kynne ad leggia Snoru fyrer þann saklausa JEsum.

Hvad siaaum vier hier af?

Þad, ad þeir vondu Men og Svikarar framleidast æ til hins verra. 2. Tim. 3. i Staden fyrer þad, ad þeir skulu betrast af Predikun Guds Orda, þaa verda þeir argare, þeir kunna ei ad lijda, ad Lioos Sannleikans skijne þeim i Augum, edur ad hart sie kreist ad Kaunum þeirra, helldur verda þeir reider vid þaa, sem straffa þaa i Portunum, og hallda fyrer Svijvyrding þaa, sem heilnæmt kenna. Amos 5.

Um hvad settu þeir Raad saman?

Um þad, ad þeir feinge veidt JEsum i

Ordum: Hvar fyrer þeir þrijr Evangelistar brwka ein sierleg, merkeleg og Eptertektaverd Ord, med hverium þeir gefa til Vitundar þeirra Svikræde. Mattheus brwkar þad Ord, sem merker ad setia Net og Snøru fyrer nockurn til ad veida hañ. I. Þad Ord, sem Marcus brwkar, merker ad fanga og grijpa nockurn, sem Meñ med Veidebrellum og Nete kunna ad veida Dijr, Fugla edur Fiska. Lucas seiger, ad þeir hafe viliad veida hañ i Ordum, og leggur þetta til, so þeir kynne ad afhenda hañ Yfervalldenu, og Makt Landstioornarans, þeir kunnu eingva Søk ad fa uppa hañ i Verkunum, þar fyrer villdu þeir veida hañ i Ordunum, med hverium Manneskiunne er hættara ad hrasa edur forsia sig, eñ hver ei verdur brotlegur i einu Orde, sa er algiordur Madur. Jac. 3. Þesser Herrar hefdu þo sannarlega haft annad um ad raadslaga, nefnelega, um þad, sem kunne ad vera Gude til Dijrdar, hans Kyrkiu til Uppbyggingar, og þeim sialfum, sem og ødrum til Syndanna Apturhallds. Eñ allt þetta leggia þeir til Sijdu, og hafa sijna Raadagiord um þad, ad umsitia alleinasta hañ saklausa JEsum.

Hvad sioxum vier hier af?

Þaa stooru Vondsku og Faavitsku þeirra Ogudlegu, ad þeirra Raad og Aform er alldrei til nockurs goods, helldur til þeß, ad umsitia þaa Saklausu, þeir eru hiꝗner til illt ad giora, eñ vel ad giora vilia þeir ecke læra. Jer.4. Hvar fyrer þad maa vel segiast um þaa, ad þeir sieu diarfer med siinar vondslegar Raadagiorder, og tale faafeinsgelega Hlute. Ps. 2.

Hvad skulum vier hier af læra?

Þad, ad varast ad gaanga i Raade ogudlegra. Ps. 1. helldur segia um þaa þad sama, sem Jacob um þaa tvo hefndargiirugu Brædur Simeon og Levi: Miin Saal skal ecke koma i þeirra Raad, og miin Æra skal ecke vera i þeirra Samkundu. Gen. 49. eiñeñ skulum vier hier læra, ad giæta grant ad vorum Verkum, og ei siidur ad vorum Ordum og Muñrædum, so vier follum ecke, og giefum vorum Ovinum Tækefære, til ad giora oß Tion og Skada, helldur skal sierhvert Guds Barn vera so siñad sem David, er seger: Eg hefe einsett mier, eg vil varast þad eg syndge ecke med miñe Tungu, eg vil temia miñ Muñ. Ps. 39. og þryckia traustu Iñsigle aa miinar Var-

er. Syr. 22. Og yfer alla Hlute fram̃ skulum vier bidia Gud, ad vardveita oß fyrer vondum Raadum þeirra ogudlegu, sem þeir uppþeinkia aa mote oß, og fyrer þeim Snorum, sem þeir leggia fyrer oß, so þeir mættu skam̃ast sijn og ad Skom̃ verda, er epter oß sækia. Ps. 70.

Hverneñ ææsetia þeir sier ad hegda sijnu vondu Raade?

Þanneñ, ad þeir sendu til hañs sijna Lærefveina med Herodis Þienurum, so segiande. Meistare vier vitum, ad þu ert sañsögull, og keñer GUds Götu i Sañleika, og skeiter eige nockrum, þviad þu ser ei ad Mañvyrdingum, þar fyrer seig þu oß hvad þier lijst, hvert leifest ad gefa Keysaranum Skatt edur eige?

Hverier voru þeir, sem þeir brukudu til ad fram̃kvæma med sitt vonda Aaform, og sendu til Jesum?

Þeirra Lærefveinar og Herodis Þienarar.

Hvad fyrer Meñ voru þeirra Lærefveinar?

Þad voru þeir, sem sætu til Fota þeirra, heyrdu þeim, og epterfylgdu þeirra Lærdome.

Eñ Herodis Þenarar, hvad fyrer einer voru þeir?

Þeir

Þeir hafa aññadhvert vered Herodis Hofſveinar, ſem bæde Keiſarans og ſijns Herra vegna, hver Keyſaranum var undergefeñ, hafa framfylgt Keyſarans Rette, edur og þeir, ſem Herode hafa epterfylgt i Truarbrogdunum, ſem ſamblondud voru af Gydingaña og Heidingiaña Truarbrogdum, hvar fyrer Jeſus ſeger, vared ydur vid Surdeige þeirra Phariſeorum, og vid Surdeige Herodis. Marc. 8.

Þvi geingu Phariſearner ecke ſiaalfer til JEſum?

Þar fyrer, ſo þeirra Hreckvijſe kyñe þvi betur ad hiliaſt, og þeirra Vondſka yrde þvi ſijdur opeñber. Þetta ſama gierde Satan, hañ kom ecke til vorrar fyrſtu Moder i ſiñe eigeñ Mind, helldur kom hañ i Mind eins Hoggorms, ſo koma og Phariſearner ecke ſiaalfer fram aa mote Jeſu, helldur ſenda þeir ſijna Læreſveina til hañs, aaſamt Herodis Þienara, og þo voru þeirra Hendur med þeim i ollu þeſſu, ſem Joabs med Kvinnuñe. 2. Sam. 14. þeir hofdu ſiaalfer nockrum ſiñum reint hañ, og miog lijted aauñed, þar fyrer ſenda þeir nu ſijna Læreſveina, og þo hañ yferviñe þaa, þaa aatte þo Skomeñ ad vera miñe; Eñ ef hañ yrde af þeim yferunneñ, þaa ſkyllde hañs verda þvi meire Vanvyrdañ.

Voru þaa þesser Herodis Þienarar so goder Viner Phariseaña, ad þeir þar fyrer sendu þaa med siinum Læresveinum?

Nei, helldur voru þeir Oviner siin aa millum, eñ nu, þar þetta skal Jesum gyllda, þaa finnum vier þat ei alleinasta hier, helldur og annarstadar, ad hafa vered samþycka.

Hvad skaaum vier hier af?

Þaa vondu Art og Adferd þeirra ogudlegu, ad jafnvel þo þeir sieu aa Hofdunum adskillder i þeirra Meiningum, so eru þeir þo med Samsonar Refum samañbundner aa Holunum til ad giora Skada. Jud. 15.

Hverneñ baaru þesser Phariseaña Utsendarar sig ad, ad utrietta siin Eyrende?

So sem Guds Ande kallar þessa Utsendara Svikara, hverier eins og Fiskemeñ laata Beituna aa Aunguleñ, til ad veida med Fiskeñ, so hilia þeir og Ongla og Snorur siins Falskleika, med utvortes Sidseme og fogrum Ordum, og kalla hañ Meistara; liika sem þeir villdu bidia hañ, ad keña sier og undervijsa; þeir segia: vier vitum, ad þu ert sañsogull, og keñer Guds Gotu i Sañleika, og skeiter eige nockrum, þviad þu ser ei ad Mañvirdingum,

ingum, þetta allt toludu þeir til ad locka han til ad segia þad, sem þeir villdu giarnañ heyra.

Hvad verdur oß hier fyrer Sioner sett?

Falskleike og Underferle Veralldareñar Barna, hver med utvortes Hræsne, hilia siina vondu forgift og banvænt Eitur, sem er i þeirra Hiortum, þeir mæla sattsamlega vid siñ Naunga, eñ hafa hid vonda i Hiartanu. Ps. 28. Jaa, þeir tala fagurt med Muñenum, eñ bolva i Hiartanu. Ps. 62.

Kuñum vier þo ecke ad utdraga Lærdom af þessum þeirra Ordum?

Sañarlega; vier lætum þaa vera ut af fyrer sig med siina Hræsne, og trwum, ad vor Jesus sie saa rette Meistare, sem er sañsøgull, jaa, siaalfur Sañleikureñ, og sem oß hefur kient Guds Götu i Sañleika. Hañ skeitte eige nockrum og for ei ad Mañvyrdingum, helldur þorde hañ diarflega ad segia sierhverium til siña Synda; øllum Gudsbørnum og Þenurum til Eptirdæmes, ad þeir af fremsta Megne eptirfylge hønum i þessu. Athugum hvad Phariseaña Læresveinar medkieña, þeir vissu ad hañ var saa yppärste Læremeistare, og þo villdu

villdu þeir ecke vita þad, þeir þecktu hañ, eñ medtoku þo ecke hañs Kenningu og Lærdom. Hvar fyrer þad mun verda þeim til þeß stærre Fyrerdæmingar a sijdasta Dege: Þvi hvør sa Þion, sem veit sijns Herra Vilia, og giører eige epter hønum, hañ mun lijda mørg Högg. Luc. 12.

Hverneñ wtbriotast ad sijdustu þeirra Vielræde a mote Christo?

Þau wtbriotast med þessare sloknu Viela-Spurningu, er þeir hañ adspyria: Seig þu oß hvad þier lijst, hvørt leifest ad giefa Keisaranum Skatt edur eige? Þesse Spurning var vond af vondum framsett, þeir segia ecke, so lyst oß, hvad synest þier? helldur beidast þeir alleina, ad fa ad vita hañs Meining. Hia Marcum Gudspiallamañe segia þeir: skulum vier hañ gefa, edur ecke gefa. Marc. 12. Þeir hielldu, ad hañ munde añadhvert segia ja edur nei til Spurningareñar, og hvert hañ helldur segde, þa skyllde hañ þo vera faungeñ og yferuñeñ. Segde hañ ja, þa skylldu Phariseaña Læresveinar þad til sijn taka, og hañ aklaga fyrer Folkenu, sem þañ, er þad villde svipta sijnum Frijheitum. Segde hañ nei, þa skylldu Herodis Þenarar

griipa,

grijpa hañ Keisarans vegna, sem þañ, er villde lijka sem uppæsa Folked a mote Keisaranum, so kynduglega logdu þeir sijnar Viela-snorur fyrer hañ.

Eñ hvad sagde Jesus hier til? svarade hañ strax til wtþryckelega jaa edur nei uppa þeirra Spurning, so sem þeir tilætludu?

Nei, helldur seger Evangelisteñ, þaa Jesus formerkte þeirra Flatskap, sagde hañ (straffande þeirra Vondsku og Ogudlegleika, sem og Underferle) hvad freiste þier mijn Hræsnarar.

Hvad siaaum vier hier wt af?

Bæde Jesu Alvisku, sem saa þeirra Hreckvijse, hañ er saa, sem rañsakar Hiörtuñ og Nijruñ. Ps. 7. Og veit Huxaner Mannaña. Ps. 94. So og siaaum vier hier hañs Vandlæting og Trwskap, ad hañ straffar þeirra Hreckvijse, og nefner þaa þeim aheyrande þeirra riettu Näfne, hvad freiste þier mijn Hræsnarar.

Kunnum vier oß hier wt af nockra Huggun og Lærdom ad taka?

Jaa, Huggunarsamlegt er þad fyrer oß, ad jafnvel þo vorer Oviner kuñe opt ad hilia sijna Hreckvijse fyrer oß, so kuña þeir þo alldrei ad hilia og dilia hana fyrer þeim alvitra JEsu, þvi hañ veit grant, hvad

med

med hverium mañe er. Joh. 2. Eñ vier skulum varast Hreckvijse og Hræsne, sem er eiñ Lostur, med hverium vier freistum Guds, og hañ storlega stiggium leidande yfer oß hans Straff og Reide.

Hvad talade Jesus enn framar til þeirra?

Hañ sagde, syned mier Mintena Skattsens, og þeir syndu hønum eirn Pening, Jesus sagde til þeirra, hvers Mynd og Yferskrift er þetta? þeir søgdu hønum, Keysarans, þviGydingarner hofdu þaa ei Valld til Peningana ad mynta; helldur med þvi þeir voru þvi Romverska Herradæme undergefner, þaa hlutu þeir og ad bruka þeirra Mynt, med Keysarans mynt og Yferskrift, sierdeiles nær þeir skylldu giefa Keysaranum Skatt.

Hvad skulum vier hier af ælikta?

Þad, ad Spijrañ var nu tekeñ fraa Juda, Gydingarner voru komner under añarlegt Yfervalld, og þad þar fyrer ad Tijmeñ var komeñ, aa hverium Schilo, þad er Messias skyllde koma. Gen. 49.

Med hveriu Svare vijsade hann þeim ad sijdustu fraa sier?

Þad seger oß Texteñ, þar so stendur, þaa sagde hañ til þeirra, giefed þaa Keysaranum,

um, hvad Keysarans er, og þad Gude, hvad Guds er, sem hañ vilide segia, med þvi Gud hefur ydar Synda vegna læted ydur koma under þeß Romversta Keysara Herradæme, sem augliost er af hañs Mynt og Yferskrift, sem þier bruked a ydar Mynt, þar er þad tilheyrelegt, ad þier gefed honum þad sem hañs er, og þier, sem hañs Undersaatar, erud honum umskyllduger. Eñ þar fyrer meige þier ecke þad ødrum giallda, sem þier epter Guds Logmaale erud skyllduger ad gefa til Guds Hwß og Þionustugiordar. Ex. 30. Ei helldur meige þier gleima þeirre Hlijdne og Þionustu, sem þier eiged Gude ad veita.

Hvern Lærdom kunnum vier oß hier wt af draga?

Þennañ, ad vier skulum epter St. Peturs Aminningu ottast Gud, eñ heidra Kongeñ. 1. Pet. 2. Gude skulum vier sialfa oß gefa, med Saalu og Lijkama, sem hañs erum, 1. Cor. 6. i þvi, ad þiona honum med trwfostum Hiortum, eñ Yfervalldenu skulum vier gefa siñ tilbærelegañ Heidur, Hlijdne og Skatt, sem vier erum þvi umskylduger, þvi so aminner S. Paall, segiande: Gefed þeim Skatt, sem Skattur heyrer. Rom. 13.

Hvern

Hvernenn fiell þeim þetta Svar?

Þegar þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, forlietu hann, og geingu i burt. Lucas seger, ad þeir hafe ecke getad straffad hanns Ord fyrer Folkenu, undrande hanns Andsvør, hvar fyrer þeir hafe þagnad. Luc. 20.

Hvad siaaum vier hieraf?

Vier siaaum þad satt ad vera, er Salomon seiger, ad þar hiaalpe eingenn Vitska, eingenn Skynsemd, eckert Raad, aa mote Drottne. Ordsk. 21. sem og þad, ad aa allre Illgyrne skal Munnurenn umm sijder tilbyrgdur verda. Ps. 107. Vier viliumm ad Endalykt segia Lof þeim hinum hædsta, og priisa og heidra hann, sem varer eiliijflegana umm Allder og ad Eiliijfu. Amen.

# Tuttugasta og fiorda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Mattheus i 9. Cap.

Á þann Tijma, þa ed JEsus talade þetta hid sama til þeirra. Siaa þu, ad Høfdinge nockur gieck ad, og tilbad hann seigande: Mijn Dotter er nu saalud, enn þu kom og legg þijna Hønd

Hønd yfer hana, og mun hun lifa. Og JEsus stod upp, og fylgde hønum epter, og so hans Lære-sveinar. Og siaa þu, ad Kona nockur, hver ed hafd hafde Bloodfall i tolf Ar, geck aa bak til vid han, og snerte Falld hans Klædnadar, þvi hun sagde med sialfre sier: Ef ad eg mætte ad eins snerta hans Klædnad, munde eg heilbrigd verda, en han snerest vid, leit til hennar og sagde: Vertu hughraust, Dotter, þijn Trw giørde þig heilbrigda, og aa þeirre sømu Stundu vard Konan heilbrigd. Og þaa ed JEsus kom inn i Høfdingians Hws, og saa þar Ludurþeitara og Bulldran Folksens, sagde han til þeirra: Vijked fraa, þviad ecke er Stulkan Daud, helldur sefur hun, og þeir dærudu han, en sem Folked var wtdrifed, geck han þar inn og took um hennar Hønd, og Stulkan stood upp. Og þetta Rikte barst wt umm allt þad sama Land.

Umm hvad er talad i þessu Gudspialle?

Umm tvø Christi Kraptaverk, nefnelega, fyrst umm Heilbrigde þeirrar Blodfalls-siwku Kvinnu, og Lausn af hennar Krankdæme.

dæme. Þar nærst, um̃ Dottur Jairi uppvakta fraa Daudunum.

Hverneñ kunnum vier best ad aalijta bæde þesse Krapta-verk so sem i einu?

Nær vier epterfylgium Gudspialla-mañsens Ordum, og athugum fyrst Høfdingians Komu til Christum, hver hañ audmiwklega bad ad koma, og leggia sijna Hønd yfer hañs nij-saalada Dottur. Þar nærst; Christi reidubweñ Goodvilia til ad epterfylgia hønum, og hverneñ sw Bloodfalls-siwka Kvinnañ vard heilbrigd aa Vegenum. J þridia Maata; Christi Jñgøngu i Jairi Hws, og med hverium Hætte hañ giørde hañs dauda Dottur lifande aptur.

Hvad talar Evangelisteñ um̃ þad fyrsta?

Hañ seger: Þaa ed JEsus talade þetta hid sama til þeirra: siaa þu, ad Høfdinge nockur geck ad, og tilbad hañ, segiande: HErra, mijn Dotter er nij-saalud, eñ þu kom og legg þijna Hønd yfer hana, og mun hun lifa.

A hverium Tijma kom þesse Høfdinge til JEsum?

Þaa ed hañ talade þetta hid sama til þeirra, seger Evangelisteñ.

Til hverra og hvad talade hañ?

Þad syner oß Gudspialla-madureñ

skemu

skõnu ardur i þessum Capitula, segiande: Þaa komu Johannis Lære-sveinar til hañs, og sogdu: Hvar fyrer fostum vier og Pharisei so miøg, eñ þijner Lære-sveinar fasta ei? JEsus sagde til þeirra: Hverneñ maa Brwdkaups Folked syrgia so leinge, sem Brwdgumeñ er med þeim? Eñ saa Tijme mun koma, ad Brwdgumeñ mun fraa þeim takast, þaa munu þeir fasta; eingeñ setur Boot af niju Klæde aa gam̃allt Fat, þviad Boteñ glidnar af Fatenu aptur, og verda so Sliteñ verre, og eige laata meñ nijtt Vijn i fornar Floskur, añars springa Floskurnar, og Vijned spillest, og Floskurnar fordiarfast, helldur laata meñ nijtt Vijn i nijar Floskur, og verdur so hvertveggia forvarad.

Hvad skede, þegar JEsus talade þetta hid sama til þeirra?

Þad, ad Høfdinge nockur geck ad, og tilbad hañ, segiande.

Hvad fyrer eiñ Hofdinge var þetta?

Þad var eingeñ veralldlegrar Stiettar Hofdinge, helldur eiñ af Foringium Samkundu Hussens, Marc. 5. edur sem Lucas seger, Samkundu Hussens Høfdinge. Luc. 8. Gydingarner hofdu alleinasta eitt

Mustere i øllu Landenu, hvert Mustere ad var i Jerusalem, eñ þar fyrer utañ høfdu þeir i sijnum Borgum og Lands Bygdum mørg Samkundu Hws, hvar þeir komu til samans ad bidia og lesa þaa heiløgu Skrift, og wtretta og frañkvæma GUds Þionustugiørd, og sa sem var sa ypparste yfer þeirre Samkundu, hañ kalladest Høfdinge Samkundu-Hwßens, og þvilijkur eiñ Madur var þesse yfer Samkundu Hwsenu i Capernaum.

Verdur hañ ecke nefndur med Nafne?

Evangelisteñ Mattheus nefner hañ ecke eigeñlega med Nafne, eñ hiner tveir segia, ad hañs Nafn hafe vered Jairus, hvert Nafn merker so miked sem upplystur.

Med hverium Hætte kom þesse Høfdinge frañ fyrer JEsum?

Med þessum Hætte, ad hañ tilbad hañ, hiner Gudspialla-meñnerner segia, ad hañ hafe falled hønum til Foota, og bedeð hañ mikelega.

Um hvad bad hañ hañ?

Þad seger oß Texteñ, þar so stendur: HErra, mijn Dotter er nijsaalud; eñ þu kom og legg þijna Hønd yfer hana, og muñ hun lifa.

Var hañs Dotter daud, þegar hañ kom til JEsum?

Þegar

Þegar hañ geck wt af siinu Hwse til JEsum, þaa var hun ecke Daud, helldur var hun komeñ ad fram, so sem Marcus seger, eñ Lucas seger hun var ad Dauda komeñ, þar fyrer bad hañ, ad JEsus villde koma og leggia siina Hønd yfer hana, so hun kynne ad frelsast og lifa. Hun ælyktadest þvi nær daud i Fødursens Þaanka, þegar hañ geck wt, sem og eiñeñ skede, ad hun andadest aa þeim Tiima, sem hañ var hiaa JEsu, so sem Lucas vitnar.

Plagade Jairus ædur ad koma til Christum, og hañ ad tilbidia?

Nei, þar talar Gudspiallamadureñ eckert um, hañ hefur ad sonnu haft nockra Þecking aa honum, og kañskie vered eiñ i þeirra Tølu, um hveria Evangelisteñ Johannes getur og seger: Marger af Høfdingiunum trwdu þo aa hañ. Joh. 12. Þo hefur hañ þad ei opeñberlega medkendt, so hañ skyllde ecke wtrekast fraa Samkunduñe. Eñ nu þar Neydeñ þreinger og þiakar ad honum, og hans einka Dotter i hennar fegursta Blooma (aa hennar tolfta Alldurs Aare) ætlar wt af ad slokna, þaa flijter hañ sier til JEsum, og fellur opennberlega nidur fyrer honum, og tilbidur hañ; so ad

Dotturennar Siwkdomur verdur hier Fodursens Læknisdomur, og þegar hennar Lijfs Lioos er þvi nær wtsloked, þaa lifnar og tendrast Trwarennar Lioos i hans Hiarta, so hann verdur eirn rettur Jairus, og upplystur Madur, og jafnvel þo nockur Veikleike sie hiaa honum, i þvi hann vill lijka sem fyrerskrifa Christo Stad og Maata til ad hiaalpa, þar hann bidur hann ad koma ofann og leggia sijna Hønd yfer hans Dottur; þaa er honum þo þar fyrer ad hrosa, ad hann trwer, ad hann bæde kunne ad lækna hana, og giøra hana lifande.

Hvad sieaum og lærum vier hier af?

Fyrst; hvad hrigdarfullt, ofstødugt og eymdumvafed ad vort Lijf og Tilstand er i Heimenum; Jairus var einn mikelshaattar Madur, samt feila sier ecke Kroß og Daude ad koma inni hans Hws, og giøra Skard i hans Glede. Hans einasta Barn, hans fegursta Bloomstur, hans Hwß kostulegasta Prijde, hans inndælasta Glede, verdur hastarlega gripenn, og lijka sem Jonæ Graskar af Siwkdomsens og Daudans Orme stungenn. So erum vier og alldrei frijer fyrer Neyd og Dauda, Madurenn af Kvinnunne fæddur lifer

stutta

stutta Stund, og er fullur Onadar, hañ uppvex sem annad Blomstur og fellur af, og i burtfliir, sem annar Skugge, og er ecke i sama Stad. Job. 14. Þar nærst; hvad nytsamlegur Krossen er oß. Jairus hafde ecke ꜳdur til Christum komed, edur nidur fyrer honum falled, eñ nu kenner Krossen honum ad kriwpa nidur og bidia. So lærum vier og i Hormungunne ad vitia Drottens, og skꜳrgrætelega ad kalla og wtausa vorum Bænum, nær hañ agar oß. Es. 26. Þar fyrer er oß þad gott, ad hañ audmiiker oß, so ad vier lærum hañs Rettende. Ps. 119. J þridia Mꜳta; hvert vier skulum fliia bæde i vorre eigeñ, vorra Barna og annara Neyd og Siwkdome, nefnelega, til JEsum, þeß retta Israels Læknara, i stædstu Audmyykt nidur fyrer honum falla, bidia hañ uñ Hiꜳlp og stadfastlega trwa, ad hañ sie sꜳ Gud, sem hiꜳlpar, og sꜳ DRotteñ DRotteñ, sem frꜳ Daudanum frelsar. Ps. 68.

Giorde þꜳ JEsus epter þessare Hofdingians Beidne?

Jꜳ, þvi Evangelisteñ seger: Og JEsus stood upp og fylgde honum, og so hans Lære-sveinar. Ecke burtrekur

sꝏ miskunsame JEsus Jairum þar fyrer, þo hiꝏ honum finnest stor Veikleike, helldur fylger hañ honum strax, og vill hañ hugga, og honum hiꝏlpa.

Hvad siꝏum vier hier wt af oß til Huggunar?

Þꝏ storu Giæsku vors Frelsara vid þau aumu, veiku og neydliJdande Guds Born, ad hañ vill ongvañ þañ frꝏ sier reka, sem til hañs kemur. Joh. 6. Helldur vill hañ i Neydeñe hiꝏ þeim vera og þeim fylgia; þeirra Bæn og Trw hefur eirn mꝏttugañ Krapt til ad draga hañ epter sier, hañs Giæska og Miskunseme mun þeim epterfylgia. Ps. 23.

Hvad skulum vier hier af læra?

Vier skulum epter Dæme Christi verareidubwner til ad hiꝏlpa vorum Nꝏungum, eige elska med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sañleika. 1. Joh. 3. Og þad gott sem vier villium giora, þꝏ skulum vier giora þad fliott, so sem Jesus i añare Meiningu sagde til Judam, þvi sꝏ sem hiꝏlpar fliott, hañ hiꝏlpar tvisvar, plogum vier ad segia.

Hvad skiede ꝏ medañ Jesus epterfylgde Hofdingianum?

Þad syner oß Gudspiallamadureñ fram-

framveges, segiande: Og sia þu, ad Kona, hvered haft hafde Blodfall i tolf Aar, gieck a Bak til vid han, og snerte Falld hans Klædnadar, þvi hun sagde med sialfre sier. Ef ad eg mætte ad eins snerta hans Klædnad, munde eg heilbrigd verda. En han snerest vid, leit til henar og sagde. Vertu hug-hraust Dotter, þijn Trw giørde þig heilbrigda. Og a þeirre sømu Stundu, vard Konan heilbrigd. Hiner adrer Gudspiallamenerner segia skijrlegar fra ollum Kringumstædum, bæde þad henar Siukdom aahrærer, so og med hverium Hætte hun leitade sier Lækningar og vard læknud. Um henar Siukdom talar Marcus þannen. Og þar var ein sw Kona, er haft hafde Blodfall i tolf Aar, hun hafde og miked þolad af morgum Læknurum, og hun hafde og kostad þar til ollu sijnu, og þad stodade hene þo eckert, helldur versnade hene miklu meir: Hvernen hun leitade sier Hialpar og Lækningar i sijnum Siukdome, auglyser Marcus med þessum Ordum. Þa hun heyrde af Jesu, kom hun med Folkenu a bak til, og snart hans Klæde, þvi hun sagde; ef eg fæ ad eins ad snerta

hañs Klæde, þaa mun eg heilbrigd verda, og jafnsnart þaa uppþurkadest heñar Blod-Bruñur, og hun fañ aa sijnum Lijkama, ad hun var heil ordeñ af siñe Plaagu. Og Jesus fañ strax aa siaalfum sier þañ Krapt, er wt af hønum geck, og snere sier vid til Folksens og sagde, hver snart mijn Klæde? Hañs Læresveinar sögdu til hañs; þu sier, ad Folked þreinger ad þier, þo seger þu, hver snart mig. Og hañ skigndest i kring epter heñe, er þad hafde giort. Eñ Konañ var hrædd og skiaalfande (þviad hun visse hvad hana hafde skied) og kom og fiell fyrer hønum nidur, og sagde hønum allañ Sañleik. Eñ hañ sagde til heñar: mijn Dotter, þijn Trwa giorde þig heila, gack i Fride, og vert heil af þiñe Plaagu.

Hvern Lærdom kunnum vier af þessum ypparlega Giorninge oß ad wtdraga?

Hier wt af kuña marger huggunarsamleger Lærdomar ad dragast, eñ vier viljum stuttlega og einfalldlega epter Veniuñe, setia þessa Blodfalls-siwku Konu oß fyrer sioner, fyrst sem eirn Speigel uppaa vora Eymd, ei alleinasta þaa lijkamlegu, ad vier Syndaña vegna, erum adskilianlegre Sott og Siukdome underorpner. Gud

þarf

þarf ei Hrijsed laingt ad sækia til ad refsa oß med, helldur kañ hañ þegar hañ vill, audvelldlega ad giøra vorn eigeñ Lijkama, so sem ad einu Fangelse, og vort Blod so sem ad eirnre Svipu (so sem þeirra Blodfalls-siwku Kveña Blodfall kallast) til ad hirta og straffa oß med, helldur er hier og eirn Speigell, uppa vora andlegu Eymd, ad vier liggium lijka sem nidurtrodner i vorn Blode. Ezech. 16. Þad er i vorum blodraudum Syndum Es. 1.

Þar nærst: hofum vier hier eina aamiñingu um vorn Veikleika, og þañ fawijslega Vana, er oß almeñelega fylger, ad vier giarnañ leitum fyrst Hiaalpar og Raada, þad frekast vier kuñum, hiaa Mønnunum, aadureñ vier leitum Adstodar og Hiaalpar hiaa vorum Gude, og Frelsara Jesu, þar hañ er þo saa rette Israels Hiaalpare, og Grædare. Exod. 15. Og ef hañ veiter oß ecke Fulltinge i Hørmunguñe, þaa er Mañsens Hiaalp eingvu nijt. Ps. 60. J þridia maata; høfum vier hier eitt prijdelegt Epterdæme og Undervijsun, hverneñ vier skulum flija til JEsum, bæde i vorre andlegre og lijkamlegre Neyd, og med Truñe snerta hañs andleg Klæde, eg meina, hañs

Ord

Ord og Fyrerheit, i hveriu hañ sem einu andlegu Klæde er sveipadur, so og hañs heilogu Mañdoms tekningu, hverre hañ hefur sig ifært, jaa, hañ hefur ifært sig vorre Naatturu, sijnu andlegu Klæde og Motle, og sieum stadfastlega twande, ad hañ sie vor Goel og Broder, er bæde kañ og vill hiaalpa oß. Hañ er saa ypparste Prestur, sem er forfareñ i øllum Hlutum an Syndar, og kañ þo Sampijning ad hafa med vorum Breiskleika. J annañ maata; vilium vier hier i vorum Frelsara JEsu, sia eitt Eptterdæme og Bevijsing, Fyrst uppaa hañs Alvitsku, þvi jafnvel þo Konañ geinge aa Bak til vid hañ, og snerte Falld hañs Klæda, og þad i Folksens Margfiollda, og Þreingslum; þaa samt fañ hañ eiñ Krapt wt af sier geingeñ, hañ visse bæde, hvad iñelega ad þesse faatæka Kona leitade epter Hiaalpeñe hiaa sier, so og ad hun var nu alldunges heil ordeñ, so eru nu aller Hluter nakter og ohullder fyrer hañs Augum. Heb. 4. Allra hañs Barna Gyrnd og þeirra Andvarpan er fyrer hønum ei okuñug. Ps. 38. Hañ veit og grant hveria Hiaalp og Naad þeir hafa medteked.

Þar nærst; siaaum vier eina Bevijsing uppaa

uppaa hans Miskunseme, þvi jafnvel þo su faatæka Kona hefde geinged aa bak til vid hañ, og so sem leinelega stolest ad hañs Hiaalp, þaa straffar hañ hana þo ecke, sem hun hrædd og skiaalfande ottadest: helldur talade hañ huggunarsamlega til heñar, og sagde; vertu hughraust Dotter, þijn Trw giørde þig heilbrigda. Sama Siñeslag hefur hann eñ nu, þvi hañ er saa miskunsame og trwlinde Biskup, er Sampijning vill hafa med vorum Breiskleika. Hebr. 2. Þañ braakada Reyrēñ vill hañ ecke i sundurbriota, og þañ riwkanda Lijnkveik vill hañ ecke utslöckva. Es. 42. Og i þridia maata; siaaum vier eina Bevijsing uppaa hañs Almætte, ad fraa hañs Klædafallde kañ Kraptur ad gaanga, þeim siuka til Lækningar og Heilbrigde, og var þad ei omøguleg, edur so storlega undrande, þvi þarsem St. Peturs Skugge og St. Paals Sveitadwkur kuñe fyrer Guds Krapt ad lækna og heilbrigda þaa siwku, hvad miklu framar skylldu þaa JEsu Klæde, og allt þad sem hiaa hønum var, hafa eiñ læknande Krapt i sier.

Hvad skede aa medañ Jesus var aa Vegenum til Jairi Hwß, og læknade þaa Blodfalls-siuku Kvinnu?

Þad,

Þad, ad Hofdingians Dotter andadest, hvad hans Þenarar kunngiordu honum, so sem hiner Gudspiallamennerner herma. Þaa han var enn þetta ad tala, seger Marcus, komu nockrer af Þenurum Samkundu-Foringians, og sogdu; þijn Dotter er ondud; þvi omakar þu Meistaran leingur? Lucas seger soleides; og er han talade enn þetta, kom einn af Samkundu-Hofdingians Þenurum, segiande honum, þijn Dotter er ondud, omaka Meistaran eige.

Hætte Jesus þaa, edur slo han af Ferdenne til Jairi Hwß?

Nei, þvi jafnvel þo Jairus (sem augliost er af Christi Ordum til hans) yrde hræddur og hriggur vid þesse Tijdende, þaa hughreiste JEsus han þo ei alleinasta, so sem hiner adrer Gudspiallamennerner greina fra, segiande: Og Jesus heyrde strax hvad þar sagdest, og han sagde til Samkundu-Foringians, ottast þu eige, Trw þu ad eins, (so sem þar stendur hiaa Marcum) og Lucas framsetur þetta aa þennan Hætt. Enn er Jesus heyrde þad, svarade han honum og sagde, hrædstu eige, trw ad eins, þaa verdur hun heilbrigd; helldur geck han og einnenn inn i Hwsed, til ad uppvekia hans daudu Dotter.

Hvad

Hvad mætte honum, þegar hañ kom til Hwssens?

Þad seger oß Evangelisteñ, þar hañ so talar. Og þaa ed Jesus kom iñ i Høfdingians Hws) og sa þar Ludur-þeitara og Bulldran Folksens. Marcus brukar þesse Ord; og hañ kom iñ i Samkundu Høfdingians Hws, og Leit þar Bulldran, og þaa, er þar gretu miøg og æptu.

Hvad fyrer eiñ Ludra Blaastur, og Bulldur var þad?

Gydinga Folk hefur fraa gamlre Tijd brwkad adskiliañlega Adferd til ad graata, og syrgia Dauda þeirra framlidnu. Vier siaum, hverneñ Jsraels Dætur gretu, Dottur Jephtha. Jud. 11. Einneñ stendur so skrifad 2. Chron. 25. ad Jeremias hafe grated Josiam, og aller Søngmeñ og Søngkonur hafe kveinad med graatlegum Søngum epter hañ, iñ til þessa Dags, og þeir giørdu (stendur skrifad) eiñ Sidvana þar af i Jsrael. So þeir hafa tilsett Harma-konur, sem hafa komed og grated, og harmad Dauda þeirra øndudu, og adrer hafa med þessum Hætte saargrætelega klagad, vei, vei, og grated þaa Daudu, segiande, æ Broder, æ Syster, æ þu Herra, æ þu ættgøfuge! So og hafa þeir haft i sijnu sorgarlegu Tilstande sijnar Pijpur, og i þær

i þær grætlega blæsed, og siin Harma-Veß sunged. Matt. 11. J hveriu Efne ei verdur apturbored, ad þeir hafa sumpart teked sier Skick epter kringumliggiande Folke og Heidingium, sem þeim hefur þo hverke vered befalad, nie epterlæted af Gude; og þanneñ auglyste þetta Skick sig i Hofdingians Hwse, hvar ed var Ludrablæstur, Bulldur, Op og Graatur yfer hañs daudu Dottur.

Eñ hvad talade JEsus hier uñ?

Hañ sagde til þeirra: Viiked frat, þviad ecke er Stulkañ daud, helldur sefur hun. Hiaa Marcum stendur, ad hañ hafe sagt til þeirra, hvad bulldre þier og siited? Barned er eige daudt, helldur sefur þad.

Var hun þaa ecke daud?

Sannarlega, eñ ecke so daud, ad hañ, sem er HErra Liifsens og Daudans, kynne ecke so audvelldlega og audvelldlegar, ad giora hana lifande, eñ Madur kañ eiñ sofande upp ad vekia af siinum Svefne.

Hvad sogdu þeir hier til?

Þad syner oß Evangelisteñ, segiande: Og þeir dæárudu hañ. Lucas seger, þeir dæárudu hañ, sem þañ er sæviislega talade,

talade, þviad þeir vissu, ad hun var latteñ.

Liet hañ þetta hindra sig ad iñgaanga i Hwsed?

Nei, helldur geck hañ iñ til ad uppvekia hañ Dauda.

Took hañ nockra med sier?

Jaa, hañ rak Folked wt, og lofade ei neinum iñ ad gaanga, nema Petro, Jacobo og Johanne, og Fodur og Moodur Barnsens, hverier ed skylldu vitna um þetta Kraptaverk.

Hvad giørde þaa JEsus, epter þad hañ var iñkomeñ?

Texteñ seger: Hañ geck þar iñ, tok uñ hennar Hønd, og sagde til heñar, Talitha Kumi, þad wtlegst, Stulka, eg sege þier, riis upp, so sem Marcus vitnar og Lucas einneñ stadfester.

Stood hun þaa strax upp?

Jaa, Stulkañ stood upp, seger Texteñ, Marcus seger, og þaa strax reis Stulkañ upp og geck, og hañ baud þeim, ad þeir skylldu gefa henne ad eta, til eins Teikns og Merkes þar uñ, ad hun være nu sañarlega ordeñ lifande aptur.

Vard þetta Christi Krapta-verk fleirum kunnugt?

Jaa, þvi þetta Rikte barst wt uñ allt þad sama Land.

Kunnum vier oß nockra Lærdoma hier wt af ad draga?

Jaa, adskiliañlega, eñ aa medal annra þessa. Fyrst; ad Trw Guds Barna fær margviislegt Motkast, so sem hier Jairus, af þvi ad hønum var kuñgiørdur sinnar Dottur Daude, eñ JEsus hiaalpar og styrker þeirra veika Trw, jaa, hañ styrker þeirra veikar Hendur og skiaalfande Kne, so þau efest ecke, helldur trwe uppaa Von, þar sem einskis er ad vona, sem Abraham. Rom. 4. Þar nærst; lærum vier þad, ad Meñ hafa opt og tijdum helldur mikeñ Harm og Kløgun epter siina burtsofnudu Vine, sem þo er til øngrar Nytsemdar, hverke fyrer þaa Daudu nie þaa lifendu; vier kuñum þo ecke ad sækia þaa aptur, vier forum vel til þeirra, eñ þeir koma ei til vor aptur. 2. Sam. 12. Ad sønnu meigum vier harma og graata þaa Daudu, eñ ecke so sem Heidingiar giøra, hverier eingva Von hafa. 1. Thess. 4. J þridia Maata; lærum vier hier, ad Daude Rettlaatra og Gudhræddra, er alleinasta sem eiñ sætur Svefn, fyrer hvern þeir gaanga iñ i sitt Svefnhws, og hviila sig þar, jaa, þeir hviila sig af siinu Erfide og mædu. Apoc. 14. Allt til þess þeir verda um̃ siider uppvakter fraa Daudum, fraa hverium Dauda Christo

verdur

verdur audvelldara þaa upp ad vekia, eñ nockrum Manne hañ sofanda af siinum Svefne. J fiorda Maata; lærum vier, ad siw Ræda og Lærdomur syneſt undarlegur og Hlaaturs-verdur fyrer þeim Møñum, sem holldlega eru sinnader, uñ þaa sælu Hvijlu og dijrdarsamlegu Uppriſu þeirra burtsofnudu Guds Barna. Þegar S. Paall predikade i Athenu Borg um Uppriſu framlidenna, þaa hæddu sumer ad þvi. Act. 17. Og þegar hañ talade þar uñ vid Feſtum, þaa hiellt hañ hañ vera galeñ. Act. 26. J fimta Maata, er þad þo eiñ sannur og saaluhiaalplegur Lærdomur, þvi so sem Rettlaatra Saaler epter eiñ saaluhiaalplegañ Dauda, eru i Guds Hende, hvar eingeñ Pijna snerter þær. Sap. 3. So munu þeir og viſſulega aptur uppvakna epter hañs Mynd. Pſ. 17. Saa bleſſade JEſus, sem med einu Orde uppvakte þaa daudu Dotter Jairi, mun og med sinne Almættes Rødd uppvekia alla þaa Daudu, sem i Grøfunum sofa. Joh. 5. Hønum, þeim saña Lijfſens Høfdingia, med Fødurnum og heiløgum Anda sie Lof og Dijrd, Heidur og Þackargiørd fraa Eilijfd til Eilijfdar. Amen.

# Tuttugasta og fimta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar Mattheus i 24. C.

JEsus sagde til siña Læresveina: Nær Ed þier siaed Svijvyrding Foreydslunar(af hverre sagt er fyrer Spamañen Daniel) standande i helgum Stad. Hver sem þad les, hañ hygge þar ad. Hverier þa eru a Gydingalande, flije þeir a Fiøll, og hver hañ er a Riakfre, fare hañ eige ofañ nockud ad taka wr siinu Hwse, og hver sem a Akre er, snue hañ ei aptur, ad taka upp Kyrtel siñ. Eñ vei Þungudum og Briostmylkingum a þeim Døgum. Af þvi bidied, ad ydar Flootte verde ecke uñ Vetur, og eige a Þvott-deige. Þviad þa mun verda so stoor Hørmung, þvilijk ad eige var i fra Upphafe Veralldarennar, allt til þessarar Stundar, og ei helldur mun verda. Og nema ad þesser Dagar verde stitter, verdur eckert Holld hoolped. Eñ fyrer Wtvalldra Saker, þa skulu þeir Dagar stittast. Eñ ef nockur seger

þa

þar til ydar, siaed, hier er Christur, eda þar, þa skulu þier ecke þvi trwa, þviad þar munu upprissa Fals-Christar og Fals-Spaamenn, og þeir munu giøra stoor Teikn og Undur, so ad i Villu munu leidast (ef skie mætte) einn einn Wtvallder. Siaed! eg sagda ydur þad fyrer, nu ef þeir segia til ydar, siaed! hann er a Eydemørku, þa gaanged ecke wt. Siaed, hann er i Launkofum, þa trwed eige. Þviad lijka sem Ellding wtgeingur af Uppgaungu, og skijn allt til Nidurgaungu, lijka so mun og vera Tilkoma Mannsens Sonar. Þviad hvar hellst ad Hræed er, þaangad munu og Ernerner safnast.

Hvad er i þessu Evangelio innefaled?

Einn tvofalldur Spaadomur Christi. Fyrst, umm Eydeleggingu Borgarennar Jerusalem. Þar næst; umm hanns sijdustu Tilkomu.

Høfdu nockrer spurt hann umm þessa Hlute?

Jaa, hanns Lære-sveinar, þvi so seger Evangelisten i Upphafe Capitulans: Og JEsus geck wt af Musterenu, og hanns Lære-sveinar geingu til hanns, ad þeir syn-

de honum Bygging Musteresens. Eñ JEsus sagde til þeirra: Siaed þier ecke allt þetta? Sañlega seige eg ydur, ad hier mun ei vera Steiñ yfer Steine, sꝏ er ei mun nidurbroteñ verda. Eñ sem hañ sat ꝏ Fiallenu Oliveti, geingu hañs Læresveinar til hañs einslega og segdu: Seg oß hvönær þetta mun ske, og hvert Teikn er þinnar Tilkomu, og Veralldarennar Enda? Uppꝏ þetta hvertveggia svarar hañ þeim i Textanum.

Hvad talar hañ um̃ þad fyrra?

Hañ seger: Nær ed þier siaed Svijvyrding Foreydsluñar, og aptur seger hañ: Eñ fyrer Wtvaldra saker skulu þeir Dagar stittast.

Hvad høfum vier hier aptur ad athuga?

Fyrst; hvad skiliast og merkiast ꝏ fyrer Svijvyrding Foreydslunnar. Þar nærst; hvad þeir Gudhræddu skulu giora, þegar þeir siꝏ hana. J þridia Maata; hvar fyrer þeir skulu þad giora.

Hvad talar þꝏ JEsus um̃ Svijvyrding Foreydslunnar?

Hañ seger: Nær ed þier siaed Svijvyrding Foreydslunnar, af hverre sagt er fyrer Spꝏmañeñ Daniel, standande i helgum Stad.

Hvad aa hier ad merkiast fyrer Svijvyrding Foreydslunnar?

Þar um̃ hafa þeir Lærdu adskilianleg-ar Meiningar, eñ þeirra syneft hin liooſaſta og beſta, ſem epter Ritningarennar Orda Tiltæke wtleggia þeſſa Svijvyrding For-eydslunnar fyrer eina vidurstyggelega For-eydslu, edur eina Andstygd, ſem eydeleggur, ſo ſem Daniel ad Orde kiemſt i ſinnar Bok-ar 12. Cap. og ſkilia fyrer hana þañ Rom-verſka Striidsher, hver med ſijnu heid-inglegu Haattalæge, Afguda Teiknum og Biilætum, var ein Svijvyrding fyrer Gude og hañs Folke, og eydelagde i Gruñ Gydinganna Herradæme og Rijkesſtiorn-an. Þeſſe Wtlegging ſamhlioodar beſt Danielis Spaadome, hver Spaadomur ad wtlagdur verdur af Luca Gudſpialla-mañe, er ſeger: Nær þier ſiaaed Jeruſalem um-kringda af Her, þaa ſkulu þier vita, ad naalgaſt tekur heñar Eydelegging. Luc. 21.

Fyrer hvern ſeger JEſus ad ſagt ſie um̃ þeſſa Foreydslu?

Fyrer Daniel, nefnelega i hañs Spaa-doms Bokar 9. Cap.

Hvar aatte þeſſe Svijvyrding Foreydslunnar ad ſtanda?

J helgum Stad. Marcus ſeger, ad

hun stande, hvar eige byriade. Marc. 13
Þad er, i kringum þañ heilaga Stad, jaa i kringum Guds heilaga Hws og Mustere. So ad þar fyrer kañ ad merkiast ei alleinasta øll sw Svijvyrding og Foreydsla, sem saa Romverske Strijdsher munde giøra fyrer utañ þañ heilaga Stad; helldur og øll sw Svijvyrding, sem ske munde iñi Stadnum og Helgedomenum, hver æ munde aukast, eñ þad goda eydeleggiast i þeirre hrædelegu Strijds-Olld.

Hvad ætttu þeir ad giøra, sem læsu þennañ Daniels Spaadom, og merktu, ad hañ villde fullkomnast?

Þeir ætttu ad higgia þar ad, hver sem þad les, hañ hygge þar ad, hann læte þad sier til Hiarta gaanga, og þeinke þar epter, ad þad er aadur fyrersagt, og ad Jerusalem og Gydinganna Eydelegging er þaa allareidu komeñ.

Hvad kunnum vier hier af ad læra?

Fyrst þad; ad Gud er eiñ, þoleñmodur, laanglundarsamur, og trwfastur Gud, sem ecke lætur gaanga eiñ fliotañ Dom yfer þær vondu Giørder. Eccl. 8. Helldur advarar hañ mennena aadur fyrer sijna Þenara, fyrer adskiliañleg Teikn og Vidvaran-

er um Olucku og Eydeleggingu, sem yfer þeim hanger Syndaña vegna, þviad Drotteñ, Drotteñ giorer eckert, utañ hañ opeñbere siñ Leindardom fyrer Prophetunum, sijnum Þenurum. Amos. 3. Og so sem Jonathan fordum skaut siñe Pijlu, sijnum Vin David til Vidvorunar, ad hañ skyllde sem snarast flija. 1. Sam. 20. So gefur og Gud fyrer adskiliañlegar Vidvaraner sijnum Bornum Merke til, ad þau skule umflija þad vonda, sem koma skule. Þar næst; lærum vier, ad nær þad goda verdur eydelagt, eñ Synd og Svijvyrding fær Yferhond, jafnvel i helgum Stad, hvar heñe byriar ecke ad standa, þad er, i Guds Helgedome og Mannaña Hiortum, hvered eiga ad vera Guds andleg Mustere og Helgedomur. 1. Cor. 3. Þa er þad eitt Teikn þar til, ad straffed og Eydeleggingeñ er ecke langt i burtu. J þridia máta lærum vier, ad nær vier lesum Guds Hotaner, og heyrum talad um hañs Reide doma, og sjáum hverneñ þeir hafa fordiarfast, sem þeir hafa yfergeinged, þa beroß ecke ad fleipra þad med Oadgiætslu, helldur þad gaumgiæfelega athuga, og þeinkia, ad þad er skrifad oß til Vidvorunar. 1. Cor. 10.

Þegar

Þegar Sviviyrding Foreidslunar hefur feinged þaa Yferhond, ad hun stendur þanneñ i helgum Stad, hvad skulu þeir gudhræddu þaa giora?

Þeir skulu vera reidubwner ad flija, hverier þaa eru aa Gydingalande, flije þeir aa Fiøll. Hiaa Lucam hlioda Jesu Ord þanneñ, hver þaa er i Judea, saa flije uppaa Fioll, og hver þaa er i heñe midre, fare hañ wt þadañ, og hver aa Londum uppe er, hañ kome ei þar iñ. Meiningeñ er þesse, ad þeir skulu ei i Landenu uggalauser vera, edur reida sig uppaa Jerusalem og adrar mektugar Borger og Stade, helldur flija uppaa Fioll, so þeir kuñe þeß betur undañ ad komast og forda sier. Gen. 19. Edur i einhvern añañ Stad, so þeir fordiarfest ecke i þeirre almennelegu Gydingaña Eydeleggingu. Og þar fyrer verdur þetta hiaa Lucam tillagt. Þviad þad er Hefndardagur, so ad uppfyllt verde allt hvad skrifad er; þeñañ siñ Flotta skulu þeir laata skie hastarlega, aan nockurs Undañdraattar: og hver hañ er aa Riaafre, fare hañ ei ofañ nockud ad taka ur sijnu Hwse: Og hver sem er aa Akre, snue hañ ei aptur ad taka upp Kyrtel siñ. Hiaa Marcum hlioda so Ordeñ, hver hañ

er

er uppaa Riaafrenu, hañ fare ei nidur i Hwsed, og kome ecke þar iñ ad sækia nockud i sitt Hws, og saa sem er aa Akre, hañ snueſt ei aa Bak ſier aptur ad ſækia Fot ſijn: Þad er, eingeñ ſkal laata ſitt Gotz og Klæde hindra ſig, helldur flija þad ſnaraſta mogulegt vera kañ.

Hvar fyrer ſkulu þeir ſo haſtarlega flija?

Nockurn part þar fyrer, ad þad mun verda ſeinlegt og hættuſamt, bæde fyrer þær Perſonur, ſem ohentugt er ad haſta Ferd ſkule hafa. Þvi Texteñ ſeger: Vei þungudum og brioſtmylkingum aa þeim Døgum, þvi þeim mun baagt verda ad komaſt fliott aafram; ſo og vegna Tijmans, ſem var ohentugur og oveniulegur ad flija og ferdaſt aa, ſo ſem um Vetur og aa Sabbathsdøgum, af þvi bidied, ad ydar Flootte verde ecke um Vetur, þegar Vegerner eru ſlæmer, og mæduſamer Yfererferdar, eige helldur aa Þvottdege, aa hverium þier erud ei vaner ad reiſa utañ ſtuttañ Veg, ſem þier kalled eina Sabbathsdags Leid. Act. 1. Nockurnpart þar fyrer, ad Eymdeñ og Hørmungeñ mun verda ſtor og oveniuleg, ſo ſem Texteñ ſyner ſegiande. Þviad þaa mun verda ſo ſtor Hørmung

ung, þvilijk ad eige var i fraa Upphafe Veralldarennar, allt til þessarar Stundar, og ei helldur mun verda. Saa eine Gudspiallamadur talar um þetta med eñ hrigdarlegre Ordum eñ hiñ añar. Marcus seger, þviad aa þessum Dogum verda slijkar Hörmungar, sem ei hafa vered hier til, fraa Upphafe Skepnuñar, þaa sem Gud skapade, og allt til þessa, og eige helldur mun verda, og Lucas utleggur, hvar i þesse Hørmung skal innefaleñ vera, segiande. Mikel Harmkvæle munu verda aa Jordu, og Reide yfer þetta Folk, og fyrer Sverds Eggium munu þeir falla, og herleidder verda medal allra Þioda, og Jerusalem mun undertrodast af Heidingium, þar til ad uppfyllast Tijmar Heidingia.

Hver Lærdomur kañ hier af ad dragast?

Fyrst; þesse, ad þegar Gud Syndaña vegna vill straffa og eydeleggia Lond og Rijke, Borger og Stade, þaa meiga Guds Born helldur flija, ef þau kuña, eñ fyrerfarast med þeim ogudlegu. Þviad so befalar sialfur Gud Loth ad giora, hañ skipar hønum ad frelsa Ønd sijna og flija uppaa Fiall fraa Sodomæ Eydeleggingu og Forbiorfun. Gen. 19. og um þaa andlegu Babylon

bylon talar so DRotteñ, gangeð ut af henne mitt Folk, so að þier verðeð eige Hluttakarar hennar Synda, uppaa það þier faaeð ei nockuð af hennar Plaagum Apoc. 18. Eñ hverneñ sem það tilgeingur um þañ lijkamlega Flotta, þaa skulu þeir þo sierdeileslega so til siaa, að þeir með sijnar Saaler og Hiortu flye til þeirra himnesku Fiallanna, af hverium þeim kemur Hiaalpeñ. Ps. 121. Þar nærst; að so sem Maður i Ellds-Neyð og Vatns-voða yfergefur alla Hlute til þeß að hiaalpa Lijfenu, so skal hañ og aa Hørmungar-tijðenne fyrr alla Hlute yfergefa, eñ hañ setie i Veð sitt Lijf og Saaluhiaalp. I þriðia maata, eru Borneñ ein Gaafa DRottens. Ps. 127. og að vera frioſom, og hafa Barn aa Brioste er ein Bleſſan, eñ aa Stirialldar Tijð, og oðrum haaskalegum Tijmum er Tilstand oliettra Kvenna, og þeirra sem Børn hafa aa Brioste, laangtum hættusamara og aumkunarverðara, eñ hinna, sem einsamlar eru, og þurfa ecke nema fyrer einu Lijfe Umhiggiu að bera. I fiorða Lage, að so sem GUð hefur einge Borg eður Stað so veitt og auðsynt sijna Naað, sem Jerusalem: so er þar og

eingeñ,

eingeñ, i hverrar Eydeleggingu hañ framar hafe auglyst Grimd sinnar riettferdugu Reide, eñ Jerusalem, odrum Borgum til eins Speigels, til hverra hañ maa vel segia, siaa, i þessum Stad, sem er nefndur epter mijnu Nafne, hefe eg byriad ad plaaga, og skylldu þier þaa bliifa ostraffader? þier skulud ecke ostraffader vera. Jer. 25.

Talar JEsus ecke framar um Eymdar Tilstand þeirra hriggelegu Tijma?

Sannarlega, þvi hañ seger: Og nema þeßer Dagar stittest, verdur eckert Holld holped, eñ fyrer utvalldra saker, þaa skulu þeir Dagar stittast. Hiaa Marcum hlioda þesse Ord þanneñ, og ef DRotteñ stitter ecke þessa Daga, yrde eingeñ Madur holpeñ, eñ fyrer utvalldra saker, hveria hañ utvallde, hefur hañ stitt þessa Daga. Meiningeñ er þesse: ad þar sem GUD hefde laated Gydinganna Eydeleggíng og Fordiørfun vara so leinge, sem þeirra Synder høfdu forþenad, þaa hefde eingeñ afkomest af Gydingaña Ætt, og eingeñ hefde þaa frelsadur vered, eñ fyrer utvalldra Saker villde hañ stitta þessa Eydeleggingar-daga.

Hvad

Hvad kunnum vier hier ut af ad læra?

Þad, ad GUd er eiñ sterkur Vandlætare, og eiñ rettlaatur GUd, eñ midt i siñe Reide minnest hañ þo aa sijna Miskunseme, linar Sraffed og stitter þeß Tijma. J annan Maata; lærum vier þad hier, ad þeir utvølldu Guds eru hans beste Fiesiodur, hvad sem uppaafellur, þaa er hans Hønd og Augu alltijd yfer þeim, þvi so seiger St. Petur; Drotteñ kañ þaa Gudhræddu ur Freistnenne ad frelsa 2. Pet. 2. þañeñ frelsade hañ Noa fraa Synda-Flodenu. Gen. 7. Loth fra Sodomæ Elde og Brennesteine, jaa þanneñ kañ hañ ad vardveita sijna aa Freistingar-Tijmanum, sem koma mun yfer allt Jardrijke. Apoc. 3. og fyrer þeirra skulld giører Gud þeirre vondu Verølldu miked gott, og afvender mørgu illu.

Um̃ hvad talar JEsus eñ framar i Textanum?

Med þvi hañ hefur nu epter Læresvein-anna Spurning talad um Jerusalems Eydeleggingu, þaa tekur hañ sier þa[illegible] Ordsøk ad tala um sijna sijdustu Tilkomu.

Hvad talar hañ um hana?

Hañ talar fyrst um eitt sierlegt [illegible], sem skie skal fyrer hans Tilkomu, [illegible]

[illegible]

nærst; talar hañ uñ Tilkomuna i sialfre sier, og i sijdasta mæta talar hañ um Samañsofnun þeirra utvolldu til sijn at hans Tilkomu-dege.

Hvad fyrer eitt Teikn seiger hañ ad skie skule fyrer sijna Tilkomu?

Þetta, ad þar mune uppriisa Fals-Christar og Fals-Spameñ, vid hverium hañ seiger vier skulum vara oß: Eñ ef nockur seiger þa (annadhvert a þeim Tijma, þegar Jerusalems Eydelegging yfer hanger, edur og a mote miñe sijdustu Tilkomu) til ydar, siared, hier er Christur eda þar, og vilia giora ydur vijsa um eina sierlega Messiæ Tilkomu og Nærveru, þa skulu þier ecke þvi trua, þviad þar munu uppriisa Fals-Christar og Fals-Spameñ, og þeir munu giøra stor Tæakn og Undur med sijnum Golldrum, so sem Galldrameñerner i Ægyptalande Ex. 7. og Simon Galldramadur. Act. 8. So ad i Villu munu leidast (ef skie mætte) einneñ Wtvallder.

Hvad merkium og lærum vier hier af?

Fyrst; þetta, ad so sem þad var fyrer sagt, ad marger Fals-Christar, og Fals-Spa-

Spaamen̄ mundu uppriisa fyrer Jerusalems Eydeleggingu, so sem Christur sialfur talar hiaa Marcum i 13. segiande: Marger munu koma i mijnu Nafne, og segia; eg em Christur, og munu marga villa, af hverra Tolu ad var Theudas, Judas af Galilea. Act. 5. sa Egyptske, sem verdur um̄geted i Act. 21. og adrer fleire. So munu og koma og uppriisa adskilian̄leger Fals-Christar, Fals-Spaamen̄, og Falsken̄endur aa mote Christi siidare Tilkomu til Domsens, so sem han̄ sialfur þar um̄ talar i aadur aaminstum 13. Cap. er so stendur: Þar munu uppriisa marger Fals-Christar og Fals-Spaamen̄, og munu giora Teikn og Stormerke, til ad villa, ef verda mætte, ein̄en̄ Utvalda; Hvar fyrer vier þvi helldur skulum siaa oss fyrer aa þessum siidustu Tijmum, so sem Christur oss i sama Stad raadleggur, og eptersylgia S. Johannis Raadleggingu, er so hliodar: Þier Astsamleger, trwed ei hverium sem einum Anda, helldur reined Andana, hvert þeir eru af Gude, þviad þar eru marger Fals-Spaamen̄ i Verolldenne wtgeingner. 1. Joh. 4. J annan̄ Maata, lærum̄ vier þad, ad þeir folsku Kennendur kunna fyrer Guds Lijdun

og Tillaatseme, ad giøra marga undarlega Giørninga, so sem Pharaonis Galldramen̄, Simon Magus, og adrer fleire; En̄ þo kunna þeir ei þau rettu Kraptaverk ad giøra, en̄ ef þeir fyrersegia og giøra nockur, þaa ber Guds Børnum þar fyrer þeim ei ad triwa nie epterfylgia, þvi so seger Drotten̄: Ef ad nockur Spaa-madur ellegar Draum-Spekingur rijs upp aa medal ydar, og gefur þier eitthvad Teikn, edur nockud furdulegt, og þad Teikn edur Stormerke framkemur, sem han̄ sagde þier fyrer, og han̄ seger; laatum oß epterfylgia an̄arlegum Gudum, sem þier þecked ecke, og þiona þeim, þaa skalltu ecke hlijda Ordum þeß sama Spaamans edur Draum-spekings, þviad Drotten̄ ydar Gud han̄ freistar ydar, ad han̄ vill reina, hvert þier elsked han̄ af øllu Hiarta, og af allre Saalu. Deut. 13. J þridia Maata; lærum vier þad, ad þeir Utvølldu eru Men̄, og man̄legum Veikleika underorpner, so sem adrer, og kunna um̄ ein̄ Tijma ad villast, og villt ad fara sem Noe, Loth, Petur, Thomas, og adrer med sijnum Epterdæmum til vitundar gefa. Og ef þetta være ecke þannen̄, þaa væru margar Guds Anda Aminningar og Vidvaraner ad aastunda

Rett-

Rettvijſe og Trwfeſte forgefens; Eñ þo verda þeir alldrei leidder i eina endalauſa Villu, þvi JEſus þecker ſijna Saude, og hañ gefur þeim eilijft Lijf, og alldrei ſkulu þeir fyrerfaraſt, og eingeñ ſkal þaa wr hañs Hende ſlijta. Joh. 10. Jaa, Guds rett Grundvallan ſtendur ſtødug, hafande þetta Jñſigle, Drotteñ þecker ſijna. 2. Tim. 2.

Hverneñ wtmaalar JEſus Haattalag ſinnar Tilkomu?

Þanneñ, ad hañ varar fyrſt ſijna Lære-ſveina og oß vid þvi, ad vænta epter nockre hañs ſynelegre Nærveru og Opeñberun fyrer hañs ſijduſtu Tilkomu: Siaaed, eg ſagda ydur þad fyrer, ſo ad nær þad kemur, ad þier þaa minneſt þar aa, ad eg ſagde ydur þad, Joh. 16. nu ef þeir ſølſku Keñendur eda adrer ſegia til ydar: Siaaed, hañ, þad er ad ſkilia Chriſtur, er aa Eydemørku, uppaa þad þier ſkulud gaanga wt þaangad til hañs, ſem Folked til Johañem, Matt. 11. og Sakameñerner fordum i Jſrael til Davids; ſiaaed, hañ er i Launkofum, hvar hañ kañ heimuglega ad finnaſt, þaa trwed eige, ad hañ mune med þeim Hætte vilia laata ſig finna. Og þar næſt; ſeger hañ, hverneñ ſinne ſijduſtu Tilkomu ſkule

hættad vera, nefnelega, ad hun skule hast-
arlega og oforvarande koma. Þar um
hlioodar so Textenn: Þviad lijka sem Elld-
ing wtgeingur af Uppgøngu, og skijn
allt til Nidurgøngu, lijka so mun og
verda Tilkoma Mannsens Sonar; og
þvi nær med þessum Ordum talar hann hiær
Luc. 17. þar hann seger: Og þeir munu seg-
ia til ydar, siæ hier, siæ þar, gæanged ei
þæangad, og fylged ei helldur, þviad so sem
Elldingin af Himne ofann leiptrar, og lyser
yfer allt þad, sem er under Himnenum, lijka
so mun Mannsens Sonur vera æ sijnum
Dege.

Hver skal vor Lærdomur hier wt af vera?

Þesse, ad sijdann vor JEsus took fræ oss
sijna synelegu Nærveru, þæ hefur hann ei
lofad oss nockre sinne synelegre Tilkomu og
Opennberun, fyrr enn hann kemur æ sijdasta
Dege, ei helldur megum vier epter henne
vona, helldur vita og trwa, ad so sem hann i
sinne andlegre Tilkomu kemur, ecke þannen,
ad Menn kune ad taka Vakt þar uppæ. Luc.
17. so vill hann og i sinne sijdustu Tilkomu
ecke langsamlega koma, helldur vill hann ko-
ma hastarlega og oforvarandes med Krapte
miklum og Dijrd, lijka sem Ellding kemur
hast-

haſtarlega, þar meñ ſijdſt þeinkia, og hafa þar eingva Vitneſkiu af, og ſkijn fraa þeim eina Enda Heims til hiñs annars, hvar fyrer hañs Tilkomu til Domſens verdur lijkt vid adra Hlute, ſem oforvarandes koma, ſo ſem vid Þioof, ſem uñ Nott oforvarandes kemur, og iñnbrijſt til ad ſtela, 2.Pet.3. vid eina Snoru, ſem haſtarlega yfer Fugleñ fellur. Luc.21. og vid eina Pijnu jodſiukrar Kvinnu, hver henne uppaafellur fyrr eñ hun veit þar af.

Hvad talar JEſus ad ſijduſtu uñ Samañſofnun þeirra Utvølldu til ſijn aa hañs Tilkomu Dege?

Þar uñ talar hañ i eiñre alkunnugre Epterlijkingu, þvi þad var eiñ almennelegur Sidvane ſo til Orda ad taka, og ſo ſem Ordshaattur aa medal Gydinganna, hvar helſt Hræed er; þaangad munu og Ernerner ſafnaſt. Lijka ſo ſem þad er hiaa oß almennelegt Ordstiltæke ad ſegia; hvar tveir vel unnaſt, þeir vilia giarnañ finnaſt, og alltijd til ſamans vera.

Hver er þaa Frelſarans Meining i þeſſum Ordum?

Hañ vill ſo miked ſegia, þier þurfed ecke ad kviida fyrer þvi, hvar þier munud geta funded mig i minne ſijduſtu Tilkomu, vier ſkulum ſannarlega fiñaſt, hvar eg er, þaang-

ad skulu þier til mijn koma, og þar vera lijka sem Erner, hverier af sierlegre Epterlaungun fliuga til Hræsens, sem er þeirra Fæda, eta þar af med Lyst, og hallda þar vid so leinge, ad þeir finna nockud aa þvi.

Hvad skulum vier ad sijdustu hier af læra?

Þetta, ad ef vier vilium med Glede siña vorn JEsum aa hañs Tilkomu-Dege, og aa mots vid hañ i Lopted uppnumder verda, og hiaa honum alla Tijma vera, 1. Thess. 4. þaa skulum vier kieppast epter uppaa andlega Vijsu, ad upplipta oß med Vængium, sem Erner fraa þvi jardneska, i þvi ad leita þeß, sem þar uppe er. Col. 3. og skunda ad þvi uppsetta Takmarke epter þvi Hnosse þeirrar Kollunar Guds, sem þar uppe er, i Christo JEsu. Phil. 3. Hvar til Gud gefe oß sijns heilags Anda Naad, fyrer hañ sama vorn Frelsara JEsum Christum. Amen.

# Tuttugasta og siotta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled stendur skrifad hia Matt. 11. C.

Aa þeim Tijma, andsvarade JEsus, og sagde: Eg þacka þier Fader og Drotten Himens og Jardar, ad þu

dulldet

dullder þetta fyrer Spekingum og Vit-
ringum, og opeñberader þad Smæl-
ingium. Ad sønnu, Fader, þviad þad er
so þægelegt fyrer þier. Aller Hluter eru
mier ofurgefner af mijnum Fødur. Og
eingeñ þecker Soneñ nema Fadereñ, og
eingeñ þecker Fødureñ, nema Sonureñ,
og hverium Sonureñ vill þad opeñbe-
ra. Komed aller til mijn, þier sem erfid-
ed, og Þunga erud hlaader, og mun eg
endurnæra ydur, taked a ydur mitt
Ok, og læred af mier, þviad eg em hog-
vær, og af Hiarta lijtelaatur, og munu
þier finna Hvijlld Saalum ydrum, þvi-
ad mitt Ok er sætt, og mijn Byrde er
liett.

Hvad marga Parta hefur þetta Evangelium inne ad hallda?

Þriaa. Fyrst, JEsu Þackargiord, sem
hañ giører sijnum himneska Fødur. Þar
næst; hañs Medkienning og Undervijs-
un, sem hañ giører og gefur, bæde uñ sijna
Makt og Dijrd, so og uñ þaa miklu Stærd
Guds Þeckingar. J þridia Maata; hañs
Kiærleiks Tilbod, med hveriu hañ kallar
alla Faatæka og Þiaada til sijn.

Hvad talar Evangelisteñ uñ JEsu Þackargiørd?

Hañ seger: A þeim Tijma andsvarade JEsus, og sagde: Eg þacka þier Fader og Drotteñ Himens og Jardar, ad þu dullder þetta fyrer Spekingum og Vitringum, eñ opeñberader þad Smælingium, þviad so var þad þeckt fyrer þier.

A hverium Tijma framsette JEsus þessa Þackargiord?

A þeim sama Tijma, nefnelega, þegar hañ hafde straffad þær Stade i Galilea, i hverium hañ hafde flest Kraptaverk giort, og sagt: Vei þier Chorazin, vei þier Bethsaida, þviad ef i Tyro og Sidon hefde giorst soddañ Kraptaverk, sem hiaa ydur hafa giorst, hefdu þeir fyrer løngu i Seck og Øsku Ydran giort. Eñ þo sege eg ydur, ad Tyro og Sidon mun bærelegra vera aa Dege Domsens helldur eñ ydur. Og þu Capernaum, sem allt til Himens ert upphafeñ, munt nidurþryckiast allt til Helvijtes, þviad ef i Sodoma hefdu þau Kraptaverk giorst, sem hiaa þier hafa giord vered, þaa stæde hun eñ i Dag, eñ þo sege eg ydur þad, ad bærelegra mun verda Lande Sodoma aa Doma Dege eñ þier. Þegar hañ hafde þetta talad, snere hañ sier til sijns himnesk(a)

Fød-

Fodurs med Þackargiørd, og þackar honum, jafnvel þo hañs Ord hafe vered Avartarlaust hiaa morgum, sierdeiles hiaa þeim, sem sig sialfer hielldu vijsa og kloka ad vera i þessum og ødrum Stødum, so hafde hañ þo opeñberad Leindadoma sijns Rijkes fyrer morgum Smælingium og Ungbornum.

Hefur hañ ecke i annañ Tijma framsett þessa sømu Þackargiørd?

Sannarlega, þvi Evangelisteñ Lucas seger i 10. Cap. ad þegar þeir Sijøtijger hafe komed aptur med Fagnade, og sagt: HErra, þar eru einneñ Dioflar oß undergefner i þijnu Nafne, og hañ sagde til þeirra: Eg saa Satan so sem Elldingu hrapa af Himne, siaaed eg hefe gefed ydur Valld til ad stijga uppaa Høggorma og Scorpiona, og yfer allañ Kraapt Ovinarens, og ydur mun eckert granda meiga. Eñ þo skulu þier ei glediast af þessu, þad Andarner eru ydur undergefner, helldur gledied ydur af þvi, ad ydar Nøfn eru skrifud aa Himnum. Eiñeñ seger same Evangeliste, ad þaa samstundes hafe JEsus gladst i Anda, og sagt: Eg þacka þier Fader; So þad synest og kañ ad aalyktast bæde af þvi undañfarna, og þvi sem epterfylger, hiaa baadum Gudspialla-moñunum,

um, ad JEsus hafe tvisvar i oliiku Tilfelle brwkad þessa ypparlegu Þackargiord, og þad er ecke oveniulegt i Skriftenne, ad þau somu Ord brwkast i imsum Stødum.

Hverium fæcer hañ þessa siina Þackargiord?

Siinum himneska Fødur.

Hverneñ nefner hañ hañ?

Hañ seger: Fader, hañ nefner hañ ei alleinasta siñ Fødur, helldur og eiñ Fødur yfer allt þad, sem Børn kallast a Himne og Jordu. Eph. 3. Einneñ nefner hañ hañ Drottneñ, eiñ almættugañ og eiliiflega stioornande HErra yfer Himne og Jordu, og øllum þeim Hlutum, sem þar inne eru.

Fyrer hvad þackar hañ hønum?

Fyrer þad, seger hañ, ad þu dullder þetta, þad er, þiins Ords Leindardoma, fyrer Spekingum og Vitringum, sem hiaa sialfum sier eru viiser, og hallda sig sialfa forsiaala, og vilia ecke taka siina eigen Skynseme og þanka til fanga under Hliidne Trwarennar, 2. Cor. 10. helldur hallda miins Ords Evangelii Predikun fyrer Faavitsku, og þu opeñberader þad Smælingium: þeim Ungu og Einfølldu, hverier sem niifædd Børn gyrnast skynsamlegrar hreiñrar Miolkur (1. Pet. 2.) og i barn-

Barndomlegum Einfalldlegleika, og Rett-
syne medtaka og vardveita mitt Ord.

Þackar þaa JEsus sijnum himneska Fodur, fyrer
þeirra Siervitsku, Blindne og Ofvermodsku?

Nei, helldur aa hans Þackargiord ad
skiliast um þesse Ord; ad hañ hafe opeñ-
berad þad Smælingium. Med sama
Hætte var Pauli Þackargiord so hliodande;
Gude sieu Þacker, þad þier vorud Synd-
arennar Þionustumeñ, eñ nu hlijduger
ordner af Hiarta. Rom. 6. Eñ ecke þackar
hañ Gude fyrer þad, ad þeir Romverskir
hafe vered Syndarennar Þionustumeñ,
helldur fyrer þad, ad þeir voru umsnwoner
og hlijduger ordner af Hiarta.

Var þad þaa þeim himneska Fodur þægt?

Jaa, ad sønnu Fader, seiger JEsus,
þviad so var þad þægt fyrer þier.

Hverneñ aa þetta ad skiliast?

Ecke epter hans undanngaangande God-
villd, edur almennelegum Naadarvilia,
epter hverium hønum er þocknañlegt og
þægt, ad hans Ord og Vilie sie opeñberadur
fyrer øllum, eñ fyrer eingvum duleñ: Hell-
dur epter hañs epterfylgiande Rettlætes
Vilia, fyrer hvern hønum var þægelegt
ad hilia sitt Ord fyrer þeim kloku, og sier-

vitru,

vitru, sem ecke villdu beckia sijna eigeñ Fav=
vitsku, snuast og gioraft sem smaa Born;
og i Einfalldleika med Rettsyne medtaka
hans Ord, eñ þar hvert aa mote, var hon=
um þad bægt, ad opeñbera þad fyrer Smæl=
ingium og einfolldum, sem med Epter=
longun þad heyrdu og medtoku.

Hvern Lærdom kunnum vier oß hier af ad draga?

Fyrst; þennañ, ad vier skulum, epter
Dæme vors JEsu, giora Packer vorum
himneska Fodur, og vera þacklaater i oll=
um Hlutum, hviad þad er GUds Vilie i
Christo JEsu. 1. Thess. 5. Þar nærst; ef
vier vilium rettelega hañ lofa, og honum
Packer giora, þaa meigum vier ei allein=
asta beckia og medkenna hañ, ad vera eirn
Fodur, jaa, bæde Fodur vors DRottens
JEsu Christi, sem og eineñ vorn Fodur,
helldur og eirn almaattugañ Herra yfer
Himne og Jordu, hvered giort hefur
Himen og Jord, og allt hvad þar er inne.
Ps. 146. og kañ ad giora allt hvad hañ vill
aa Himnum og aa Jordu. Ps. 135. J þri=
dia Maata; eru þesse tvo Nofn so sem tvær
fastar Stittur, aa hverium vier kunnum
ad grundvalla vora Tru um GUds Naad=
ar Hiaalp; ad hañ er ei alleinasta vor Fad=
er

er sem vill, helldur og eiñ almættugur Herra yfer Himne og Jordu, sem kañ ad heyra og hiælpa oß i allre vorre Neyd, hvar fyrer og ad vor Frelsare JEsus hefur kendt oß ad kalla hañ. Fader vor, þu sem ert æ Himnum. J fiorda Maata; so sem vier skulum þacka GUde fyrer alla Hlute, so skulum vier og sierdeileslega þacka honum fyrer þaa sæluhiælplegu Þeckingu æ hans heilaga Orde. 1. Cor. 1. J fimta Maata; ef vier vilium komast til þeirrar sæluhiælplegu Þeckingar Guds, þaa skulum vier ecke þeinkia, ad vier sieum siælfer vijser, helldur þeckia vora eigeñ Fævitsku, og sem einfølld Børn læta kenna oß þad heilaga Vijsdoms-fulla Ord Guds, þviad so æminner oß St. Paall, segiande; tæle eingeñ siælfañ sig, nær nockur ydar æ mille þykest vitur vera i þessare Verølldu, verde hañ eiñ Dæære, so hañ mætte vitur verda. 1. Cor. 3. J siotta Maata; lærum vier þad, ad GUd villde, ad sitt Ord og Vilie opeñberadest fyrer øllum, þar hañ vill. ad aller Meñ verde sæluholpner, og komest til Sañleiksens Vidurkienningar 1. Tim. 2. Eñ ad þad er huled fyrer mørgum til siælfra þeirra eigeñ Fordiørfunar og

Fyrer-

Fyrerdæmingar, þaa eru þeir þar sialfer Ordsøk til fyrer sijna eigen Siervisku og Hvermodsku.

Um hvad talar JEsus framar i Textanum?

Um sijna Makt og Dijrd, so og um Stærd Guddomlegrar Þrenningar.

Hvad seger hañ um þad fyrra?

Hañ seger: Aller Hluter eru mier i Hendur feingner af mijnum Fødur.

Hverneñ eiga þesse JEsu Ord samañ vid þad fyrerfaranda?

Hañ hefur i fyrerfarande Ordum þackad sijnum himneska Fødur þar fyrer, ad hañ hafe opeñberad sijns Ords Leyndardoma fyrer Smælingium; eñ so ad eingeñ skule þeinkia, ad JEsus kunne ecke og sialfur ad opeñbera sijns Ords og Rijkes Leyndardoma, þaa frammsetur hañ þesse Ord og seiger; ad aller Hluter (sem og Makt til ad verka soddañ Opeñberaner) sieu sier i Hendur feingner af sijnum Fødur.

Hvad seger hañ ad sier sie i Hendur feingeð?

Aller Hluter: þetta er þad, sem hañ seiger sialfur; allt Valld er mier gefeð aa Himnum og aa Jørdu. Matt. 28. og með þvi hañ hefur underlagt hønum alla Hlute, þaa hefur hañ eckert epterskiled, þad hønum sie ei undergiefeð. Hebr. 2.

Epter

Epter hverre Nattúru Christi verdur sagt, ad þad sie honum i Hendur feinged?

Epter þeirre mañdomlegu, þvi þad er Regla þeirra gømlu, ad hvad sagt verdur ad Christo sie gefed, a hans Hierviskar Dogum, þa a þad ad skiliast um hans Mañdom, þvi jafnvel þo þad segest gefed allre Personunne, sem er bæde GUd og Madur, so a þad þo ad skiliast um þa Nattúru, hverre nockud kañ ad verda giefed og tilsagt, sem er þeirre mañdomlegu, þiad fra þeirre Guddomlegu, i hia hverre ad er eingeñ Umskifting nie Bijting, Jac. 1. kañ eckert ad takast ei helldur ad til leggiast.

Hveria Huggun kunnum vier oss hier af ad draga?

Þessa, ad med þvi aller Hluter eru JEsu i Hendur feingner, sem er vor Frelsare og Broder, þa bæde kañ hañ og vill forsorga oss sijna fatæka Brædur og Systur, og þad miklu framar eñ Joseph fordum, þa hañ var eiñ Herra ordeñ yfer ollu Egyptalande, kunne ad forsorga sijna Brædur og allt sitt Fodurs Hws. Gen. 47.

Hvad talar JEsus uñ þad annad, nefnelega, uñ Stærd Guddomlegrar Þeckingar?

Hañ seger: Og eingeñ þecker Son-

eñ nema Fadereñ, og eingeñ þecker Sødureñ nema Sonureñ, og hverium Sonureñ vill þad openbera. Joh. 1.

Utelykst þaa Heilagur Ande fraa þeirre Þeckingu, sem tillegst Fodurnum og Synenum?

Nei, helldur so sem hañ er eitt med þeim i eiñre guddomlegre Veru, eins er og honum þesse Þecking med Fødur og Syne sameigeñleg, so sem allt annad, og þar fyrer seger S. Paall, Andeñ rannsakar alla Hlute, einneñ Diwpleika Guddomsens. 1. Cor. 2.

Hvad vill Frelsareñ kenna oß med þessum Ordum?

Þetta, ad jafnvel þo sw sanna Guds Þecking sie naudsynleg til Saaluhiaalpar, so sem hañ siaalfur seger, þad er þad eilijfa Lijf, ad þeir þecke þig alleina sannañ Gud, og þañ þu sender JEsum Christum. Joh. 17. Þaa er þad þo su Þecking, sem Hold og Blood kañ ecke ad openbera. Eñ so sem Madur kañ fyrer Solareñar Lioos Solena ad siaa, so hlijtur og siaalfur Gud fyrer sitt Naadar Lioos ad upplysa oß i þeirre saaluhiaalplegu Þeckingu, so vier i hañs Lioose siaaum Liooseð. Ps. 36.

Hvad giorer JEsus ad sijdustu i þeim þridia Parte Gudspiallsens?

Hañ bijdur vinsamlega øllum þiaadum og

og þreittum ydrande Syndurum til sijn, segiande: Komed til mijn aller þier, sem erfided, og þunga erud þiaader, annadhvert af Syndanna edur Sorganā Byrde, eg vil endurnæra ydur, med þeirre sætu Huggun mijns Evangelii, jeg vil endurnæra þær þreittu Saaler, og sedia þær enu sorgbitnu Saaler. Jer. 31. Og þar nærst gefur hañ þeim eina ágiæta Aminningu, segiande; taked aa ydur mitt Ok, ei alleinasta mijns Lærdoms Ok, helldur og einneñ Ok mijns Kroß, og þad viliuglega og þolennmodlega, og læred af mier, ei alleinasta af mijnum Ordum, helldur og af mijnum Verkum, þvi eg er hogvær og af Hiarta lijtelaatur. Og ad sijdustu tilleggur hañ Aminningunne eitt gott Fyrerheit, er so hlioodar, og munud þier Hvijlld finna Saalum ydrum, jaa, þier munud finna Huggun og Endurnæring, þviad mitt Ok er sætt, og mijn Byrde er liett.

Hver Lærdomur kañ hier af ad dragast?

Hier af kunna adskiliannleger Lærdomar ad dragast, aa medal hverra eru þesser: Fyrst saa, ad Syndeñ synest i Uppbyriunenne lijtel og liett, þvi margur Syndare

seger um̃ hana, þad Loth fordum sagde um̃ Zoar, hun er lijtel. Eñ um̃ siijder verdur hun sem ein Vigt af Blije. Zach. 5. under hverre hañ maa gaanga biwgur og bogeñ, og klaga med David: Mijnar Misgiorder eru uppgeingnar yfer mitt Høfud, lijka sem ønnur þung Byrde eru þær mier ofþungar ordnar. Ps. 38. Þar nærst; hvert sem vier finnum oß kladna med Syndanna edur Sorgañna Byrde, þaa skulum vier ecke liggia under þeirre Byrde, edur bera hana til Orvæntingar, og Fyrerdæmingar, helldur so tilsiaa, ad vier i Tijma fyrer Guds Naad, og fyrer eina sanna Ydran og støduga Tru, kynnum ad koma til þeß naaduga JEsu, sem so elskulega kallar oß til siin, og lofar ad endurnæra vorar orþiaadar Saaler. J þridia Maata; ad vor JEsus vill ecke, ad vier sieum sem Belials Børn, þad er fyrer utan Ok, helldur so sem vier eigum med Hlijdne ad vera hañs Lærdome undergefner, so eigum vier og med Þolennmæde ad taka hañs Kroß-Ok uppaa oß, þeinkiande, ad þad er Mannenum gott, ad hafa bored hañs Ok fraa siinum Barndome. J fiorda Maata; ad JEsus er saa sanne Læremeistare, sem

sem hefur kent oß bæde med Ordum og
Verkum; af hønum kunnum vier allt gott
ad læra, hañ kenner oß ad vera hogværum
og af Hiarta lijtelaatum. Phil. 2. J fim-
ta Maata; lærum vier þad, ad þegar vor-
ar Saaler eru æangurværar i oß, og finna
sem Dwfa Noæ fordum eckert þad Plaatz,
i hveriu þær kuñe Hvijlld ad hafa, þaa er
saa naaduge JEsus saa same, sem þeim kañ
Hvijlld ad gefa, og af betre Ordsok ad segia
til þeirra, helldur eñ Naemi fordum til
Ruth: Mijn Dotter, eg vil leita þier
Hvijlldar, so ad gott Raad gioreſt fyrer
þier. Ruth. 3. Hañ gefur þeim Hvijlld
fyrer Huggun sijns Ords, fyrer Naad sijns
Anda, fyrer Tileignan sinnar Forþienuſtu,
og um sijder ſkeinker hañ þeim þaa eilijfu
Hvijlld og Roſeme. J ſiotta Maata; ad
Christi Ok er ſæt og gagnlegt, og hañs
Byrde er liett, hañ hefur ſiaalfur af oß
teked þad þunga Ok Løgmaalſens og Fyr-
erdæmingarennar. Act. 15. og aa oß lagt
sitt Ok og Byrde, sem er liett og lijdañlegt.
Ef vier vilium rettelega þeinkia þar uñ,
hvad þunga Byrde hañ hefur bored fyrer
oß, hvad hardt Ok hañ hefur teked af vor-
um Haalſe, og oß fraa þvi frelſad, hvad gott

og gagnlegt þad er fyrer oß ad vera hañs Ok, og hvad miskunsamlega hañ vill uñi sijder leisa oß fraa Okenu og øllum Hørmungum, og laata oß hiaa sier vera. Phil. 1. hvar vier frijer fraa øllu Oke og þungre Byrde, niotum þeß saña Fridar og Hvijlld ar eilijflega, þaa mundum vier glader Byrdena aa oß taka, og Oked þoleñmodlega bera, og ad sijdustu þeirra himnesku Launa niota. Hvad oß veite Gud af Naad fyrer JEsu Christi Skulld og Forþienustu. Amen.

# Tuttugasta og siounda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled skrifar H. Matth. i 17. Cap.

Aa þeim Tijma, Og sex Døgum þar epter, took JEsus med sier Petrum og Jacobum, og Johañem Brodur hañs, og hafde þaa afsijdes uppa hatt Fiall, og uñmyndadest fyrer þeim. Og hañs Asiaana skein sem Sol, eñ hañs Klæde urdu so biørt sem Lios. Og siaa, ad hønum byrtust þeir Moyses og Elias, og tøludu vid hañ. En Petur andsvarade og sagde til JESU: HErra

HErra, hier er oß gott ad vera. Ef þu villt, þaa vilium vier giøra hier þriaar Tialldbwder, þier eina, Moyse eina, og Eliæ eina. Og þaa hañ var þetta ad tala, siaa, ad biart Skij uñskygde þaa. Og siaa, ad Røddeñ wr Skijenu sagde: Þesse er Sonur miñ elskulegur, ad hverium mier vel þoknast, hlijde þier hønum. Og er Lærisveinarner heyrdu þad, fiellu þeir frañ aa sijnar Asiaaner, og urdu miøg hrædder. Eñ JEsus geck til þeirra, tok aa þeim, og sagde: Standed upp, og vered ei hrædder. Eñ þaa þeir litu upp, saau þeir eingvañ nema JEsum alleinasta. Og er þeir geingu ofañ af Fiallenu, baud JEsus þeim og sagde: Þier skulud eingvum þessa Syn segia, þar til ad Mañsens Son er upp aptur riseñ fraa Daudum.

Hvad hefur þetta Evangelium inne ad hallda?

Fyrst, Christi dijrdarlegu Forklaarun aa Fiallenu Thabor. Þar nærst; þad, sem Forklaarunenne epterfylgde.

Hvad verdur geted uñ hañs Forklaarun?

Þetta, og sex Døgum þar epter, took JEsus med sier Petrum og Jac-

 obum,

obum, og Johannem Brodur hans, og hafde þaa afsijdes uppaa haatt Fiall, og um̄myndadest fyrer þeim.

Aa hverium Tijma skede þesse Forklaarun?

Evangelisten seger: Og sex Døgum þar epter, nefnelega epter þad han̄ hafde talad vid sijna Lære-sveina um̄ sijna Pijnu, Dauda og Upprisu, so og um̄ þad sem þeir skylldu lijda, og þaa Dijrd sem hen̄e skyllde epterfylgia, sem lesa er af fyrerfarande 16. Cap. Gudspialla-madurem Lucas seger, ad þad skede epter þessa Rædu nær aatta Døgum. Luc. 9. Hver Ord þo ei strijda aa mote Matthei Ordum, þvi Mattheus skrifar Tijman̄ wtþryckelega; en̄ Lucas seger almennelega nær aatta Døgum. Mattheus nefner Dagana, sem voru aa millum þeß han̄ Ræduna fram̄sette, og til þeß ad Forklaarunen̄ skede, hverier ed voru sex; En̄ Lucas reiknar med bæde þan̄ aa hverium han̄ talade, so og þan̄, aa hverium han̄ forklaradest, og þaa eru þad til samans aatta Dagar.

Hvar fyrer talade JEsus vid sijna Læresveina um̄ sijna og þeirra Pijnu, ædur en̄ han̄ synde þeim sijna Dijrd?

Til

Til ad kenna þeim og ollum oß, ad vier skulum fyrst med honum lijda, ef vier vilium sijdar med honum verda uppbafder til Dijrdarennar. Rom. 8. Ad vier skulum, sege eg, fyrst wtslijta voru Lijfe a þeim ser mædusomu Erfides-Døgum, aadur enn vier a þeim sijdsta og siøunda, sem verdur vor rettur Sabbaths og Hvijldar-Dagur, niotum þeirrar rettu Hvijlldar, sem vid oß mun þaa opinberud verda. Rom. 8.

Took hann nockra af sijnum Lære-sveinum med sier, þegar hann villde forklaarast?

Jaa, hann took med sier Petrum og Jacobum, og Johannem Brodur hanns, þaa tvo Sonu Zebedei.

Hvar fyrer took hann ecke med sier alla Læresveinana, edur fleire enn þessa þriaa?

Umm hanns Raad og Frijvilia kunnum og meigum vier eckert disputera, þvi hann giører oß ei Reikningskap fyrer neinn sinn Giørning. Annars kunnum vier ad aalykta af þeim Ordum, sem sijdast i Textanum standa, ad þetta sie þeß vegna skied, ad hann villde ecke, ad þesse sijn Forklaarun skyllde strax ollum kunnigiørd verda.

Hvi took hañ ecke fleire eñ þessa þriaa med sier?

Þviad þesser þrijr voru fullkomeñ Tala, hverier aa sijnum Tijma kunnu hier uñ ad vitna, þviad i Munne tveggia edur þriggia Votta skulu øll Maalefne standa. Deut. 19.

Plagade hañ annars ad taka þessa þria med sier i sierlegum Embættes Verkum?

Jaa, þaa took hañ med sier, þegar hañ geck iñ i Jairi Hws, til ad uppvekia hañs daudu Dottur. Luc. 8. Hañ villde þaa og sijdar med sier taka iñ i Grasgardeñ Gethsemane, ad þeir skylldu þar siaa siñ Skiaalfta og Titran. Marc. 14. Og þar fyrer tekur hañ þaa hier med sier til ad siaa sijna Dijrd, ad þeir skylldu sijdar þeinkia þar uñ, eñ ecke hneixlast aa sinne Pijnu og storu Niduriægingu.

Hverneñ kunnum vier þetta oß til Lærdoms ad heimfæra?

Ef vier vilium, sem retter JEsu Læresveinar, uppaa andlega Vijssu gaanga med hønum uppaa Fialled, til ad siaa og skoda hañs Dijrd, þaa skulum vier aastunda allar Christelegar Dygder. Eñ þo sierdeiles þessar þriaar Høfud-dygder, Trwna,

na, Vonena og Kiærleikañ, sem rettelega kunna ad wtmaalast, med þessum þremur Lære-sveinum. Trwen skal vera sem eiñ Petrus, er grundvallar sig aa Christo, þeim retta Lijfsens Steine, og Saaluhiaalparennar Hellu. Matth. 7. Voneñ sem eiñ Jacobus, er tredur alla þaa jardnesku og faafeingelegu Hlute under Footum, og reiknar þaa fyrer Skada i hiaa þeirre yfergnæfannlegu Vidurkenningu Christi JEsu sijns Drottens. Phil. 3. Og Kiærleikureñ skal vera sem eiñ Johannes, er liggur aa JEsu Brioste, hver ad er saa Lære-sveiñ, sem af JEsu elskast, og hañ elskar hañ aptur. Joh. 21.

Hvert færde edur took JEsus þessa sijna Lære-sveina med sier?

Hañ hafde þaa afsijdes yppaa eitt haatt Fiall.

Hvad fyrer eitt Fiall mun þetta hafa vered?

Gudspialla-mennerner tala þar ecke wtþryckelega uñ, ei helldur Petur, sem þo var med honum aa Fiallenu, þvi hañ nefner þad ei ødruvijs eñ so, ad hann kallar þad Fialled helga, 2. Pet. 1. vegna

 þeirrar

þeirrar heilogu Opeñberunar, annars hefur þad vered stadføst Meining i fraa Fedranna Tijmum, allt til þessa Dags edur Tijma, ad þetta hafe vered Fialled Thabor, eitt prijdelegt og ununarsamt Fiall i Galilea, hvar þesse Opennberan skede.

Hvar fyrer villde hañ forklaarast aa einu Fialle?

Þar fyrer, ad so sem GUD i þvi Gamla Testamente verkade stoora Hlute aa Fiollunum (þvi aa Fiallenu Sinai var Løgmaaled wtgefed, aa Fiallenu Grizim var Blessuneñ wthroopud, eñ Bølvaneñ af Fiallenu Ebal. Deut. 11. aa einu Fialle var Guds Mustere bygt, og Christur siaalfur i þvi nija Testamente geck optlega uppaa Fiollenn, aa einu Fialle hiellt hañ þaa løngu og merkelegu Predikun, Matt. 5. hañ hafde þañ Vana ad gaanga wt til Fiallsens Oliveti. Luc. 22. fraa þvi reid hañ til Jerusalem, þar uppbyriade hañ sijna sijdustu Kvøl og Pijnu, hveria hañ endade aa Fiallenu Golgatha, og af Fiallenu Oliveti uppstie hañ til Himens; so hefur hañ og villiad forklaarast aa einu Fialle, so hann drage

drage sinna Lære-sveina og vora Þanka fraa þvi jardneska og farfeingelega, og kiæine oß til ad upplypta vorum Aügum til þeirra himnesku Fialla. Ps. 121. Og leita ad þvi sem þar uppe er. Col. 3. ad vier mættum so aller skoda Byrte Drottens so sem i Speigle, med ohuldre Asiaan, og um̃breitast til þeirrar somu Myndar, fraa eiñre Byrte til annarar, so sem af DRottens Anda. Eñ skule þetta ske, þaa meigum vier breita epter vorum JEsu. Hver, epter þvi sem Lucas frammsetur, geck uppaa þetta Fiall ad bidiast fyrer, aa hveriu hann forklaaradest; so meigum vier og med vorum Hiørtum gaanga til þeirra Himnesku Fialla, og laata vorar Bæner koma fram̃ fyrer Gud, þvi þeß framar sem vier bidium, þeß nær komum vier Gude, og þeß nær vier komum Gude, þeß nær komum vier hañs himneskre Dijrd.

Hverneñ forklaaradest hañ?

Hañ um̃myndadest fyrer þeim; ecke ad hañs Veru edur Persionu, helldur ad wtvortes aasynd, þar fyrer seger Gudspiallamadureñ Lucas, ad hañs Andlites Asynd hafe orded ødruvijs. Og Matthe-

us

us seger, ad hañ hafe ummyndast fyrer þeim, nefnelega, Læresveinunum, og hañs Aasiaana seger hañ, skein sem Sol, med einum sierlegum Guddomlegrar Maktar Biartleika, eñ hañs Klæde urdu so føgur sem Lios. Marcus seger; hañs Klæde urdu skijnande, og nærsta hvijt sem Snior, so ad eingeñ Litunarmadur aa Jordu kañ so hvijtt ad giøra Marc. 9.

Hvad hefur hañ þar med viliad til Vitundar gefa?

Pad, ad hañ være saa sañe Messias, sw retta Rettlætesens Sol. Mal. 4. Og Liome Guds Dijrdar. Hebr. 1. Sem aa sijnum Tijma villde afleggia þai audvyrdelegu Þions Mynd, og iñgaanga i sijna Dijrd. Luc. 24.

Kuñum vier oß hier af nockra Huggun ad widraga?

Jaa, þad er vor Huggun, ad jafnvel þo vier hliotum hier med vorum Jesu, ad vera aumer og audvyrdeleger og gaanga opt i Sorgarklædum. Mal. 3. Þaa munum vier þo med hønum um sijder dijrdleger verda, og iklædast þeim hvijta Skruda. Apoc. 7. Skijnande sem Himensens Geislar. Dan. 12. Jaa, sem Sol i Rijke vors Fødurs. Matth. 13.

Opeñ-

Opeñberuduſt hønum þar nockrer?

Jaa, þvi Evangeliſteñ ſeger, og ſiaa! ad hønum byrtuſt þeir Moyſes og Elias og tøludu vid hañ. Marcus ſeger: þeim byrteſt og Elias med Moyſe, og hielldu eitt Samtal vid JEſum. Lucas ſkrifar hier um eñ wtþryckelegar, ſegiande; og ſiaa ad tveir Meñ tøludu vid hañ, hverier ad voru Moyſes og Elias, þeir opeñberuduſt i Byrtuñe, og tøludu um hañs Wtfør, hveria hañ munde fullkomna til Jeruſalem, þad er um hañs Pijnu og Dauda.

Hverneñ opeñberuduſt þeir?

Ecke i einum Draume edur Syn, hellldur ſañarlega ſem lifande Meñ, med Saalu og Lijkama, þvi þeir ſtodu hiaa Jeſu, tøludu vid hañ, ſaauſt af Læreſveinunum og foru fraa hønum.

Voru þeir þaa uppvakter aptur fraa Daudum?

Elias var med Saal og Lijkama med gloande Heſtum og Vøgnum uppnumeñ til Himens. 2.Reg. 2. Þar fyrer hafde hañ ecke þeß þørf ad uppvekiaſt, og ſo ſem Gud ſiaalfur jardade Moyſis Lijkama. Deut. 34. So gat hañ og þegar hañ villde, hañ audvelldlega uppaked og Saaluñe ſam=

samteingt, en nær þad hefur sked, kuñum vier ecke ad vita, edur þar um ad tala.

Hvar fyrer villde Jesus, ad þesser tveir skylldu hiaa hönum opeñberast i hañs Forklaarun?

Þar fyrer, ad þeir skylldu vera eiñ sañur Vitnesburdur uppaa hañs Forklaarun, ad hun hefde vissulega sked. Þesser tveir voru i þeirra Lijfstijd, rettsiñader og vandlætingasamer Guds Meñ, hveria baada Gud hafde aadur vyrdt siñar Nærveru, og Samtals aa Fiallenu Sinai. Ex. 24. Og aa Fiallenu Horeb. 1. Reg. 19. Moyses var Logmaalsens Læremeistare, eñ Elias so sem Spaamañaña Foringe, þesser tveir opeñberast hier, og hafa Jesum lijka sem aa millum sijn, þar med auglysande, ad hañ være Endalok Logmaalsens, þeim til Rettlætes, er aa hañ trwa. Jaa, saa af hverium aller Spaameñ bera Vitne ad fyrer hañs Nafn skylldu aller þeir, sem aa hañ trwa, hafa Syndaña fyrergefning. Act. 10.

Hvern Lærdom og Huggun kuñum vier oss hier af ad draga?

Fyrst þeñañ, ad so sem Moyses og Elias opeñberudust med Jesu i Dijrdeñe, so skulum vier og nær Christur, sem er vort Lijf,

Lijf, openberast, einen med hønum open-berader verda i Dijrdene. Col. 3. Þar næst; ef vier vilium niota þeirrar Naad-ar og Dijrdar, sem Moyses og Elias hafa, hverier hier byrtust med JEsu, og i sine Tijd voru trwer og Vandlætingasamer Guds Þenarar; so ber oß og ad vera Vandlætingasomum og alvarlegum i vors Guds Þenustu, og verka vora Saalu-hiaalp med Ugg og Otta, þeinkiande ad eingen verdur Coronadur, nema han be-riest rettelega. 2. Tim. 2. Og þeir sem Ofurefle giora Himnarijke, hrema þad til sijn. Matt. 11. Þo so sem þesser høfdu JEsum hiaa sier, og tøludu vid han um hans Pijnu og Dauda, fyrer hvern þeir saaluholpner urdu: So skulum vier og vita, ad vier kunum ecke ad niota þeirrar eilijfu saluhiaalplegu Dijrdar fyrer nock-urn annan Hlut, en fyrer hans Forþen-ustu alleina: Þviad Guds Giøf er eilijft Lijf i Drottne vorum Jesu Christo seger St. Pall, Rom. 6.

Hvad hendte Petrum og hina adra Læresveinana, þegar JEsus þannen forklaaradest?

Þad syner oß Gudspiallamaduren Lu-cas wtþryckelegar, en hiner tveir Matthe-

us og Marcus segiande: Eñ Petur og þeir ed voru med honum voru fuller af Svefne/ og er þeir voknudu/ sau þeir hañs Dijrd/ og þaa tvo Meñ hiaa honum standa: Þad vard og þaa þeir skilldu vid hañ/ ad Petur sagde til JEsu: Meistare/ gott er hier ad vera/ og giorum hier upp þriaar Tialldbuder/ þier eina/ Moysi eina og Eliæ eina/ og hañ visse ei hvad hañ sagde. Þessa Dags Texte seger. Eñ Petur svarade og sagde til JEsu: Herra/ hier er gott ad vera/ ef þu villt/ þaa vilium vier giøra þriaar Tialldbuder/ þier eina/ Moysi eina/ og Eliæ eina.

Hvad siaaum og merkium vier hier af?

Vier siaaum hier bæde Lærisveinañа og vorn eigeñ Veikleika/ ad so sem þeir fiellu i Svefn þegar Jesus bad aa Fiallenu/ og hafde himneska Þaanka um sijna Dijrd og Forklaarun (so og fiellu þesser somu i Svefn/ þegar hañ i siñe Pijnu bad aakaflega/ og strijdde sem hardast) so nidur þyngia oß/ þvi midur/ Lijkamarner opt og tijdum/ og hindra Saalernar/ og þetta jardneska Hreise nidurþrycker tvistrudu Hugskote. Sap. 9. þvi þaa oß ber hellst ad vaka og bidia/ og hafa andlega Þaanka/ þaa follum vier opt i Svefn og Athuga-

leise/

leise, og verdum yferfallner af veralldleg-
um Hiegoma: So JEsus mꝏ vel segia
tilvor, sem til Lærefveinañа fordum; æ
...lie þier nu sofa, vake þier og bidied, so ad
...r falled ecke i Freistne, Andeñ er fws, eñ
...olldeð er breiskt. Matt. 26. Einneñ siꝏ-
...m vier hier Fullkomlegleika og Dijrd
Guds Barna i þvi eilijfa Lijfe, þvi þar
munu þau hafa eina fullkomna þeckingu.
Hafe Petur ꝏ Fiallenu þeckt Moysen og
Eliam, hveria hañ hafde þo alldrei ꝏdur
sied, þꝏ munu þeir wtvolldu miklu fram-
ar þeckia hverier adra i eilijfu Lijfe, jꝏ, vier
munum siꝏ og þeckia Gud siaalfañ Aug-
lite til Auglites. 1. Cor. 13. Og þꝏ nio-
...a fullkomeñar Glede og Unadsemdar,
Hafe Petur, þegar hañ sꝏ alleinasta eina
litla Mind af Dijrd Christi orded so yfer
maata gladur, ad hañ gleimde allre Ver-
olldeñe og framsette þesse Ord, Herra,
hier er oß gott ad vera, þꝏ munu Guds
Børn lꝏngtum framar, þegar þau koma
...ñi þa eilijfu Glede gleima þeim jardnesku
og fꝏfeingelegu Hlutum, hvar þau fꝏ
Fögnud fyrer Sorg og Dijrd fyrer Eymd
Esa. 35.

Hvad skede eñ framar?

Þetta/ad þaa hañ (Petur) var þetta ad tala/siaa/ad biartSkij umskygde þaa og siaa, ad Rødden ur Skijenu sagde; þesse er Sonur miñ elskulegur, ad hverium mier vel þocknast, hlijde þier hønum.

Hvad fyrer eitt Skij mun þetta hafa vered, sem þaa uñiskygde?

Sumer meina, ad þad hafe vered eitt naatturlegt Skij, sem med sierlegre Byrtu og Fegurd hafe þaa uñiskyggt til ad giefa til vitundar Christi Dijrdar-Lioma, so sem Gud hefur opt med Skijunum laated siaa sijna Dijrd. Adrer hafa þaa Meiningu, ad sa Heilage Ande, sem vid Ana Jordan kom yfer Jesum i Dwfu Lijking þegar hañ var skijrdur. Matt. 3. Hafe þar yferskyggt hañ sem eitt klaart Skij.

Hvers Rødd var þad, sem heyrdest.

Þad var Rødd þeß himneska Fødursens, þvi hañ kallade hañ siñ elskulegañ Son, og þar fyrer seger St. Petur i þessa Dags Pistle, ad hañ hafe medteked Dijrd og Heidur af Gude Fødur fyrer Raustena, sem til hañs sked hafe i mikellre Dijrd. 2. Petr. 1.

Hvad siaaum og lærum vier hier twt af?

Fyrst

Fyrst þad, ad Jesus Christur er Guds Elskulegur Sonur, hvern sa himneske Fader hefur þeckt og uthropad fyrer siñ Son, ecke alleinasta adur eñ hañ vard Madur i Ps. 2. Þu ert miñ Sonur, i dag fædda eg þig, helldur og þar epter bæde i hans Skijrn, sem og hier. Þar nærst; ad hañ er sa einaste Veralldareñar Frelsare og Saaluhiaalpare, sa Guds elskulegur Sonur, i hverium hañ tok oß til Naadar; sem og hañs velþocknañlegur Sonur, i hverium hañ epter Þocknan sijns Vilia hefur sett oß til Barna Utvalningareñar. Eph. 1. Fyrer hvers Hond hañs gott Aform fieck Framgaang. Es. 53. J þridia maata, ad hañ er sa sañe Læremeistare og mikle Spaamadur, hverium vier skulum heyra og hañs Roddu hlijda, med þvi hañ er sa, fyrer hvern Fadereñ hefur til vor talad. Joh. 1.

Hverneñ braa Læresveinunum uñ, þegar þeir saau þetta og heyrdu?

Þad syner oß Texteñ, þar so stendur: Og er Læresveinarner heyrdu þad, fiellu þeir fram a sijnar Asiaaner, og urdu miøg hrædder.

Hvad siaaum vier hier af?

Læresveinaña og vorn eigeñ Breiskleika, ad vier kuñum ecke epter þad hriggelega Syndafall, i þessu veika Lijfe ad standast þad, ad siaa Guds Dijrd og synelega Nærveru, edur ad heyra hañs Haatignar hrædelegu Raust, hvar fyrer oß ber honum þar fyrer ad þacka, ad hañ lætur þaa kuñgiora oß sitt Ord og Vilia, sem med Elia eru Meñ, lijka sem vier. Jac. 5. Og med Paale og Barnaba, daudlegar Mañeskiur, so vel sem vier. Act. 14.

Liet þaa Jesus þaa liggia so?

Nei, helldur gieck hañ til þeirra, tok aa þeim og sagde, standed upp, og vered ei hrædder.

Hvad verdur oß hier med synt?

Oß verdur synd vors Frelsara Jesu Naad og Giæska, hvered geingur til siña Barna, reiser þau upp og huggar þau, nær þau eru hrædd og nidursleigeñ. Hañ hefur vingiarnlegar Fætur ad gaanga aa, almaattuga Hønd ad aahræra, kroptugañ og naadugañ Muñ ad tala vid oß, og hugga oß, nær vier añadhvert liggium fallner og nidurslegner af Synd, Sorg edur Dauda.

Stodu þeir þaa upp epter þessare Jesu Befalningu?

Ja, eñ þaa þeir litu upp, saau þeir eingvañ nema Jesum alleinasta, aun alls Efa i siñe sidvanalegre Mind og Lijking, Moyses og Elias voru burtgeingner, Dijrdeñ og Skijed burthorfed.

Hvad lærum vier hier af?

Þad, ad Guds Børn þurfa ecke ad vænta sier ad niota þeirrar fullkomnu Himnesku Glede og Vegsemdar stadfastlega i þessu Lijfe: Hier kuña þeir ad sønu ad faa Smeck af Krapte epterkomande Veralldar. Heb. 6. Og med Trwareñar og Saalareñar Augum, ad siaa eiñ Geisla af þeirre himnesku Dijrd, eñ þaa rettu og fullkomnu Skodun og Nytsemd er sijdar ad faa þar uppe aa Himnum.

Voru þeir þaa leingur aa Fiallenu?

Nei, helldur geingu þeir ofañ af Fiallenu.

Hvad talade JEsus til þeirra, þegar þeir geingu ofañ?

Hañ baud þeim og sagde, þier skulud aungvum þessa Syn segia, þar til ad Mañsens Son er upp aptur risiñ fraa Daudum. Epter hverre Befalningu þeir giørdu, so sem Lucas vitnar, segiande,

de, þeir þøgdu og søgdu aungvum neitt fra þvi a þeim Døgum, hvad þeir høfdu sied. Og Marcus seger; þeir hielldu þvi Orde hia sier.

Hvar fyrer villde Jesus ecke ad þesse hans Forklarun yrde fyrr kunngiord?

Þar fyrer, þvi han var enn nu i sijnu Nidurlægingar Stande, og þvi villde han ei, ad sijn Dijrd skyllde fullkomlega openberast, fyrrenn han hafde lided Pijnu og Dauda, og epter Daudann være inngeingenn i sijna Dijrd. Þar med voru Læresveinarner ecke enn nu fullkomlega upplyster, edur iklædder Krapte af Hædum, so þeir kynne verduglega ad tala um þessa heilogu Openberan.

Hvad skulum vier ad sijdustu hier af læra?

Vier skulum læra þad af Jesu, ad vera hogværer og af Hiarta lijtelaater; sie nockud gott hia oss edur wtriett fyrer oss, þa skulum vier þad ecke med vorre eigenn Hrosun wtbreida, helldur so sem Jesus, þegar han geck ofan af Fiallenu, befalade sijnum Læresveinum, ad þeigia yfer þvi, sem þeir saau og heyrdu, og so sem Moses liet Skijlu fyrer sitt Andlit, þegar han gieck ofan af Fiallenu fra Gude. Exod. 34.

34. So skulum vier og med Lijtelætenu skijla og hilia vorn eigeñ Heidur, eñ i øllum Hlutum gefa þeim Þrieina Gude all-eina Heidureñ og Dijrdena, Segiande.

Allar Skiepnur þier, ædstur GUD, eilijfa Losgiørd vande, Einglar og Meñ af øllum Hug, aan Aflaats þier þackande, singiande Dijrd med Søñum Prijs, Syne og helgum Anda vijs, aa lifande Maña Lande,
Amen.



# ERRATA TYPOGRAPHICA.

Í fyrre Partinum.

p. 12 latæ, les laata
p. 28 bluttakende les bluttakande
p. 36 dijrdalegre les dijrdarlegre
p. 77 ag les og
p. 79 beinre les hreinre. item øg les og
p. 139 fyrrr les fyrr
p. 153 falls-kenningar les fals-kenningar
p. 183 huggudu les huggadu
p. 208 wppvekiast les uppvekiast
p. 214 ypvurstu les yppurstu
p. 233 hau les þau
p. 279 fortijnunst les tortijnunst
p. 281 løgn les logn
p. 381 heir les þier
p. 454 og og les og
p. 468 mættum les mætum
p. 473 Krapte, Verkan les Krapte og Verkan
p. 478 mw les mæ
p. 501 gæf les gaf
p. 552 Pwska les Pæska
p. 700 plantede les plantade

Í sijdare Partenum hefur þetta hellst yfersiest.

p. 18 sier les þier
p. 22 tll les til
p. 33 þesse les þeß
p. 39 fræmar les framar
p. 1. 6 sijnnm les sijnum
p. 180 umbuxunsamare les umbuxunarsamare
p. 192 nijunda les tijunda
p. 256 hiælpæ les hiælpa
p. 272 ælla les alla
p. 317 fyrergefnat les fyrergefnar
p. 35. friidsher les friidsher
p. 4.7 fraffed les straffed p. 463 þiad les þviad

Og hvad fleira hefur kunnad ad yfersiæst i Þryckinguñe, er Goodfws Lesare vinsamlega umbedeñ ad lagfæra og lesa i Mæledeb.

